fā hōnum adra peninga helldur eñ fastaeign. og so taladi alldri sijra Jon Philippusson upp a þessa jörd fyrer mier medañ hann lifdi og eige þau kugilldi sem þār[1]) med fylgdu. utañ hann sagdi biskup Jon hefdi sier leigurnar af þeim fyrsta ared feingid. hier med hefe eg vered ad ollu ā fyrrgreindre jördu ōmakslaus fyrer sijra Jone Philippussyni og hans varn[adi]. og so hefi eg optnefnda jörd Veturlidastadi ad lögum tekid af minum husbændum sidan. og eingenn hefur ad fundid. og so sier mier Gud hollur sem eg satt seige. grsmur ef eg lyg.

Og til sannenda hier um þrycke eg mitt signet nedan fyrer þessa mina handskrift. skrifud ā Svalbardi manudaginn i þridiu viku paska ā sama are sem fyrr seiger.

---

**19. [29. apríl] 1555. [á Svalbarði].**

Vitnisburðr sama manns um sama efni.

AM. Apogr. 4601 b „Ur transscripto giördu laugardag næstan epter dýradag 1555".

Um Veturlidastade.

So felldan uitnesburd ber ec Jon Einarsson at ec kom til fundar uid minn husbonda er þā uar sira Jon Filpusson huat nw hafa uerid nitian ær sidan hann lyste þui fyrir mier at eg hefda nw feingit hwsbænda skiptte. Ok hann feingit hefde biskup Jone til fullrar eignar jordena Ueturlidastade. Eñ hans radskona suarade þui þaa Þorgerdur. honum hefde uerid betra [at] fā honum adra peninga helldur eñ fastaeign. ok so talade alldri sira Jon Filpusson up[p] ā þersa jord fyrer mier medan hann lifde ok eige þau ij kugillde þar med uoru. utañ hann sagde biskup Joñ hefde feingit sier leigurnar af þeim fyrsta āerit. hier med hefur ec uerid æt aullu ā fyrgreindre jordu omakslaus fyrir sira Jone Filpussyne. og hans varnade. Ok so hefur eg opttnefñda jord Ueturlidastade at logum tecid af minum husbændum sidan. og eingenn at fuñdit. Ok hier eptter hefer Jon Einarsson svar-

1) Svo.

it fullañ bokareid fyrer Pale Jonssyne. [þa] lidit [uar] fra guds burd ꝏ° dc. l. og. u.

---

20. 6. maí 1555. á Hrafnagili.

Skýrsla Jóns Ólafssonar um samtal síra Jóns Filippussonar og Þorgerðar Jónsdóttur um Vetrliðastaði.

AM. fasc. LXVII, 18. frumrit á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá. Utan á bréfinu stendr m. h. Gríms Thorkelins: „Vadlesyssel Glæsebær“ og ártalið 1555.

Svo felldañ vittñisburd ber ec Jon Olafsson. ath ec var natthstaddur j Glæsebæ. þꝍ Sera Jon heitinn Philpusson og Þorgerdur Jonsdotter byggiv[1]) þar. at fyrr greind Þorgerdur taladi suodan ordum vid folket. at þat mætti neyta hafmatariñs at fiskur væri ecki suo næsta mikell þo þav byggie nærre sionvm. og væri þier betra sera Jon minn sagdi hun. at hafa aptur þina jord. heldur eñ at lata adra hafa hana. suo þu meger taka sialfur af henne leigur og landskylld. þa suaradi sera Jon heitinn. stilltv þic nv Þorgerdur. sagdi hann. ec mꝍ þat ecki giora. at giora mic omyñdogan. þui ec hefi feñgit hana biskupi Joni og nvn hann[2]) þꝍ best giora til min at ec þarf med. eñ mier liggur ecki eñ æ. Eigi bad hann mic þessara orda at minnast og eigi sagdizt hann neina peninga vpp fyrir hana borit hafa suo hann taladi vm̄ þat j þat sama sinne. og hier epter þessum ordum sor ec fullañ bokareid.

Þat giorum̄ vid Sijgurdur prestur Gunnarsson og Einar Olafsson godum monnum kunnigt med þessv ockrv opnv brefi. at Jon Olafsson lysti þessum ordum Sera Jons heitiñs og Þorgerdar heitinnar Jonsdottur fyrir ockur. sem hier fÿrer skrifut stañda. Sera Geirmundi hia verañdi at hann sagdizt hafa suarit fulla[n] bokareid. ꝍ Halsi j Hnioskadal ꝍ manvdaginn epter paskaviku ord epter ord suo sem hier fyrir skrifat steñdur. Og til sanninda hier vm̄ setivm vid ockar jnsiglli fyrir þetta hans lysingarbref. hvert et skrifat var æ

1) Svo. 2) Hér útstrikað orð frá öndverðu, sem ekki verðr nú með vissu lesið.

Hrafnagili ȷ Eyiafirdi. Manvdaginn næstan epter krossmessovm̄ vorit. þa̋ lidit var fra̋ gudz burd. m. d. l. og. v. ær.

---

## 21. 11. maí 1555. í Víðvík.

Dómr sex manna, kvaddra af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, um vistarferli.

Dómabók þjóðskjalasafns í fol., bl. 144, skr. um 1600. — ÍB. 355, 4to., skr. ca. 1750. — Ágrip eru í ÍB. 79, 4to., bls. 275—6, og 114, 8vo, og í Ny kgl. Saml. 1945. 4to., bl. 370, skr. 1666.

Domur wm̄ vistarferlli.

Aullum maunnum sem þetta Bref sia edur heÿra sendum vier Olafur Jonsson. Arne Gijslason. Arne Þorzteiñsson. Ka̋r Sæmundzson. Einar Sigmundzson. Einar Halldorsson kuediu gudz og sijna kunnugt giaurandi at arum epter gudz burd. m. d. l. v. A laugardaginn næztañ fyrir Halluardzmesso ȷ Widuijk ȷ Skagafirdi a þijngstad riettum vorum vier ȷ domnefnder af heidursamligum herra Oddi Gottskalchssÿne laugmanne nordan og vestan a Jslandi saumuleidis kongz vmbodzmanne ȷ Hegranesþijngi at skoda. ransaka og fullnadar doms atkuædi a at leggia huort afl ed hafa skÿlldi su akiæra er Biaurn Philippusson klagadi til Arnfrijdar at hun hefdi hlaupit ȷ burt ur sinne þionuztu orlofslaust. Sagdizt fyrr nefndur Biaurn hafa bodit henni viztina og bedizt vinnunnar med vottum eñ hun sÿniadi. Nu sakier þess at suo stendur ȷ vorri land[z]laga bok. ef leigumadur vill ei hallda mala sinn vid bonda þa skal hann krefia hann verka slijkra sem hann handsaladi honum og bioda vizt med vottum. Eñ ef hann vill ei þa er hann sekur halfri mork vid kong. eñ þa ma bondinn heimta at vinnumanne slijkt sem hann skÿlldi reida honum. Jtem ȷ annari grein vijsar suo til laugmalid at ef madur tekur vijsvitandi annars vinnumann sekizt halfri mork vid kong. J þridiu grein seigier suo ȷ riettarbot Eiricks kongz Magnussonar at þad skulu vera full laugrad hiedan ȷ fra vid verkmenn og þionuztukonur sem þeir veita medgaungu. eda hitt at þeir hafa peninga ȷ haund sier tekid at þiona til edur verid ȷ vist þeirri iij nætur ȷ samt. Seigier

og suo ȷ saumu riettarbot at aller þeir karllar og konur sem sig ráda ȷ vizt hia ij edur fleirum sieu riett fangader af sijslumanne edur bændum vnder þuilıȷka refsing sem domur dæmer eñ vera sijdan þar ȷ vizt sem hann var fyrzt radinn. Þui fyrir þessar greiner er ȷ laugmalinu standa og hier at hnijga dæmdum vier fyrr greinder menn med fullu doms atkuædi adur nefnda Arnfrijdi skýllduga at giallda Birne Philippussýne slijkt kaup sem hann hafdi lofad henni og efna suo sijna vizt hia honum þa sem ovnnin var þa hun for ȷ burt til sijns skildaga og þo seka halfri mork vid kong. þar med dæmdum vier henni 6 vañdarhaugg ȷ refsing fyrir þad hun riedzt hia tueimur. sømuleidis dæmdum vier Tumas smid sekan halfri mork vid kong fyrir þad hann hielltt annarz laugradit vinnuhion.

Samþyckti þennañ vorn dom.

---

22. 13. maí } 1555. { á Mel.
14. júní } { á Reykhólum.

Kaupbréf fyrir Borg í Króksfirði.

AM. fasc. LXXII, 6, frumrit á skinni, m. h. Árna Gíslasonar (= *a*). Innsiglið er dottið frá. — AM. fasc. LXXII, 8, annað frumrit á skinni, m. h. síra Þorleifs sjálfs (= *b*). Innsiglið er fyrir. — AM. Apogr. 1078, uppskrift Árna Magnússonar í *a*, með orðamun úr *b*, og hefir hann þá haft skjölin að láni frá Sæmundi Magnússyni á Hóli í Bolungavík.

Kaup Bref vm Borg ȷ Kroksfirdi[1]).

Þath giori eg Þorleifur prestur Biornsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ath eg hef[2]) feingid Arna Gijslasyni thil fullrar eignar og frials forrædiss [[vndan mier og mijnum erfingium eñ vnder Arna Gijslason og hans erfingia[3]) [ȷordina Borg er liggur [ȷ Krokzfirdi[4]) ȷ Reykiahola kirkiu sokn[3]) med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindri ȷordu fylgier og fylgt hefur ath fornu og nyu [og eg ward fremst eigandi ath[4]) ath suo fyrer skildu at [æd-

1) Þetta er aftan á bréfinu. 2) hefer *b*. 3) [[skipter sætum í *b*. 4) [sl. *b*.

ur nefudur[1]) Arni [Gislason[2]) taki ath sier og med fari þau bref fyrer nædugasta herra konginn sem wpp æ hlioda arf og peninga mijns faudurs Biarnar heijtins Þorleijfssonar [gud hans sal nade[2]) og ath oft nefndur Arni komi þessum [[fyrr greindum[3]) [brefum[3]) [til skodunar[2]) fyrir nædugasta herra konginn ath forfallalausu. Eñ sie suo ath Arna Gijslason kunni [at[2]) forfalla einhueriar stor[4])naudsyniar þæ skal hann fa fulluedia mann þann sem fÿrr nefndum brefum fram̃ fylgi suo sem fyr seigier. Skal eg adurskrifadur[5]) sira Þorleijfur Biornsson[2]) suara laga riftingum æ jordunni[6]) Borg eñ Arni Gijslason hallda til laga. skal þrættnefndur Arni Gijslason[7]) [þessa tijttnefnda[8]) jord Borg ath sier taka nu ath næstum fardaugum [sem fÿrr seigier[1]) til fullrar eignar og frials forrædiss. Og thil sanninda hier vm̃ set[9]) eg mitt jnnsigli fyrir þetta [bref er skrifad var æ Mel j Midfirdi mæanudaginn næstañ fyrir Halluardzmesso anno domini ɱ° d° l° v°.[10])

---

23. 13. maí } 1555 { á Ökrum. 19. maí } { á Stað í Reynines.

Tylftardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir jörðina Tungu í Fljótum vera eign Brands Helgasonar.

Skjalabók þjóðskjalasafnsins í 4to., bl. 31—3, úr fórum Jóns lögmanns Sigurðssonar, skr. ca. 1600—20.

Domur Odds laugmanns wm̃ Tungu j Fliotum.

Ollum monnum sem þetta Bref sia edur heyra sendum [vier] Jon Grimsson. Olafur Thomasson. Gudmundur Nicholasson. Biarni Skulason. Tume Þorgrimsson. Magnus Jonsson L[aug]R[iettu]menn. Arne Gijslason. Oddur Arñfinnsson. Oddur Halldorsson. Biorñ Philippusson. Þorkiell Jfuarsson. Jon Oddsson Q[vediu[ G[udz] og vora kunnugt giðrandi ad þa lidit var fra gudz burd ɱ D L og V ar ɱanudaginn næst-

1) [sl. *b.* 2) [b. v. *b.* 3) [skiptir sætum í *b.* 4) storar *b.* 5) -nefndur *b.* 6) þrattnefndre jordv *b.* 7) Gijsla *a*; sl. *b.* 8) [opttnefñda *b.* 9) festa *b.* 10) [giorningsbref skrifad á Reykiaholum a Reykianese faustudaginn fyrir Uitusmessu vm̃ sumarid arum epter gudz burd þushund fim hundrud fimmtiger og fimm *b.*

an fyrir Halluardi martyriss a Storuokrum j Skagafirde. a þingstad rettum vorum vier j dom nefnder af heidarligum manne Odde Gottskalkssyne Logmanne N[ordan] og vestañ a Jslande til ad skoda. ʀannsaka og fullnadardom a ad leggia. huortt afl ad hafa skillde sv akiæra. er Brandur Helgason klagadi til Sijra Jons Brandssonar. ad hann hielldi fyrir sier ologliga jordunne Tungu er liggur j Fliotum j Hnappstada kirkiu sokn. huoria Brandur sagdi sier til erfda hafa fallit epter fodur sinn Helga Vigfusson. J fyrstu kom þar fram fyrir oss bref med heilum[1]) og oskoddu jnnsigle Sijra Jons Sugurdssonar huortt ad so jnne hielltt ad Helgi h[eitinn] fader fyrr nefndz Brandz gaf og skipade j sinne daudz tijd syne sijnum Brande Helgasyne adur nefnda jord Tungu j sinn hluta arfs og faudurleifd. Jtem var su vorn af hendi Sijra Jons Brandssonar. at Narfe Jngemundarson stiupfader Brandz hafdi sellt þessa saumo jord j burttu þa hann hafdi hanz fiarhalld. þar med bar Sijra Jon fram̄ annat bref suo latande. at Brandur hefdi gefit vpp sitt akall vm̄ þessa jord vid Biskup Jon. Jtem bar Brandur fram̄ hier j moti tuo bref med jnnsiglum dande manne suo hliodandi. ad hann lýste þui fyrir þeim j sama stad og deigi ad hann ýrde nu at ganga ad þessum naudungarkostum. meir fyrir saker ofrijkiss og ʀijklyndiss biskups Jons eñ ad sijnum vilia. Jtem fleire bref og prof er hann hafde til sijns mals. Nu saker þess at suo stendur j vorre landzlagabok. ad huar sem vngum manni tæmist land j Erfd. og selur fiarhalldzmadur hanz j burtt þa a hinn vngi madur brigd til þess landz. hann skal brigdt hafa jnnañ x vetra þadañ j fra hann er vr omegd. Nu ef honum fallast þesse brigd fyrir einhuerra naudsynia saker þa a hann brigd a þeirre jordu þott sijdar sie. Jtem j annare grein vijsar so til R. B. E. K. ad einginn madur skal selia jarder konu sinnar eda þad sem þau eiga bæde vtañ hennar ordlof. allra er oskýlldast ad hann selie omagaeýrer naudsynialaust. þui at suo seiger laugbokin. Nu er þar omagaeýrer j garde og mǽli konu. Og ef þeim vinst ei badum fie. þa skal hun þarfnast gagngialldz og giafar. eñ omagie hafe sitt og hun

1) Svo.

mäla sinn. Jtem stendur suo ȷ Kaupabælke. ad þad er kaupfox er madur kauper þad sem hinn atte ecki ȷ er selldi. Nu fyrir þessar greiner og þær fleire er ȷ logmalino standa og hier ad hniga. so og ei sidur fyrir þui ad þessi mäl voru dæmd þangat ȷ fyrrnefndañ stad vnder Logmannsins vtuijsing[1]) og ÿfersÿn. þa dæmdum vier fyrr nefnder domsmenn med fullu domz atkuæde þessa þratt skrifada ȷord vera og verit hafa Eigñ opptlz[1]) nefnd[s] Brandz Helgasonar sijdañ fyrst ad fader hanz andadist. og hann rietteliga mega ad sier taca nu strax ȷ fardogum þessa saumu ȷord Tungu þui oss leist hun alldre hafa matt seliast vrættiss þui þad sannreyndist ad hon være hanz odalȷord. Somuleidiss dæmdum vier Sıȷra Jone Brandssyne riett gengit apttur ad sıȷnum aurum ȷord og anduirde huar sem þeir standa þa sem hann gaf fyrir þessa ȷord. Sijdañ snuist huor ad sijnum säla[1]) og sækie huor sinn heimilldarmann. Þar med dæmdum vier þau bref med ollu onÿt. omÿndug og ad aunguo halldandi sem Sıȷra Jon hefur fyrir þessare tijtt nefndri ȷordu Tungu. og þau alldre heÿrast eiga hiedañ ȷ fra. og hann skylldugan ad fä þau ȷ hendur Laugmannenum.

Samþycktte þennan vorn dom adur skrifadur Oddur Laugmann. og setti sitt ȷnnsigli med vorum fyrr nefndra domsmanna ȷnnsiglum fyrir þetta domsbref huortt ed skrifat var a Stad ȷ Reÿninese vȷ dogum sijdar eñ fyrr seiger.

---

**24. 13. maí 1555. á Ökrum.**

Tylftardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir Jón Herviðsson skyldugan að lata húð sína þrem sinnum fyrir barneign með systurdóttur konu sinnar.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol., bl. 144v, skr. ca. 1600. — Ágrip í Lbs. 115, 4to., I. bls. 125—6, m. h. sira Jóns Halldórssonar í Hítardal, og (styttra) í Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 370v, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar 1666.

Domur Jons Heruidsonar.

Aullum mønnum sem þetta bref sia edur heyra sendum

1) Svo.

vier Jon Grimzson. Biarni Skulason. Olafur Tumasson. Tumi Þorgrimsson. Gudmundur Nıchulásson. Magnus Jonsson. Arni Gijslason. Oddur Arnfinnsson. Biørn Philippusson. Oddur Halldorsson. Þorkiell Iuarsson. Jon Oddzson kuediu gudz og vora kunnugtt giaurandi at arum epter gudz burd ꝏ d l og v A ꝏanudaginn næztan fyrir Halluardi ꝏartyris a Aukrum J Skagafirdi a þijngstad riettum vorum vier j dom nefnder af heidursamligum herra Oddi Gottskalchssyne laugmanni nordan oc ueztan a Jslandi til at skoda. ransaka og fullnadar doms atkuædi a at leggia huersu fara skylldi vm mal Jons Heruidssonar huor ed opinber vard ad barneign med systurdottur konu sinnar Eñ atti iiij baurn j omegd med aullu fram̄færslulaus ef hann væri fra tekinn. voru og aunguer frændur þeir ed forlagzeyrer hefdu fyrir þau at leggia sakier fiaulskylldu og fatæktar þeirrar er at þeim sokti oc at stod. Nu sakier þess suo stendur j vorre landzlaga bok. At huer madur er skylldur ad færa fram faudur sinn og modur og suo baurn sijn huort sem þau eru skilgietin edur frilluborin Jtem j audrum stad stendur suo j R. B. H. K. Magnussonar at aller þeir fatækier menn sem a vonaruaul ganga eru skyllder ad leida edur bera baurn sijn edur annan ueg at flytia epter þui sem skynsamer menn sia at hann fai orkat. Jtem j þridiu grein seigier suo j R. B. ꝏ. K. at þo at madur hitti j þau obotaverk at hann hafi fyrirgiort lijfinu og aullu þui hann a j fauztu og lausu og a hann baurn j omegd þa skulu kongz vmbodzmenn ætla baurnunum fullan forlagzeyri af fie þui er hinn vtlægi atti æ medan fie vinst til þar til at þau eru matuinnungar epter laugum þo ei sie fie meira eñ þeim vinst til forlagzeyris. Eñ oss leitzt þetta obotamal ecki suo hatt sem hin aunnur þui at systurdotter konu manns stendur huorki j chriztinrietti nie J fyrr skrifadri riettarbot Magnusar kongz. þui fyrir þessa[r] greiner og þær fleiri sem j laugmalınu standa og hier at hnijga dæmdum vier fyrr nefnder menn med fullu doms atkuædi adur nefndan Jon Heruidzson skylldugan at lata hud sijna iij sinnum epter þui sem laugmadur sier at hann mætti bera. so þo ad fyrr nefndur Jon væri fær at filgia børnum sijnum til biargar þeim. skylldi þessi hin fyrzta refsing jon-

an manadar fram koma. aunnur ȷ haust. Eñ þridia at vore. og fa xiij haugg ȷ huorri. fyrzt fyrir þad er hann spillti mægdum. aunnur xiij fyrir þad er hann drýgdi hordom. þridiu xiij fyrir þad er hann spillti ȷungfru. Eñ at þessari refsing ut endadri dæmdum vier hann frij og frialsañ at hialpa baurnum sijnum huar hann kynne.

Samþyckti þennan vorn dom adur skrifadur Oddur laugmann.

---

25. 13. maí 1555. í Langahlíð.
16. apríl 1556. á Öngulsstöðum.

Sjöttardómr, kvaddr af Guðmundi Nikulássyni í umboði Þorbergs sýslumanns Bessasonar, dæmir Magnúsi Jónssyni vegna konu sinnar, Elínar Jónsdóttur, fjárhald og framfæri Gríms Jónssonar.

AM. Apogr. 4609 „Ex originali membraneo", m. h. Hans Beckers. Af 6 innsiglum voru 2 fyrir bréfinu.

Um fiarhalld og fram̄fære Grims Jonssonar.
Jhesus Christus.

Øllum þeim monnum sem þetta bref sia̋ edur heýra senda Jon Magnusson. Oddur Arnfinnsson. Jon Oddzson. Þorsteirn Sigurdsson. Petur Þorsteinsson og Helgi Jonsson. kuediu gudz og sina. kunnigt giorandi at a̋rum epter gudz burd ꝏ. d. l. og v. ma̋nodaginn næstan epter Johannis episcopi et Martýris[1]). um vorit i nedri Longuhlid i Horga̋rdal vorum vier i dom nefnder af ærlegum manne Gudmunde Nichulassýni er þa̋ hafdi loglegt vmbod Þorbergs Bessasonar kongs vmbodzmans ȷ Vodluþingi til at skoda og fullnadar doms atkvædi a̋ at leggia vm þad vmbod. er Magnus Jonsson beiddist fullnadar dőms a̋ og rettz ransaks. hver er loglegastur væri fia̋rhalldzmadur Grims Jonssonar. er þa̋ var vanfær og miog krankur til þess sier at veita edur fiarhalld edur medferd ýfer sinum peningum at hafa. stodu þar næstar thil arfs eptir nefndañ Grim hans tuær systur samfæddar

1) Liklega Johannes Beverlacensis, 7. mai.

og skilgetnar. og var onnur þeirra sŷstra ŏgefin mær i modurgardi. er Sigridur Jŏnsdottir het. Lŷsti fŷrrnefndur mann Magnus sig þar forsvarsmann fŷrer oss vegna kuinno sinnar Elinar Jonsdottur. og þvi vmskŷgndum vier vora landzlagabok. J fyrstu þar hun svo seigir: Ef sa madur andast er hann ǎ born i omegd. þǎ skal sa veita vord bornum og fe sem arfi er næstur. huort halldzmadur verdur karl edur kona. J annare grein stendur so: Nu þo at mær hafi fiarhalld brodur. þǎ skal hun ecki taka af hans fe sier til heimanfŷlgiu. J þridiu grein: Nu þott annat huort hiona missi annars ŷngri enn tuitug. og koma þau saman at logum og med frænda rǎdi. þǎ mega þau hafa fiarhalld sitt og annara ef vnder þau ber. og fyrer þessar greiner þotti oss þessar adurnefndar sŷstur logkomnar til fiarhalldz og vmbodz og þeirra forsuarsmenn et cetera. Kom þar fram fŷrer oss heidarlegur mann Jon bondi Magnusson med forsuar fyrer hond adursagdrar Sigridar. og tiade oss. at hun þættist i allan mata vanfær at annast sinu brŏdur. og hans fe. forstodulaus med slikum vanda og siukdom sem hann hefdi. Eñ oss þotti hier[1]) ecki mega hans vmbod ut af sier gefa. mega. þuiat suo stendur i logmǎle. at fiarhalldzmadur skal ei selia odrum fe at hallda. og fyrir satt logmal og vora samuisku. gudz nafni og med heilags anda nad tilkolludu. þǎ dæmdum vier adur nefndir domsmenn med fullu doms atkvædi. Magnusi bonda Jonssŷni þetta vmbod til handa vegna kuinno sinnar Elinar Jonsdottur. og greindan omaga at annast og vardveita. Grim Jonsson. Tiadi fyrir oss og greindi titt nefndur Magnus. huert vandhæfi vm atferli ǎ væri vm vardveislu ǎ Grime. huat oss var og ollum kunnigt. So og beiddist hann skodunar ŏ. huorsu mikill forlagseyrer fŷrer hann skŷlldi leggiast af hans peningum arlega. Svo og hvoria vardveislu at hann skŷlldi hafa. þuiat hann væri med ongu moti einhlitur upp ǎ sina samvisku et cetera. leist oss greindum domsmonnum þessum manne vel heŷra fŷrir sins burdar og slegtis og so fiǎr[1]). allt hreinlegt halld hæfa. og þvi dæmdum vier honum v^c^ i motu ar vm kring

1) Svo.

og ij^c i gangsklædum og. c. i sængarklædum. Eñ adurskrifudum fiarhalldzmanne Magnusi vij^c fẏrer sitt starf og omak og fyrersıon. þui at landzlogin skipa þeim manni fyrir starf sitt er fiarhalld hans hefir. suo hann sie vel halldinn af eru þetta alls xv^c. skẏlldi þratt nefndur mann Magnus fá̃ Grimi ij menn til vardueislu vid hann. so hann mætti ongum manni skada rada edur giora. og þar med fá̃ honum hreinlegt vardhus og sterkt at sofa i. og soddan vardueislu á̃ dag. at a hans hondum skẏlldi vera handiarn edur stokur. so hann gæti ongua edur mætti ohæfilega hluti giora edur skada rada. þui at so stendur i vorre landzlagabok. Nu er þad þui at eins ædi a manni er hann ser at hann brẏst ur bondum. edur skẏnsamir menn meta edur sanna ædi á̃ honum. i annari grein stendur so. at ædimadur er omægi[1]) arfa sins. og fyrir þessar greiner og adrar þær. sem hier at hniga. þa dæmdum vier med fullu doms atkvædi marggreindum manni Magnusi alla vmsion og vmvernd a fyrrsogdum manni Grimi. og hann vel at hirda og vardveita. Eñ ef suo væri. at ecki hrycki til leigur edur landzskyllder og lausafe fyrer hann at leggia. þá̃ skẏlldi adurskrifadar sẏstur Elin og Sigridur leẏsa til sin ȷardirnar til ȷafnadar. ef ecki væri lausafe fyrir hann at leggia et cetera. Eñ fyrir þa grein at vier þottumst ecki liost logmal fyrir oss hafa. edur doma. so vier mættum oss epter retta. huat fram fyrir slika menn skẏlldi leggiast. edur halldzmadur skẏlldi fẏrer sitt starf hafa. so hann væri vel sæmdur af. og þvi dæmdum vier þennañ vorn dom vnder logmannnsins skodan og yfirsion. og hiño besto manna sem hann til nefner med sier. og þad af at taka sem honum þiker of hardur. Eñ þar vid at auka er hann er of linur.

Samþẏckti og vtnefndi þennañ vorn dom adur greindur vmbodzmann og setti sitt ȷnnsigli med vorum ȷnnsiglum fyrer þetta domsbref. huert er skrifat var á̃ Ongulstodum i Eyiafirdi fimtudagin næstan eptir paskaviku á̃rum epter gudz burd ꝏ. ᴅ. lvj.

---

1) Svo.

26. **15. maí 1555. á Grund.**
**[9. maí 1533. á Grund].**

Vitnisburðr um lýsing á kaupi Jóns byskups Arasonar á Vetrliðastöðum.

AM. Apogr. 4601 „Ur transscripto giörðu laugardag næstan epter Dyradag. 1555. Differentiæ in margine eru teknar ur transscripto yfer morg Veturlidastadabref giörðu 1595“ (= *b* hér).

Um Veturlidastade.

Þat giorum uid Jon Ormsson og Hallsteinn Eireksson godum monnum kunnigt med þessu ockru oppnu brefe. at uit hǫfum hia verid. at Þorlaug Halldorsdotter hefur handfest Þorsteiñe Gudmundzsyne og Þorunne Jonsdottur so felldan uitnesburd. sem hier eptter steñdur skrifadur et cetera.

Þat medkennuñst ec Þolllaug[1]) Halldorsdotter at þa lidit uar fræ guds burd. ꝏ dc xxx og iij[2]) ǻr var ec ǻ Grund J Eyiafirde fostudagenn næstan fyrir Hallvardsmessu um uorit. ok þar fyrir kirkiudyrunum. sa ec upp ǻ og heyrda ec ord og handsaul verdugx herra biskups Jons godrar minningar og sira Jons Fillpussonar[3]). at so fyrer skilldu at sira Jon Filpusson[4]) feck og sellde biskup Jone til fullrar eignar Jordeña Veturlidastade J Hnioskadal med aullum þeim gognum og giædum sem greindre Jordu ǻ med logum at fylgia. ok biskup Jon skyllde greinda jord Ueturlidastade meiga eignast og at sier taca at þeim næstum fardogum. Og þa stragx gallt biskup heitenn Jon þersa somu Jord med handsolum Jsleifve heitnum Sigurdsyne fyrir þa Jord sem hann medkendest at hann hefde fyrir honum fargat. ok sira Jon Filpusson[4]) liet sier þat vel lika. ok hier eptter vil ec sveria fullañ bokareid nær sem Þosteinn [uill eda Þorunn et cetera[5]).

Ok til sanninda hier um setium uid ockur Jncigle fyrir þetta bref er gert var æ Grund J Eyiafirde. die Hallvardi. þæ lidit var fra guds burd. ꝏ dc l. og. u. ar[6]).

---

1) Þorlaug *b*. 2) „iij similiter“ (ÁM. *b*). 3) Philpussonar *b*. 4) Philpusson *b*. 5) [eda Þorunn uill *b*. 6) b. v. *b*.

27. 15. maí 1555. á Látrum.

Lýsing á kaupi á 3 hundr. í jörðunni Hesteyri „í Aðalvíkrkirkjusókn“.

AM. Apogr. 4798b α „Ex orig. Erlendz Jonssonar á Hvole“.

Þad giore ec Þorkell Landbiartson godum monnum kuneckt med þessu minu opno brefi ad ec medkenunst at ec hefi selltt sira Pantalione Olafzsine. iijc. j jǫrdune Hesteyre er liggur ȷ Adaluickur kirkiu sokn med ǫllum þeim gǫgnum oc gædum sem greindum ȷardarparte æ at fylgia at fornu og nyiu at aullu til tecknu en ǫngu fra skilldu vndan mier og minum erfingum[1]) en vnder hann og hans erfingia. hier ȷ mot gaf adur skrlfadur sira[1]) Pantalion [mier] þriu c ȷ fridum peningum þau mier vel lickadi at tacka fyrir þessi ȷardar hundrut. þar fyrir gef ec adur skrifadur Þorkel[l] Landbiartson fyrr skrifadan sera[1]) Pantalion ǫllungis kuittan og akærolaussan[1]) fyrir mier og minum eptterkomendum og erfingum vm adur greint ȷardarverd. [Skylldi sera[1]) Pantalion halda til laga þessum ȷardar hundrudum[2]). en opt skrifadur Þorkell skylldi suara laga ripptingum[3]). for þesse giorningur fram a Lat[r]unı j Adalvick. in festo Halluardi martiris vm vorit. Og til saninda hier um setta eg mitt insigle fyrir þetta kaupbref. skrifad ȷ sama stad og deigi sem fyrr seiger. an[n]o domini ꝏ: d. l: og. v.

---

28. 15. maí 1555. á Látrum.

Kaupbréf fyrir 3 hundr. í Hesteyri „í Aðalvíkrkirkjusókn“.

AM. Apogr. 4798b γ „Ex orig. Erlendz Jonssonar á Hvole“. Sbr. lögmannsúrskurð 12. sept. 1571.

Þat giorum vær Eireckur Palsson. Jon blote Arason. Jon Olafzson og Jon Ionsson godum monnum kuneckt med þessu voru opnu brefi. ad þa er lidid var fra Gudz burd. ꝏ. d. l. og v. ær. ȷn festo Halluardi martiris vm vorid j

1) Svo. 2) hc, Apogr. 3) [„Þetta er sett til in margine, þó med sömu hendi“ (AM.).

bænahusinu a Latrum j Adalvick vorum vær i hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna. af einne albu sira Pantalionz Olafzsonar [en af anare albu Þorkels Landbiarttsonar. faldezt þat og skildist vnder þeirra handabandi at fyrr nefndur Þorkel[l] Landbiartson selldi adur skrifudum sira Pantalione. iijc. j jordunne Hesteyre er liggur j Adalvickur kirkiu sokn til full[r]ar eignar og frials forrædist[1]) med aullum þeim gǫgnum og gædum sem greindum jardarparte fylger ad fornu og nyiu og hann vard fremst eigandi ad med lǫgum. hier j mőt gaf adur greindur sira Pantalion iijc. j fridum peningum suo sem fyrr skrifudum Þorkaltle[1]) vel lickadi at tacka. skylldi optt greindur Þorkell Landbiartson suara lagariptingum a greindum jardarparti. en opt nefndur sira[1]) Pantalion hallda til laga. [Jtem lofadi Þorkel[l] [sera[1]) Panta og j sama handabandi at han skyldi eiga lausn ǻ þeim. iiijc. sem þa voro oselld og fyrstur kaupa fyrir fulla peninga[2]). Og til saninda hier vm settu vær vor insigle fyrir þetta vitnisburdarbref skrifad j sama stad og deigie sem fyr seiger.

---

## 29. 19. maí 1555.

Minnisgrein sira Gottskálks Jónssonar i Glaumbæ um leigu á búðarstöðu og skipgöngu.

Syrpa síra Gottskálks Jónssonar, Add. British Museum 11, 242 (úr safni Finns Magnússonar 206), bl. 74r, og er blaðið mjög skaddað.

Þat medkennunzt [ec . . . . . . . . . . . . .
. . . Biornssyni budarstodu oc skipgongu j . . . . . .
. . . . . londum [ǻ medan vid lifum til þess(?) hann uill[3]) . . . . skrifadi ec sialfr j Uik j Sæmundarhlid a Dunstan[i dag anno] m. d. l. u.

---

1) Svo. 2) [„Þetta er sett til in margine, þo med sómu hendi. samt urskurdar Ormur þad gillt“ (AM.), þ. e. 12. sept. 1571. 3) Frá [ útstr.

**30. 20. maí 1555. á Sauðá.**

Dómr kvaddr af Oddi Halldórssyni, „lénsmanni“ Odds lögmanns Gottskálkssonar, og að fyrirlagi lögmanns um refsing þeirra, er við taka heimildarlaust af rekum Reyninesstaðar.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol., bl. 143, skr. ca. 1600 (= *a*). — Lbs. 1974, 4to. (Dómasyrpa Jóns Hákonarsonar í Vatnshorni), bls. 35—6, skr. ca. 1600 (= V.). — Uppskriftir margvíða (í dómasöfnum) frá 17. og 18. öld.

Saudær Domur wm widinn Anno 1555[1])

Aullum maunnum sem þetta Bref sia edur heýra sender Jon Grimsson suarin laugriettumann. Arne Gijslason. Gottzskalch Magnusson. Olafur Gıȷslason. Biarne Wigfusson. Brañdur Jonsson kuediu gudz og sijna[2]) kunnugt giaurandi at þa lidit var fra gudz burd. ɱ. d. l. v ar ɱanudaginn næztañ fyrir Vrbani a Sauda j Sæmundarhlijd a þijngstad riettum. epter bodi og skipan. forlagi og fyrersogn heidarligz[3]) herra Oddz Gotskalchssonar laugmanns nordan og veztan a Jslañdi. saumuleidis kongz vmbodzmanns ȷ Hegranesþijngi. worum vier ȷ dom nefnder af hanz liensmanne Oddi Halldorssyne til at skoda. ransaka og fullnadar doms atkuædi a at leggia. huorra suara edur sekta. riettar edur refsinga[4]) at þeir menn skýlldu verdugier vera sem hefdi vid heimilldarlaust af ʀekum Reýnenes stadar. eda huar hann væri tecinn a stadariñs ȷaurdum.

Jtem kom þad og fram fyrir oss ad domar hefdu geingid adur vm suoddan mál bædi fyrir nordan og sýdra Epter gaumlu vidar lægi.

Nu sakier þess at suo stendur ȷ vorre landzlaga bok. Ef sa[5]) madur stelur til eyris sem ei var fyrr at þýfsku kendur þa skal hann a þijng færa. Jtem ȷ audrum stad vijsar suo til laugmalid at ef madur stelur hundi manns edur kietti. knijfi edur belltti og [aullu þui[6]) minna er vert eñ til eyris [þad er[7]) huiñska. J þridia stad hliodar suo laugbokin at epter gaugnum og vitnum skal huert mal dæma. Og nu

1) Saudar Domur vm vid V. 2) V; vora *a*. 3) heidurligs V. 4) Refsingar V. 5) sl. V. 6) [allt þad V. 7) [þǿ er þad V.

fyrir þessar greiner laganna[1]) og þær fleiri. sem j laugunum[2]) standa dæmdum vier fyrr nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi at huer sa madur sem at þui ẏrdi kunnur og sannur at hann taki fyrir sig sex alna langt trie bordlægt suo hann lyzti ecki fyrir ij. skiluijsum vottum samdægris. edur annan jafnuirdan vid sem væri x raptar mannhellder. half fiorda alin huor einn[1]) ef þad skier a einu are þa skal sa slijku sekur sem hann hafi stolid til eẏris. og leẏsi hud sijna[?]iij maurkum vid kong. En ef hann stelur stẏttri triam [edur [færum[3]) en fyrr skilur þa gialldi kongi ij aura en eẏrer þeim er atti og heiti dreingur at verre. Ef madur stelur þriggia alna laungu trie sulu gilldu þa skal hann slijku sekur sem adur vottar ef þad verdur sannprofad og skal landeigandi edur rekamadur mega riettiliga[4]) bera ad honum suo mikinn vid sem honum huerfur a þui ári ad osekiu og sækia[5]) hann til eijda. sa eidur fellur til slijkrar secktar sem laugbok seigier epter fiarmagni. þui suo stendur j þiofabælki. cap. 5. Nu kenner madur audrum[6]) manne stuld. þa giauri huort er hann vill stefne honum heim og þadan til þijngs eda lẏsi epter þẏfd a þijngi. j audrum stad stendur suo. Nu er madur stolinn fie sijnu. [et cetera[7]).

Samþẏckti þennan vorn dom sagdur laugmann.

---

**31.** **21. maí 1555. á Vetrliðastöðum.**

VITNISBURÐR um Vetrliðastaði.

AM. Apogr. 4605 „Ex originali". „Innsigled hanger vid".

Um Veturlidastade.

Suo felldan vitnisburd ber eg Jon Eingilzbrizsson at eg var staddur ꝺ Hálse i Hniðskadal manudagin næstan epter páskaviku at Bryniolfur Jonsson og Jon Olafsson soru suo látanda eid. at siera Jon Philipusson hefdi lyst þui fyrir sier. at hann hefdi feingit biskup Jone jordina Veturlidastade. og eigi soru þeir handsaul edur peninga fyrir hana komit hafa.

1) b. v. V. 2) laugmalinu V. 3) færrum V. 4) ad Riettiligu V. 5) sækie V, 6) sl. V. 7) [sl. V.

Og til sanninda hier um set eg mitt insigle fyrir þenna vitnisburd. huer ed skrifadur var a Veturlidastodum ȷ Hniőskadal þridiudaginn næstan fyrir uppstigningardag vm̄ vorid þá lidit var frá Guds burd ꝏ. d. l. og u ꜳr.

---

32. 22. maí 1555. á Bægisá.

Jón Finnbogason fær Finnboga, syni sinum, jörðina Bægisá syðri í Öxnadal, með samþykki konu sinnar og dætra, greinir mála konu sinnar og eignarhluta, er hann ætlar dætrum þeirra.

Bréfabók Guðbrands byskups í byskupsskjalasafni í 4to. (í þjóðskjalasafni), bl. 17—18, skr. ca. 1580 (= *a*); í hinni prentuðu bók á bls. 445. — Skjalabók þjóðskjalasafnsins í 4to. (m. h. Jóns lögmanns Sigurðssonar), bl. 67, skr. ca. 1600 (= *b*): „Þetta bref er sagt med iijur jnnsiglum skýrum og oskoddum".

Vm fieskipte Jons Finnbogasonar og mala konu hans j ȷ̄ Osland[1]).

Þad giorum vier Gudmundur Skijdason prestur. Jon Jonsson og Þorleifur Jonsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad vær vorum ȷ hiꜳ. a Sydri Bæisꜳ ȷ Øxnadal. midvikudaginn ȷ fardagaviku þꜳ lidit var frꜳ Gudz burd ꝏ. d. lv.[2]) ꜳr. sꜳum og heyrdum ꜳ. ad Jon Ffimbogason[3]) gaf og skipti syne sijnum Ffimboga[4]) med fullu ȷꜳýrdi og samþýcki sinnar kuinnu. Sigrijdar Einarsdottur og sinna dætra ȷordina sydri Bæesꜳ ȷ Oxnadal til fullrar eignar og frials forrædis epter [þui sem[5]) hann mætte þad frekast med logum giora. med ollum þeim gognum og giædum sem greindri jordu Bæisꜳ fýlger og fýlgtt hefur ad fornu og nýu og nefndur Jon hafdi fremst eigandi ad ordit. Skildi greindur Jon þad til ad [greindur Ffimbogi[6]) skylldi þessa jord eignast. til rettra erfdaskipta vid sijnar sýstur. tilgreindi þrattnefndur Jon Ffimbogason[3]). ad hann ætti þꜳ

1) Þetta með eiginhendi Guðbrands byskups í *a*. — Brief vm̄ giof Finnboga er fader hans gaf honum og sagt er ei hafi komit fyrir dom Jons Logmanns sem gieck vid Vallnalaug 1574 *b*. 2) 1555 *b*. 3) Finnbogason *b*. 4) Finnboga *b*. 5) [sl. *b*. 6) [nefndur Finnbogi *b*.

Osland lxxxc. og Jllugastadi ȷ Fliotum xxxc. suo og lýsti optnefndur Jon Ffimbogason[1]). ad Sigrijdur kona hanz ætti hiaa sier lxc. og fyrir þau lxc fieck hann henne xlc j Oslandi. og þar til xxc ȷ frijdum peningum og ofrijdum. Somuleidis sagdi ꝍdur nefndur Jon Fimbogason[1]). ad sijnar dætur Margriet. Gudrun og Äsa skýlldi faa sijn xxc ȷ ȷordum huor þeirra. og xc [þar til[2]) ȷ lausafie huor þeirra. Kynni þessi greind ȷord Bæesaa af ad ganga med logum. þaa skylldi nefndur Fim̄bogi[3]) eignast suo mikid vppi ȷordina Grund ȷ Suarfardal[4]) sem af gengi ȷ ȷordinne Bæesaa. med sama skilmaala og fyrr skrifad stendur. For þessi allur giorñingur fram̄ med fyrr skrifudum monnum ollum med handsolum.

Og til sanninda hier vm setium vier fyrr skrifader menn vor ȷnsigli fyrir þetta bref er skrifad var aa ytri Bæesaa ȷ Hörgaardal aa sama [aari. deigi sijdar en̄[5]) fýrr seiger.

---

**33. 25. maí 1555. á Hrafnagili.**

VITNISBURÐR um Vetrliðastaði.

AM. Apogr. 4606 „Ex originali". Innsiglið var fyrir bréfinu.

Um Veturlidastade.

Ihesus.

Suo felldan vitnisburd ber eg Þordur Þolleifsson ad eg var staddur aa Halse i Hnioskadal manudagin næstan epter paaskaviku um vorit. at Bryniolfur Jonsson og Jon Olafsson soru suo laatande eid. ad þeir hefde heýrt siera Jon heitin Filpusson lysa þui fyrir sier. ad hann hefde feingit biskup heitnum Jone ȷordina Veturlidastadi. soru þeir ecki annat suo eg heyrde. Og til sanninda hier um set eg mitt insigli fyrir þenna minn vitnisburd hver skrifadur var æ Hrafnagile i Eyiafirdi laugardaginn næstan epter vppstigningardag þaa lidit var fra gudz burd. ꝏ. d. l. v. ar.

---

1) Finnbogason b. 2) [sl. b. 3) Finnbogi b. 4) a; Suarbadardal b. 5) [are og deigi er b.

34. 26. maí 1555. í Hjörsey.

Lýsing Þorsteins bónda Torfasonar á heimanmundi konu sinnar, Þorgerðar Sturludóttur, og tilgjöf hennar, er vera skyldi Hjörsey á Mýrum.

AM. Apogr. 4615 „Ex originali".

Þad giorum vier Dadi Gudmundzson. Oddur Tumasson. Halldor Brandzson. Jon Grimsson. Biarne Sumarlidason gődum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefi. ad þá lidid var fra Jesu Christi fæding M. D. L. oc V. ar a Hersey fyrir Myrum sunnudaginn epter fardagauiku vm vorid. vorum vier j hiá. saum vier oc heyrdum a ord og vidrædur þessara fromu heidurshiona. Þorsteins bonda Torfasonar. og hañs kvinnu Þorgierdar Stulladottur. J fýrstu bad ádurgreind Þorgierdur Þorstein bonda ad hann skýllde láta sig fa ad vita nu godum monnum hiaverandi. hvad sier hefdi verið gefid og talid a giptingardeigi. og hvad sier hefdi til erfda fallid sidan epter sina modur og sinn brodur. villdi hann þat leingi ecki j liosi lata. og vm sider epter hennar godlatligri epterleitan og uorum tillaugum. lysti hann ad henni hefdi verid gefid heiman ijc. hundrada xijc og tigiutijge j jordum. xxx kugillda. xc. j hestum. nautum og saudum. og xc. j smiorum og vadmalum. xvc. j silfre og vc. j busgagne. og þad hefdi hann medtekid af hennar brodur Joni heitnum. og þar til hefdi hann gefid henni lxc. j jordum j tilgiof. eñ þar eptter hefde henne tilfallid til erfda iijc hundrada epter sinn brodur. ijc hundrada j jordum. lxx. og. v. kugillde. xxc j nautum og saudum. og xxc. j hestum og odrum kauplum og. xxc. j odrum peningum daudum og væri þar med hennar moduraıfur. þviat hann hefdi ecki til skipta komit. Svo og lýsti hann þvi at hann hefdi j burttu feingit af hennar jordum. lxc. og þar skýlldi hun fa onnur. lxc. j jordum. eñ Hersey skýlldi hun eiga j sina tilgiof. Eñ hun sagdist ecki upp á þa tilgiof þeinkia. þvi Gud hefdi giefid sier nogu gott. og mætti hann fa sier Hersey fyrir þær jarder sem hann hefdi j burtu feingid. Eñ hann sagdist ongvum unna betur hennar ad niota. eñ henne. og hier upp á hofdu þau fullnadar handsaul. svo þad faldist vndir þeirra ordum

og handabandi ad Þorsteinn bondi fieck og selldi sinne kvinnu Þorgierdi Stulladottur jordina Hersey fyrir Mýrum undan sier og sinum erfinginm. under Þorgierdi og hennar erfingia. Hier j mot gaf Þorgierdur honum þær jarder sem [hann] hafde j burttu feingid med slikum skilmala vnder hann og hañs erfingia. og þar til skýlldi hann kvittur um hennar tilgiof. þö henni yrdi hennar audid. Og til sanninda hier um setium vier fyr skrifader menn uor jncigle under þetta þeirra kaupbref. hvert [skrifad var j sama stad. are og deige sem fýrr seigier.

---

35. **30. maí 1555. á Helgastöðum.**

Sjöttardómr, kvaddr af Magnúsi Jónssyni í umboði Páls sýslumanns, bróður síns, dæmir um framfæri Finnu Ívarsdóttur.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol. bl. 218, skr. 1604 (= *a*). — Lbs. 789, 4to., bls. 96—7, skr. ca. 1630—40; dómrinn er hér heill, en með röngu ártali („1560"). — Lbs. 65, 4to., I. bls. 124, ágrip m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640, með réttu ártali (1555). — ÍB. 125 A, 4to., bls. 92—3, ágrip, skr. ca. 1650. með réttu ártali (1555). — Lbs. 67, 4to., bl. 37, ágrip með röngu ártali („1558"), m. h. síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti ca. 1650. — Utanmáls í *a* er ritað við dóm þenna með fornri hendi „faheyrdur Domur".

Domur ad Erfingie weite word fielausum omaugum
þo hann eigi ecki peninga til. eñ framfærslumenn leggie til.

Þad giaurum wier Bryniolfur Jonsson. Jon Þorleifsson. Þorarinn Magnusson. Asgrijmur Magnusson. Þorsteinn Biarnason. Sigurdur Asmundzson godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi. ad[1]) árum epter gudz burd Mdlv[2]) fimtudaginn næstañ fyrir huijtasunno. æ Helgastaudum j Reykiadal. worum wier j dom nefnder af welbornum manni Magnusi Jonssyni. er þa hafdi vmbod Pals brodur sijns. kongs vmbodzmanns j Þijngeyiar[3]) þijngi. ad skoda og ransaka og fullnadar[doms atkuædi[4]) æ ad leggia. huar Finna

1) þ. v. 789. 2) 1560, 789; 1558, 67. 3) Þijngeyrar *a*, 789. 4) [dom 789.

Yfarsdotter skylldi eiga laugligt framfæri. er þa war þrotbiarga[1]) og wanfær. j Reykiadalshrepp. Komu þar fram[2]) hennar skijlgetner brædur Helgi og Þordur. bufaster menn. og vppreiknudu sijna peninga. leist oss þeir aungua missera Biorg hafa fyrir saker fiaulda barna. woru þar og vpptallder hennar frændur. og fundust aunguer þeir sem[3]) peninga hefdi hana fram̃ ad færa. vtan iij menn henni ad þremennings skulldugleika. sem war Asgrijmur Jonsson j adra ættkuijslina. og Pall og Magnus Jonssyner j adra. og þeir brædur Jon og Sygurdur. er þa woru eij af omagaalldri. eins til komner. Nu med[4]) þui ad bok giaurer rad fyrir. ef sa hefur eij forlagseyrer. sa sem arfi er næstur. þa skulu omagar fara fram j ætt. til þess forlagseyri hitter. og þui wissum wier aungua þa. sem nær stædi erfdum epter þessa konu. ef hun ætti fie. helldur eñ þessa [menn fyrrgreinda[5]) þa[2]) sem forlagseyrer hefdi fyrir hana ad leggia. Og ad Gudz nad til kalladri. og ad[3]) so profudu mali og fyrir oss komnu. dæmdum wier þessa stulku þriggia marka omaga. og Asgrijm[6]) eina maurk árliga fyrir hana ad leggia. og Pal adra. Eñ[7]) Magnus hina þridiu. skylldu þesser fiorer[8]) brædur suara þessum tueim maurkum til jafnadar. þa Jon og Sygurdur wæri af omagaalldri. wissu wær ad Asgrijmi bar jafnmyklu ad suara af sijnum parti einum sem þessum fiorum[9]). þui hann hefdi[10]) tekid fullan hlut af arfi epter hana sem hiner fiorer[9]) j sitt hlutskipti. ef hun ætti fie epter sig. Eñ þo giaurdum wær þa wægd æ [saukum rijkleika[11]). En Helga og Þord dæmdum wier skyllduga ad lia henni hus til jafnadar. Eñ Silkesif[12]) systur[13]) hennar ij[14]) hlutum midur eñ þeir. skylldi þessi skipun standa obrigdanlig. ad heyrdum dominum. þui bok seiger. ed eij se madur skýlldur ad fæda nie fulgu fyrir ad winna fyr eñ hann weit. ad hann er hans omagi.

Samþyckti [med oss[3]) þennan dom greindur vmbodzmadur [og setti sitt jnnsigli med worum jnciglum fyrir þetta bref

1) þrot *a*. 2) sl. 789. 3) b. v. 789. 4) af 789. 5) [fyrrgreinda menn 789. 6) Asgrijme 789. 7) og 789. 8) 4, *a*; sl. 779. 9) 789; 4, *a*. 10) hafdi(!) 789. 11) [sakir kiærleijka 789, 125. 12) 789; Sylkifijf *a*. 13) 789; syster *a*. 14) 789; 2, *a*.

er skrifad war j Skridu j Reykiadal iij nottum sijdar eñ fyrr seiger[1]).

---

36. 9. júní | 1555. | á Hólum.
17. júní | | á Mel.
22. júní 1608. í Holti undir Eyjafjöllum.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

JS. 66, 8vo., m. h. Grunnavíkr-Jóns 1741 eftir transskriptinu frá 1608. — AM. Apogr. 1079, ágrip m. h. Árna Magnússonar eftir transskriptinu, sem hann fekk til láns frá Sæmundi Magnússyni á Hóli í Bolungavík.

Þad giorum vier Olafvʀ Hialltason vndeʀ Guds þolinmæde Byskup a Hőlvm og Superintendens Hola Byskupsdæmis. Stulli Einarsson pʀestur ʀadzmann ad Holum. Henrik Laffransson skolameistare ad saumu kyrckiu til Hőla. Jön Jonsson kirkiuprestur sama stadar. Þorbergur Bondi Bessason syslumann j Vődluþijngi. og Halldör Sigurdzson. godum monnum kunnugtt med þessu voru opnu brefi. ad vier hofum sied og yferlesid opin bref med heilum og oskoddum hǻngande jnnsiglum suo latande ord eptter ord sem hier eptter skrifad stendur.

[Hér koma bréf um erfðamál eftir Ólaf Filippusson:
1. Bréf klerka fyrir norðan land til Kristjáns konungs 2. og ríkisráðsins 8. maí 1517 (Dipl. Isl. VIII. nr. 470).
2. Bréf Eiríks Valkendorfs og ríkisráðsins 12. janúar 1518 (Dipl. Isl. VIII. nr. 494).
3. Bréf Andórs byskups í Björgyn o. fl. 22. apríl 1518 (Dipl. Isl. VIII. nr. 499).
4. Kaupmálabréf Ólafs Filippussonar og Vigdísar Jónsd. 30. sept. 1492—8. apr. 1496 (Dipl. Isl. VII. nr. 209).
5. Kvittunarbréf Sigmundar prests Steindórssonar 6. febr. 1500 (Dipl. Isl. VII. nr. 483)].

Og til sanninda hier vm setium vier fyrst skrifader menn vor jnnsigli fyrer þessi transkriftarbref. skrifud ǻ Holum j Hialltadal 9. dag Junij. Arum eptter Gudz burd ꝏ. d. l og v.

---

1) [et cetera 789. — Dagsetning hér ætti að vera 2. júní. Það er þá hvítasunnudagr.

Þad giorum vier Olafur Hialltason etc.[1]) ord eptter ord sem þau bref ȷnnihallda. er hier ero medfest. Og til sanninda hier vm. setium vier vor ȷnnsigli fyrer þetta bref. er skrifad var a Mel ȷ Midfirdi. manudagin næstan fyrir Jonsmessu baptiste. arum epter Gudz burd. ꝏ. d. l og v.

Þad medkiennunst vier eptterskrifader menn. Hogñi Jonsson. Magnus Jonsson og Gijsli Aꞃñason. prestar Skállhollttz Biskupsdæmis. Þorsteinn Magnusson og Magnus Eiriksson. leikmenn. med þessu voru opñu brefi. ad vier hofum sied og yferlesid opin Transkrifttar bref med heilum og oskoddum hangande ȷnnsiglum. ord epter ord sem hier fyrer ofañ skrifud standa. Til audsynijngar hier vm heingium vier vor ȷnnsigli fyrer þetta Bref. Skrifad a Holltti vnder Eyiafiollum 22. Junij Anno domini. 1608.

Hogne p. Jonsson eigen hond.
Magnus p. Jonsson med eigiñ hand.
Gijsle p. Arnason med eigiñ hendi.
Thorsteirn Magnusson[2]).

---

**37. 15. júní 1555. á Grund.**

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Apogr. 4603, m. h. Árna Magnússonar.

Nordan ur lande hefe eg feinged transscriptum gamallt á pappir, innehalldande 11 document um Veturlidastade i Hnioskadal. Voru þesse document sem epter fylger:

1°. Vitnisburdur Sira Þorarins Sigmundzsonar 1552.
2°. Vitnisburdur Sira Bessa Biörnssonar 1553.
3°. Vitnisburdur Sira Steins Olafssonar 1554.
4°. Vitnisburdur Sira Andries Jonssonar 1554.
5°. Vitnisburdur Þordar Pieturssonar 1554.
6°. Vitnisburdur Bryniolfs Jonssonar 1554.
7°. Vitnisburdur Jons Olafssonar 1554.
8°. Vitnisburdur Jons Einarssonar 1555.
9°. Vidimus bliodande sem epter fylger.

Þat giorum vid sira Suarttur Arnason. ꝏagnus Gun-

1) Samhljóða, nema Sturla er hér ekki nefndr ‚prestr‘, eins og í upphafi, usque ad. 2) Ekki fleiri undirskrifaðir.

steinsson leikmann godum monnum kunniktt med þersu ockru opnu bref. at vid hofum sied og yfer leset so hliodande bref sem hier fyrir skrifad steñdur ord eptter ord med heilum og oskoddudum hangañde ȷnnciglnm. Ok til saninda hier wm setium uid fyrnefñder menn ockur ȷnncigle. fyrer þetta transkrifttarbref. huertt skrifat uar æ Grund ȷ Eyiafirde laugardagen næstan eptter dyradag um uarit þa lidit uar fræ guds burd. ꝏ dc l og u ǻʀ[1]).

Strax fyrer nedan þetta vidisse var ritad sem sômu hendi, sem allt þad undan farna:

10°. Extract ur dome um Veturlidastade sine anno, eñ ŏefad, dat. 1554.

Aptan ǎ þetta transskriftarbref var ritad med sômu hende, sem ǎ ôllu hinu er:

11°. Domur Pals Jonssonar um Veturlidastade, geingenn ǎ Halse i Hnioskadal, manudagenn epter paskaviku anno 1555.

12°. Vitnisburdur Jons Ormssonar og Hallsteins Eirekssonar, um Medkenning Þorlaugar Halldorsdottur. dat. 1555.

Þesse tvo document (11. 12.) eru, sem sagt er, ritud aptan ǎ transscriptum, eñ med sômu hendi sem allt hitt, so ad Sira Svartur og Magnus Gunnsteinsson hafa til ætlad, ad þau skyllde og af þeim vidimerud heita.

Under brefenu (sem er einfallt pappirsark in formâ patente) hafa vered tvô hangande innsigle, hvar af þad sidara er nu burtu. hid fyrra er: SVARTUR: p[s] A; og kalekur innan i.

Utan ǎ brefenu, samanlôgdu, stendur, med sômu hende sem ǎ þvi ôllu er:

Trañskrifttarbref ut af domenum fyrir Veturlidastodum. ok þeim uitnesburdar Brefum sem þar eru vm gerd. med vitnvm.

Af þessu transskriftarbrefe hefi'eg utskrift i. xi. pôrtum, og eru þau document hia mier teiknud med literis græcis: α β—κ. λ.

Ofanyfir sier hveriu af documentunum stendur i þessu transscripto: *Jhesus.* Er þad undanfellt ǎ minum Copium.

Hôndeñ a þessu transscripto er sierleg i þvi ad legger stafanna eru flester tvôfallder[2]).

---

1) „ɔ: 15. Junii 1555" (AM. utanmáls). 2) Hér sýnir Árni dæmi þess á *f*, *s*,*p* og *þ*.

38. 1. júlí 1555. á Öxarárþingi.

Tylftardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir Steinunni Jónsdóttur Ljósavatn í Barðardal og andvirði silfrkross, er síra Björn Jónsson hafði fargað.

AM. Apogr. 106 „Fx orig. Sira Olafs Stefanssonar", tvær uppskriftir, og er önnur þeirra með hendi Styrs Þorvaldssonar, og er henni hér fylgt, enda er hún yfirfarin af Árna Magnússyni. Sbr. lögmannsúrskurð 27. sept. 1557.

Um Liosavatn i Bardardal[1]).

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref siä edur heyra sendum [vier] Sigurdur Oddsson. Gijsle Jonsson. Oddur Tumasson. Gudmundur Gijslason. Jon Einarsson. Gudmundur Nikulasson. Eyőlfur Arngrijmsson. Magnus Jonsson. Tumi Þorgrimsson. Hrolfur Biarnarson[2]). Olafur Tumasson og Jon Grijmsson. kvediu Gudz og vora kunnigt giǒrandi ad ărum epter Guds burd ꝏ. d. l. og v. mănudaginn næstañ epter Peturs messo og Păls. ă almennelegu Öxarärþingi. vorum vier i dőm nefndir af heidursamligum herra Odde Gottskallkssyni lǒgmanni nordan og vestañ ă Jslandi. til ad skoda og ransaka. og fullnadæidőms atkvædi ă ad leggia. hvar Olafur Jonzson skyllde adgang eiga vegna sinnar kvinnu Steinunnar Jonsdottur epter hennar peningum. fyrst ad þær jardir Anastader og Skardskot gengu af henni med lǒgum. sem sijra Biǒrn heitinn Jonsson fieck henni fyrir sijnar mălajarder. hveriar Einar Gijslason hafdi latid dæma sier. sem sa domur jnne hiellt. er hann liet þar upp lesa fyrir oss med lǒgmanns urskurdi.

Jtem j annare Grein. kom þar frañ fyrir oss copium af Giǒrningsbrefi þeirra adurnefnds sira Biarnar Jonssonar. og Jőns Bonda Magnussonar svo latandi. ad fyrgreindur Jon Magnusson og Ragneidur Pietursdottir gafu þrattnefndre Steinunne dottur sinni alla jǒrdina Liosavatn er liggur i Bărdardal et cetera.

Nu saker þess ad svo stendur j vorre landzlagabok. ad hvǒrki hiőna mă fyrirgiǒra edur fyrirmæla annars fie. Jtem j annare grein vijsar svo til Riettarbot Eirekz kongs. ad eingi

1) m. h. Árna Magnússonar. 2) Svo *báðar*.

madur skal selia eigner husfreẏu sinnar. edur þær sem þau eiga bædi sômun[1]). utan hennar samþycki. Jtem i þridia stad vottar svo lôgbokin. Nu skal kona hafa heimanfẏlgiu sijna. enn omægi[2]) fie sitt. þvi i Guds nafni Amen. fyrir þessar greiner og þær fleijri. er i lôgmalinu standa. og hier ad hnijga. so profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier fẏrnefndir menn med fullu doms atkvædi. þessa tijttnefnda jôrd Liôsavatn vera obrijgdanliga eign optnefndrar Steinunnar Jonsdotter j svoddan máta. ad hun sverie þann eid. ad hun hafi alldrei leẏfi til giefid Sijra Birni heitnum Jonssyni greinda jôrd Liosavatn ad[3]) selia eda i burtu fá neinum manni j nockun[4]) máta. Sômuleidis klagadi margnefnd Steinun þad þar fyrir ozz ad Sijra Biôrn heitinn[5]) Jonsson hefdi sellt og golldid herra Ellendi Þorvardzsyni j jardarverd fyrir xx^c^ þann silfurkross. sem hann hafdi henne ádur feingid. dæmdum vær. ad. x^c^. skylldi nidur falla af þeim verdaurum sem kom fyrir ádur sagdan kross. hvad þessi jôrd væri dyrri en þær sem af henne sôgdust og fyrr skrifad stendur.

Samþyckti dennan vorn dom ádurgreindur herra Oddur lôgmann. og setti sitt jnsigli med fyrrgreindra domsmanna jnsiglum fyrir þetta bref. skrifad á Þingvelli a sama deigi. ári. sem fẏr seigir.

---

## 39. 1. júlí 1555. á Øxarárþingi.

Helmingadómr, kvaddr af Ólafi byskupi Hjaltasyni og Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir sira Snjólfi Jónssyni jörðina Núp fremra í Núpsdal.

AM. fasc. LXXII, 9a, frumrit á skinni. Af 6 innsiglum er brot eftir af einu. — AM. Apogr. 1008, m. h. Styrs Þorvaldssonar, og hefir þá frumritið verið í eigu Sæmundar Magnússonar á Hóli í Bolungavík; þar lýsir Árni Magnússon innsiglunum. — ÍB. 309, 8vo., bl. 147 — 8 (Öxnafellsbók, m. h. Ara Magnússonar í Ögri).

Domur wm fremra Nup j Nupsdal[6]).

Þath giorum vier Biorn Gijslason. Illuge Gudmundzson.

---

1) saman, *hin uppskr* 2) omagi, *hin uppskr.* 3) b. v. *hin uppskr.* 4) nockurn, *hin uppskr.* 5) Eitin, *hin.* 6) Utan á bréfinu.

skogarpart j Seliateigsland ẏfer under mela. og tueggia hrossa beit á Teigarbacka á uetur j Somastada land. heyrdi eg hier alldri tuimæli á leika fẏrr en̄ nu fyrir fám árum. og hef ec nu fiora uetur um fertugt. hier epter uil eg sueria ef þurfa þiker. Og til sanninda hier vm set ec mitt ȷnsigli fyrir þetta vitnisburdarbref. huert er skrifad uar á Eẏuindará. Mariumesso fẏri vm sumarid arum epter gudz burd. M°. d. l. og v. ár.

Þetta fẏrer framan og ofan skrifad bref er riett Copierad epter originalnum, sem er ritadur á kalfskinn og med underhángade heilu og læseligu innsigle Biarna Jonssonar, sem fyrer brefid er skrifadur. Til sannenda merkis hier um setium vier underskrifader vor nöfn hier fyrer nedan i Skálhollte þann 1. Junii. Anno 1712.

Þorleifur Arason.
Þorgils Sigurdsson.
Pall Hakonarson.

---

53. 18. ágúst 1555. í Laufási.

Ólafr byskup Hjaltason fær Halldóri Sigurðssyni í þjónustulaun sín Neslönd tvenn við Mývatn, Refsstaði í Laxárdal og Hringver á Tjörnesi.

AM. fasc. LII, 13, frumrit á skinni. Fyrir bréfinu eru 5 innsigli, auk innsiglis Orms lögmanns, sem læsir samþykktarbréf hans frá 17. mars 1570 við þetta.

Um̄ Nesslond[1]).

Þat giorum uær Biorn̄ Gijslason. Þorsteinn Hallzson prestar. Jon Magnusson og Jon Ormsson leikmenn godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefe at arum epter Gudz burd. M. d. l. u.[2]) ȷ Laufase æ Eyiafiardarstrond sunnudagen næstan fyrir Bartholomeusmesso uorum uær hia saum og heyrdum æ at verdvgur Herra Biskup Olafur Hialltason

---

1) Utan á bréfinu m. h. frá 18. öld. Utan á er og ritað ártal „$\frac{1552}{70}$" m. h. Árna. 2) Þetta er ritað sem „.u.", en Árni les úr því „1552", en ártalið er skýrt í bréfinu.

gaf og gallt j sin þionvstulavn med handsolum Halldore Sigurdzsyne þessar jarder er svo heita Neslond tuenn er liggia uid Myvatn j Reykiahlidar kirkiu sokn fyrir xx hvndrvd og iiij hvndrvd og þar med iiij kugillde og jordina Refstade j Laxardal j Holltastada kirkiusokn fyrir xij hvndrud. Og jordina Hringuer æ Tiornese j Husauikur kirkiv sokn fyrir viij hundrud. voru greindar jarder Neslond dæmdar adur skrif[u]dum Herra Biskup Olafe til eignar og frials for[r]ædis fyrir þa bot og efling sem hann hafde latid giora æ kirkiune og stadnum j Laufase saker þess at greindar jarder Neslond hofdu verid lvktar optnefndre Laufaskirkiu til fullkomligrar eignar fyrir kirkiuspioll og stadarfyrnd svo sem insiglad bref þar vm giortt inne helldur[1]). En jordena Refstade sagdist hann keypt hafa af sera Einare Vlfssyne fyrir fulla peninga og verd vt fyrir golldit. Eñ jordena Hringuer sem uerid hafde Hola kirkiu eign hefur Þorbergur bonde Bessason lofad med innsiglvdu brefe ad borga domkirkiune annare jafndyrre jordu j Bardardal so framt sem greind jord Hringuer kynne med logum af ad ganga greindum Halldore. Suo og sagdizt fyrr nefndur Herra Biskup Olaf[2]) svo mykla peninga eiga j þann tima ad hann mæt[t]e vel fyrr sagda penin[g]a med logum giefa epter þui sem hann sagdizt reiknad hafa med margra godra manna uitorde sem þar er kunegt til. Skilde þratt nefndur Herra Biskup Olafur þad til ad adur nefndur Halldor Sigur[d]sson skyllde giefa sagdar jarder Neslond Bergliotu Ormsdottur j loggiof og tilgiof svo framt sem Gvd villde ad sa radahagur tækizt sem vm uar talad þeirra æ mille. Og til saninda hier vm sette tijtt nefndur Herra Biskup Olafur sitt innsigle med vorum fyrr nefndra manna innsiglvm fyrir þetta bref er giortt var j sama stad og ære deige sijdar eñ fyr seiger.

---

**54** **23. ágúst 1555. á Stað í Grunnavík.**

Kaupbréf fyrir 6 hundr. í jörðunni Hesteyri „í Aðalvíkrkirkjusókn.

1) Sjá bréf 20. sept. 1485, Dipl. Isl. VI, nr 450. 2) Svo.

AM. Apogr. 4798b $\beta$ „Ex orig. Erlendz Jonssonar á Hvole“; sbr. lögmannsúrskurð 12. sept 1571.

Þad giore ec Þorkell Lan[d]biartzson godum monnum kuneckt med þessu mino opno brefi at ec medkenunst at ec hefi selltt Solueigu Olafzdottur. vic. j jordune Hesteyri er liggur j Adaluickur kirkiu soknn med aullum þeim gǫgnum og gædum sem greindum jardarpartte a ad fylgia og fylgt hefur at fornu og nyio ad aullu til teckno en aunguo fra skildo vndan mier og minum erbingum[1]). en under hana og hen[n]ar erfingia[1]). hier j mott gaf adur greind Solueig mier vijc j fridum peningum og ofridum sem mier vel lickadi at tacka fyrir þesse jardar hundrud. þar fyrir gef ec adurskrifadur Þorkell Landbiartzson fyrr skrifada Solueigu Olafzdottur aulldungis kuitta og akærulausa fyrir mier og aullum minum epterkomendum og erfinguin[1]) vm adur greint jardarverd. Suo og skylldi opt skrifud Solueig hallda þessum jardarpartte til laga en fyrr skrifadur Þorkel[l] skylldi suara lagaripttingum æ þessum jardarparti. Og til saninda hier vm setta ec mitt insigle fyrir þetta kuittunarbref huertt er skrifad var æ Stad j Grunnavick in uiggilia[1]) sancte Bartolomej[2]) anno domini ꝏ. d. l. og v.

---

55. 27. ágúst 1555. í Vatnsfirði.

Síra Gísli officialis Jónsson staðfestir gögn Vatnsfjarðarkirkju fyrir fisktollum úr Bolungavík.

AM. Apogr. 916 „Ex orig. Vatzfiord. accuratè“. Bréfið var með innsigli síra Gísla læst við dóm síra Jóns Þorleifssonar 7. okt. 1553.

Jhesus.

Þat giore eg Gisle prestur Jonsson. ouerdugur officialis yfer Vestfiordu godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. Eg medkennunzt ad eg hefi sied bref og biuisingar heilagrar Uatzfiardar kirkiv. med heilum og oskoddum danemanna jnsciglvm vm tolla j Bolungarvick. Suo og þann dom sem dæmdur var j Vatzfirdi vm haustid anno.

1) Svo. 2) Hér aftan við er krot; gæti hafa verið et cetera.

1553[1]). Litz mier ad minu vite kyrckiunar bref med ollu skial-lig og myndug. og ȷ onguan mata raskazt mega. Suo og þennañ dom med ollu gate og skiale dæmdañ vera eptter þessum kyrckiunar morgum brefum og biuisingum[2]) Þui ȷn nomine domini amen. til styrcktar og sannrar stadfestu lyse-ec þenna dom med ollu myndugan og skialligan. og af ong-um riufazt mega. vtañ Biskup og adrer logliger domendur siae þau nockur forfoll sem eg ecki af ueit. ad þessum domi og brefum meigi hrinda. Og til sannenda hier vm festi eg mitt eg mitt ȷnsigle fyrir þetta Bref huertt eg teingi vid þenna dom. Skrifad ȷ Vatzfirdi þridiudagenn næstañ epter Bartholomei vm haustid. Anno domini 1555.

---

## 56. 5. september 1555. í Skálholti.

Marteinn byskup Einarsson felr Daða bónda Guðmundssyni innheimtu byskupstíunda í milli Gilsfjarðar og Gljúfrár.

AM. Apogr. 4611 „Ex originali chart. fra vicelögmannenum Odde Sigurdsyne“, m. h. Árna Magnússonar.

Eg Marteirn Eijnarson under gudz þolenmædi biskup i Skalhollti heilsa ydur aullum sem big[g]ia og bua milli Gils-fiardar og Gliufrar kiærlega i gude. Vitid godir viner ad eg heue um bedid heidarligan mann Dada bonda Gudmundzson mijnar tijunder saman ad taka og þau sakferli sem kirkivni og mier tilkoma og nu falla edur fallid hava fyrir vtan hor-doms saker og kiettarij i greindu takmarki sem adur hafa veniuliga profastar giort. Skal hann þann prest tilskipa þa menn ad leisa sem brotliger kunna ad verda sem hon-um þiker best til fallen af þeim malum sem min[n]i laug-saugn tilkiemur. Skulu þeir aller kuitter sem hann kuitta gefur under rietta greijn og reikningskap vid mig. Og til sanninda hier um þrȷcki eg miinu insigli up[p]a þetta bref

---

1) „1555. stendur ad visu i originalnum. Eñ þad hefur ővarlega misskrifast, af þvi skrifarenn hefur þeinkt til arstalsens sem var þă hann ritade“ (AM.). 2) biuisindum, stóð í frumritinu.

skrifad i Skalhollti. 5. dag Septembris manadar Anno Domini. 1.5.5.5.

(L. S.)

---

57. 8. september [1555]. á Möðruvöllum.
31. mars 1559. á Hofi í Vopnafirði.

KAUPMÁLABRÉF Eiríks Snjólfssonar og Þuríðar Þorleifsdóttur.

ÍB. 67, 4to., XCVIII, bl. 96, m. h. síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745).

Af kaupmalabrefi Eyreks Sniölfssonar og Þorridar Þorleifsdottur Grimssonar.

In nomine Domini Amen. Á Mödruvöllum i Eyafijrdi um haustit Mariu Messo sidari. sem þa bar a sunnudag[1]). lýstiz og stadfestiz so felldr skilmæli med þessum heidursmonnum. Eyreki B[onda] Sniölfssyni og hans eiginkvinno Þorridi Þorleifsdottur. a þeirra brudkaupsdegi. at Þorleifr B[ondi] Grimsson taldi og reiknadi peninga þessarar sinnar dottr[2]) jc^c og ijc betur. en hier a moti skildi sæ heidursmann Eyrekr B[ondi] Sniölfsson ivc^c. og or þessum peningum gaf hann sinni kvinnu Þorridi lx^c. til greindar jarder í þessa hans lagagiof. Medalnes í Ássþingum i Austfiordum fyrir xxx^c. Backi í Borgarfijrdi fyrir xx^c. og þar til x^c i godum þarfligum peningum. so mælinn reiknadist ijc^c og xl^c betur i gard Eyreks B[onda] Sniolfs sonar. So og festi hann sina egtakvinno þessa rett epter lögmalsins ordum æ þessum sama degi. þessum heidursmonnum og dændimonnum vit verondum og æheyröndum. Árna B[onda] Brandssyni. Oddi Ássmundssyni. Joni Sigurdssyni. Oddi Kolbeinssyni. Gudmundi Jonssyni. en þessum prestum Sira Finnboga Thomassyni. Sira Joni Jonssyni. Sira Hialmi Einarssyni. setiandi sin innsigli fyrir þetta kaupmælabref. skrifat æ Hofi í Vopnafijrdi hinn seinasta dag Martii mænadar ærum epter Guds burd M D L og ix.

---

1) Ekkert ártal er hér. Maríumessu síðari bar — af þeim árum er til greina geta komið — á sunnudag 1549 og 1555; mun ártalið vera 1555. 2) Svo

58. 8. september 1555. á Stað í Hrútafirði.

Festingarbréf síra Þorláks Hallgrímssonar og Helgu Jónsdóttur.

AM. fasc. LIII, 22, frumrit á skinni „fra Magnuse Biörnssyne á Storaholi". Tvö fyrstu innsiglin (af 3) eru dottin frá. — AM. Apogr. 4610.

Festingarbref Sira Þollaks Hallgrimssonar og Helgu Jonsdotter[1]).

Eg Olafur Hialltason ouerdugur [fyrir gűdi[2]) superintendens Hola hiskupsdæmis giori godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi at arum eptir gudz burd ꝏ d. l og v j minne visitatiu a Stad j Hrutafirdi viij dag septembris manadar epter konglig maiestets bijfalning og skipun oc mijns fatæka kalls og embættis vegna. skipadi ec og tilskylldadi ec þa heidarligu personu sera Þorlak Hallgrimson at giora sijna fullnadar festing og kaup vid þa heidurs fromu dandi kuinno Helgu Jonsdottur so at gűdz ord hefdi ongua hneyking af hans fram̄ferdi og lijferni epter pauadomsins fornum hætti. helldur epter þui sem þa var innsett og skipad af vorum nadugasta herra og kongi j landit oc gudz orda skipun og heilagra gudzspialla. at huer eirn gudz orda þienari skylldi eigingijptur vera. Þui at heilags anda nad til kalladri og at konglig maiestets bodi og minne skipun j þeim sama stad og deigi sem fyrr seiger festi med laugligri lagafestingu epter bok[ar]innar ordum fyrr skrifadur Þorlakur Hallgrimson fyrr nefnda Helgu Jonsdotter sier til logligrar eiginkonu at mier hia veranda. og morgum audrum fromum dandimonnum sem þa voru j minne naueru sem var j þann tijma minn kiæmeistare Jon Sigurdson og Añfinnur Gudmundson, Og til sannenda og fullkomligs vitnisburdar hier vm set ec mitt embættis insigli med fyrr greindra manna innsiglum Jons og Añfins fyrir þetta vitnisburdarbref er giordist j sama stad deigi oc ari sem fẏr seigir.

---

1) Utan á bréfinu með samtíða hendi. 2) [er innan sviga, svo að vera má, að til hafi verið ætlazt, að þessi orð skyldu falla burt.

**59. 16. september 1555. í Holti.**

Kaupbréf fyrir 30 hundr. í jörðunni Felli í Fellshverfi.

AM. Apogr. 4614 „Ex orig. Hlidarend. ordriett, eigi stafriett". „innsiglin eru burtu".

Þat giaurum wer Snorre prestur Hialmsson. Gisle Jonsson. Oddleifur Bryniolfsson. og Stephan Snorrason. gődum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. þa lidit var fra Gudz burd ꝏ. d. l. og v. ar svnnudaginn næsta epter krossmesso vm haustid[1]) a Hlidarenda ȷ Fliotzhlid. vorum vier ȷ hia saum oc heyrdum æ ord og handaband þessara manna af einne alfu Sira Halldors Thomassonar. eñ af annare alfu Pals bonda Vigfussonar. Þat skildist og faldizt vnder þeirra handabande. at Sira Halldor Thomasson selldi Pale bonda Vigfussyni. xxx^c. ȷ ȷaurdunne Felli er liggur ȷ Fellzhuerfi ȷ Hornafirde ȷ Kalfafellz kirkiusokn. med ollum þeim gaugnum og giædum sem greindri ȷaurdu fylger og fylgt hefer at fornu og nyu bæde til sios og landz til ævenligrar eignar og frials forrædis vndañ Sira Halldore og hans Erfingium. eñ vnder Pal bonda Vigfusson og hanz Erfingia. hier ȷ mőt skylldi ædur nefndur Pall giefa fÿrr skrifudum Sira Halldore xv^c og xx. ȷ godum peningum. Skyllde þat vera fyrst xx malnytu kvgillde.

ij naut gaumul ȷ iiij^c.
ix sauder gamler ȷ ij^c.
Godur hestur ȷ ij^c.
Tuau hundrud ȷ smiore.
viij sauder tuævetrer j^c.
xij sauder veturgamler j hundrat.
þrievett naut at audru hauste ȷ hundrat.
hundrat ȷ vadmǻlum. og eitt hundrat ȷ kauplum.

Skyllde opt nefndur Sira Halldor suara lagariptingum a greindri ȷaurdu. eñ þrǻtt skrifadur Pall bonde hallda henni til laga.

Saumuleidis heyrdum vier upp a at Sira Halldor lofade at suara lagariptingum ǻ ȷaurdunne Melrackanese. sem Pall

1) þ. e. 15. sept.

heitinn Thomasson gaf Gudrunu Vigfusdottur. systur Pals Bonda. a þeirra brullaupsdegi. huers säl Gud näde.

Og til sannenda hier vm festum vier fyr nefnder menn vor ȷnnsigle fyrer þetta kaupbriet. Skrifad ȷ Hollte vnder Eyiafiaullum a sama are. degi sidar eñ fyrr seiger.

---

## 60. 16. september 1555. í Kaupmannahöfn.

Kvittun konungsféhirzlu til Knúts hirðstjóra Steinssonar fyrir afgjöldum af Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Register paa alle Landene 6, 602v. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to. — Uppskrift Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni.

Knud Stiensenn fick quitantz paa ett tusind daller oc Ivij lod sölff. som hand anttuordett ind wdi konglige Maiestets egett kammer. oc hand paa konglige Maiestets wegne hagde opeborett paa Island.

Datum Kiöpnehaffn then 16 dag Septembris Aar etc. mdlv.

---

## 61. 16. september 1555. í Kaupmannahöfn.

Kvittun til sama manns fyrir refaskinnum í afgjöld af Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Register paa alle Landene 6, 602v. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to. — Uppskrift Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni.

Jdem Knud Stienssen

Fick quitantz paa ett Hundrede oc tuo Iislandz Reffueskind. som hand anttuordet ind wdj konglige Maiestets skredderkamer her paa slottett. Oc hand paa konglige Maiestets wegne hagde opeboritt paa Jsland.

Datum vt supra.

---

**62.** **7. október 1555.** **í Finnstungu.**

Áreið á landamerki í millum Finnstungu og Blöndudalshóla.

AM. Apogr. 4276 m. h. Jóns Magnússonar „Ex transscripto“ á kálfskinn 28. apríl 1640.

Þat gerum vær Brandur Arnoddzson. Berdþőr Ionsson. Jngemundur Þorsteinsson. Hrafn Ionsson. Jon Sigurdsson og Biorn Sigurdsson. gödum monnum viturligt med þessu voru brefe. ath vær vorum til nefnder af Arngrime Solvasine ad rijda a landamerke millum Finnztungu og Blondudalshola. þvi at hann sagdist stefndur hafa verid af Sira Kar Jonssyne er þa hiellt stadinn i Holum og leizt oss nedan fra Blondu oc vpp a fiall. ei onnur landamerke skilvijsari. eñ gardur sa sem er fyrir sunnan Grundarlæk. og ei fyrnefndur sira Kăr synde oss ne þeir prestar med honum ridu onnur landamerke eñ þesse skialligri. epter þeim gognum oc vitnum sem fyrnefndur Arngrimur let þar lesa fyrir oss. oc til sanninda hier vm setium vær fÿrrnefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta Bref. skrifat i Finnstungu i Blondudal manadaginn næstañ fyrir Calixtus messo Anno Domini ϖ°. D°. l°. qvinto.

---

**63.** **8. október 1555.** **á Hvanneyri.**

Kaupbréf fyrir Krossholti i Kolbeinsstaðahreppi.

AM. Apogr. 4604 „Ex Transscripto orig. Brefed feck eg hia Sira Jone Halldorssyne i Hitardal. 1707“. (AM.).

Þad giorum uer Þorolfur Eijolfsson. Jon Helgason. Gudmundur Erlendsson. Þordur Gudmundzson. Olafur Oddzson og Eirekur Sigurdzson. godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ărum epter gudz burd ϖ: d: l: og v: är. ă manadægınn næstañ[1]) epter Francis[c]usmessu j Þijngnese j Bæiarsueit. uorum uier j hia. saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna. af eirne alfu herra Erleñdz Þoruardzsonar[2]). eñ annare Bergsueijnz Runolfssonar. at suo fyrer skildu. at fyrrgreindur Bergsueinn handsaladi adur-

1) þ. e. 7. okt. 2) Þorualldzsonar(!), stóð hér í transskriptinu.

greijndum herra Erlende jordina alla Krossholit. er liggur j Kolbeinstadahrepp. mȩd ollum þeim gognum og giædum sem greindri jordu fÿlger. og fÿlgt hafde at fornu og nÿu. og hann hafde fremst eigande at ordit. undan sier og sijnum erfingium eñ under fyrrgreindañ herra Erlend og hanz erfingia til æfinligrar eignar og friálz forrædiz. Jtem j sama handabande medkendist ádurskrifadur Bergsueijnn. at hann hefde fulla peninga upp borid fÿrer greijnda Krossholit. sem honum vel lïkade og anægde. þui gaf hann nefndañ herra Erlend Þoruardzson olldungiz kvijttañ og akiærulausañ fyrer sier og sinum erfingium og epterkomendum um þetta jardarverd. Og til sanninda hier um̄ festum uier uor ȷnsigle fyrer þetta vitnizburdarbref. huort skrifat var á Huanneyre j Borgarfijrde. á sama ære. deigie sijdar eñ fyrr seiger.

Þad medkennum uid Jon Bersteinzson og Jon Halldorsson. at vid hofum sied og ÿferlesid so latandi gamallt lasid bref. ord fyrir ord. sem hier fyrer ofan skrifat stendur. Og til sanninda hier um̄ setium vid ockar ȷnnsigle hier fÿrer uedan þetta ockart vitnizburdarbref. huort skrifat var i Herzeÿ þann. 7. dag Januarii Anno 1629.

---

**64. 11. október 1555. í Kaupmannahöfn.**

Konungr úrskurðar gild bréf Árna Gíslasonar og erfingja Þorleifs hirðstjóra Björnssonar um hjúskap Þorleifs, og hafði alþingisdómr 30. júní 1554 lagt það mál á vald konungs (sbr. Dipl. Isl. XII nr. 465).

AM. Apogr. 1080 m h. Þórðar Þórðarsonar. „Þennan konglega Dom hefe eg haft til lans fra Sæmundi Magnussyne á Hole i Bolungarvik. Er stor pagina pergamena med konglegu innsigle under hangande cujus inscriptio: *Christianus. d. g. Danie et Norwegie et cetera Rex.* grandibus literis. Ofan yfir cronunne (sem er ofan á insignibus) stendr þeita ärstal *1538*" (AM.). Árni lýsir innsiglinu og bréfinu nokkuru nánara. „Efst utan á brefenu stendr med Cancellie hende *Arild Gisselssen.* Eingar adrar Cancellie notæ þar á" (AM.). — Þetta er þá ígildi frumbréfsins sjálfs, en ágrip og uppkast er hér að framan (nr. 48); er kynlegt, að muna skuli svo dagsetningum.

Vij Christian then tredie. mett Güds naade. Danmarckis

Norgis. Wendis och Gottis koning. Hertug wdj Slesuigh. Hollstenn. Stormarn oc Dyttmersken. Greffue wdj Oldenborg oc Dellmenhorst. Giöre alle witterligtt att thenne breffuisere Arild Gisellsen wor wndersaate paa wortt land Jsland. haffuer paa sijnn egne oc Thorloff Biörnsens arffuingis wegne. berett for oss hvorledis att for nogen aar siden forleden. Tha er forne Torloff Biörnsen oc Engulde Hellgesdatter komen wdj Echteskaff samen. Och epther tij the hörde for ner samen paa slegtt oc biurdz wegne. Tha bleff ther paa tald och sidenn bleff thett tilladett aff paffuenn och thisligiste aff Högborne Första Koning Christiern̄ vor kiere Herre faderfader. att forne Thorloff Biörnsen oc Engulde motte bliffue samen wdj Echteskaff. och theris börnn oc affkome att were echte. Thernest haffuer Hogborne Förste Koning Hanns wor kiere Herre faderbroder wdi lige maade stadfest same echteskaff wed fulle magtt att bliffue. hvilcke Paffuebreffue sameledis koningebreffue forne Arild Gisellsen her for oss wdi Rette lagde. Och beclagett forne Arild Gisellsenn att wdj högborne Förstis koning Fredericks wor kiere Herre fader (högloffflig jhukomelses) Regierendis tijd wor ther enn laugmand paa forne wortt land Jsland mett naffn Joenn Sigmundsenn och hand for nogen wild skyld tiltog seg thenn sag oc dömpthe Emellom forne Biörn Torloffsen oc Bierne Gudnisenn. och sidenn mett wrang wnderuisning. er hogmelte koning Fredericks stadfestelse forhueruitt paa same dom. Och haffuer forne Arild Gisellsenn beuist for oss mett ett Her Staffens fordom Biscop wdj Schalholltt stigtt paa Jslandz breff atth forne Joenn Sigmundsen bestaae wed hans eed oc hans Gudz sandhed. att hand hagde wdj thenn sag domptt wrett oc emod Jslandz loug. mett mange andre fljere breffue som biscopper oc andre paa thenn sag wdgiffne oc tagne ere. Och forne Arild Gissellsenn for oss j Rette laugde. Thaa efftertij forne Arild Gisellsen haffuer beuist for oss mett enn dom som er dömptt paa Alting paa Jsland. aar effter Gudz biurd M. D. L. iiij thenn lögerdag nesth efftter Sanctorum Petri et Pauli apostolorum dag att thenn sag er indsatt for oss att döme paa thett neste aar oc begge partene att möde for oss oc suore ther till. Och forne Arild Gisselssenn haffuer weritt

her for oss oc bødett seg wdj alle Rette. Och ingenn er komen att suore hanom wdj thenn sag. Och thett findis epther forne Joen Signiundsens egenn beckiendilse. att hogmelte koning Fredericks stadfestelse er forhuervitt paa en wrettferdige dom. bør forne Arild Gisellseun oc Thorloff Biørnsens arffuinges breffue. wed thieris fulle magtt att bliffue. Thill saa lenge Arild Giselsen oc Thorloff Biørnsens arffuingis wederpartt wdj thenn sag wille were wdi rette. oc the bliffue louglig kallett oc tha gaa wider ther om saa møgett som rett er. Giffuett paa wortt Slott Kiøpnehaffnn fredagen nest epther Sancti Dionisii dag. Aar et cetera M D L V. Wnder wort Signet.

Christian.

---

**65. 14. október 1555. í Saurbæ.**

Jarðaskiptabréf, og eru 13 hundr. í jörðunni Trostansfirði lögð við 13 hundr. í Hvammi á Barðaströnd.

AM. Apogr. 1291, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar“. — Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Barðastrandarsýsla 15, uppskrift vitnuð að Hóli í Bíldudal 27. júní 1703, en undirskriftir vantar.

Þat giorum vid Magnus prestur Eyiolfsson og Gudmundur Jonson Godum monnum kunigtt med þessu ockru oppnu brefi ad ærum epter Gudz burd m°. d°. l og v. ar á laugardæginn næsta[1]) epter Mikalsmesso vm̄ haustid j Saurbæ á Raudasandi vorum vid j hia saum og heyrdum á ord og handaband þessara manna[2]) af eirne alfu Eggertt Hannesson En af anare alfu Ormur Ellingsson. en þad faldist og skildist vnder þeirra handabande ad greindur Eggert selldi fyrrnefndum Orme xiij$^{c}$ j jordune Trostansfirdi er liggur j Otradals kirkiusokn. Eñ hier i mote gaf adurnefndur Ormur Ellingsson fyrr skrifudum̄ Eggertt Hanessyni xiij$^{c}$ j jordune Huamme er liggur á Bardastrond j Briamslæk[i]ar kirkiu sokn. selldi huor audrum þessa fyrrskrifada jardarparta vndan sier og sinum erfing[i]um. Eñ skildu vnder sig og sina erfing[i]a þad sem huor þeirra þa keyppte ad audrum med

1) þ. e. 5. okt. 2) Jbsk., mina (!) Apogr.

aullum þeim gognum og giædum sem fyrr greindum jardarportum fylger og fylgtt hefr ad fornu og nyu bædi til sios og landz til þeirra vstu[1]) vm̄merkia er adrer menn meiga eiga þar j audrum nærligg[i]andi jordum. Suo og handlagdi huor fyrir sig þessara fyrr greindra manna þad fie til eignar sem finnast kynne j fyrrskrifudum jardarporttum huortt helldr þad fyndist j jordu edur á og ecki fyndist eigandi at. Skylldu þeir hallda sinu kaupe til laga En̄ huor þeirra skylldi suara lagaripptingum En̄ huad ofskilid edur vanskilid være j þessum þeirra kaupskap þa skildu þeir þad vnder riett log. Og til sanninda hier um̄ þa festum̄ vid fyrrnefnder menn ockur jnnsigle fyrir þetta kaupbreff huortt ed skrifad var i sama stad manudæginn fyrstan j vetre á sama áre sem fyrr seiger.

---

## 66 10. nóvember 1555. í Hvammi.

Kaupbréf fyrir hálfum Brjánslæk á Barðaströnd.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Barðastrandarsýsla 2. Staðfest uppskrift á Geirröðareyri 17. apr. 1704 af Guðmundi Þorleifssyni, síra Jóni Jónssyni og Birni Jónssyni.

Ihesus.

Þad giorum vær Biorn Biarnason. Jōn Ellingsson. Gudmundur Jönsson. godum monnum kunnugt med þessu uoru opnu brefi arum effter gudz burd ꝏ. D. l. og v är sunnudæginn næstan̄ firir Marteinsmessu um veturinn þä uorum vær j hiä j Huanme j Kiős. säum og heirdum ä ord. og handaband þessara manna. af einnre älfu Eggertt Hannesson logmann sunnan̄ og austan̄ ä Jslande. en̄ af annare älfu Solueig. husfreia Biarna Dőtter. en̄ þad falldist og skilldist under þessu þeirra handabande. ad ädurgreind Solveig selldi greindum̄ Eggert. til fullrar og allrar ævenleg[r]ar eignar. hälfan gardinn Briämslæk ä Bardaströnd undan̄ sier og sijnum erfingium. en̄ under adurnefndan Eggert og hanz erfingia. med ollum þeim gögnum og giædum sem firrgreindum̄ hälfum garde filger. [og] filgt hefur ad fornu og niju. bæde til

---

1) Svo.

siös og landz. og hun hefur fremst eigandi ad ordid. effter sinn faudur Biarna heitinn Andresson. huorz säl ad gud näde. sömuleidis þǘ medkiendist greind Solueig þar þä. og lijste þvi fyrir oss. ad hun hefdi fulla og alla peninga upp borid. af tijttnefndum Eggert sem sier uel änægde fyrer firgreindañ hälfañ Briamslæk. og gaf ädurgreind Solveig husfreia Biarnadöttir firrgreindañ Eggert Hannesson. og hanz erfing[i]a. med fullum og öllum viliañlegum̄ handsolum̄ ölldungis qvijttañ og äkiærulausañ. um̄ firrskrifad jardar verd fyrir sier og sijnum erfingium og effterkomendum. kinne og svo ad skiead dömkirkiunnar formenn. kinne ad klaga uppa firrskrifadañ hälfañ gard. Briämzlæk. þä lofadi Eggert þad ad leisa. suo þad kiæme eckj uppa Solveigu. edur hennar erfingia. þo med soddan fororde og skilmäla. ef greindur hälfur gardur. Briämzlækur. kinne af Eggert edur hanz erfingium̄ ad ganga. þä skilldi ofttnefnd Solueig Biarnadötter og hennar erfingiar. afttur greida Eggert og hanz erfingium adra fastaeign iafngőda eg þar med allt annad sem hann hefde uppa firrgreindañ gard kostad. og þvi jätadi Solveig fyrir sig og sijna erfingia og til Meire audsijningar stadfestu og sannz vitne[s]burdar hier um̄. þä festum uær firrskrifader menn uor jncigle fyrir þetta kaupbref. huort ed skrifad uar j Nese ä Seltiarnarnese ä sama äre. iij dögum̄ seirna eñ firr seiger. Og hier ofan ä effter þennañ giorning sem þetta brief jñe helldur. þä jök eg Eggert Hannesson þui uid Solveigu. ad eg hiellt brullaup tueggia hennar dætra ad hennar bön etc.

---

## 67. **10. december 1555.** **á Bustarfelli.**

Festingarbréf síra Finnboga Tómassonar og Þórunnar Þórðardóttur.

AM. Apogr. 4617. m. h. Árna Magnússonar „Ex originali Arna Hannessonar yngra. 2 innsigle hanga vid brefed“.

Þat giorum uid Biarne Jonsson og Þorarin Jonsson Godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi at wid vorum þar i hia. saum og heyrdum ǘ. a Hofi i Uopnafirdi. med ollu odru heimafolki þar. ath Sira Finbogi Tumason

festi Þorunni Þordardottur. med hennar jayrdi og godañ vilia. halldañdi j hennar hauñd. talandi þessum ordum. Eg Finbogi Tumason festi þig Þorun Þordardotter mier til eiginkono epter gudz lögum og heilagra fedra setningi. og ertu min loglig eiginkona hiedan af. Og til sanneñda hier vm setium vid ockur inscigli fyrir þetta festingarbref huort skrifat war æ Bustarfelli tiunda dag decem̃bris manadar. anno salutil ꝏ. d. L. og v.

---

68. 24. december 1555. á Stað.

Lögmannsúrskurðr um, að Páli bónda Grímssyni séu aftrkræfar jarðir þær, er hann hafði fengið Ara lögmanni Jónssyni fyrir Strjúg og Refsstaði.

AM. 198, 4to., bl. 21—2, safn frá Jóni lögmanni Jónssyni, skr. ca. 1600.

Wrskurdur Oddz logmannz.

Eg Oddur Gottskalksson logmann nordañ og westañ ä Islandi giore godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi ad þä ed lidit var fra gudz burd 1555[1]) ár þridiudagin næstañ[2]) fyrer Magnus messo vm veturinn heim ä Stad j Reyninesi. kom fyrir mic einn heidarligur mann Pall bondi Grimsson beiddi og krafdi laga alitz huertt afl edur magt hafa skylldi sä domur sem dæmdur war j Bolstadahlijd j Hunavatnz þingi og ec sialfur ut nefndi jnsigladi og samþyckti og j hia mier er upp skrifadur. og j huerium domj ad suo stendur ad bondinn Pall mege ad sier taka þær sijnar odalz jarder aptur sem hann hafdi gefit Ara heitnum Jonssyni fyrir jardirnar Striug og Refstadi huer domur mier virdist j allañ mata myndugur og skiælligur med ollum sinum greinum og articulis sem hann jnne helldur. þuiat eg hefi hann godum monnum hia verandi jnnvirdiliga trakterad og ifer skodat og rannsakad. þuj j gudz nafne amen med godra manna vitordi og epter sama doms hlydelse. suo vrskurda eg Oddr logmann med fullum laga vrskurdi. bondanum Pali

1) 155o5, handr. 2) þ. e. 10. dec.

Grimssyni þær somu sijnar odalz jarder aptur sem hann hefur gefid fyrir adur greindar jarder Striug og Refstadi og hann vill med sinum eidi san[n]a og ij skiluijsir menn medur honum ad fyrir þær hinar somu jarder hafa komit. og hann og riettiliga mega þä sina faudr[1]) leifd ad sier taca hafa og hallda byggia og bæla og hanz eigñ hiedañ j fra obrigdanliga vera og til meire vissu og stadfestu hier vm̃ og þad ad einginn madur megi þennañ minn vrskurd riufa nema vors[1]) nadugasta[1]) herra kongurinn siae annad sannara þä set eg mitt jnsigli fyrir þetta vrskurdar bref huert ed skrifad war a Stad jñ vigilia natiuitatis Christj ä sama are og fyrr seiger.

---

69. **1555. á Lokinhömrum.**
**17. apríl 1558. í Hvammi.**

Samningr Björns Hannessonar og Jóns Nikulássonar um skipatöku Jóns fyrir Birni.

AM. Apogr. 4616 „Ex originali. Jnnsigli Halldórs Einarssonar hanger vid brefed. Jons Jonssonar hefr þar alldri fyrer komid“ (AM.).

Suo felldañ uitnisburd berum vid Halldor Einarsson og Jon Jonsson. ad arum epter gudz burd m. d. l. v. j Lokinhomrum j Arnarfirdi. vorum vid stadder j hia og heyrdum a vidtal þessara manna af einne alfu Biorns Haunessonar. eñ annare alfu Jons Nikulassonar. og Helgu Jonsdottur. taulludust þessir adurgreinder menn vid um þad skip sem Jon Nikulasson hafdi j burt or Trostramsfirdi og Birne Hannessyne til heyrdi. epter hans bon og beidslu. huert skip ad brotnadi j Lokinhomrum. j vardueitslu Jons Nikulassonar. Heyrdu vid og. ad þessir fyrrgreinder menn Jon og Helga budu adurgreindum Birni Hannessyni annad skip j stadinn. eñ fyrgreindur Biorn afsagdi ollungis nockurt skip af þeim at hafa. eda nockura adra uerdaura. helldur hafdi tijttnefndur Biorn handsol vid fyrgreinda menn Jon og Helgu. og gaf þau[1]) kuitta[1]) og åkiærulausa[1]) fyrir sier og sinum erfingium um̃ fyrgreint skip og þad skylldi þar epter alldri upp a tal-

1) Svo.

ad verda. Og j sama handabandi lofadi tijttnefndur Jon Nikulasson Birne Hannessyne. ad vera honum til gagns og greida. Suo og lofadi tijttnefndur Biorn Hannesson ad vera Jone til allz godz og styrkingar. Hier epter vilium vid sueria ef þurfa þiker.

Og til sanninda hier um festum uid fyrrgreinder menn ockar jnnsigli fyrir þetta vitnisburdarbref huert ad skrifad var j Huamme i Dyrafirde Sunnodagin Qvasi modo geniti. arum epter gudz burd m. d. l. viij.

---

**70.** **1555.** **í Ási.**
**6. september 1557.** **í Reykjahlíð.**

Ólafr byskup Hjaltason fær Nikulási bónda Þorsteinssyni kirkjuhlutann í Reykjahlíð, 30 hundruð.

Máldagabók Ólafs byskups Hjaltasonar í þjóðskjalasafni bls. 46, m. h. síra Sigurðar. — AM. Apogr. 41.

Anno 1569 sendi Nichulas bondi mier Sigurdi presti Jonssyni vm haustid til Greniadarstada med sera Erlendi so latandi insiglad bref sem hier epter skrifad stendur.

Eg Olafur Hialltason vnder gudz oþlinmædi biskup a Holum og superintendens Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi aat[1]) arum epter gudz burd 1555 kom fyrir oss i Asi i Kiellduhuerfi heidarligur mann Nichulas bondi Þorsteinsson oc sagdi at kirkia j Reykiahlijd ætti xxx^c j heimalandi epter gomlum pauasetningi og biskupanna og þeirra statutum. en hefdi aungua frida peninga fyrir biskupi eda presti standandi. og þad hennar rietta heimanfylgi[a] ætti at vera. en af þui at vier lesum j heilogum ritninguni. at kirk[i]ur hafa alldri att fotmal j landareign eda meire audæfi en huer kiennimadur oc biskupinn skylldi vel meiga af halldast meir en iij^c og xv ar epter postulanna tijd. en at onduerdu hier a landi lietu bændur giora gudi kirk[i]ur med einfalldri heimanfylgiu henne og kiennimonnum til vpphelldis so þad skylldi huorcki

1) Svo

þuerra nie minka. oc kirkian skylldi af sijnum tiundum vpphelldi hafa. en þad hefur snuist vpp j rietta simoniam. agirnd og metnad ollum gudz kristnum til fordiorfunar. en þeirra afkuæmi til eilıjfrar fordiorfungar. draps oc dauda med husgangsferdum og hungre at biskupar hafa latid dæma fallnar þeirra odalsiarder eda þær ath panta moti logbokarinnar ordum. og hafa þar med audgad sig oc domkirkiunar med[1]) oheyreligri fiarglupnan. hefur so su goda giof godra manna til gudz þionustu snuist vpp j hatur oc akiefd. j moti Noregs konga sattmála og samþyckis almuga hier a landi vid kiennivaldid. huer at so er hliodandi at huer madur lieti[2]) kirkiur giora med radi biskups til soknar. skylldi hann leggia henni sæmiliga heimanfylgiu. eins prestz skylldu x malnýtu kugilldi. x gielldfiar hundrud oc v^c^ þar til ef diakns skyllda væri. med tueggia presta skylldum xx kugilldi. oc xx^c^ j godum þarfligum peningum. og þar til v^c^ fyrir diakna þar sem þad væri amalgad. oc þesser peningar skylldu standa iafnliga fyrir kiennimonnum oc biskupi þa hann ridi sıjna visitationem eda onnur kirkiunnar erendi naudsynlig. so at þetta skylldi huorcki þuerra ne minka. oc eigi helldur vrelldast. en sialf kirkian af tiundunum vppeflast og eingin framar meire reikningskapur skylldi þar at giorast en ef kirkian af fielli þa skylldi hana eigi med meire kostnadi vpp giora en hun var med fyrsta og so hafum peningum sem tiund hafdi til fallit af nanustu frændum eda erfingium. oc so micler frider peningar ef elldist[3]) skylldo aptur leggiast sem fyrr greiner. Nu af þvi slikt finnst med sannleika verid hafa af kongunum skipad og sett. en hier j landino samþyckt. giore ec þa linkin[d] A. satt oc sama vid adur greindan heidarligan mann Nichulas bonda Þorsteinsson at hann skylldi giallda kirkiunne j Reýkiahlijd x malnýtu kugilldi. huer ed æfinliga standi fyrir biskupi og presti. hier til gallt hann kirkiunne j Reykiahlıjd fyrir gamlan̄ reikningskap og heimagardinn sem pantadur hafdi verid kirkiunne eina messobok med kalfskinn sem virt var fyrir vj^c^. þar til huijtan hokul med damask. og gullbordum fyrir oc A bak. virtur fyrir vj^c^.

1) oc, frumritið. 2) lietu, frumritið. 3) Svo.

þar til ij historiubækur fra paskum til aduentu de tempore badar fyrer jc. Coruini postillu j islendsko og nounm testamentum i islendsku fyrir jc. Jtem v aura kalek fyrir iijc. ij iupumdali fyrer huert hundrad. og þar til lietum vier meta vj skynsama menn þa boot oc betran. er hann hafdi latid giora A greindri Hlijdar kirkiu med vegg og vidum oc þui þili er hann lofadi at lata giora j framkirkiuna. skylldi þad allt vera vijc. var þetta allt greitt oc golldid j hinni sijdari visitatio minne sem fyrr greinir oc hofum þetta sialfer ẏferskodad med dandi manna radi. Þui giorum vier oc giefum greindan Nichulas bonda Þorsteinsson frij. kuittan oc frialsañ vm allan reikningskap greindrar Reẏkiahlijdar kirkiu fornan oc nyan og hann frialsliga mega at sier taca þann xxx hundrada part j heimalandino Reẏkiahlijd sem ologliga oc ogudliga hefur verid pantad oc vnder kirkiuna sett j moti logbokarinnar ordum oc allra Noregs konga priuilegijs sem so hlioda at einginn madur ma odalsiordu sine fyrirgiora et cetera. Hier j mot hefur Nichulas bondi lofad oss at hann skylldi vera oss og vorum varnadi til stẏrcks og godra heillra oc hollra rada A medan vid til lifum badir og sliku hofum vier lofad honum j moti og hanz varnadi. Og til sannenda hier vm setium vier vort insigli fyrir þetta brief huert ed skrifad var j Reykiahlijd vid Mẏvathn 6 dag septembris manadar. Anno domini 1557.

Fastaeign hundrad hundrada og lxxc. lausafie lxxc. prestz tiund af þessu xiij aurar.

---

## 71. 1555.

Reikningsgrein kirkju a Hálsi í Hnjóskadal.

Máldagabók Ólafs byskups Hjaltasonar í þjóðskjalasafni, bls. 21. — AM. Apogr. 16 (JGrv. „11") „med hendi Hr. Olafs", segir Árni Magnússon.

Anno 1555 giordi sira Teitur reikningskap a Halsi at fallid hafdi vm iiij Aar med þeim ij sem hann atti at suara fyrir brodur sinn S[ira] Jon c og iiij aurar. vard kirk[i]an

honum þa skylldug vm ij[c]. eñ boot a stadnum skylldi fallazt ȷ fadma og x[a] pars. huerssu leingi sem hann hielldi stadin.

---

72. 1555.

MÁLDAGI Skinnastaðakirkju.

Máldagabók Ólafs byskups Hjaltasonar i þjóðskjalasafni, bls. 24. — AM. Apogr. 21 (JGrv. „17"); „med hendi Hr. Olafs H[iallta]-s[onar]" (AM.).

Anno 1555.

Kirk[i]an a Skinnastodum ij presta skylld.

Þetta innan kirk[i]u. messoklæde þrenn alfær og silkehokull gamall. sloppur og kapa. kalekur brakadur.

Þetta i bokum. ij grallarar. annar lasin. sequentiobok. Peturs saga. psaltare. sermonsbok. orda god. iij historiubækur. messubok a vetur. iiij lesbækur. ıx bokaskrædur. handbok. vondur kyriall. eiñ bok med pistlum. gudzspiollum og oratium. ij pascabækur. ein lesmessobok. eiñ klucka og ij smærre. altare med sinum vmbunade. munlaug og vathzkall. bagsturȷarn. steint tialld. hialmur brakadur. [aklæde og likakrakur[1]).

Þetta i kuikfe. vij kugillde og ij ær. x aurar i gelldfee. xv aura hestur.

fallit i portio vm ij aar xı aurar.

---

73. 1555.

BYGGINGARBRÉF fyrir Stafni.

Syrpa sira Gottskálks Jónssonar i Glaumbæ, Add. British Museum 11, 242 (FM. 206), bl. 28v. Blaðið skemmt.

ɱ. d. l. v.

[Bygt] Asgrime Stafn firir malnytukugilldí. iij daga slatt. xvj alner vadmalz. xx. . . . . . . . . . vj lomb at hausti kola . . . . [suara ollum] tiundum firir jord[ina].

---

1) [kemr á eftir „xv aura hestur"; aklæde, undirstrikað.

74. 21. janúar 1556. á Gilá.
12. júlí 1556. á Hólum.

Eiðr síra Snjólfs Jónssonar um Núp stóra (fremra) í Núpsdal.

AM. fasc. LXXII, 9b, frumrit á skinni, frá Sæmundi Magnússyni á Hóli í Bolungavík, læst með innsigli byskups við dóminn. — AM. Apogr 1008. — Gömul uppskrift í ÍB. 309, 8vo., bl. 148, Öxnafellsbók, m. h. Ara Magnússonar í Ögri ca. 1600—20.

Eg Olafur Hialltason vnder Gvdz þolinmæde biskup a Holum og superiutendens Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe ad arum epter Gudz burd. ꝏ. d. l. vi ꝏ. storu Gilæ. ȷ almenneligum fundi xx. og fyrsta dag Januarij: tok eg so latanda eid af sera Sniolfe Jonssyne og honum var dæmdur med ij. skiluisum monnum a næsta fyrir faranda alþinge af. iij. dandiprestum og iij logriettumonnum sem hier epter stendur skrifadur.

Til þess legg eg Sniolfur prestur Jonsson hond a helga bok og so skyt eg minu male til Gudz ath eg hafda huorke vitzmune ne menning til at brigda iordina stora Gnup ȷ Gnupsdal. hueria eg seige mina rietta eign vera og alldre hefe eg þessa iord huorki halfa. ne heila. sellt edr feingit neinum Holadomkirkiu biskupe til eignar edur vnder domkirkiuna lofat nema fyrir beneficium Tiorn. og aungua peninga fyrir hana vpp borid af Holadomkirkiu formonnum. Og at so stofudum eide sie mier Gud hollr sem eg satt seigi. gramr ef ec lyg.

Suoru og sonnudu med honum þennan eid. Þormodr bonde Arason kongs vmbodzmadur ȷ Hunavatzþinge og Gisle bonde Jonsson laugriettumadur.

Og til sanninda hier vm setta eg mitt ȷnsigle fyrir þetta bref. er skrifuat var a Holum ȷ Hialltadal xij dag Julij anno domini. ꝏ. d. l. vj.

---

75. 2. febrúar 1556. á Hofi.
13. mars 1559. á Hólum.

Kaupmáli Hrólfs Bjarnasonar og Ingibjargar Bjarnadóttur.

AM. Apogr. 601, m. h. Árna Magnússonar „Ex orig. membr. excerptum“.

1556. 2. dag Februarii manadar á Hofi á Hofdastrond, á brudkaupsdege Hrolfs Biarna[1])sonar og Jngibiargar Biarna[1])-dottur, taldi Biarne Skulason Hrolfi syni sinum. lxxxc. i iördum, kugilldum og ödrum godum peningum. Hier i mot reiknudu Sigurdur Biarnarson og Þorbergur bondi Bessason fe Jngibiargar Biarna[1])dottur lxc *(er rasurat i brefinu)*[2]) i iördum, kugilldum, og ödrum godum peningum, med þeim xc *(eda* xxc. *þad er og krullat i brefinu)*[2]) sem Helga Sigurdardotter, modursyster hennar, gaf henne. Ur þeim .lxxxc. gaf Hrolfur, med samþycke Biarna Skulasonar, kvinnu sinne Jngibiorgu. xxc. i fiordungsgiof og löggiöf. og epter þad festi Hrolfur Biarnason Jngibiorgu Biarna[1])dottur sier til eiginkonu.

Festingarvottar: Herra Olafur Hialltason Superintendens Hola biskupsdæmis, Jllugi Gudmundsson, Gudmundur Biornsson og Jon Sæmundzson, prestar, Jon Sigurdzson, Grimur Einarsson og Kåre Þordarson leikmenn.

Kaupmalabrefid er skrifad á Holum i Hialltadal. 13. dag Martii manadar. iii. arum sidar eñ fyr seiger.

---

## 76. 10. febrúar 1556. í Kaupmannahöfn.

Konungr býðr [Lýbiku]kaupmönnum að selja á Íslandi hreina vöru, að viðlagðri upptekt vörunnar ella og hegningu, enda kveðst hann þess vís orðinn, að þeir seli á Íslandi mjög mikið af svikinni og ónýtri vöru og þó við háu verði.

Ríkisskjalasafnið í Lýbiku, ráðsskjöl, „Miscellanea des Kontors zu Bergen“, V, uppskrift frá Dr. Georg Fink, skjalaverði þar.

Christian der dritt von gots gnaden zu Dennemarcken. Norwegen. der Wendenn unnd Gottenn konig. hertzog zu Schlesewig. Holstein. Stormarn unnd der Ditmarschen. grave zu Oldenburg unnd Delmenhorst.

1) fyrst skrifað: „Biarnar“, en síðan strikað í seinna *r*-ið. 2) Þetta í milli sviga er athugasemd Árna Magnússonar sjálfs.

Unnsern gnedigstenn grus zuvorn. Ersamen lieben besonndern. wir kennen euch gnedigst nicht unangezeigt lassen. das unnser vogtt. so wir uf Islanndt vorordent. unns bericht. wie ewer burger unnd kauffleutt. als gemelt unnser lanndtt ersuchenn. sehr vil falscher unnd untuchtiger wahre dahin verfurenn unnd denn armen leuthenn unnsern underthonen doselbst dieselbe gleichwol inn hohern werdtt. als wann es rechtschaffene gutte wahr were. ufhengenn. zudem auch falsche masse gebrauchenn. unangesehen das sie dargegen gutten fisch unnd anders erlangen. domit den unnser arme underthone doselbst mercklich verforteilt unnd ihne zu schadenn gehanndelt. das dann sich in ufrichtigenn kauffhendelln mit nichte geburtt. Unnd will unns auch unnser underthanen halbenn nicht zu geduldenn sein.

Wiewoll wir nun wustenn. was uf solche handlunge. die mit verfelschter wahr gebraucht. geburtt. hetten auch aller pilligkeit nach wol fuge. die jhenigen als dermassenn befunden inn geburende straff zu nehmen unnd die falschen gutter antzuhaltenn. Wir habenn aber aus der gendigen neigunge. domit wir euch gewogen. solchs nicht fürnehmen lassen wollen. ehe wir euch bevor davon bericht hettenn. unnd begern demnach gnedigst gesynnende. ir willet euern burgern und kauffleuttenn. so unnser lanndt Islandt aus unnser gnedigsten zulassung besigeln. anzeigenn unnd verwahrnen. das sie gutte unnd unverfelschte wahr furen. auch rechte bestendige masse gebrauchenn unnd mit unnsern armen unnderthanen ufrichtig handelln. Wurde solchs annderst befundenn unnd einer mit falscher wahr unnd masse betroffenn. der soll seins guts verlustig sein und wie ein solcher inn geburende straff genohmen werden. Wiewol wir sonnst. so mitt gutter wahr ufrichtig gehandelt. niemandtz zu beschweren gemeint sein. Werdet dem kauffman solchs fürhaltenn. sich darnach zu richtenn unnd vor schadenn zu huttenn. das wir euch der notturfft nach nicht mugenn unangezeigt lassenn. Sinndt euch als unsern lieben besondern mit gnaden unnd allem gutten geneigt. Datum uf unserm schlos Coppenhagen. den X. Februarii anno etc. LVI.

Christian.

77. 12. mars 1556. á Hólum í Hjaltadal.

Transskriptarbréf.

AM. fasc. III, 3 (nú í þjóðskjalasafni), frumtransskriptið á skinni. Innsigli beggja prestanna eru fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 320.

So felldañ vitnisburd berum vid Illuge Gudmundzson og Jon Kraksson prestar Holabiskupsdæmis ad vid hofum sied og ýferlesit Hola domkirkiu registrum suo gamallt datum ꝏ. ccc. lxx iiij. suo hliodanda ord epter ord sem þad Registrum er hier fyrir ofan stendr skrifad. Og til vissuligs merkis hier vm setium vid ockur jnnsigle fyrir þennañ ockarn vitnisburd. Skrifadr a Holum j Hialltadal in die Gregorij pape anno domini ꝏ D l vı.

---

78. 23. mars 1556. á Stað í Reyninesi.

Lögmannsstefna til Jóns bónda Einarssonar á Espihóli vegna arfstilkalls Halls Magnússonar.

Bibl. Bodl. Oxf. Mss. Bor. (= FM) 55, 4to., bls. 218—20, m. h. Guðbrands prófasts Jónssonar í Vatnsfirði (d. 1690). — Ljósmynd skjalsins er í þjóðskjalasafni.

Bodunar Brief Jons Eijnarsonar og Halls Magnussonar.

Eg Oddur Gottskalksson logmann nordan og vestañ ä Jslande giore godum mönnum kunnugtt med þessu mijnu opnu Brieffue ad arum eptter gudss burd 1556 a manudægin fyrer Anuntiationis Mariæ ä Stad j Reyninese kom fyrer mig Hallur Magnusson og klagade sig ad hann være ologlega halldenn vt af sijnum fodurarfue og modur Bæde j jordum og lausafie. og þad sama hefde giortt sinn fodur Brodur[1]) Eijnar Briniolfsson. huorss säl gud näde. og nu hid sama þa mune giora vilia hauss son Jon Einarsson kastandi og vpp kueikiandi nochrar mægder og meijnbugie milli Magnusar heijtinss Briniolfssonar fodur sijnss og Helgu heijtenar Brandssdottur modur sinnar og seiger fyrer mier ad þesser meinbuger[2]) muni ei ollum vitanleiger vera. og þui Bidur hann mig og schrifar fyrir gudss saker eirnen kong-

1) Svo. 2) mein, hdr.

domsinss og so laganna vegna. ad lata sig ná hier riettum logum á sijnu mali med þui hann þikist bædi vngur og oráddenn til ad standa i storum kiærumálum vid frændur sijna sier elldri menn edur nochud vissuglegtt forsvar vera kunna sier edur sijnum syskinum ad so komnu. eñ saker þess ad eg veit mig skylldugan vera saker riettra laga kongan[n]a og Texta Bokaren[n]ar þar med mijnss eijdss suarss ad stirkia huorn mann til laga og rietta þeim[1]) sem þikiast þurfandi vera. þui j gudss nafni Amen og eptter hliodan vorss nadugasta herra kongsinss ordan[2]) og effter hanss sialfss nadar schichañ og tilskipan. þá logboda eg Oddur logmann skipa og skyllda kongdomsinss og laganna vegna jchur Bada Jon B[onda] Einarsson og Hall Magnusson til Vijdivalla[3]) j Skagafiord j Blonduhlijd so ad þid sieud þar komner laugardæginn j annari viku paska nv næst ed kiemur[4]) med Beggia jchar prof og skilrijki og firrsagdar mægder og thilgreijnda meijnbugie huorssu miklar ad vered hafe so þad meigi þar til ransakss koma og skodunar fyrer herra Biskupinum og mier og fyrer þeim odrum dandimonnum sem þar verda til kallader lærdum och leijkum.

Og til sannijnda et cetera.

---

## 79. 28. mars 1556. á Öndverðaeyri.

Síra Jón Halldórsson fær Helgu Þórðardóttur, festarkonu sinni, hálft Döguröarnes á Skarðsströnd í mála sinn.

Jarðabókarskjöl AM., Dalasýsla 10 (nú í þjóðskjalasafni). „Fra Skardi á Skardsströnd“ (AM.).

Brief firer Daguerdarnese 1556[5]).

Þad giori eg Jon prestur Halldorsson godum monnum kunnugt med þessu mijnu opnu brefe at ek medkennunst. at ec hefi feingit Helgu Þordardottur festarkonu minni i sinn mäla halft Dogurdarnes. sem liggur i Skar[d]s kirkiusokn. med øllum þeim gôgnum oc giædum. sem greindri jordu

---

1) Svo. 2) Sýnist vera svo. 3) *leiðr.*; Vijdimyrar hdr. 4) þ. e. 18. apr. 5) Aftan á bréfinu.

filger oc filgt hefur at fornu oc niju. og ec hefur fremst eigandi at ordit. at tilteknum Sledmeidar Asum. sem mier hefur at lôgum giordir verit. bædi kongs og kirkiu og brief þar um gior vtvisa. þar til v kugilldi. skil ec þessa penijnga under ockarn lôglegañ erfijngia Herdijsi Jonzdottur oc hennar sono skilfeingna. ef hun er eckj til. epter þvi sem Gudlegur texte laganna utvijsar. oc til sanninda hier um feste ec firr nefndur Jön prestur Halldorsson mitt insigli fyrir þetta bref. sem skrifat var a Øndverdareyri i Eyrarsueit. laugardaginn fyrir palm[a]sunnudag um vorit. Aarum epter Guds burd. ꝏ. D. L og vj. Aar. Eñ giordur þeze giôrdnijngur vj Aarum fyrr eñ bref innsiglad var. um skrifat sem marger menn vita. sem opid brief Peturs Eynarssonar vottar. etcetera.

Þetta ofañ skrifad er Riett copierad effter kalfsskinns brefe med vidhangandi ȷnnsigli. Til vitnis underskrifader Er samañ läsu ad Skardi a Skardsstrônd 19 Maij Anno 1704.

Lydur Magnusson med e h.
Vigfus Jonsson med e h.

---

80. 8. apríl 1556. í Flatey. 8. maí 1556. á Reykjahólum.

Arfleiðslubréf Jóns Björnssonar í Flatey.

AM. fasc. LIV, 1, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum eru 2 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 1204.

Arfleidslu Brief Jons Biornssonar 1556[1]).

Þat giorvm vid Arne Helgasoñ og Jon Gudmundzsoñ godum monnum kunnigtt med þessu ockru opnu brefi. þa er lidit uar fra hingatburde vors herra Jhesu Christi. ꝏ. d. l. og. vj. ꝏidvikudaginn ȷ paskaviku ȷ Flateẏ á Breidafirdi vorum vid hia stadder saum æ og heyrdum at Jon Biorñsson arfleidde ij dætur sinar er so hietu [ꝏargretv og Olofu[2]) med fullu ȷayrde og samþycki skilgetins brodur sins sira Þorleifs Biornssonar er þa war hvor anars arfe. Geingu þess-

1) Utan á bréfinu m. h. frá 17. öld. 2) [Svo.

er aller fyrr nefnder menn fyrir kirkivdyr og hielldu aller æ eirne bock Jon Biornsson. sira Þorleifur Biornsson. Margret og Olof og adur nefndur Jon arfleidde þessar sinar dætur fyrr skrifada Margretu og Olofu epter logbokarenar ordum til fiar þess er hann gaf þeim xx^c huorre fyrir sig til gialldz og til giafar. til sess og sætis og allz þess rettar sem arfleidingr æ at hafa med logvm og logbok vt skyrer. Og til sanninda hier vm sette fyrnefndur sira Þorleifur Biornsson sitt jncigle med ockrum adur greindra manna jnciglum fyrir þetta arfleidzlubref er skrifad war æ Reykiaholum æ Reykianese faustudaginn næsta epter Johannem ante portam latinam dæ sama are sem fyrr seiger.

---

## 81. 13. apríl 1556. á Hofi á Höfðaströnd.

Sex manna dómr, kvaddr af Þorbergi Bessasyni í umboði Odds lögmanns Gottskálkssonar, um skattgjald þeirra manna, sem yngri eru en tvítugir.

Gl. kgl. saml. 1159, fol., bls. 648—50, skr. ca. 1640. — ÍB. 205, 4to., nýleg uppskrift. — ÍB. 125B4to, nr. 127, skr. ca. 1680 (nokkuð styttr). — ÍB. 215, 4to., bl. 46 (skr. á 17. öld, að litlu gagni) — ÍB. 114, 8vo, ccccx (ágr.), skr. ca. 1750. — AM. 196, 4to., bl. 19—20, skr. 1657—65 (dágóð uppskr., þó nokkuð skæld; orðamunr ekki til muna). — Ny kgl. saml. 1945, 4to., bl, 189—90, skr. 1666 (lítill orðamunr).

Domur um skattgialld yngre enn Tuijtugra manna.

Ollum mönnum sem þetta bref sia. edur heyra sendum vier Hrölffur Biarnasson. Kaar Þördarson. Asbiörn[1]) Narffason. Petur Þorsteinsson. Þorsteirn Gijslason. og Oddur[2]) Halldörsson kuediu Guds og vora. kunnugt giörandi. ad ärum epter Gudz Burd 1556. ä manudaginn næstan fyrer[3]) Tiburti [og Valeriani messu[4]) ad Hoffe ä Höfdaströnd. ä þijngstad riettum. vorum vier i döm neffnder aff heidarligum manni. Þorbergi Bessasyne. er þar þä þijngadi i vmbodi Odds Gottskälckssonar Lögmans. til ad skoda og Rannsaka. og fullnadardöm ä ad leggia. huörtt skattur skylldi greidast af ömaga

1) Arnbjörn 196, 1945. 2) Hallur 196(!). 3) eptir 215, 196. 4) [sl. 196; Tiburtiusm° 1945; Valetiani messu 1159.

sig med lögum til ad leida. fyrer þrattnefnda jörd Veturlidastadi. ad őbitalad sie.

Samþyckti þennañ vorn dom optnefndur valldzmann Þorbergur Bessason og sette sitt jncigle med vorum jnsiglum fyrer þetta domsbref. hvort skrifad var á Grund i Eyiafirdi sunnudaginn næstañ epter uppstigningarddg um vorid. á sama are sem fyrr seiger.

---

Til þess legg eg Andries Jonsson hond a helga bok og so skyt eg minu mali til guds. ad eg heyrda Sijra Jon Philippusson lysa þvi fyrer mier i kirkiunne á Munkaþverá. á manudagin næstañ fyrer Olafsmessu um sumarid. ad hann hefdi feingid og sellt biskupi heitnum Joni Arasyne jordina alla Weturlidastadi til fullrar eignar. med handsölum. og ad so stöfudum eidi sie mier gud hollur sem eg satt seigie. eñ gramur ef eg lyg. under mitt jnnsigli.

---

## 96. 21. maí 1556. í Skriðu.

**Dómr** tólf manna, kvaddr af Þorbergi bónda Bessasyni, dæmir síra Sigurð Jónsson á Grenjaðarstöðum og Þórunni, systur hans, réttilega mega gifta Helgu Aradóttur Páli Jónssyni, ef Þorleifr bóndi Grímsson, sem var réttr giftingarmaðr hennar, vill ekki gefa til fullnaðarsvar eða samþykki.

Gömul uppskrift í þjóðskjalasafni frá ca 1660—70 (= $\alpha$). — AM. 254, fol., bl. 15—16. — AM. 194, 4to., bl. 104, skr. ca. 1700. — Lbs. 122, 4to., bls. 159—61, skr. ca. 1770. — Pr. í Sýslumannaæfum II. bls. 202.

Dőmur um Gipting[1]) Páls Jőnssonar og Helgu Aradőttur.

Þad giörum vier Asgrijmur Jonssoñ. Gudmundur Nichulasson. Halldor Þorlaksson. Petur Þorsteinsson. Finnbogi Þorsteinsson. Jffar Jőnsson. Asgrijmur Einarsson. Joon Biörnssoñ. Gunnar Þorsteinsson. Þőrőlffur Biörnsson. Jon Jonsson. Helgi Joonsson. gődum monnum kunnugt med þessu woru opnu brefi árum effter Gudz burd 1556. fimtudagenn næst-

1) Giptumál 122.

añ fyrer Hvijtasunnu um vored j Skridu j Hörgardal. a þijngstad rettum. worum vier til fullnadar skoduuar. samþicktar. og löglegra álita neffñder aff heidarlegum[1]) manne Þorbergi B[onda] Bessassyne er þa haffdi kong[2]) Majestatis syslu og umbod j Vödluþijngi. vegna heidurlegz daandess sveinz Pals Jonssonar. [hvert[3]) Helga Aradotter skillde ecki loglega og rettelega gifftast meiga firrneffndum Pali Jonssyne. med radi. samþicke og vilia sijns födurhrődurs Sira Sygurdar Jonssonar og sinnar fodurmődur Helgu Sygurdardőttur. og sinnar födursýstur Þőrunar Joonssdottur. og annara hennar nanustu frænda[4]). þeirra sem[5]) hennar rádi og wilia filgia. Effter þui Þorleiffur B[ondi] Grijmsson hennar Gijfftingarmadur vill ecki fullnadarsvar til geffa. þa þessa málz var vid hann leitad af Jőni B[onda] Magnussýne og Páli Jőnssýne. J firstu leitst oss Jőn B[ondi] Magnusson fulla og alla málaleitun[6]) hafft hafa til Þorleifz B[onda] Grijmssonar vegna sonar sijns Pálz. þá hann hafdi ecki neitt fullnadarsvar af honum feinged upp a fyrr sagdañ rádahag. þui leist oss Sygurdur [Jonsson[7]) og Þőrun Jonzdotter skilldug ad leita þessa máls vid Þorleiff B[onda] Grijmsson sinnar frændkonu vegna. eff þaug vilia hennar rádi filgia. og þessa sijna frændkonu Helgu Aradőttur gijffta fyrr greindum jonkiæra[8]) Pali Jonssýne. med pijkunnar radi og beggia þeirra samþicki. eñ ef þaug kunna ecki fullnadarsuar edur samþicke fá af Þőrleiffe. og villdi hann so firra hana sijnu jafnrædi. þa leitst oss þaug[9]) meiga[10]) med bestu manna radi og yffersýn gijffta þessa sijna frændkonu Helgu Aradottur fyrrgreindum Páli Jonssýne effter þui sem vor landzlög vtvijsa og innehallda[11]).

---

97. 25. maí 1556. í Selárdal.

Síra Gísli officialis Jónsson afleysir Eggert Hannesson af barneignum við Sesselju Jónsdóttur.

---

1) heidurlegum 122. 2) kongl. 122. 3) [122, Sýsl.; er þau *a*. 4) *leiðr*.; þeir *a*, Sýsl.; sl. 125. 5) 122; sl. *a*, Sýsl. 6) malaleit 122. 7) [Jón, Sýsl. 8) manni, Sýsl. (án efa lagfæring þar). 9) 122; hun *a*, Sýsl. 10) meige 122. 11) o. s. frv., b. v. Sýsl.

Bps. Skalh. XX, 84, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. Bréfið er með eiginhendi Gísla byskups. — AM. Apogr. 2424.

Vm̄ aflausn Eggertz Hannessonar Anno 1556[1]).

Eg Gisle prestur Jonsson officialis og profastur j Vestfiordum medkennunst med þessu minu opnu Brefi at ec hefi afleyst þenna heidarliga mann Eggertt Hannessoñ och Setceliu Jonsdotter af þeim Barneignum sem þau hafa ætt sijn j millum. hefi ec þeim bædum sett penitentias competentes epter þui sem mier hefur virdzt hæfiligt vera og suo fulla fieseckt vpp borid af þessum bædum fyrr greindum personum sem mier vel æ nægier. Þui gef ec og gior[e] ædur greindañ Eggertt og fyrr skrifada Setceliu aullungis kuitt og ækiærulaus vm̄ allar þær barneigner sem þau hafa ætt sijn j millum epter þui sem ec mæ þad giora epter logmali fyrir mier og aullum minum epterkomendum Skalholltz domkirkiu formonnum. Og til sanninda hier vm̄ festi ec mitt jnnsigli fyrir þetta Bref Skrifat j Selærdal Manudaginn epter Huijtasunnu[2]) vm̄ vorid. Anno domini M. d. l. og vj.

---

## 98. 26. maí 1556. á Hvanneyri.

Vitnisburðr um veiðirétt Hvanneyrarkirkju í Grímsárfossi.

AM. Apogr. 1740, eftir uppskrift Páls lögþingisskrifara Gíslasonar af Hvanneyrarbréfum. „Þetta bref med einu jnnsigle".

Um veide j Grimsǽ.

Þad giöre Eg Egill Þorgilsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe ad eg hefe uppalist ǽ Heste j Borgarfirde og eg var þar nær xl. ǽr. hafde minn fader bued þar xx ǽr ǽdur eñ eg kom til og önnur xx ǽr var hann þar epter. vissa eg fyrir full sannendj ad Hvanneyrarkyrkiu var eignad tveggia daga veide med nottum j hvörium halfum manude j Grimsǽrfoss. hielldu eignarmenn frǽ HvannEýre þessare veide kyrkiunnar vegna ǽtölulaust fyrir hverium manne. og alldrej heyrda eg minn födur nie nock-

---

1) Utan á bréfinu með 17. aldar hendi. 1) Það verðr að vera á annan í hvítasunnu, 25. maí.

urn mann annañ þess gieta eda þar nockurn Efa j hafa ad fyrrgreind Hvanneyrarkirkia ætte ecke ákallslaust þessa veide. hefe eg nu ad alldre xi vetur um sextugt og alltid vered j HvannEÿrarþingum heimilizfastur sidañ eg for frá Heste nema þau þriu ár sem eg var hia Biskup Augmunde. og hier epter vil eg sveria ef þurfa þyker. Og til sannenda hier um feste eg mitt ınncigle fyrir þetta vitnisburdarbref. hvert skrifad var á Hvanneÿre j Borgarfirde þridiudagenn nærstañ epter Hvitasunnudag um vored ár epter gudz burd 1556. ár.

---

**99.** **27. maí 1556.** **í Múla.**
**21. maí 1562.** **í Múla.**

Jarðaskiptabréf á Hólum í Fljótum fyrir 20 hundr. í Höskuldsstöðum og Þyrnishóli og 10 hundr. í lausafe.

AM. Apogr. 561 „Ex transsumto originali fra Sira Skula Þorlakssyne“. Árni segir til innsigla.

Þat giorum vier Jon Einarsson. Þordur Eigilsson. Arne Tidigsson og Helgi Jonsson godum ınonnum kunnigt med þessu uoru oppnu brefi. at arum epter gudz burd. ꝏ. d. l. og vi. manudaginn næstan[1]) epter fardagauiku. æ Hauskullstodum ȷ Reykiadal. ȷ Helgastada kirkiusokn vorum uier i hia saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna. af eirne alfu Jlluga prest[s] Gudmundzsonar. eñ af annare Bryniolfs Jonssonar og Kristiuar Þorsteinsdottur konu hans. at suo fyrir skildu at nefnd hion selldu greindum Sira Jlluga ȷordina Hola i Fliotum. ȷ Hollz[2]) kirkiusokn. med ollum þeim gognum og giædum og skilmala sem Jon Einarsson nu strax þeim hana selldi og sogdu hana xxxᶜ. Hier i mot gaf fyr nefndr sira Jllugi xxᶜ ȷ Hauskaullstodum og Þyrneshole er þau hofdu adur sellt Sira Jlluga. og þar til .xᶜ. î lausagozi. atti optt nefndur sira Jllugi at hallda ȷordunne Holum til laga. eñ ef hun geingi af eda være eigi sem Jon hafdi sacktt. eda af hennar landareign. þa skylldi sira Jllugi þann allañ atgang eiga at Jone Einarssyni. og at ollu so

1) þ. e. 25. maí, og er annar í hvítasunnu. 2) Svo, þ. e. Holts.

til skildu. um Stokkahladi sem Bryniolfur og Kristin skildu fyrir i þeirra kaupe. uid adur sagdan Jon. þa þau keyptu Stokkahlodum og Holum. og vier vorum nu strax uottar at kallader. nema hann villdi helldur ganga aptur at þui anduirde. sem hann selldi Bryniolfi fyrir Hola. þa skylldi hann þad mega. Eñ ef nefnd hion villdu nockud sinn selia þau xxc j Hoskulldstodum sem sira Jllugi þeim þa selldi þa lofudu þau honum þad fystum selia. fyrir xxc. i lausagodzi. Suo og ef hann uillde selia þann part sem Torfi hafdi honum sellt fyrir lausagodz þa skylldi hann þeim selia ef þau sialf giæti keyptt. Og til sannenda hier um setium vier vor jncigle fyrir þetta bref skrifad j Mula j Adalreykiadal. ij. nottum sidar eñ fyr segier.

Þat giorum vid Oddur prestur Jonsson og Oddur Asmundzson godum monnum kunnigt med þessu ockru oppnu brefi at vid hofum sied og yfer lesid suo latandi bref med þrimur oskoddum hangandi jnciglum sem hier fyrir ofan stendur skrifad ord epter ord. Og til sanneñda hier um setium uid ockur jncigli fyrir þetta bref skrifad i Mula j Adalreykiadal fimtudaginn i fardogum arum epter gudz burd ꝏ. d. lx. og ij. ar.

---

## 100. 2. júní 1556. í Goðdölum.

Kaupmálabréf Þórðar Þorleifssonar og Steinunnar Ólafsdóttur.

Bréfabók Guðbrands byskups í þjóðskjalasafni í 4to. (áðr bls. 199—201, nú bl. 34—5), með eiginhendi byskups ca. 1590 (í hinni prentuðu bók bls. 463—5).

Kaupmalabref Þordar Þolleifssonar og konu hañs.

Þad giorum vier Þorkiell Olafsson. Besse Biornsson. Sıjgurdur Niculasson. prestar. Magnus Biornsson. Tume Þorgrimsson. Jon Jonsson. leikmenn. Godum monnum kunnugt med þessu voru opnu briefe. At arum epter gudz burd M D l oc vj ar i Storadal i Tungusueit i Skagafirde i Reykia kirkiusokn a krossmessu sialfa um vorid[1]). vorum vier i hia

1) þ. e. 3. mai.

saum og heyrdum a. ad Þordur Þorleifsson keypte og fastnade sier til logligrar eiginkonu Steinunne Olafsdotter epter Gudz logum og landsins med hennar godan vilia og samþycke fodur hennar og modur. med suo felldu fiekaupe og skilmala ad fyr nefndur Þordur Þorleifsson skyllde hafa tiutie hundrud til kaups vid adur nefnda Steinunne Olafsdotter. ad til skildre jordunne Torfufelle i Eyiafirde og þui eydekote er þar liggur til er Holkot er kallad i Hola kyrkiusokn fyrir fimtie hundrud og þar til x$^{c}$ jord Villingadal i somu kirkiusokn. gaf Grimur bonde Þorleifsson þessar adur skrifadar jarder sijnum Brodur Þorde Þorleifssyni til kuonumundar itolulausar og til æfinligrar eignar og frials forrædis vndan sier og sijnum erfingium eñ under adur skrifadan Þord og hans erfingia. reiknudust þa þessar jarder ad dyrleika med fyrr skrifudu Holkote fyrir lx$^{c}$. Og þar til xl$^{c}$. skillde þad vera x malnytu kugillde oc xx$^{c}$ i odrum godum þarfligum frijdum og ofrijdum peningum. er Grimur bonde Þorleifsson sagde ad sinn fader Þorleifur bonde Grimsson hefde sijnum broder Þorde Þorleifssyni lofad ad gefa og þrattnefndur Grimur bondi Þorleifsson gieck þar i borgun fyrir med fullum handsolum vid Olaf bonda Ormsson ad hann skillde mega ad sier heimta alla þessa fyrr skrifada peninga vegna sijns broder Þordar. ef Þorleifur bonde þeirra fader villde ecki þessu samþyckur vera. edur þetta greida eda giallda.

Hier i mote gaf Olafur bonde Ormsson Steinunni dottur sinni l$^{c}$ i frijdum peningum og ofrijdum. Var þar tilskilid xv malnytu kugillde oc xx$^{c}$ i gielldum nautum saudum og koplum og þar til god xv$^{c}$. Gaf titt nefndur Þordur Þorleifsson Steinunne Olafsdotter fiordungsgiof ur þessum sijnum fyrr skrifudum peningum. Var þar til skilid x malnytu kugillde. og þar til xv$^{c}$ i godum gilldum peningum og hier ad auk v$^{c}$ þing i kiorgrip. reiknadist þa male Steinunnar i gard þratt nefnds Þordar lxxx$^{c}$ med þessum kiorgrip.

Samþyckte allan þennan hans giorning og kaupskap Grimur bonde Þorleifsson vegna sijns fodurs Þorleifs bonda Grimssonar i hans fullu vmbode huor ed þa var logligur erfingi Þordar.

Og til sanninda hier um setium vær fyrr skrifader menn

vor incigle fyrir þetta kaupmalabref huor[t] skrifad var i Guddolum i Skagafirde þridiudæginn næstan fyrir dyradag um vorid a sama are sem fyrr seiger.

---

**101. 6. júní 1556. í Skriðu.**

Vidimus af Dipl. Isl. IV nr. 584.

AM. 255, 4to., bls. 326 (bréfabók sira Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstöðum).

Þad giörum vid siara Jllugi Guðndsson og Þorsteirn Sigurdsson godum mónnum kunnugt med þessu ockru opnu Briefe ad vid höfum sied og yferlesid so latande Brief ord epter ord med hangandi jnnsiglum sem hier firer skrifud standa og til sanninda hier vm setium vid ockur jnnsigle fyrer þetta tranzskriptar Brief huort skrifad var a laugardæginn næstan fyrir fyrsta Sunnudag trijnitatis Arum epti, guds Burd m. d. l og vı j Skridu j Reikiadal.

(L S) (L S).

---

**102. Fyrir alþingi 1556. 1613.**

Fráfall Odds lögmanns Gottskálkssonar, skýrsla Þormóðar Ásmundssonar.

FJ. Hist. eccl. Isl. III. bls. 227—9, bæði á íslenzku og latínu. — Fáeinar uppskriftir eru til af þessari skýrslu, en engar af þeim eru gamlar, og í öllum þeim er lesmálið gallaðra heldr en hjá Finni byskupi. — Til hliðsjónar er hér höfð uppskrift í Lbs. 724, 4to., sem er ein af þeim skárri, og þó ekki eldri en frá síðara hluta 18. aldar. — Rithætti Finns byskups er hér ekki haldið í því, sem beint er þeirrar tíðar einkenni. Þeim einum orðamun er hér skeytt, sem til bóta horfði, eða til sanns vegar mátti færa. Sbr. Safn til sögu Íslands I. bls. 78—79.

Frasaga Þormodar Asmundarsonar i Bræđratungu um afgang Odds lögmanns Gottskalkssonar, saman skrifud af herra Odde Einarssyne epter Þormode. arid 1613. þa 74 ara gömlum. enn 17 vetra gamall kom hann til Odds lögmanns a sama are oc hann drucknade.

Oddur Gottskalksson[1]) siglde ungur til Noregs. oc olst þar upp hia fôdurfrændum sijnum. og lærde þar vel i skola. kom sijdan ut aptur hingad. oc var hia fôdur sijnum Gottskalk biskupi a Holum. Þar var hann saklaus stungenn [med puck[2]) hia vinstra auganu af Olafe heitnum[3]) i Dal. fôdur Marcusar. oc þar af lŷttest hann nockud. Hann var hær madur. oc þyckur epter hæd. frijdur i andlite. Epter andlæt fôdur sijns siglde hann aptur. oc var þæ nockur ær utañ lands[4]). kom sijdañ aptur. oc var sveinn [Ogmundar biskups[5]) i Skalhollte. [Þar epter settest hann i bu med Þuride Einarsdottur oc bio med henne nockur ær æ Reykium i Olvese ogiptur. þangad til hann ætte son med[6]) henne. Petur ad nafne[7]). sijdañ tők hann hana til egta. Þǻ flutte hann sig til Reykhollts. hvar hann var tvô ær. oc hiellt þar capellan. enn æ seinna ærenu þar[8]) vard hann lôgmadur fyrer nordañ oc vestañ. þæ flutte hann sig nordur til Reinenesstada[9]) clausturs. oc var þar tvô ær. æ þridia ære lôgmannsdæmes sijns[10]) reid hann nordañ. oc villde til alþinges. enn þǻ hann kom i Borgarfiôrd. villde hann sigla þadañ til Bessastada med sitt gialld æ einu stőru skipe. er hann ætte. Honum gaf eigi. enn beid þő i hælfañ mæuud. reid svo landveg. oc æ þeirre leid drucknade hann. Enn þad bar svo til. ad hann reid epter odrum fram̃ i [Laxæ i Kios[11]). hesturinn datt þǻ[8]) under honum aptañ. svo hann fiell ur sôdlinum. oc rak strax ad einne eyre. komst þæ æ fiőra[12])

1) Í Sýslumannaæfum I. bls. 337 hefir Jón Pétrsson látið prenta þetta eftir gömlum ættartölublöðum frá ca. 1600:

. . . Laundóttir Eiríks bónda (Loptssonar) var Guðrún Eiríksdóttir, en hennar börn: Guðrún og [Oddur] lögmann Gottskalksson; hans son [Pétur] Oddsson, natus Reykjum í Ölvesi 15. j . . . . . . te[1]) sole Anno 1543; eodem anno fuit soror ejus . . . . tizata[2]) et ex Schalholtia ejecta, qvod O[ttoni erat] crux valida. Pétur giftist hér á Íslandi . . . Helgu Torfadóttur frá Höfn í Melasveit, [átti með] henni 3 börn: Odd, Þorleif og Gudrunu; fór [síðan með] konu og börnum til Noregs, og andaðist þar". 2) pukk [pugio], HE.; [sl. 724. 3) 724; sl. HE. 4) sl. 724. 5) [hiæ biskupe Øgmunde 724. 6) vid 724. 7) [ruglad i 724. 8) b. v. 724. 9) 724; Reinisstadar HE. 10) 724; hans HE. 11) [æna 724. 12) 724; fiórar HE.

1) þ. e. *Junii, Julii* eða *Januarii oriente* eða occidente. 2) Svo. Rangt fyrir: *vitiata*?

fætur. enn kæpunne slő um̄ hans hôfud. oc rak svo ofan lengra ad nockuru adkaste. Þar nædu hans menn honum lifande. oc tiôlldudu yfer honum [á ærbackanum[1]) samstundes. Hans fýlgdarmenn vőru [þesser :[1]) Sijra Einar Hallgrimsson[2]). [sem epter þad var æ Utskælum. hann var þá hans kýrkiuprestur[3]). Þorsteinn Einarsson. hans busveinn. Petur sonur hans. oc hans hestamenn. Um midnætte vaknade hann. oc sagdest allur lerkadur vera. hans menn sôgdu þad eigi kyniande vera. þvi hann hefde falled i æna. Litlu þar epter talade hann aptur til þeirra. oc skickade ad flytia sig i Skælhollt. oc bad sijna menn ad seigia fyrer sig ôllum sijnum vinum gődar nætur. oc andadest þar epter. Hann ætte eige bôrn epter sig. utan[4]) Petur Oddsson. Þurijdur qvinna hans lifde epter hann fimm ær. Enn æ þvi sama ære sem hann andadest. kom hingad[5]) kőngs bref ad hann skyllde sigla. Hann var svo ydenn madur og æstundunarsamur. þá hann ætti ecki ôl. edur var ei[6]) hindradur af [ôdrum ônnum[7]). ad hann tők sier eckert annad fyrer hendur enn ad lesa og[6]) skrifa oc utleggia bækur. Hann ætte stőra kistu. sem taka munde tuttugu vætter smiôrs. hun var full af skrifudum bőkum. þær hafde hann margar siælfur skrifad oc utlagt. oc mæ med rettu telia hann med þeim sem þessu sijnu mődurlande hafa gagnsamaster vered. Petur sonur[8]) hans var eigi fulltijda þæ fader hans [gieck af[9]). þvi tők Þőrdur Gudmundsson lôgmadur vid ôllu þvi um̄bode. Epter þad giptest Petur Oddsson[6]). oc biő nockur ær bue sijnu. siglde sijdan til Noregs med konu sijna. oc andadest utanlands.

[Hier Endar samanskrif herra Odds[10]).

---

**103.** **1. júlí 1556.** **á Öxarárþingi.**

Sjöttardómr, kvaddr af Páli lögmanni Vigfússyni, dæmir Þuríði Einarsdóttur umboð Pétrs Oddssonar lögmanns, Gottskálkssonar.

1) [b. v. 724. 2) sl. 724. 3) [724; hanns kyrkiuprestur, er sidar var á Útskálum HE. 4) nema 724. 5) hier 724. 6) b. v. 724. 7) [ödrum mönnum 724, HE.; leiðrétt í HE. 8) 724; son, HE. 9) [724; andadest HE. 10) [724; sl. HE.

ÍB. 309, 8vo., bl. 60—1, skr. ca. 1600—20 (Öxnafellsbók m. h. Ara Magnússonar í Ögri). — Steph. 61, 4to., bl. 165, skr. ca. 1660.

Domur wm wmbod.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra [sendum [vier][1]) Ellindur Einarsson. Jon Tumasson. Philiphus Runolfsson. Pall Eyolfsson. Jon Gudmundsson og Gudmundur Sveinbiarnarson[2]) quediu Gudz og vora kunnigtt giorandi ad [arum eptir [gudz] burd[3]) m. d. l vj miduikudagin[n] næstan eptir Pieturzmesso og Pælz æ almenniligu Oxarærþingi eptir bodi og skipan heidarligz mans Knutz Steinssonar kongleg maiestetz befalningzmanz yfer allt Jsland vorum vier j dom nefndir af heidarligum herramanni Pali Uigfussyni [su[n]nan og austan logmanni[4]) æ Jslandi til ad skoda og rannsaka og fullnadardomz atkuædi æ ad leggia huór logligastur skilldi til komin[n] ad hallda og haua umbod Pieturz Oddssonar epter herra Odd Gottskalkson fra kalladan hans fodur. En Þurijdur Einarsdottir modir fyr sagdz Pieturz beiddist þar doms á. Nu sakir þess at modir skilfeingin stendur j þridiu erfd til arfz eptir barn sitt. en þad var suarit j logrettunne af tueimur skilrijkum vottum morgum godum monnum æheirandi ad adur greindur herra Oddur Gottskalksson hefdi fest fyrr nefnda Þurijdi Einarsdottur eptir logum sier til eigin kuin[n]u.

J annare grein vijsar so til logmalit. Erfingi a kost æd[5]) hallda omagaeyre þo hann hafi minna fe en omaginn æ ef skinsomum monnum virdist hann ohættur skulldunautur. vissum vier fyrir full sannindi ad þratt skrifud Þurijdur atti .xx^c. j gard optt nefndz Oddz logmanns.

Jtem j þridia stad seigir so textinn bokarinnar ad frændur higgi at a huoriu Are huórsu med er farit.

J fiordu grein ef sa madur andast er hann a barn j omegd þa skal hann veita vord bornum og fie sem arfi er næstur huortt helldur fiarhalldzmadur verdur kallmadur edur kona. hann skal lata virda fie þad .vj. skinsama menn og hafa uithni uid med huoriu hann tecur.

1) [senda 61. 2) 61; Sueinssarnarson 309. 3) [Anno 61. 4) [lm. s. & a, a Isl. 61. 5) Svo.

Jtem ad fiaruardueislumadur er ei skilldur at taca uid abirgd a Barni fyrr eñ ad næstum fardogum epter er hinn andast.

Jtem madur skal ecki færa fie omaga ur fiordungi nema fie sie j fleirum fiordungum þa ma fiarhalldzmadur þangat færa ad osekiu. sem mest er edur þar sem jardir eru.

Þui fyrir þessar greinir og þær fleiri sem j logmalinu standa og hier at hniga dæmdum vier fyrr nefndir doms·menn med fullu domz atkuædi titt nefnda Þurijdi eiga og mega hallda til um̃bodz alla kuika peninga. dauda. fasta og lausa. frijda og ofrida. þa sem margnefndum Pietri Oddsini hefdi til erfda fallit eptir sinn faudur edur adra menn eñ greida ollum skulldir þær sem menn leida sig til med log-ligum uithnum. Eñ frændur higgi ad a huoriu ari eptir þui sem log[bok][1]) skıȷlur.

Samþikti þennañ vorn dom med oss adur greindur herra logmann. etc.

---

## 104. 1. júlí 1556. á Öxarárþingi.

Sjöttardómr, kvaddr af Páli lögmanni Vigfússyni með ráði Knúts hirðstjóra Steinssonar, dæmir Grími bónda Þorleifs-syni umboð Erlends Þorvarðssonar.

AM. 238, 4to., bl 122—3 (upphafl. blaðatal 92—3), Bessastaðabók, skr. ca. 1570.

Domur um umbod herra Erlindz Þoruardzsonar.

Ollum monnum sem þetta Bref sia edur heyra. Send-um uier Gisli Sueinsson. Magnus Jousson. Olafur Asbiarn-arson. Þorir Sueinsson. Eyolfur Magnusson og Jon Jonsson. kuediu gudz og sina. kunnigtt gioranđi. þa ed lidit var fra gudz burd. ꝳ. d. l. vj. midvikudaginn nærstañ epter Pieturs-messo og Pals ꜳ almenniligu Avxararþingi vorum uier j dom nefnder af heidarligum herra Pali Vigfussyni laugmanni fyrir sunnan og austañ ꜳ Jslandi. med radi og samþycki Knuts Steinssonar hirdstiora og haufudzmannz yfer alltt Js-land. til ad skoda og ransaka þar med fullnadar doms at-

1) logmaled 61.

kuædi ꝺ́ä ad leggia um þa saumu grein sem Grimur bondi Þorleifsson beiddist doms ꝺ́ä. huer ed hafa skylldi umbod Erlindz Þoruardzsonar. og lagasuorum aullum vppi ad hallda hans vegna. fyrir þess sakir ad dañdi manna domur var ȷ laugriettunni upp lesinn. huer suo ȷnni hielltt. ad fyr nefndur Erlindur Þoruardzson var keñdur vid oforvarat mannslag. sem var Jon heitinn Runolfsson. sem gud hans sal nadi. Nu steñdur suo ȷ uorre landzlagabok. Sa skal vord veita og umbod hallda er arfi er nærstur. og fullar vordzslur hefur. Nu fyrir þui ad adur greindur Grimur bondi Þorleifsson atti Gudbiorgu Erlindzdottur. sem er hans sannur og laugligur erfingi titz nefndz Erlindz Þoruardzsonar. Þui dæmdum vær fyrr nefndir domsmenn med fullu doms atkuædi opt nefndum Grimi Þorleifssyni hans laugligtt umbod. og þad meiga ad sier taka nu strax og hallda þessu umbodi suo leingi sem þrattnefndur Erlindur hefur ecki feingit sitt landzvistarbref af uorum nadugasta herra konginum. þar med Grim Þorleifson skylldugañ [ad] greida hans og giallda allar laugligar skulldir Suo og fulltt og alltt eignar umbod ꝺ́ä aullum hans gossum ad hafa sem ꝺ́ä sialfs sins fie. suara þurd eñ eignast allañ avoxtt.

Samþycktti þennañ vorn dom et cetera.

---

**105. 3. júlí 1556. Í Skálholti.**

Jarðaskiptabréf á Bjarnanessjörðum fyrir jarðir á Seltjarnarnesi og Álptanesi.

Bps. Skalh. III, 12 og 13, tvö frumrit á skinni, sitt með hvorri hendi; 6 innsigli hafa verið fyrir bréfinu; nú eru 2 eftir fyrir III,12 (annað bráka), en 3 fyrir III,13. — AM. Apogr. 2537.

Kaupbrief fyrir Biarnanesi[1]).

Þad giaurum vier herra Marteinn Einarsson. Sıȷra Jon Biarnarsson[2]) Sıȷra Snorri Hialmsson. Sıȷra Oddur Halldorsson. Sıȷra Biaurñ Olafsson. Sıȷra Einar Olafsson. Sıȷra Loptur Narfason prestar Skalholltzsticktis godum monnum kunn-

1) Utan á III, 12 með gamalli hendi: „Bref vm kaup a Biarnanesi“ aftan á bréfinu. 2) Biarnarson III,13.

igtt med þessu voru opnu briefui. ad sub Anno gratiæ 1556. faustudaginn næstañ eptter visitatio Mariæ ȷ Skalholltti. vorum vier ȷ hia saum og heyrdum ǻ ad Knut Steinsson konunglig Maiestatis liensmann yfer Island giordi suoddan skiptti og byting vid herra Gijsla Jonsson. huer þa var settur af kongligu valldi yfer Skalholltt og Skalholltzsticktti til ad stiorna og regera heilax religionis vegna. ad eptter þui konunglig Maiestatis ȷnnsigludu brieffui sem vpp var lesid a alþingi. ad þær iarder sem Skalholltz domkirkia atti a Seltiarnarnesi og Alttanesi. hueriar[1]) ad voru ȷ þad mund atta ad tanlu hueriar ad[2]) suo heita.

Nes. Skilldinganes. Eidi. Lambastader. Eyuindarstader. Suidholltt. Skogtiaurñ og Brecka.

. skylldu þessar iarder falla til kongdomsins med kugilldum og árligri afgiptt.

Hier ȷ mot lagdi nefndur Knut Skalholltzdomkirkiu kongdomsins vegna þær eigner allar sem lau ȷ Hornafirdi og kongkomsins eigñ var hueriar suo heita.

J fyrstu Biarnanes. Horn. Firder tueir. Hafnarnes. Holltar. Borg. Krossbæi[3]). Kiellduholltt og Holmar.

med þeim kugilldum og ærligri afgiftt sem þar var og atti ad vera vnder Skalholltz domkirkiu og hennar formann.

eñ huersu morg kugilldi ad Skalholltz domkirkia atti a sijnum iaurdum fleiri eñ Biarnaneseignum fylgdu þa skylldi kongsins fouite hafa til leigu suo leingi sem domkirkian fiengi[4]) ecki[2]) sijn kugilldi ad tiltolu[5]). Jtem skylldi Knut Steinsson leggia domkirkiunne x kugilldi fyrir fiarlægd þessara ȷarda.

Og til sanninda hier vm setti fouitinn Knut Steinsson og herra Gijsle Jonsson sijn ȷnnsigli fyrir þetta brief med vorum fyrr greindra manna ȷnnsiglum. Skrifad ȷ sama stad deigi og are sem fyrr seiger.

---

1) III, 13; hueria III, 12. 2) b. v. III, 13. 3) yfir línunni í báðum. 4) feingi III, 13. 5) til tauldu III, 12.

**106.** **4. júlí 1556. í Nesi við Seltjörn.**

Jarðaskiptabréf á Hvammi í Dýrafirði fyrir Hrafnkelsstaði og Álptárbakka á Mýrum og Fjall í Stafholtstungum.

AM. Apogr. 1276, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar“.

Þad giorum vier Biorn Hanesson. Þorlakur Einarsson. Ingimundur Magnusson. Oddur Tumasson. Einar Sygur[d]sson. Einar Gislason godum monnum kunigtt med þessu uoru opnu brefi arum eptter guds burd ꝏ. d. l og vj ar fijmtudæginn næstan epter Pettu[r]s me[s]su og Palls um sumarid[1]) j allmenilegre laugrettu uorum uer i hia saum og heyrdum ǿa ord og handaband þessara manna. af eirnnri allfu Eggert Hanesson en af anari allfu Hallur Olafsson. en þad falldist og skijlldizst under þessu þeirra handabandi. ad adurnefndur Eggertt Hanesson selldi fyrgreindum Halli Olafssyne þessar eptter skrifadar iarder Hrafnkelsstade fyrir þria tigi hundrud. Allttarbacki fyrir sextan hundrud. liggia þessar tuær jarder uestur æ Myrum j Allttarnes kirkiu sokn eñ onnur j Allltatungu kirkiu sokn. jordina hallfa Fiall fyrir tollf hundrud er lig[g]ur j Borgarfirdi j Stafholz kirkiu sokn og þar til fiogur mallnyttu kugilldi undan sier og sinum erfingium en under adurgreindan Hall og hans erfingia med ollum gognum og gædum sem fyrgreindum jordum fyllger og fyltt hefur ad fornu og nyu bædi til sios og lan[d]s. En hier i mott gaf titt nefndur Hallur Olafsson fyrgreindum Eggirtt Hanessyne jordina Huam fyrir sextiger hundrud er lig[g]ur i Dyrafirdi j Sanda kirkiu sokn undan sier og sinum erfing[i]um en under adurgreindan Eggirtt Hanisson og hans erfingia med ollum gognum og gædum sem greindri iordu fyllger og fylltt hefur ad fornu og nyu bædi til sios ng lan[d]s. skylldu huorir tueggiu hallda sinu kaupi til laga en af huorum sem fyrri geingi med rettu og oorofnu logmali þa skyldi sa med friallsu ganga apttur ad sinum jordum. Og til saninda hier um þa festum uer fyr greinder menn uor insigli fyrir þetta kaupbref huertt er skrifad uar j Nesi æ Selltiarnarnesi æ sama ari tueimur dogum sidar en fyr seiger.

1) þ. e. 2. júlí.

**107.** 12. júlí 1556. í Reyninesi.

Afhending Reynistaðarklaustrs eftir Odd lögmann Gottskálksson i hendur Gunnari Gíslasyni.

AM. 280, 4to., bls. 229—35, m. h. Hákonar Ormssonar ca. 1640. — Uppskrift i JS. 484, 4to., m. h. Jóns Sigurðssonar.

Anno Domini 1556. a Reynenese i Skagafiorde Dominica 6 trinitatis. Suo fellder peningar ȷnnan gaattar þaa Gunnar Gijslason medtők. enn Þőrdur Gudmundsson affhendte i kuiku og Daudu.

Jn primis ȷ Bordhuse aarsgamallt smiőr stikulangt fyrer offan framm og halff őnnur alen betur. Enn ad breidd nedan xiij þumlungar ǻ annare alen. enn alen og ıx þumlungar offan ad breidd. Enn ad leingd einum þumlunge minna enn hǻlff őnnur alen. virtest þad godum mőnnum xxx vætter og þriar vætter. J ődru lage ȷtem nẏtt smiőr vij vætter. Skyllde þetta allt wera fyrer xl vætter.

Jtem lx fiska tals. og eitt kroff.

J elldsgőgnum eirn slőr elldspottur og iij smǻer. og enn fiorde brotenn. enn aller þeir hinu heilu miőg ellder. tueggia tunnu ketell miőg elldur og gat ǻ botnenum. Tunnu ketell i Selenu miőg gamall med. 5 fiőrdunga ketell bættur. Eirn lijtill ketill bættur med skipe ǻ Skaga.

Jtem bordbunadur. aatta triefőt heil og ɴijunda brǻkad. Jtem triefőt xx og ij gőd og vond. Skierbord xxx god og vond. Strijgadukur nẏr vj ǻlnum. dukslitur blǻmerkt. og lıȷtill forn lijndukur. Kniehandklædisslitur. iij erkur vondar. iiij matarlok lasenn. mioltunna so nær. ein rist. stőr tinkanna og stutkanna og tuær smǻkőnnur med tin. koparkanna og lekur. Piparkuőrn vijsad til malltkuarnar a Kimbastődum. Pundare og reisla. Smiőrȷarn.

Jtem ij vætter wllar fyrer werk til tueggia voda.

Jtem i ȷnnra bure iij affgőmul kierőlld i ȷőrd og fimm wppe med einu vppgieffnu. og ij gőd kierőlld aff kongseignum frǻ Mődrufelle.

Jtem xl trog heima og i Selenu. vond og gőd. wppgiőrdar kierőlld med vond og god xx og eitt. iij gamler strock-

ar. tveir i Sele og eirn heima. vii fôtur. flotar ij. dryckiaraskar ij. x sk᷎ler. ij wiigsluaskar. vij spæner.

Jtem i ambodum. ein hrip og ônnur brotenn. tuenner torffkr᷎kar. Kliffberar fimm. Paalar ij. Skiere. iij Naffrar. ein Øxe. lijtill huerffusteirn. Reip ᷎ fimm hesta. hrijffur x. iij kl᷎rur. Rekur ij med vôrum. ein kista. x aura vod. huder ij. iij orf. li᷎er iiij og liaspijk. Brŷne iij. wllarkambar tuenner. weffstadur alfær.

Jtem j st᷎rustoffu iij bord. forsæte lasenn. Kônnustolł. ij ȷarnstikur ur kirkiunne.

Jtem i Skaala iiij dynur vondar. iij hægennde. ij Aklædisslitur. ȷtem alfær sæng med re[c]kiuvodum og äklæde.

Til minnis i Selenu ȷlegur. Sigrijdur Þoralfsd᷎ttir med re[c]kiuvod. Gudrun Gilbrigsd᷎ttir medur vonda reckiuvod. ein hia Þuride Simonard᷎ttur. hia Biarna Klængssyne tuær.

J Badstoffu tueir Pallar og lijted bord.

Smidia alfær i wteskiemmu.

Jtem iiij lasar.

J Capitula allt sem i mijnum gamla reikninge stenndur vnnder abbadijsarinnar vardueitslu.

J frijdum Peningum.

Kŷr heima xvj og xıx i Selenu med wngum og gômlum. gilldum og ᷎gilldum. asaudur hundrad og x vngur og gamall.

Jtem ᷎ ad greidast i haust. ij Naut sex vetra. iij fimm vetra. iij fiôgra vetra. fiôgur þreuetur. fiôgur tuæuetur. tarffur tuæuetur og annar veturgamall. Kalffar fimm. iij aff þeim eru heima. fi᷎rde yffer i Kiôtu. enn fimte ᷎ Kiartansstôdum.

Jtem von gielldings ᷎ fialle aatta tiger tuæuetrer og elldre. Jtem L veturgamler.

Jtem i kôplum hestar ij wnger. þridie miôg gamall. fi᷎rde affgamall. hross fullordenn fimm. og eru tuô med folôlldum aff þeim. hross tuæuett. og vantar annad. Jtem hestur wngur golldinn fyrer hid siôtta hrossed affgamalltt. Jtem veturgamall fole og veturgamallt hross.

Jtem ketil fyrer þad heŷ sem brast ᷎ Reikning.

Jtem fyrer vanhôlld Jnnangaatta ij tinter og falkaspijra.

Jtem l hakallslyckiur fyrer ll. fiska og v til tals.

Jtem sexæringur gamall.
Jtem baatur lijtill lasinn.
Jtem halffur sexæringur lijtill i mots vid Magnus Jőnsson.

Reikningur jarda. kugillda og Lanndskyllda Reynestadar klausturs[1]).

Med Hoffe einginn kugillde. lanndskylld vj vætter skreidar.

Med Fialle og Steinastődum v kugillde. landskylld v vætter.

Med Hraune iij kugillde. lanndskylld iij wætt.

med Nese j kugillde. landskylld x/ vætt.

med Mallande ij kugillde. landskylld iij vætt.

Med Brőkarlæk ij kugillde. landskylld ij vætter.

med Selǻ iij kugillde. landskylld ij wætter.

med Huammkote ij kugillde. lanndskylld ij wætter.

med Skeffilstődum v kugillde. lanndskylld vj vætter.

med Haffragile iiij kugillde. landskylld ij vætter og x aurar.

med Skijdastődum v kugillde. landskylld kugillde. iij vætter og x aurar.

med Heide vj kugillde. landskylld iij ær. ij dagslǻttur. iiij aagillde.

med Wedramőte vj kugillde. landskylld kugillde. ij daga slattur xx aurar. xx alner fyrer kol.

Med Reykium iiij kugillde. landskylld vj vætter. x aurar.

med Holakote iiij kugillde. landskylld iij ær og x aurar.

med Steine iij kugillde. landskylld iij ær. ij dagslattur. xx alner.

med Jnnstalande iiij kugillde. landskylld iij ær. ij dagslǻttur. xx alner.

med Tungu [v kugillde. landskylld j^c og xx alner[2]).

med Hryggium iij kugillde. landskylld x aurar.

med Saudaa vi kugillde. landskylld kugillde. v ǻgillde. ij daga slǻttur.

---

1) Allr þessi reikningr er útsstr. 2) [hlaupið óvart yfir í handritinu um blaðsíðuskil, en tölurnar teknar úr síðari afhendingu (í sama handriti, bls. 238).

med Haffsteinstödum vj kugillde. landskylld kugillde. v agillde. ij dagslattur.

med Mel iiij kugillde. landskylld iij ær. x aurar.

med Geirmundarstödum vi kugillde. landskylld kugillde v agillde. ij d[aga] sláttur.

med Duke iij kugillde. landskylld iij ær. x aurar ij[a] daga sláttur.

med Lannde j kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur]. xl alner.

med Skardsaa iiij kugillde. landskylld kugillde. ij d[aga] sl[attur]. xl alner.

med Fialle iij kugillde. landskylld iiij ær. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

med Rygludal iiij kugillde. landskylld iij ær. ij hesta kol.

med Jpeshőle v kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] slattur. xl alner.

med Dauffaa iiij kugillde. landskylld iij ær og x aurar.

med Reykiarhőle iij kugillde. landskylld kugillde og j[c].

med Skördugile xv kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

med Kiartanstödum v kugillde. landskylld kugillde. ij d[aga] sl[attur] v aurar.

med Pauastödum v kugillde. landskylld kugillde. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

med minne Gröff iiij kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur]. x alner.

med Stőrugröff v kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

med Holltsmula vj kugillde. landskylld kugillde. ij d[aga] sl[attur]. v ágillde.

med Þraum v kugillde. landskylld j[c].

med Kietu iiij kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur].

med Hamre iiij kugillde. landskylld iij ær.

med Kielldudal iiij kugillde. lanndskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

med Hrollsdal[1]) iiij kugillde. lanndskylld iij ær. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

1) Svo hdr. = Hróaldsdalr = nú Hróarsdalr.

med Kaarastödum iiij kugillde. landskylld iij ær. ij d[aga] slattur. x aurar.
med Feriuhamre iiij kugillde. iij ær landskylld. ij d[aga] sl[attur]. x aurar.

Summa kugillda jc liij.

J skreid. slätt. elde xiijc.

Summa lanndskyllda xlc viijc.

Summa kugillda med jördum jc lvj.

Summa lanndskyllda xlviijc.

J Lanndskyllder xx kugillde golldest.

J skreid. slætte og eldum xiijc.

J leigur xl vætter. xiij.

Summa werdaurar alls lxxxiiijc.

Tueir hluter hier aff eru lc og vc. jc daler og xxxiiij.

---

## 108. 19. júlí 1556. á Bíldudalseyri.

Greipr prestr Jónsson andmælir þeim vitnisburði, er hann hafði spurt, að upp á sig hafi verið skrifaðr, um að hann hefði heyrt Ara Andrésson og Þórdísi Gísladóttur gefa Bæ á Rauðasandi Skálholtskirkju, ásamt skýrslu sama manns um eignarréttindi á sömu jörðu.

Bæjarskjalabók á Rauðasandi (bls. 23—4), sem talin hefir verið m. h. Orms Daðasonar (1726), en er hér og að öðru leyti (til bls. 172) m. h. Magnúsar Einarssonar á Jörfa stafrétt eftir frumriti: „Nedan ä brefed hefur einu jnsigle þryckt vered, sem nu ad mestu er i burt molnad. Var brefed ä päpir Ritad heillt og vellæseligt, og hliodar so ad ollu sem framan og ofan stendur“. — AM. Apogr. 1203, einnig stafrétt eftir frumritinu.

Ihesus.

Þad giore eg Greipur prestur Jonsson godum monnum kunnigtt med þessu minu oppnu brefi ad ec hefi spurt ad wppa mic hafi verid skrifadur vitnesburdur suo latandi. ad eg hefda heyrtt Ara Andresson og Þordisse[1]) Gisladottur gefa Bæg[1]) ä Raudasandi vnder Skalholltzkirkiu. huad eg seigi þar neig[1]) fyrer. og alldre hefur ec þad heyrtt af þeirra

1) Svo.

munne. og hafi þad verid wpp a mic skrifad. þa er þad rong sogn og osanniñdi wppa mic skrifud og þar vil ec gudz epter niota. og alldreigi hefur ec þar frekara vm̃talad nie vm̃ borid ad þa eg var ȷ minum vngdome ed eystra þa heyrda eg þui lyst og fleygtt þar vm sueiter ad þau villdu gefa Bæg vnder Skalhollttz kirkiu. Eñ ȷ odru lægi heyrda ec og sagtt þa ȷ þær munder. ad Gudmundi Andressyni hefdi skickast Bær til erfda epter fodur sinn Andres Gudmundsson. og hefdi þꝺ̃ dandi menn giortt þann sama med þeim brędrum Gudmundi og Ara. ad Are skylldi hafa til eignarhallz Bæg vm̃ sina daga. Eñ epter hanz dag þa skylld[e] hann aptur ganga vnder greindañ Gudmund ef Are ætti ecki skilgetin born epter sig. eñ væri Gudmundur fyrr afgeinginn eñ Are. þa skylldi Bær falla vnder nanustu erfing[i]a Ara Andressonar. Enn þann gard Bæg skylldi Are huorki giofum̃ gefa nie solum̃ selia nie forbriota meiga vndañ sinum erfiningium[1]) og med þessu forordi hefdi Gudmundur lagtt þennañ gard Bæg ȷ valld Ara fyrir dandi manna tillogur. var eg nu lxx$^{ur}$ mann ad alldre edur suo nær þa eg gaf vt þennañ minn vitnesburd. heill ad ollu vite og minne hier vm. Og til sanninda hier vm þa þrycki eg mitt ȷncigli nedañ ꝺ̃ þetta mitt vitnesburdarbref. huertt skrifad var ꝺ̃ Billdudalseyri. næsta dag fyrir Þorlaksmesso vm̃ sumared arum epter gudz burd. m. d. l. og vj ar.

---

## 109. 19. júlí 1556. í Nesi í Flókadal.

Vitnisburðr um bruðl Narfa Ingimundarsonar á eignum stjúpbarna sinna.

AM. Apogr. 4620 „Ex orig. Erlendz Jonssonar ꝺ Hvole. Utan ꝺ brefed hefur herra Gudbrandr teiknad alldr Brandzsystra“ (AM.).

Suo felldan vitnesburd ber eg Sueirn Jonsson at eg visse þad sannliga. at Narfe heitinn Ingimundarson hafdi j burt feingit Tungufell j Svorfudardal og suo allar þær jarder sem hann tok vid med sinne kuinnu Ordny Asgrimsdotter og hennar baurnum. Epter Helga heitinn Vigfwsson. Einum

1) 1203; -gum, Bæjarb.

þreinur edur fiorum ærum. neña leingur væri. ædur eñ Brandur Helgason edur nockur af hanz systrum voru af omaga alldri. Eñ þad Tungufell atte Vigfws bondi Þorsteinsson og villdi alldre afsala sier æ medan hann lifdi. oc var þad nær. iij. ær frañ yfer þad. Helgi sonur hanz añdatist. hafdi hann þa lyst Brand sinn erfingia. Þui matti Ordny alldri leyfa at selia Tungufell. eñ ecki heyrda ec þar vm rætt suo ec minnist Helgi hefdi giefid neinar giafer sijnum bavrnum helldur einu eñ audru edur giort nockur eignarskipti a sijnum peningum adur eñ hann deydi. annad eñ sijna testamentissgiord. þui aull hanz baurn vorv vng og eitt ecki til komit. hann var ecki meir eñ. x. ær æsamt vit sijna kuinnu. Eñ kuongadist einu ære fyrir plæguna. hier epter þessum mijnum framburdi ma ec sueria ef þurfa þikier. Og til sanninda hier vm set eg mitt jnsigli fyrir þetta vitnezburdarbref. huort er skrifat var æ Nesi j Flokadal æ sunnudaginn næstan fyrir Thorlakzmessodag vm svmared ærum epter gudz burd ↄↄ. d. l. og vi.

---

## 110. 25. júlí 1556. á Helgafelli

Knútr hirðstjóri Steinsson selr Daða Guðmundssyni á leigu Helgafellsklaustr og eignir þess.

Ríkisskjalasafn Dana, „Island, Færøe og Grønland", Supplem. I. nr. 11 (nú í þjóðskjalasafni). Bréfið er á pappír með oblátuinnsigli. Aftan á stendr (með samtíma hendi, líklega Daða sjálfs): „bref vp a Helgafellzklaustur", og enn (með nokkuru yngri hendi): „Knwtur up hæckar klausturs affgiftt".

Jeg Knudtt Stenssön kongl. Mayistatis befallings mand paa Isselandh kendis med thette mytt obne breff att ieg haffuer gyortt en contracth med Dade bonde Gudmun[d]ssön. paa kongl. Mayestatis myn naadi[g]ste herris weggen eftther thett obne besseggelde breff. som hans naade haffuer giffit meg att ieg skulle forhögge alle klosters affgifftt her ij landitt. tha effther thij att hans naadis breff saa indeholtt at ieg skulle lade alle thennum beholle same kloster som thennum nu wdij wede haffde om the wille giffue meg hues ieg den-

num forhøggendis worder paa hans naadis wegeñ. tha eftther mytt heffallings breffs lidelsse haffuer ieg paa mijn naadiste herris weggeñ haftuer ieg wntth forne Dade Gudmundssøn Helygefeld kloster som hand tiill forne haffde hans naadis breff paa. och skall forskreffne Dade Gudmundsson giffue kongl. Mayistat tiill affgifftt effther thenne dag. sijutije hundertt och lx wetter smør att bettalle huertt aar inden Sancthe Hans dagh wdij smør. fiske. wadmell eller Iocym daller saa som her paa lands wiss er iij daller for hundertt ett hundertt fiske for huudertt och xl alne wadmell for hundertt och xij føring smør for hundertt och skall forne Dade Gudmundssøn leffuerre thette forne gods ij Reff eller ij Komerwoghe eller ij Grindfyor[1]) her for[2]) westen huor som ieg eller kongl. Mayistatis ombods mand hannum tiill sijgendis worder. och skall thette werre gott køffmands gods. och skall forne Dade lade meg faa thett att wide huertt aar inden Sancthe Wolborrigh dag paa Bestedh huortt møgitt hand aff huertt slags gods leffuerre vill. desligeste haffuer Dade loffuitt att holle kloster och gods wedh heffd och macth och borgge alle klosters pennig och leffuerre forne gods fraa segh saa gott som hand wed togh ij alle maade och skall forskreffne Dade Gudmundssøn beholle forne kloster med all syn renthe och retighed som kongl. mayistatis breff lider som hand der paa haffuer. sameledis skall och forskreffne Dade Gudmundssøn tiill holle alle klosters bønder att the gelle terris tyme och prester teris retighed som the aff gameltt thytt gijortt haffuer etc. tiill windis byrd her om som for skreffuitt staar tricker ieg mytt signette for thette mijtt obne breff som skriffuitt er paa Helygefeld. S. Iacops dag. 1556.

---

**111.** **10. ágúst 1556.** **á Hólum.**

Visitatiubréf Ólafs byskups Hjaltasonar.

Bréf þetta er hér tekið eftir samtíða uppskrift m. h. síra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ í syrpu („Dægradvöl") hans. Er syrpa þessi nú í Add. Brit. Museum 11,242, 4to., komin frá Finni Magnús-

1) þ. e. Grundarfjörðr. 2) Tvíritað.

syni, en hann hafði fengið hana frá síra Gísla Jónssyni í Stærraárskógi (d. 1838), og er þar nú að eins síðari hluti bréfsins (á bl. 24r), því að næsta blað á undan hefir slæðzt úr syrpunni hjá Finni, áðr en hann lét hana af höndum. Er það blað nú í JS. 372, 4to., bls. 743—4, og er þar á fyrri hluti bréfsins. Bæði blöðin eru mjög fúin og ná ekki eyðulaust saman um samskeytin, auk margs annars í bréfi þessu, sem fúnað er úr og hér hefir orðið að fylla út eftir gátu, þar sem það þókti óhætt.

[Eg Olafur Hialltason vnder Gudz þolinmæde biskup a Holum og superintendens] Holabiskup[sdæmis] he[ils]ar ǫllum [mǫnnum lærdum oc l]eikum sem byggia oc bva j millum [Hrvtafiardaraar] oc Hieradzuatna med gudz kvediu oc [vorre. ydur ǫllum] saman sie kunnigt at epter þui uort biskup[ligt embætte til skylldar oss] at fara oc visitera vort biskupsdæmi. skoda [oc rannsaka huers] mannz liferne lærdra oc leikra. riettleida þa sem [villt]er fara. Eñ stadfesta þa sem godfusir ero oc ȷdivger ȷ gudz þionuztu oc kiærleika Epter þui at uier erum skyllduger at giora reikningskap a͛ gudz dome fyrir [þa͛ al]þydu oc almvga sem oss er æ hendi folgin gudz [ueg]na. Og at a[u]llum kirkium oc kirkna eignum a[t sia͛ huersu] skialliga þar er med farid suo at gudi sie heidur [giǫrdur] af þvi sem goder menn oc vorer forelldrar ha[fa] þar til gefid. þa ætlum uier ȷ nafne drottins at byria vora visitacionem heiman fra Holum svnnudagen næ[stañ] fyrir Bartolomei[1]). Ridum vier heiman oc til Holltz. þa til Vid[i]myrar. þa til Bergstada. Svo til Bolstadarhlıȷdar. þa til Blondudalshola. þa til Suinauatz. þa til Audkulu. þa til Grimztungu oc liggia þar ij nætur. [þa] til Undanfells. þa til Marzstada. þa til Uididalztungu. oc liggia þar ij nætur. þa til Stadarbacka. oc [liggia] þar ij nætur. þa til Stadar ȷ Hrutafiord. þa til Mels oc liggia þar ij nætur. þa til Kirkiuhuams. þa til Tiarnar [þa] til Hola ȷ Vesturhopi. þa til Breidabolstadar [oc liggia] þar ij nætur. þa til Þingeyra oc liggia þar iij nætur. þa til Hialltabacka. þa til Holltastada. [þa til Hauskulldzstada oc liggia þar ij nætur. þa til Hofs. þa] til Huams ȷ [Laxærdal][2]) . . . . . . . . . . .

1) þ. e. 23. ág. 2) Hér þrýtr það, sem samstætt fæst á blaðinu í JS. 372. 4to., og tekr þá við 11,242, og verðr þar gloppa um samskeytin.

. . . . . . . . . sæki sinar soknarkirkiur . . . .
ix eda x . . . . vier komum. þa halldi heilagt . . .
. . . æ huerium dege sem eg kem til huerrar kirkiu epter konglig maiestets bode oc skipan svo framt sem þeir vilia ecki vera bannfærder af oss oc þar epter æ af [valldzmanne] straffader. þvi vier vilium ecki svoddan osoma leingur [lijda]. svo at vier reynum ecki bædi kiennemennina oc svo þeirra vndergefinn lyd. huad þeim hefur a aukist um kienninguna. þvi vier vilium ȷ þessare visitacione reyna þad fullkomlig[a æn] nockurs dryckiuskapar eda gleymskan[ar] þess efnis sem eg [er skylldugur] at giora ȷ minu embætti oc kalli.

Kiærliga bidium vier alla goda menn ȷ greindu takmarki. at h[var] [þessi vor[1]) sendibodi N. N. son kann koma oc hest eda annat vid at þurfa. at þier stydiet hann oc styrkid. svo at þetta vort erende oc kirkiunnar verdi framkvæmt.

Oc til sanninda hier um þryckium vier vort innsigli fyrir þetta vort visitacionis bref. er skrifad var æ Holum ȷ Hialltadal .x. dag Augusti manadar anno domini ꝏ. d. l. vj.

---

112. 20. ágúst 1556. í Rødby.

Konungr býðr Páli Hvítfeldi að láta flytja íslenzku hestana tvo út í Saltbólm (Hér er einungis tekið það, er Ísland varðar).

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 5, 82v. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 431. — Uppskrift Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni.

Pouell Huitfeld fick breff som her eptherschreffuit staar etc.
Christiann etc.

Vor gunst tilfornn. . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . och maa thu lade the thuo Islands gangere komme vd paa Saltholmenn. at the kunde bliffue tiill pas egenn. . . . . . . . . . . . . . .

Actum Rôdbye xx. Augustj Anno 1556.

---

1) [þessa vora(!) hdr.

113. 30. ágúst 1556. undir Gnúpi.
22. febrúar 1557. í Saurbæ.

Jarðaskiptabréf á hálfum Hamri á Barðaströnd fyrir 8 hundr. í Hjarðardal minna í Dýrafirði með tveim kúgildum.

AM. Apogr. 1296, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar“.

Jhesus.

Þat giorum vier Þorlakur Einarsson. Biorn Biarnarson. Arngrimur Biornsson. Jon Ellingson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jhesu Christi mc. dc. l og vj ara a sunnudagin næstan epter Decollatio Johannis Baptiste um haustid under Gnupi ȷ Dyrafirdi þa vorum vier ȷ hia saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna af eirne alfu Eggert Hannisson logmann nordan og vestan æ Jslandi. Eñ af annare alfu Jon Olafson. en þat faldist og skildist under þeirra handabandi at greindur Eggert selldi Joni Olafsyni viijc ȷ ȷordunne minne Hiardardal. er liggur ȷ Dyrafirdi ȷ Myra kirkiusokn og þar med ij kuijllldi undan sier og sinum erfing[i]um eñ vnder greindan Jon og hans erfingia. med ollu þui sem greindum ȷardarparti a at fylgia med riettu. Hier i mothi selldi tittnefndur Jon Olafson adurgreindum Eggert Hannessyni halfa ȷordina Hamar æ Bardastrond xc at dyrleika j Briamslækiar kirkiu sokn undan sier og sinum erfingium en under greindan Eggert og hanz erfingia med ollum þeim gognum og gædum sem greindre halfri ȷordu fylger og fylgt hefer at fornu og nyv og Jon hafdi fremst eigandi at ordit. Skylldu huorer um sig hallda sinu kaupi til laga. en sæ suara lagariptingum sem af geinge med rettu logmali. Og til sanninda hier um̃ festi fyrr nefndur Jon Olafsson sitt ȷnsigli med vorum ȷnsiglum fyrir þetta kaupbref hvert at skrifat var ȷ Saurbæ ꜵ Raudasandi manudagin næsta fyrir Matthiasmessu vm veturinn arum epter gudz burd mc. dc. l og vij ar.

114. 30. ágúst 1556. undir Gnúpi.
22. febrúar 1557. í Saurbæ.

Eggert lögmaðr Hannesson og Þorlákr Einarsson skiptast við ýmsum jörðum, er bréfið telr upp.

AM. Apogr. 1292, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar“.

Jhesus.

Þat giorum vier Jon Olafsson. Halldor Einarson. Biorn Biarnarson. Arngrimur Biornsson. Jon Ellingson godum monnum kunnigt med þessu minu[1]) opnu brefi at þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jhesu Christi. mc. dc. l og vj. ara æ sunnudag hinn næstan epter dekollacio Johannis Baptiste um haustit vnder Gnupi i Dyrafirdi vorum vier i hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna af eirni alfu Eggert Hannesson logmann fyrir nordan og vestan a Jslandi en̄ af annari alfu Þorlakur Einarson. at svo fyrir skildu. at adurgreindur Eggert selldi Þorlaki adurgreindan̄ gard Gnup ſyrir lxc. Kluckuland fyrir xviijc. Hola fyrir vjc. Litlagard fyrir vjc. liggia þessar þriar utjarder i Dyrafirdi ȷ Myra kirkiusokn og þar til. xij. malnytu kuiilldi undan sier og sinum erfing[i]um en̄ under Þorlak og hans erfingia med ollum þeim gognum og gædum sem fyrskrifudum ȷordum fylger og fylgt hefer at fornu og nýu bædi til sios og lands og Eggert var fremst eigandi at ordin epter logum. En̄ hier ꜵ mothi gaf þratt nefndur Þorlakur Einarson optgreindum Eggert Hannissyni logmanni þessar epterskrifadar ȷarder Trod ȷ On̄un̄darfirdi ȷ Holltz kirkiu sokn fyrir xviijc. ȷ ȷordunni litla Hiardardal ȷ Dyrafirdi ȷ Myra kirkiusokn viijc. ȷordina Dranga i Dyrafirdi i San̄da kirkiusokn fyrir xijc. ȷordina Gesseyri fyrir .xxxc. og vc ȷ ȷordinne Hniot ȷ Orlogshofn er liggia ȷ Patrisfirdi ȷ Saudlausdals kirkiusokn. ȷordina Gillastadi fyrir xvȷc er liggur ȷ Krogzfirdi j Reýkhola kirkiusokn og med þessum ȷordum xiij malnýtu kuiilldi med ollum þeim gognum og gædum sem fyrrgreindum ȷordum fylger og fylgt hefer at fornu og nyu bædi til sios og lands og Þorlakur hefer fremst eigandi at

1) voru, útstrikað í Apogr.

Gud for den omhygelighed[1]) vor naadigste Herre Kongel: Ma: haffuer oc saa for alle eders salighed. oc som boo paa Jsland. oc haffuer bekostet denne Bogs[2]) vdprentelse. oc forskicket saadanne himmelske Perler til eder met forneffnde her Gilbert. Hvorfaare eder bør ocsaa inderligt at bede. at Gud vilde for sin søns skyld Jesu Christi. end nu i lang tid forlenge hans Kongel: Ma: leffnit.[3]) met sundhed. oc karskhed. oc met it fredsommeligt regimente. Gud til euig ære oc alle hans naadis Vndersaatte til bistand. trøst oc hielp. Vor Herre Jesus Christus vere met eder alle til euig tid. Screffuit i Københaffn. 50 Feb: Aar 1558.

---

## 208. [ca. 10. febr.] 1558. í Kaupmannahöfn.

Bréf Pétrs byskups Palladíuss til Gísla byskups Jónssonar (prentað framan við sálmakver hans, 1558).

Sálmakver Gísla byskups Jónssonar, Khöfn 1558, bl. Aj—Aij.

Peder Palladius. Til den fromme Her Gilbert Superintendent i Skalholt stict paa Jsland.

Naade oc Fred aff Gud ved Jesum Christum. Kære Her Gilbert. sønderlig gode ven. tacker ieg Gud. ocsaa for den gaffue. som hand haffuer giffuit eder til at Transferere. vd aff den Hellige Scrifft. paa Jslands maal. ocsaa Hellige sang. oc Aandelige Viser. til den Meninge[1]) Mands vnderuisning. trøst oc husualelse. Som ieg haaber at det fromme Klerkeri paa Jsland icke forsømmer ath siunge læsse oc scriffue disse Psalmer. och de som min fromme her Morthen Eynersen lod vdsette til gaffns. oc til Guds ære. Gud giffue sin naade der til Amen. Oc som den Hellige Paulus raader alle Fromme Christne. vdi sit sendebreffs femte Capittel til de Epheser. Der som hand saa siger.

Bliffuer fulde aff Aanden. och taler met huer andre. om Psalmer oc Loffsange oc Aandelige Viser. siunger oc leger for Herren i eders Hierte. oc siger altid. Gud oc Faderen tack for alting. i vor Herris Jesu Christi naffn.

---

1) Svo. 2) Sogs, frumr. (prentvilla). 3) leffuit, frumr. (prentvilla).

Der faar er det gaat oc effter Guds vilie. at framsette oc bruge Hellige Psalmer som i her gøre til Guds ære. tagen-dis løn aff hannem. oc hannem eder Befalendis til euig tid Amen.

---

## 209. 18. febrúar 1558. í Holti.

Testamentisbréf Þorleifs lögmanns Pálssonar á Skarði.

Hér tekið eftir tveimur uppskriftum: 1, uppskrift í þjóðskjala-safni m. h. Magnúsar Einarssonar á Jörfa, gerðri beint eptir frumrit-inu á kálfskinni, en nú er hún brot eitt músétið; 2, uppskrift eftir gömlu uppskriftinni Magnúsar, meðan hún var heil, innfærð í Sýslu-mannaæfir Boga Benediktssonar, og segir Bogi uppskrift sína gerða í flýti á Staðarfelli 2. dec. 1837. Þar sem gamla uppskriptin og upp-skrift Boga verða bornar saman, má sjá, að uppskrift Boga er ekki sem nákvæmust, þó að fylla verði út etir henni eyðurnar í Jörfaupp-skriftinni. Neðan við gömdu uppskriftina stóð: „Ofan og framan skrifað eptir heilu og vel læsilegu pergamentisbréfi in originali með ósködduðu hangandi innsigli Þorleifs Pálssonar. Vitnar að Jörfa þann 3ia Maii 1744.

Ormur Daðason. Magnús Einarsson."

Bréf þetta er prentað í Sýslumannaæfum II. bls 638—40.

Testamentum bref Þorleifs Pålssonar.

Jn nomine domini amen eins gudz i algiordre þrenn-ingu. hann se vernd min. vardveisla. varigd og vidvorvn allra minna vondra verka og haskasamligra hugrenninga bæde fyrir lif og sal. eigi sidur hialp min og heilsa. hal-kuæmne og hugarstirking til allra godra verka. endurbæting. afmaning allra minna misferla [og mot]stadligra afbrota et cetera. Giore eg Þorleifur Palsson svo fellt testame[ntum fyrir] minne syndvgre salu. Steinunnar minnar. barna minna. fedgina f[rænda allra] og foreldra gudi til lofs og dyrdar og hans milldvzstv modur [mey og jungfru sancte Mar]ie oss greindum monnum til æuenligrar og oendanligrar glede og [ǫllum kristnum salum. heill] ad uite og vitzmunvm. og skyre skinseme. J fyrstu [gef eg mig allzvalldanda gu]di grædara minvm i valld og hans [haleitv modvr. hvn ui[rdizt ad bidia fyrir mier sinn] sæta[zta so]n drottenn vorn [Jhes-um Christum ad hann] miskv[nni mier og fyrirgefi mier allar mi]nar [saker og synder. sem eg hefi honum a moti

giôrt med ord og vmlidin vond verk. J fyrstu kys eg mier og minum likama legstad ad kirkinni a Skardi. Þar med gef eg greindri kirkiu sidan stack. eg a. og vil eg vr honum se giôrder ij hauklar. Þar til gief eg henni kaleik. eg a. med þui forordi. ef nockrer vilia hann i burt hafa. svo kirkian megi ecki niota hans. skulu mınir [erfingiar] hann aptur til sin taka. Jtem gef eg kirkiunni i Garpsdal iarn til iarnkalls. og .x. alna langar hillur. Jtem gef eg sonum minum þremur i þessa mina testamentum giôf suo fellda peninga. Jn primis gef eg Sigmundi syni minum iôrdina Mela. sem liggur a Skardzstrond fyrir þriatiger hundrud. og þar til med .x. malnytiukugilldi. og daggard fyrir siô hundrud. þar til þriu hundrud og tuttugu i gelldum peningum. nautum og saudum og daudum þarfligum peningum. med þeim fiorum hundrudum. er eg hefi anafnad honum. þar [til] tel eg honum tie er eg a a Grôfum. Asmundi syni minum gef eg iôrdina Kleifa. sem liggur i Gilsfirdi fyrir iiij^c og xx. og þar med .x. malnytiu kugilldi. og stackshnappa fyrir .v. hundrud. er eg hefi golldid fyrir hann. og þar til skipa eg honum vj^c i daudum peningum þarfligum. Olafi syni minum gef eg iôrdina Þorustadi. sem liggur i Bitru. fyrir xvj^c. og þar med þriu malnytiu kugilldi. Jtem gef eg Þordisi dottur minni iôrdina halfa Kvennahvol. Jtem gef eg þeim presti. sem mig syngur til molldarinnar kugilldi. Serdeilis gef eg orikum fatækismonnum þeim sem bera bôrn sin a vonarvol fimnı .c. i smiôrum. vadmali. skoledri og færleikum. og vil eg golldid se ad næstum fardôgum epter. er gud mig] burt kallar. Jtem lena eg Gudrunu Petursdottur jordena efra Hvitadal sem liggvr i Saurbæ i alla sina lifsdaga an navckurar landskilldar edur leigv eñ þa hvn vill ecki ẏrgreinda jord leingur hafa. skulv miner erfingiar hana aptur taka. Jtem gef eg sin tie hvorvm þeirra brædra Jone Peturssyne envm elldra og envm ẏngra. Sveine Sigmundzsyne gef eg .x. avra af landskilld sinne.[1]) Jone Olafsyni a

1) Hér kemur á eftir: *og sinna*, og er undirstrikað í gömlu uppskriftinni, sem táknar, að það skuli falla burt, enda fellt réttilega niðr í uppskrift Boga.

Geirmundastaudvm adra x aura. kugilldi gef eg hvorvm þeirra Tirfinge og Birne. Gvdrvnv Petvrsdottur gef eg hest sem kendur er Avsta[n]iarpur. Gvdmunde Jonssyne gef eg brunskiottan hest. eg á. skulv þessar greindar giafer minar med þeim fleirvm giofvm og giorningvm sem hier epter standa snuast vpp i mina testamentvmgiof. salvgiof. tivndargiöf. og allar þær lægiafer sem kristen rettur æ kvedur [ad fra]mast meigi gefa ad lægvm. lysi eg mina peninga ix c. hundrada med þeim [attatiu] hundrudvm sem Steinon min á hia mier. hier med gief eg Gunnari Einarssyne [hundradz uppfædi i minum] peñingum. so og gef ec ævenligt bord Vigdise frændkonv minne. G[udrvnu Einarsdottur og Gud]rvnv Þorsteinsdottur. Gudrvnu Sigurdardottur og Gudrvnu [Olafsdottur. skil eg þad til. þær] synge dagliga af tavlvm pater noster fyrir salv minne. barna [minna. frænda og forelldra]. so og ei s[idur skipa eg]. ad miner erfingiar gefi fimm [aura i kosti árstidardag minn] so leinge [sem eg lifi fat]ækvm monnum sem mest [þurf]a. [so gef eg Sigridi dottur minne krossinn þann sem eg á hia henni. og reidskap minn. Gudrunu dottur minne gef eg festina mina. og hestinn þann. sem hun hefir adur gefid mier. Serdeilis skipa eg Sigridi dottur minni Skard a Skardzströnd til fullrar eignar med þui moti ad Gudrun dottir min fai adra peninga jafna ad lögligri virdingu. so um bidiandi Gudrunu mina og Sigridi. ad þær samþycki þessa mina testamentumgiörd og reidugliga gialldi sierhverium þad eg hefi ecki sialfur ánafnad. Hier med gef eg upp allar öreigaskullder. so og bidiandi alla menn. þeir fyrirgefi mier allar minar vondar misgiörder. Serdeilis mina undermenn. So er eg og umbidiandi alla goda menn sem standa yfer minum greptri. þeir segi mier nockrar godar bæner. so aller þeir er mitt andlat fretta. Gef eg alla mina undermenn kvitta. og þa sem mitt hafa þegid an heimilldar. Bid eg ad þessi min skipan og testamentumgiörd halldist epter þui sem kristin rettur og lögbokin innihelldur um allar þær giafer sem i þeim finnast. so öngvar onytist so framarliga sem þeir vilia fordast andliga pinu annars heims og ávitan þeirra manna. sem þessi litil ölmusa er gefin. skal þessi min testamentum

giörd standa obrigdanlig hedan i fra. Og til sanninda her um set eg mitt innsigli fyrir þetta testamentumbref. hvort skrifad var i Hollti i Saurbæ tolfta calendas Marcij manadar. ærum epter gudz burd ꝏ. d. l. og atta.

---

**210. 21. febrúar 1558. á Hólum.**

Þorbergr bóndi Bessason lýsir því, að hann hafi fengið Ólafi byskupi Hjaltasyni til eignar jörðina Litlatungu í Bárðardal.

AM. fasc. LIV, 16, (nú í þjóðskjalasafni), frumrit á skinni úr safni Hólastóls; „sk." (skilist), og »36" í kopíubók stólsins. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr, 3465.

Þat giore eg Þorbergur bondi Bessason godvm monnum kunigt med þessu minu opnu brefi. at eg hefi feingit biskup Olafi Hialltasýne ȷordina Litlatungu ȷ Bardardal. er liggur ȷ Lundarbrecku kirkiusokn. til fullrar og allrar eignar og frials forrædis. undan mier og minum erfingium. Eñ under hann. eda þann sem hann uill greinda ȷord gefa. edr giallda. þui ec hefi fullt og allt verd vpp borid fyrir þessa fyrr skrifada ȷord sem mier vel ænæger. Og til sannenda hier um set eg mitt ȷnsigle fyrir þetta bref. Skrifad æ Holum ȷ Hialltadal xxj dag Februarij manadar anno domini 1558.

---

**211. 28. febrúar 1558. í Kaupmannahöfn.**

Konungr leggr Gísla byskupi Jónssyni tíundir úr nokkurum sýslum.

Bps. Skalh. II, 3, frumrit á skinni, með innsigli konungs. — AM. Apogr. 2509. — Steph. 57, 8vo., bl. 441 (ritað fyrir Árna Magnússon). — Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 629. — Prentað í FJ. Hist. eccl. Isl. II. bls. 336—7, í MKet. I. bls. 387 og í JS. Lovsaml. for Isl. I. bls. 75—6 (alstaðar þar ágrip eftir Reg. p. a. L.).

Gilberts breff paa nogen tiende.[1])

Wij Christiann thenn tredie mett Gudtzs naade. Danmarckis. Norgis. Wenndis och Gottis konning. Hertog vdi

---

1) Utan á bréfinu með gamalli danskri hendi, væntanlega Knúts hirðstjóra Steinssonar.

Sleswig. Holstenn. Stormarnn och Dytmerskenn. Greffue vdj Oldennborg och Delmennhorst. Giøre alle vitterligtt att wij aff wor synnderlig gunnst och naade haffue vnndtt och tilladett och nu mett thette wortt obnne breff vnnde och tillade. att all thenn stuund Oss Elskelige hederlig och hoglerd mannd her Gilbertt Superintendentt tiill Sckalholtzs stigtt paa wortt lannd Jslannd. er Superintendentt vdj for^ne stichtt. maa och skall hannd tiill sinn vnnderholdinng. nyde. bruge och beholde. all wor och kronenns tiennde aff thesse effterschreffnne syssell. somm er Awstfierdesyssel. Sidesyssell. Arnnesyssell och Jsefierdtzssyssell. Thij forebiude wij alle ehwo thee helst ere eller were kunnde. serdelis wore fogeder. Embitzmenndth. oc alle andre for^ne her Gilbertt her emodt paa for^ne wor och kronenns tiennde. aff for^ne Syssle. effther somm forschreffuitt staar. att hinndre. eller vdi noger maade forfanng att giøre. vnnder wortt hyldest och naade. Giffuitt paa wortt slott Kiøbennhaffnn then Ottennde och Tiuge dag Februarij. Aar et cetera M.D.Lviij.

Wnnder wortt Signnetth

Christian.

---

**212.** **28. febrúar 1558. í Kaupmannahöfn.**

Konungr skipar síra Gísla Jónsson byskup í Skálholtsbyskupsdæmi.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 5, 336 (uppskrift Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni). — Prentað í FJ. Hist. Eccl. Isl. II. bls. 336 og í MKet. I. bls. 385—6.

Her Gillebert fick breff att skulle were superintendent wdj Skallholtzs sticht paa Jslanndh saa liudendis.

Vij Christiann etc. Giøre alle witterligt. att wij nu haffue forordineritt. tilltroett och befallitt och nu mett thette wortt opnne breff forordinere. tiltroe. befalle och fuldmagt giffue oss elskelige her Gillebertt att were superatendenth offuer alltt Schallholtzs sticht paa wortt land Islanndh ther att drage omkringh och haffue tillsiunn wdj alle geistlig sager och predicke och lere Guds ord och thett hellige euangellium

rennt och clartt for allmuenn och wisitere alle sognekierkerne wdj forschreffne Skalholtzs sticht och haffue flitig tillsiunn. saa Guds ord och euangelium predickis och leris rennt och clartt offuer ald forschreffne Skallholtzs sticht. och att religionenn hollis wed magt och wdj alle maade rette seg epther thenne wor obnne beschreffnne reformatzs och ordinantzs. som wij hanem medgiffuett haffuer. och skall hannd nıett skollenn och skollmesters wnderhollingh rette seg epther hues breff. som wij tillfornn ther om haffue ladett wdgaae. Thij bede wij och biude alle wore fogittere. embitzmendh och alle anndre offuer alltt forschreffne Skalholtzs stigt. attj forschreffne her Gilebertt wdj same sytt superintendentzs embede paa wore wegne ere bystandige. och hanem ther huos hantthaffue och beskierme. Thessligiste biude wij mienige allmuge. geistligh och werdsligh. ingenn wndertagett ther samesteds. attj rette ether epther same wor reformatzs. som hannd etther wdj saa maade paa wore wegne foregiffuendis worder. then wdj alle maade att fuldgiôre och wed magt holle epther som then wdj alle maade wduiser och indeholler. Och lader thett ingennlunde. Giffuit etc. Datum Kiôpnehaffnn 28 Februarij aar etc. mdlviij

Regie maiestatis manu
propria subscripsit

---

## 213. 2. mars 1558. á Syðri Ökrum í Blönduhlíð.

Gunnar Gíslason og Magnús Jónsson transskribera transskript frá 5. febr. 1451 af bréfi um Helluland, Ásgrímsstaði og Skíðastaði frá 13. mars 1388.

AM. Fasc. IV, 10 (nú í þjóðskjalasafni). Sjálft transskriptið frá 1558 á skinni. Bæði innsiglin eru dottin frá, og sjást förin eftir þau.

Þat giorum wid Gunnar Gijslason og Magnus Jonsson godum monnum kunnigtt med þessu ockru opnu brefi at vit hôfum siet og yfer lesit so latande bref med heilum og lesanligum hangande jnciglum suo latande ord efter ord sem hier fyr skrifad stendur. Og til sanninda hier vmm setium vit ockur jncigle firi þetta transkriptum bref skrifad

a Sydrum Aukrum [j] Blondu hlijd j Skaga firde midvikudaginn næstan fyrir Jonsmesso vmm veturinn a faustu arum epter gud[s] burd m. d. l. viij.

---

## 214. 7. mars 1558. í Kaupmannahöfn.

Sendibréf frá Gísla byskupi Jonssyni til Daða bónda Guðmundssonar.

AM. Apogr. 4654 „Ex originale chartaceo (innsigludu sendibrefi) fra vicelògmanninum Oddi Sigurdssyne“, og er uppskriftin með hendi Árna Magnússonar. „Signeted utan å er lited og innan i þvi (IHS)“.

Jhesus.

Astsamlig heilsan i gudi almattigum vid hans son Jhesum Christum sendizt ydur alla tima af gudi og mig til minn kiære broder.

Alla hlute er eg ydur þackandi bædi forna og nyia mier synda.

Vitid kiære vin. ad mier geingur allt vel til æ lickamans vegna þat gudi minum til kemur. Suo og hefi eg nædugan kong. þar med vinattu og kunnskap allra bestu manna. Jtem kiære vin. ydartt bref færda eg fyrer minn herra konglig Majestet og hans næd bifaladi Cantileranum[1]) ad lesa þat. veit eg eigi hvertt svar ad eg mun fæ. Trueg ad Knutur vilie i virdingunum sitia i þvi og odru. svo og hefi eg þat annad bref fyrer hans næd borid et cetera. Jtem kiære broder hafa mestar tiunder sagt oss goda natt ur Jslandi. hverium þat er ad k[ienna] þat veit gud.

Eigi kann eg nu ad skrifa ydur til ad sinne um allt eitt og annad sem hvad i hveriu er ordit. þvi eg hopunzt ad vid munum sialfer med gudz hialp vel og glader finnazt. Jn Summa: allt gott og gamallt ockar i millum bundit vil eg giarna hallda i mina lifdaga og ydarn bog ad hyllazt. Eigi kann eg ydur nu meir ad tilskrifa. þvi ad þetta er med flyte og skyndi. utan hier med ydur til lifs og sælar almattigum gudi bifalandi amen.

1) Svo.

Skrifat i Kaupenhafn Nonas Martii anno 1558.

Ydars heidurskvinnu og svo ollum ydar seigi eg þusund goda natt amen amen.

Ydar

Gisle Jonsson

S: S:

Minum kiæra vin Dada bonda Gudmundzsyne. sendizt brefit med godheit.[1])

---

**215. 21. mars 1558. á Borg.**

Próventubréf Ólafs Eyjólfssonar, og leggur hann með sér part úr Barkarstöðum í Miðfirði í hendr Árna sýslumanni Gíslasyni fyrir framfæri á einhverju búa hans.

AM. Apogr. 4645 „Ex orig. Hlidarend. ordriett eñ ei stafriett. A brefenu virdizt mier hônd Arna Gislasonar ä Hlidarenda." (AM.). Árni segir til innsigla.

Proventubref Olafs Eyolfssonar.[2])

Þath giorum vier Eigill Jonsson. Jon Jonsson og Jon Sveinsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu Brefe. ath ærum efter Gudz burd ꝏ. d l.viij. ær. æ Borg ȷ Vididal. vorum vier ȷ hia. sæum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna Olafs Eyolfssonar og Arna Gislasonar. ath suo fẏrer skildu. ath ædurnefndur Olafur Eyolfsson fieck Arna Gislasẏne thil fullrar Eignar og friäls forrædiss. xc ȷ ȷordunni Barkastaudum er liggur ȷ Midfirde ȷ Stadarbacka kirkiusokn. hueria fẏrnefnda ȷord Olafur hafde Erft efter sinn faudur Eyolf Olafsson. fieck tittnefndur Olafur oft nefndum Arna fẏrrgreindañ ȷardarpart thil fullrar eignar og friäls forrædis og þath meira sem hann mætte ȷ fẏrrgreindri jordu Barkastaudum med laugum eiga. vndañ sier og sinum Erfingium. Eñ vnder Arna Gislason og hañz Erfingia med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum ȷardarparti hefur fylgt ath fornu og nyu og Olafur vard fremst Eigande ath. Hier ȷ mót lofadi Arne Gislason þráttnefndum Olafe Eẏolfssẏne framfære æ sinum penningum

---

1) Þetta stoð „utan ä brefenu". 2) m. h. Árna Magnússonar.

suo leinge sem Olafur lifdi. Skildi oft nefndur Olafur sier atta alner vadmalz arliga. og þuj jãtade Arne. Lofadi þrættnefndur Olafur ath beria fisk suo sem vid þyrfti ã þuj bui. sem Olafur hefdi sitt framfære æ. og hann væri med jafnade æ. for þesse fyr skrifadur giorningur fram manudaginn næstañ efter midfaustu. Og thil sanninda hier vm setium vier vor jnsigle firer [þetta] bref er skrifad var j sama stad og are. halfri annari viku sijdar Eñ fyr seiger.[1])

---

**216.** **1558. 29. mars 1559.** **á Finnsstöðum.**

Bjarni bóndi Erlendsson heitir að rifta eigi kaupi Þorsteins Einarssonar á Steinsvaði af Diðrik Hannessyni.

AM. Apogr. 4316 með hendi Styrs Þorvaldssonar „Ex orig Petrs Asmundzsonar".

Þat giðrum vid Jon Biornsson [og] Asgrimur Jonson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. þa lidet var fra Guds burd þusund dc l og viii. voru vid tilkalladir af Þorsteini Einarssyni ad sia og heyra a ord og handsöl Biarna bonda Erlendssonar [og] Þorsteins Einarssonar at Biarni Erlendsson lofadi fyrgreindum Þorsteini med handsölum at tala alldri uppã þad kaup sem Þorsteinn Einarsson keypti vid Didreck Hannesson partinn j Steinsvadi halt et njtianda c Ok til sannenda hier um setium vid ockar jnsigli fyrer þetta vitnisburdar bref. skrifad a Finnstöðum fiorda dag paska äre sijdar eñ fyr seiger.

---

**217.** **31. mars 1558.** **á Laugum.**

Kvittun Torfa Þorsteinssonar til Ólafs byskups Hjaltasonar fyrir skilum föðurarfs.

AM. Fasc. LIV, 17, frumrit á skinni (nú í þjóðskjalasafni), og er innsiglið fyrir. — AM. Apogr. 3464.

Þat giore ec Thorfi Þorsteinsson godvm monum kvnigt

---

1) Annað hvort 31. mars eða 1. apr.

med þessv minv oppnu brefi. at ec medkienunst og vid geing at ec hefi uit tekit af biskup Olafi .vjc j so ordnum peningvm. hestum. kugilldum og smiorum sem hann atti mier at greida og mier hafde til erfda fallid epter minn faudur. og þui giore ec og gief fyr nefndan herra Olaf Hialltason aullungis kuittan og akiærulausan fyrir mier og minum erfingium. Og til sannenda hier um set ec mitt jnsigli fyrir þetta mitt kvittunarbref. skrifad æ Laugum j Reykiadal. fimtudagin næstan fyrir palmadag um vetvrin. arum epter gudz burd. ꝏ. d. l. viij.

---

218. 3. apríl 1558. í Saurbæ.

Sjöttardómr, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, um skuldir Jörundar Steinmóðssonar.

AM. Apogr. 1277, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar."

Jhesus.

Þath giorum vier Biorn Biarnason. Biorn Konradsson. Oddur Helgason. Einar Pallsson. Stulli Eyiolfsson. Gudbrandur Biarnason. Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi æ manudæginn næstan fyrir kyndelmesso um̄ veturinn[1]) þa lidid var fra hingadburd vorss liufa lausnara Jesu Christi. ꝏ. d. l. og viij. ar j nedre Huostu j Arnarfiardardolum á þingstad rettum uorum vier j dom nefnder af vel bornum manni Eggert Hannessyni logmanni nordan og vestan á Jslandi somuleidiss kongz umbodzmanni j millum Gilsfiardar[2]) og Langanes einvirduliga ad skoda og rettiliga ad ransaka og fullnadar domss adkuædi á ad leggia epter logum wm þa ágreining sem Jorundur Steinmodzson sagdi ad væri j milli sin og nockura manna þeira sem skullder hefdi ad honum att. þa er hann fiell j sitt brott þath ollum nu liost er sem almattugur gud honum bot á vinne. Sagdi greindur Jorundur ad þeir villdi heimta sinar skullder ad honum ur þui fie sem honum hefdi aflast. edur til erfda fallid sidan ad hann feck sina kuittan utgefna af vorum

---

1) þ. e. 31. jan. 2) Gilsfiardar ar, hdr., og gæti verið = Gilsfjarðarár.

nadugasta hogbornasta herra konginum. Beiddi fyrskrifadur Jorundur Steinmodzson adurnefndan logmann hier dom yfer ad seigia huortt hann skylldi tilskylldast med rettu logmali þessar fyrskrifadar skullder ad greida af þessum fyrskrifudum peningum edur skylldi þeir adgang eiga sinna skullda j þa peninga sem hann att hefdi þa er hann fiell i malid. Nu af þui ad suo stendur ritad liosliga j sialfum tegxta bockarinnar þar suo seiger. Enn huergi skal kongur edur erfingi fyrre taka fie mannzbana og aungañ anan utlaga eyri. Eñ adur sie golldnar allar logligar skullder þær sem fýr voru giorfar Eñ fie fiell j þa sök. Seiger og suo i sama capitula. eingin madur ma meira fie fyrirgiora ad einu sinne eñ þui sem þa er hann eigandi ad ordinn og þui fyrir þessar lögmætar greiner og suo adrar fleiri sem j logmalinu standa og hier ad hniga. þa virtist oss greindur Jorundur þeim peningum ecki hafa matt fyrirgiora sem skullder ꝺ̃ stodu þa er hann fiell i malid helldur virtist oss þat þeirra eign vera og verid hafa sem skullder attu ad honum suo myck[lar] sem þeir hefdi kunnad sig til ad leida met logligum uitnum af þeim peningum sem hann med hondum hafdi þa er hann fiell ȷ malid Eñ þo ad þeir menn sem skullder attu ad greindum Jorundi. þa þo er hann fiell j sitt brot villdi huorcki nie svo hefdi viliad nie nentt ad sækia sinar skullder ȷ þa peninga sem hann hefdi att þa er hann fiell j malid. virtist oss optnefndur Jorundur edur hanz erfingiar ecki meiga giallda þeirra forsomunar edur vilialeysiss et cetera. Og þui er þat vor settur domur og samþycktur med fullu domss adkuædi ad þratt nefndur Jorundur Steinmodzson edur hans erfingiar sie þeim aungum skulldum skyllduger ad suara af þeim peningum sem honum hafa aflast edur til erfda fallid sidan ad hann feck sina kuittan logliga utgefna af minum herra konginum. Og þa sem skullder hefdi ad honum att. skylldi epter logum sækia sinar skullder ȷ þa peninga sem hann med hondum haft hefdi þa er hann fiell i malid. og ecki hefdi adrer menn att hia honum ad lani edur leigu.

Logsamdi og samþyckti þennan vorñ dom med oss adur skrifadur logmann og setti sitt ȷnsigli med vorum ȷnsiglum

fyrer þetta domssbref huert er skrifad var ȷ Saurbæ á Raudasandi um veturinn þridia dag apriliss manadar arum epter gudz burd. ꝏ. d. l. og viij ar.

---

**219.** **8. apríl 1558. á Hofi í Vatnsdal.**

Bréfságrip um afhending jarðarkröfu Steinunnar Jónsdóttur á hendr Páli, bróður hennar, í hendr Jóni Björnssyni, syni hennar.

AM. Apogr. 4661, m. h. Arna Magnússonar.

1558. in passione Domini ad Hofi i Vazdal feck Steinun Jonsdottir syni sinum Jone Biörnssyni þá. lxc iörd med .vi. kugilldum. sem hun ætti hiá Pale Jonssyne brodur sinum. *ex originali.*

---

**220.** **10. eða 17. apríl 1558. á Ketilsstöðum.**

Kaupbréf fyrir Bakka litla i Tungu.

AM. Fasc. LIV, 18, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum er 1 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 4418.

Bref-vm̄ littla Backa.[1])

Þat gioruṁ vier Ari Joṅsson. Gudmundur Sẏgurdsson. Biarne Joṅsson. godum monnum vitaṅlegt med þessu woro opnu brefi. þa lidit var fra gudz burd. ꝏ d.l. og viii. voruṁ vier j hia. [sunnudagenn næstaṅ epter yṁbruviku æ laṅgafaustu.[2]) at Jon Magnusson. af einni alfu. selldi Joni Jonssyne. sẏne sinum. ȷordeṅa Backa .vj. huṅdrut at dyrleika. huer er liggur j [Kirkiubæijar[3]) kirkiusokn. med þeim aullum gaugnum og gædum. sem greindri ȷordu fẏlger og fylgt [hæfer[3]) med þessum takmaurkum wt ȷ [Geirstadi.[3]) og sionheṅding nordur ȷ Jokulsá. og rettsyni vpp ȷ Hrerikslęk. og őr læknum og fraṁ ȷ Merkidal. er hann kalladi Eñ æ milli stora Backa og litla Backa. fyrr greindrar ȷardar. eru þessi takmaurk fraṁ ȷ Beriahol og vpp æ halsenn. og nordur ȷ Iokulsæ. hier ȷ moti gaf fẏrr nefndur Jon Jonsson .vı.

---

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi. 2) [Svo, þ. e. 6. mars. 3) [Svo.

hundrut fyrir opt nefnda ȷord litla Backa. skýlldi þar ȷ vera þriu malnýtu kugilldi og þriu hundrut ȷ aullum þarflegum peningum og gialldazt wt æ þrimvr ærum̃. skýlldi Jon Magnusson suara lagariptingum. enn Jon Jon̄sson hallda til laga. Hier med gaf Jon Magnusson þratt nefndum sýne sinum Jone Jonssyne alla þa bushluti. er þar væri saman̄ komner vtan̄ stocks og ȷnnan̄. var fra tekin̄ kista stor og .v. skiolna ketill. saudull og sein̄g hans. og bækur allar. skildi Jon Magnusson sier æbýle æ þessari ȷordu. og suara aullu fyrir. sua leingi sem hann hefdi. Og til sannen̄da hier vm̃ settu vier fýrrskrifader menn vor ȷnnsigli fyrir þetta ȷardakaupsbref. huert skrifat var æ Ketilstaudum æ Vaullum. [Sunnvdagenn ȷ paskaviku. æ sama æri og deigi sem fýrr seger.[1])

---

## 221. 18. apríl 1558. á Möðruvöllum.

Vitnisburðr um jarðabruðl Narfa Ingimundarsonar.

AM. Fasc. LIV, 19. frumrit á skinni. Innsiglið er fyrir bréfinu.— AM. Apogr. 640.

Sala Narfa J[ngimundarsonar]. Gisle Hak[onar]son.
alldur systra.[2])
at Narbe sellde allar ȷarder stiupbarna sinna
og hafde eckirt fyrir ad setia.[2])

Þad medkiennist ec Gijsle Hakonarson oc giore godum monnum kunnigt med þessv mȷnu opnv brefe ad eg var hia staddur a Stad ȷ Reynenese oc fleire menn adrer er þav ræddust uit abbadijs Solveig oc Narfi heitinn Jngimundarson. hvn ataldi hann nockud hardliga. oc sagdi hann breytti illa uit konv sijna oc baurn hennar. selldi ȷ burtu allar þeirra eigner. ad raunarlausu. en baurnin geingi allz an̄dvana oc feingi ongva sijna atvinno. þui sa ordromur for þa eigi lǻgt vm̃ Skagafiord. En̄ ecki uard af hans forsuare. nema

---

1) [Svo. Það ætti að vera páskadagrinn sjálfr 10. apr., nema það eigi að merkja sunnudaginn eftir páskaviku, 17. apríl. 2) Utan á bréfinu með gamla skrift tvenns konar (og er hin fyrri hönd Guðbrands byskups, hin síðari Ara í Ögri).

þad. hann sagdist þeim einvm hafa feingit þær ȷarder sem ba[u]rniñ attv. þeim hefdi verit sialfvm kvnnvgt til vm omagagossiñ. þui aunguar ȷarder hefdi hann att ad setia ȷ stadin. þeir hefdi oc ecki þess leitad vit sig. Suo oc vissa ec Gudrun heitin Helgadotter feck alldre neina peninga hia Narfa heitnum. hverki epter faudur sinn nie modur. oc suo andadist hvn. Eñ Helga oc Hallbera sælvdvsst[1]) ungar stulkur heima a Þuera ȷ Skagafirdi hia modur sinni og feingv þær allz ecki af sıȷnım arfi. oc eingiñ þeirra systra. þui Narfi var fielaus madur. Enn þeir vmbodzpeningar sem hann hafdi eyddvst mest allt j sakfelli oc onytsamligum kaupskap. Og til meire sanninda hier vm set ec mitt jnnsigle fyrir þetta bref hvort er skrifad var a Mavdrvuollvm j Haurgardal. mænudagenn næstañ epter paskaviku. arum epter gudz burd. ꝏ. d. l. oc viij.

---

**222. 22 apríl 1558. í Kaupmannahöfn.**

Konungr veitir Símoni kaupmanni Surbeck leiðarbréf til Vestmannaeyja.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 614. (Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 465, Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Symon Surbeck fick fǒlge breff tiill indbygerne paa Wespenǒe vt sequitur etc.

Wij Christian then Tredie etc. helsse etther alle vore oc kronens wndersotte. bǒnder oc thiennere oc menninge almue. som byge oc boe paa wort landt Wespenǒe. euindeligenn mett Gudt oc wor naade. Wij bede etther alle oc huer serdelis biude. at y strax her effther rette etther effther att swaare oss elskelige Symon Surbeck. borger her wdj wor kiǒpstedt Kiǒpnehaffnn. giffuenndis oc giǒrendis hanom oc ingen andenn paa wor wegene etthers aarlige landgilde. gaardfestening. sager ǒer oc all andenn renthe och rettighedt. som y oss oc Norgis krone pleye oc pligtige ere att giǒre oc giffue oc y aff arrildtz tiidt giordt oc giffuit haffuer. tiill

---

1) Svo.

saa lenge wij anderledis ther om tiillsigenndis worder. Hand skall ther for aarligenn giôre oss gode rede oc clart regenskaff och holle etther alle oc huer serdelis wedt Norgis lough. skiell oc rett oc ingenn aff etther tilstede at wforrettis emodt lougenn wdj nogre maade. Thij lader thed ingennlunde. Giiffuit paa wort slott Kiôpnehaffnn thenn xxij dag aprilis aar etc. m d l viij

Regia maiestas manu propria subscripsit.

---

223. 24. apríl 1558. í Kaupmannahöfn.

Konungr felr Knúti hirðstjóra Steinssyni að semja við Daða Guðmundsson um bætr fyrir hjúskaparbrot hans.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 629. — F. J. Hist. Eccl. Isl. II, bls. 337. — MKet. I. bls. 387—8.

Dadde Guthmerssen fick breff som her effther fölger.

Vii Christiann thenn tredie &c. Giöre alle wittherligtt att efftherdii wii ere komne wdi forfaring. huorledis wore wndersotte Dadde Guthmerssenn paa wort landt Islandt haffuer thiit oc offtte seg forseett wdi sit egtheskab oc beleyett hans syskindbarne. szammeledis wdi mange andre sager som handt seg emodt oss forseett haffuer. saa handt ther offuer er oss forfaldenn. tha haffue wii tiiltroet oc befallet. oc nu mett thette wort obne breff tiilltroe beffalle oc fuldmagtt giffue oss elskelige Knudt Steenssenn wor mandt thienner oc Embitzmandt paa forskreffne wort landt Islandt. att schulle paa wore wegenne afftinge oc bliffue tiil ens met forschreffne Dadde Gutthmerssenn. huad handt oss giiffue schall for alle the sager som handt til thenne dag seg emod oss forseett haffuer oc huess forschreffne Knud Steenssenn mett hanom ther om tiill ens worder skall bliffue widt syn fuldmagtt vdi alle maade. oc hues forschreffne Dadde Oss for synn forsômmelsse. wdlouendis worder. Skall forschreffne Knudt Stennssenn paa wore wegenne wpbere. oc giôre wor Renthemester paa wore wegenne Regnschaff fore. Tiill ydermere wittnisbyrdt &c. Actum Kiöbnehaffnn thenn xxiiii dag Aprilis aar Mdlviii.

Regia Maiestas manu propria subscripsit.

---

**224. 24. apríl 1558. í Kaupmannahöfn.**

Konungr veitir Páli Vigfússyni lögmannsdæmið sunnan og austan á Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 630 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 463). — Prentað í Safni til sögu Íslands, II. bls. 213—14.

Pouell Wichfussen fick Breff som Effther fölger.

Vij Christiann thenn tredie.

Giöre alle wittherligtt att wij haffue forordineret oc tilskickedt thenne breffuiser Pouell Wichfussenn att were fuldmegtige Laugmanndt faar syndenn oc östenn paa wort Landt Jslandt. Oc ther att skicke huer mandt fattige oc Riigh thedt loug skiell oc Rett er. Effther Jslandsche loug. till saa lenge wij anderledis ther om tiillsiigenndis worder.

Thij bede wij oc strengeligenn biude alle wore wndersotte som bygge oc boe for syndenn [oc] östenn paa Jsland attj Retther etther effther att annamme for[ne] Pouell Wichfussenn for Etthers Laugmandt. giörendis och giffuendis hanom huess Rettighedt som y hans Forfedre. Laugmandt ther paa Landet giffuit oc giortt haffuer. oc y Etthers laugmandt met rette pligtige ere. Handt skall Egenn skicke Etther alle oc Huer serdelis. loug. skiell oc Rett. Effther Jslandtz loug Thij lader thedt ingenlunde.

Actum Kiöpnehaffnn thenn xxiiij aprilis Aar mdlviij.

Regia maiestas manu propria suhscripsit.

---

**225. 24. apríl 1558. í Kaupmannahöfn.**

Konungr veitir Eggert Hannessyni lögmannsdæmið norðan og vestan á Íslandi (ágrip).

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 630 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 457). — Prentað í Safni til sögu Íslands, bls. 214.

Eggerdt Hanssenn fick lige saadant Ett breff att skulle were Laugman for nordenn oc westenn paa Jslandt. Datum loco. die et anno vt in precedentibus literis.

---

226. 1. maí 1558. á Kvígandisfelli.

Erlingr Runólfsson selr Eiríki Jónssyni og niðjum hans tolllaust uppsátr í Arnarstapavík í Sellátra landi.

AM. Apogr. 4646, m. h. Þórðar Þórðarsonar. „Utan á brefed er skrifad med hendi sem eg ætla sie Þorleifs Magnussonar, þá hann var ungur og skrifade vel“. (AM.).

Þat gior[e] eg Erlingur Runolfssoñ godum monnom kunnigt med þessu minu brefi at ec medkennunzt þat ath eg hefer sellt Eireki Jonssẏni med ıaẏrdi og samþẏcki Margrettar Grim̄sdottur konv minnar at latæ gangá tolllaust sexæringsskip j Arn̄arstapavik j Selatra[1]) lan̄dein̄gn̄[1]) vn̄dan ockur og ockar erfin̄giū eñ vn̄der adurgreindan Eirek Joñsson og hans erfin̄giæ vm alldur og æfi. Eñ fyr grein̄dur Eirekur gaf ockur hier á mote hundrad j þeim̄ peningum sem mier vel likade at taká hvad ec reikn̄a tvær uætter fiskæ og .vj. fiordungæ ketil. og þar til fimtiger alner j þeim peningum sem ockur Margretu uel likade at taka. þui gior[e] eg og gef tittnefn̄dan̄ Eireck Joñsson aurlun̄gis kuittan og ákærulausañ firer mier og minum̄ eppterkomen̄dum̄ vm̄ oṗṗtnefndt tollver ȷ Arnarstapáuik hver ȷord Selatur lıggur ȷ Laugardals kirkiusokn ȷ Talknafirde. Og til sannin̄da hier um̄ settá eg mitt ȷnnsigle fẏrer þetta kaupsbref skrifat á Kuıgan̄disfelle j Talknáfirdi sunnudaginn næstan firer crossmesso vm vorit anno Domini ꟾ° D° xl xviij ær.

Þetta fyrer framan og ofan skrifad bref er riett copierad epter gömlu kálfskinnsbrefe, nu innsiglislausu. Til sannenda merkis vor underskrifadra nöfn i Skálhollte þann 22. Junii Anno 1712.

Arne Magnusson.
Þorleifur Arason.
Þórdur Þórdarson.
Pall Hakonarson.

---

227. 8. maí 1558. á Hafgrímsstöðum.

Sjöttardómr dæmir tilkall Einars Oddssonar fyrir hönd konu

1) Svo.

sinnar, Ólafar Pétrsdóttur, til Vallholts hins ytra undir lögmannsúrskurð og til Öxarárþings.

AM. 381, fol., uppskrift á pappír frá ca. 1570, „feinged af Sr. Þorde Jonssyne á Stadarstad" (AM.). Sbr. lögmannsúrskurð frá 6. sept. 1568. — AM. Apogr. 330 (eftir þessari gömlu uppskrift). — Er og í bréfabók Guðbrands byskups (sjá hina prentuðu bréfabók, nr. 374).

Wtskrift af Vallholltzdome og logmannz wrskurde.[1])

Aullum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. sendum vier Magnus Biornsson Tumi Þorgrimsson. Olafur Thomasson. Eyiolfur Arngrijmsson. Petur Þorsteinsson. Gottskalk Tumason kuediu gudz og vora kunnigt giorande þa ed lidid var fra Guds burd 1558 fim̄ta Dag viku þa er iij vikur voru af sumri[2]) j ytra Vallhollti j Skagafirde nefndi og krafdi Einar Oddsson os vppa gudz vegna og laganna til ad skoda og rannsaka. og fullnadardom a at leggia. huorsu ad logligast skylldi til lyckta leidast su akiæra er hann klagadi efter jordunnj Vallhollti enu ytra. huoria hann kalladi konu sinne Olofu Petursdottur til erfda fallid hafa efter modur sijna Helgu Arnadottur af þeim eignum sem Teitur heitinn Þorleifsson hafdi att til forna. J fyrstu kom þar fram̄ fyrer os. ad greindur Einar hefdi brigdad fyrr sagda jord. ad rettum landabrigdum. og stefntt Hakoni Jonssyni er þa hiellt fyrsagda jord heimstefnu rettre eftter logum Hafdi stefnan suarin verid epter logum godum monnum hiaverandi. var nefndur Hakon krafinn af domsmonnum ad nefna menn til domz af sinni hendi epter logum. huad hann sagde nei fyrir. og eckj suar fyrir greida vm̄ tijdtt sagda jord. J annari grein kom fram̄ fyrir oss vitnisburdarbref sera Magnusar Gudmundssonar med hanz jncigli suo latandi. ad hann hefdi hia verid þa Petur Oddason hefdi fest Helgu Arnadottur efter logum. modur Olafar Petursdottur. Somuleidis var þar og vpplesin lysing. Gudrunar Jonsdottur. ad hun hefdi verid barnfædd j Skagafirde. oc alldre annad heyrtt. en̄ hun væri hanz eiginkona. J þridiu grein kom fyrir oss bref med jnsigle Olafs Hialltasonar so hliodande. ad hann gaff Petrj Oddassyni æfinliga prouentu

1) Aftan á bréfinu. 2) þ. e. 5. maí.

af domkirkiunnar fie. fyrir þa peninga sem honum hefdi fallid efter Teit Þorleifsson til erfda. vegna sonar sijns. Og vnder Hola kirkiu hefdi runnid j faustu og lausu. J fiordu grein kom fyrir oss at Þoruardur Petursson broder Olafar Peturzdottur hefdi nockra peninga vppborit af biskup Joni fyrir sinn partt wr sogdum peningum. Medkendist oc þad Petur Oddason fyrir os. ad Einar Oddsson hefdi fest tijdtt nefnda Olofu Peturzdotter[1]) med sijnu jayrde. oc samþycke Oddi heitnum logmanne. og morgum odrum godum monnum hiaverandi. Somuleidis kom þar og fram̄ Copia af Seylu Domi huorn wt hafde nefndtt Hrafn̄ heitinn logmann. og so jnnihiellt. ad aller þeir peningar sem Teitur Þorleifsson atte adur hann fiell j þa sauk. er domurinn jnnihelldur. skilldu falldner[1]) vnder kong og erfingia. og Hrafn logmann skylldugan̄ af ad greida allar logligar skullder. Seigir suo j vorre landz laga bok. Efter gognum og vitnum. skal huert mæl dæma. En̄ af þuj ad heimstefnu vitni voru logliga leidd þa dæmdum vær stefnuna logliga oc Hakon Jonsson rettilega fyrirkalladan̄. Jtem j odrum stad seiger og suo j logmalinu. ad hann skal stefna honum til jardar þeirrar er hann brigdir. og flytia þar vitne sijn. Jtem j iij[1]) ad vj skynsama menn skal huor þeirra nefna j dom̄ a stefnu. ad virda vitni þeirra og malaefnj. J iiij mäta seiger oc suo Nu kiemur ecki sa er stefndtt var. þa skal sækiandi lata bera stefnu vitni sijn. og sijdan eignarvitnj. þa skulu domendur dæma honum jord. En̄ hinn snuist ꝺ̄ sinn sala. En̄ oss virtist bref herra Olafs fullt eignarvitni. vm̄ sagdan̄ arf vegna Olafar Petursdottur. og þau fleiri gógn sem þar ad hnigu og fyrir os kom. J v^a talar og suo Texti bokarinnar þar ed menn sia eckj logskipti æ landi. þa skal skipta husum. eingium. todum. rekum. skogum. Hliodar þar vpp æ Seyludomr. ad logmadur skyllde laugskipti æ giora. Nu fyrir þessar allar adur sagdar greiner og þær fleiri sem hier ad hnijga. og j logmalinu standa. og ad suo profudu oc fyrir os komnu. þa dæmdum vær med fullu domz attkuæde. alla þessa adur sagda klogun til næsta Auxarꝺ̄r þijngz fyrir heidarligan̄ herra Eggert

1) Svo.

Hannesson logmann oc hann skylldugañ þar loglig skipti á ad giora. edur þad fyrsta hann kann vid ad komast. á fyr sogdum Teitz peningum. millum kongz og erfingia. og lyckia allar logligar skulldir af sogdum peningum. epter þvi sem Seylndomur jnnihelldr. vtañ þar þa fram̃komi med fullum skilrijkium. ad loglig skiptte hafi adur á komid. Eñ saker þess ad Olof Peturzdotter hafe ecki vppborid af þessum eignum. þa dæmdum vier Einarj Oddssynj vegna konu sinnar jordina j[1]) ytra Vallhollt j Skagafirde. sem Hakon hefur halldit til halldz. þar til ad logmadurinn skipter honum þeim parte sem honum ber vegna Olafar wr sogdu fie. og Einar mega ad sier taca nefnda j jord. ad næstum fardogum. j suodan mæta. ad þeirri vtskript jnncigladre ad ij^r skiluijsum monnum sem hann þar fram̃ bar. af Seylu domi ad hun sie ad ollu samhliodande vid fullmecktugañ Seyludom. Og til sanninda hier vm̃ setium vier fyrr skrifadir menn vor jnnsigli fyrir þetta domzbref. huert ad skrifad var á Haffgrijmsstodum j Tungusueit s[unnudaginn] næstañ fyrer Halluardj martiris[2]) vm̃ vorid á sama ari sem fyrr seigir.

---

## 228. 9. maí 1558. á Víkingavatni.

Samningr um reka Garðs og Víkingavatns í Kelduhverfi.

Steph. 27, 4to., bls. 151—2, Svartskinna, m. h. Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, ca. 1730. — Uppskrift frá ca. 1850 meðal Klifshagaskjala í þjóðskjalasafni.

Bref um Reka Vijkingavatns.

Þad giorum vid Þorgeir Pietursson. Arnfinnur Simunarson godum mönnum kunnugt med þessu ockar opnu brefe. ad þa lidid var fra Gudz burd 1558. aar a Vijkingavatne i Kiellduhverfi 9. dag Maij manadar hejrdum vier og saum uppa ord og handsöl sijra Sigurdar Jonssonar sem þa atti Vijkingavatn og sijra Jons Jonssonar er þa var Beneficiator a Gardstad i Kiellduhverfe ad svo fyrer skilldu ad þeir sömdu med sier um̃ þann agrejning sem var á mille Gards stadar og Vijkingavatns um rekamork. kom þad samañ effter

---

1) þ. e. hálfa. 2) þ. e. 8. maí.

þvi sem aller gamler menn hielldu ad Gardsstadur ætti Skalagards hro vestur i midiann Skorning i motz vid þann holma er hejter Bringukollur. og aller visso at Vijkingavatn á þad og riettsyne ut or þeim midium Skorninge. Riettsyne ut i sio nærri rekamarke mille Vijkingavatns og Gards reka. og þar vestur fra ætti Vijkingavatn allan reka itölulaust á motz vid Lon. Enn austur fra midium Skorninge eignade Sigurdur Vijkingavatne land austur yfer Moduoxl eftter þvi sem innsiglad bref vel jc ara gamallt (sem hann þar þá las og synde).[1]) utvijsade. og Gardsstadur ætti reka allan hvals og vidar utan vogrek austur fra midium Skorninge i mótz vid Kelldunes. skylldu og Gardsmenn eignast þar leigulida gogn og vagta sialfer rekann j sinum firrgrejndum rekaparte. þo Vijkingavatn ætti þar under land. skyllde þetta obrigdanlegt stödugt standa æfinlega utan önnur bref gomul skyrlegre syndust. eda Hola Registrum gamallt odruvijs bevijsade. þad vijsum monnum med dóme virdist skiallegra.

Og til sannende hier umm setium vier firrskrifader menn ockar jnnsigle fyrer þetta bref er giordt var under Fiollum i Kiellduhverfi a sama dag og fir seger.

---

229. 10. mai 1558. á Skarði.
1562. á Skarði.

Guðrún og Sigríðr, dætr Þorleifs lögmanns Pálssonar, skipta arfi eftir föður sinn.

AM. Apogr. 4648 „Ex originali fra Skarde á Skardzströnd." M. h. Þórðar Þórðarsonar.

Þat giaurum vier Arne Gislason. Sigurdur Oddsson. Tyrfingur Halldorsson. Biörn Jonsson. Gudmundur Jonsson og Jon Sigurdsson gódum maunnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at arum eptir Gudz burd M. D. L. og viij. ar. a þridiudaginn næstan eptir krossmessu vm vored a Skarde a Skardsstraund worum vier til nefndir af heidarligum manne Eigli Jonssyne vegna kvinnu sin[n]ar Gudrun-

1) þ. e. vitnisburðr Sveins Þorkelssonar 1441.

ar Þorleifsdotter[1]) af eirne alfuu. svo og af annare alfuu. vorum vier til nefndir af Sigride Þorleifsdottir[1]) systir[1]) adur greindrar Gudrunar. ad skipta. sundur telia og saman jafna þeim peningum sem fyrgreindum sÿstrum hafdi til erfda fallit epter sinn faudur Þorleif Palssoñ hvers sal Gud nádat og fridat hafi. Geingu þessir allir fÿrrnefndir menn til einz handabandz Eigill og hans kvinna Gudrun saumuleides og hennar systur[1]) Sigridur. Skilldest þad undir þeirra handabandi. at þau lofudu med fullum handsaulum og jayrdi at hafa og hallda þat arfuaskipti er vier fyr greinder menn giordum þeirra j millum. Nu sakır þess at fyrr nefndur Þorleifur bondi Palson hafde ænafnad j sinne testamentum giaurd til arfskiptis sinne dotter[1]) Sigridi garden Skard æ Skardzstraund fyrir hundrad hundrada. kunu[1]) vier þar ecki j moti at mæla. þui skiptum vier Sigridi til arfz og eignar ȷ sinn faudurarf [þessum utjaurdum med adurgreindum gardi svo heitandi vtjardir.[2])

Hvalgrafir xxxc̨
Kross iiijc og xx.
Reynekellda xujc̨
Frackanes iiijc̨ og xx.
Hnukur xujc̨
Ormstadir xvjc̨
Langeyiarnes viijc̨ og Klackar.

liggia þessar fyrrgreindar jardir æ Skardzstraund.

Hier j mot skiptu[1]) uær Gudrunu Þorleifzdottur j sitt hlutskipti og faudur arf Holi j Bolungarvik med þessum utjaurdum er þar med fÿlgia.

fÿrst Mydalur xijc̨
Hlid. iiijc̨ og xx. med Trod og Budum.
minne Hlid viijc̨
Tunga xijc̨
stærra Hraun vjc̨
Kroppstadi iijc̨
Backi xijc̨
Keflavik viijc̨

---

1) Svo. 2) [Svo.

Gaulltur xijc

Reiknazt þessar allar utjardir med adurgreindum gardi Hole at dyrleika hundrad hundrad xxxc og vijc betur. þar med eyiarnar Oddznauta xvjc A Skardzstraund svo heitandi jardir.

Galltardalur xxxc
Kiarlagzstadir. iiijc og xx.
Vogur xijc
Stackaberg xijc
Langey xijc og Emburhaufdi.

Sidan skipti[1]) vær fridum peningum og daudum til helminga med adur greindum systrum.

Og til sanenda hier um setium vier fyrrnefndir menn vor jnsigli fyrir þetta arfskiptabref hvert skrifat uar æ Skardi æ Skardzstraund. iiij. arum seirna en fyrr seiger.

---

**230. 21. maí 1558. á Svalbarði.**
**15. mars 1559.**

Krafa Jóns Björnssonar til móðurföður síns, Jóns Magnússonar á Svalbarði, um greiðslu fjár þess, er hann hefði umboð yfir haft sín vegna og systkina sinna.

AM. Apogr. 4650, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Sira Þorleifs Arnasonar á Kalfafelli.“ Árni segir, að aldrei hafi önnur innsigli fyrir bréfið komið en innsigli Hjálms Þorsteinssonar. — AM. 234, 4to., bls. 552, skr. ca. 1600.

Þad giori ec Sira Jon Jonsson. Arngrimur Kolbeinsson. Hialmur Þorsteinsson Godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ab þa lidid var fra Gudz Burd ꝏ d. l og viij. ár. æ Sualbardi æ Sualbardzstrond laugardaginn næstañ epter vppstigningardag. um vorid. uorum vier j hia saum og heyrdum upp æ ad Jon Biornsson beiddist og krafdist allra þeirra peninga kuikra og daudra af sinum modurfodur Joni Magnussyne sem hann ætti sier ad giallda og greida og hann hefdi til umbodz haft vegna Jons Biornssonar og hans sÿskina. og þar epter stefndi Jon Biornsson adursogd-

1) Svo.

um Joni Magnussyne ȷ Hunavatzþing ad fiortan natta fresti og skylldadi hann ath greida þar þad fie er hann hefdi medtekid sinna vegna oc sinna syskina. Og til sanninda hier um setium uier fyrrskrifader menn vor incigli fyrir þetta vort vitnisburdarbref huert skrifad var ā miduikudaginn næstan fyrir Gudmundi episcobi[1]). ari sidar eñ fyrr seiger.

---

**231. 23. maí 1558. í Glaumbæ.**

Kaupbréf fyrir 20 hundr. í Sólheimum í Sæmundarhlíð.

AM. Apogr. 4642, „Ex orig. Gudmundar Þorl[eifs]s[onar]“.

Þat giorvm vid Einar Gilbrigztson. Arne Jonson godum monnum kunigt med þessu ockru opnu brefi arum epter gudz burd ɱ. d. l. og viij. Sunnvdagin ȷ fardogvm[2]) at Glavmbæ i Skagafirdi vorum vid ȷ hia savm og heyrdum aa ord og handaband sera Gottskalz[1]) Jonzsonar og Gvnnlaugz Sæmundzsonar at svo fyrir skildu at Gvnnlaugur Sæmundzson selldi Gottskal[1]) presti þann .xx^c. þridiung sem hann vard fremst eigandi at med logvm ȷ ȷordunne Solheimvm ȷ Sæmundarhlid er liggur ȷ Glavmbæiar kirkiu sokn med ollvm þeim gognum og gædum sem þeim parti hefur fylgt at fornu og nyu. hier ȷ mot gaf og gallt sera Gottskal[1]) Gvnnlavgi Sæmundzsyni 'fiogur hundrud og .xx. ȷ gilldum peningvm og godum. Skylldi sera Gottskal[1]) hallda þessum .xx^c. parti til laga en Gunnlavgur Sæmundzson svara lagariftingum aa þessum ȷardar þridiungi er hann sellt hafdi. Og til sannenda hier vm set eg Gottskal[1]) prestur mitt ȷncigle med fyrr greindra manna ȷnciglum fyrir þenna giorning er skrifadur var ȷ sama stad deigi og ari sidar[3]) en fyr seiger.

---

**232. 23. maí 1558. á Egilsstöðum.**

Tylftardómr um málakröfu Þórunnar Einarsdóttur í garð bónda síns, Bjarnar heitins Jónssonar.

1) Svo. 2) Það hlýtr að vera = sunnudaginn fyrir fardaga, 22. maí, því að sunnudagrinn í fardögum 1558 er sjálf hvítasunna (29. maí). 3) „voluit, nisi fallor, intelligi: i sama stad og ari. deigi sidar.“ (AM.).

AM. Apogr. 4644 „Ex orig. Hlidarend. ordriett eñ eigi stafriett. Jnnsiglen eru burtu, ad frateknum tveimur ólæselegum".

Øllum monnum þeim sem þetta brief siá edur heyra. sender Eirekur bonde Sniolfsson. Jon Skulason. Finnbogi Jonsson. Þorsteinn Einarson. Magnus Ketilsson. Markus Jonsson. logriettumenn. Arne Brandsson. Arnfinnur Jonsson. Asbiorn Arnason. Steingrimur Gudmundsson. Jon Þorsteinsson. Ormur Skeggiason. kuediu Gudz og syna kunnigt giorandi. þa er lidit [var frá] Jesu Christi fæding m. d. l og viij. æ Eigilstodum æ þingstad riettum. mánudaginn. upphaf fardagaviku. vorum uier til kallader og j dom nefnder af heidarsamlegum[1]) dandi manni Biarna Bonda Elleńsýni er þa hafdi mins nádugasta herra kongsins syslu og vmbod yfer Austfiordum at skoda og rannsaka og dom æ at leggia vm þat tilkall sem Þorunn Einarsdotter klagadi j gard sins Bonda Biarnar heitins Jonssonar. huers sál jlyfur Gud nædi. sem var vm hennar mála. huern hun reiknadi tuo hundrud hundrada og þar til .lxc. betur. huar ed uppa hliodade hennar skial med skiluysara[1]) dandi manna jnnsiglum. at svo væri sem hun fram̄ bar. Var su vor hin fysta grein þar til sem logmalid hliodar. Ef madur fær konu at landz logum riettum og giefur henne tilgiof og fellur hann frá. þa skulu henni lukast þing sin og heimañfylgia af sialfz hañs fie medañ þad vinnst til. J audrum stad jnne helldur laugmálid suo. huorke hiona skal fyrirgiora nie fyrirmæla Annars féé. J þridia parti fram̄ kom fyrir oss medkenningarbref hennar bonda fýrrskritadrar kuinnn med hanz sialfs eigiñ jnnsigli. at hann hefdi hennar peninga mist fyrir sina Eigiñ vanrækt og med olaugum. Þuj j nafne drottins Amen ad suo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier med fullu doms atkuædi opt skrifadre kuinnu Þoruni Einarzdottur sinn mæla oskertan halft hid þridia hundrad hundrada og kiorgrip at auk. eñ hanz Erfingia skyllduga aptur at leggia þa peninga sem hann hafdi giefid þar til þeir hafast riettar tolur vid bædi j landi og lausum Eyre og hun hefur sinn mala. Enn Erfingia Biarnar heitins skyllduga at greida henni sinn mála med annara dandi manna rædi nu j næstum fardaugum.

1) Svo.

Samþýckti þennañ vorn dom fýrrnefndur valldzmann og setti sitt ȷnnsigli med vorum ȷnnsiglum fyrer þetta domzbrief. Skrifad ȷ sama stad deigi og are sem fýr seiger.

---

**233. 24. maí 1558. á Grund.**

Þórunn Jónsdóttir selr og gefr Jóni Björnssyni, bróðursyni sínum, Vetrliðastaði í Hnjóskadal.

AM. Apogr. 4077 m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali" á kálfskinn.

Þad giorum uier Magnus Gunsteinsson. Jon Olafsson. Augmundur Niculasson og Hialmur Þorsteinsson godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu Brefi. æ Grund j Eyiafirdi þridiudaginn næstañ epter vppstigningardag. þa lidid uar fra guds burd. ꝏ. d. l. og uiij. ar. uorum uier j hia saum oc heyrdum æ ord og handaband þessara manna Þorunnar Jonsdottur. og Ions Biornssonar Brodursonar hennar. þad faldist og skildist undir þessu þeirra handabandi ad Þorunn selldi gaf og gallt fyrsögdum Joni Biornssyne brodursyni sinum iordina alla Veturlidastadi xxx$^{c}$ ad dyrleika er liggur j Hnioskadal i Hals kirkiusokn med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindri iordu fylger oc fylgt hefur ad fornu og nyiu oc Þorunn uard fremst eigandi ad ordiñ undan sier og sinum erfingium odrum. eñ undir Jon Biornsson og hans erfingia. hier ȷ mot lofadi Ion Biornsson adur sagdri Þorunni Jonsdottur x. malnýtu kugilldi og ii hundrudum j audrum godum peningum. þa er þad xij$^{c}$. eñ halfa iordina gaf oc gallt Þorunn Ionsdotter fyrgreindum Ioni Biornssyne i sin þionustu laun oc annañ goda sem Ion hafdi forþienad. skylldi fyrrgreindi peningar greidast og gialldast innan x ara edur fyrri ef Ion uilldi. hier med lofadi optnefndur Ion ad uera Þorunni til goda þad hann mætti med æru orka. Samþyckti þennañ giorning Þorsteinn Gudmundsson med sinnar kuinnu radi Þorunnar Ionsdotter[1]) og setti sitt incigli med uorum fyrrnefndra manna jnciglum fyr-

---

1) Svo.

ir þetta giornings Bref huert er skrifad uar j sama stad og dag sem fyrr seiger.

---

**234. 28. maí 1558. á Eyrarlandi.**

Vidimus af Seyludómi 21. janúar 1527 um eignir Teits Þorleifssonar.

AM. Apogr. 3844 „Ex chartis herra Oddz biskups. fra Leyrárgördum" (AM.), og eru hér gömlu blöðin sjálf skrifuð ca. 1605.

Þad Giörum vid Sera Suarttur Arnason og Páll Jonsson gödum monnum kunnugtt med þessu ockru opnu brefe ad vid hofum sied og yferlesed suo látande doms Bref ord eptter ord sem hier fyrer ofan skrifad stendur. Og til sanninda hier vm þryckium vid fyrr skrifader menn ockar jnnsigle nedan fyrir þetta Bref skrifad a Eÿrarlande j Eyiafirde a fostudaginn næstan eptter vppstigningardag vm vored Arum eptter Guds burd. m. d. l. viij ar.

---

**235. maí 1558.**

Samningr um fóstr Bjarnar, sonar síra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ.

Add. British Museum 11,242 (FM. 206), bl. 26. Blaðið mjög skemmt.

m. d. Lviij

Þad giore ec Einar Gilbrigtzson oc Sigurdur Þorsteinsson g[odum monnum kunnigt at . . . .] næsta epter krossmesso um uorid j Glaumbæ uorum uid j hia [saum oc heyrdum] ä ord oc handaband sera Gottskallz Jonssonar oc Þoualldz [. . . . . . at] svo fÿrir skilldu at Þoualldr lofadi at ueita Birni [syni] sera Gottskalks j næstu þriu ar gott fostur til fæd[is . . . . . .] skylldi standa fÿrir honum ku vj uetra .ij ær tuæuetra. þria[r] þreuetra. vij fullordnar tannlyta lausar. tuau vj uetra gomul hross gelldur . . . tvo saudi iiij vetra oc einn veturgamlan fyrir ij^c. Skylldi hann giallda aptur þessa peninga med eins alldre.

Samþyckti þetta seirna kona hans.

Var þetta utgolldit heima j Glaumbæ at fardogum ꜳ sama are.

---

236. 4. júní 1558. á Borg.

Jóni Björnssyni dæmt umboð systkina sinna, barna síra Bjarnar Jónssonar á Meli.

AM. Fasc. LIV, 20, frumrit á skinni komið til Árna Magnússonar frá síra Skúla Þorlákssyni á Grenjaðarstöðum. — AM. 255, 4to., bls. 349—51. — Lbs. 61, 8vo., uppskrift, gerð fyrir Árna Magnússon, eftir AM. LIV, 20 („Ex orig. fra Sira Skula Þorlakssyne"). Lýsir Árni hér nákvæmlega innsiglum bréfsins. „Originalbrefed ꜳ eg nu sialfur" (AM.). Ekki ólíkt hendi Árna Gíslasonar sjálfs.

Domur um umbod barna sira Biarnar Jonssonar (biskups) dæmdest Jone Biðrnssyne[1]).

Þad giorum uier Einar Sigurdzson. Sigurdur Þormodzson. Þorarinn Gislason[2]). Gudmundur Jngimundarson. Gisli[3]) Brandzson og Fusi Olafsson. godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu Brefi ad arum epter gudz burd ꝏ. d. l. viij. faustudaginn næsta epter fardagauiku[4]) um uorid æ Sueinstaudum ȷ Vatzdal æ þingstad riettum uorum vier j dom nefnder af Arna Gislasyne[5]). kongs umbodzmanni ȷ Hunauatzþingi ad skoda og rannsaka og med skynsemd dom æ ad leggia hver at med riettu hafa skylldi umbod barna sira Biarnar heitins Ionssonar gud hans sꜳl nꜳdad hafi. var

---

1) Fyrirsögn þessi í 61 m. h. Árna Magnússonar. 2) „*S. THorarinn T.* stendur i innsiglenu. hann hefur vered Þorgilsson" (AM.). 3) „*S. TVRGILS.* rudissime fabricatum. ꜳ ad vera Gisla Brandzsonar" (AM.). Hann hefir því heitið *Þorgils*, úr því að *Tvrgils* stendr í innsiglinu. 4) Þ. e. 3. júní. 5) Í innsigli Árna segir Árni Magnússon hér standa: *S*⁎ *Arnneri* (eða arivi) ⁎ *Þor.* Fer hann og svo felldum orðum um innsiglið: „Þetta 7da og sidarsta innsigled getur varla vered Arna Gislasonar, — þad er þo Arna Gislasonar, og stendur allt eins under kaupbrefi hans og Biðrns Biarnasonar um Jôkulkelldu i Miofafirde 1568, — því bædi stendur þad sidarst, so er þad almugalegt innsigle oþockalega grafed. So het fader Arna ecki Þorgils þad eg true. So mun hann heited hafa, enn kallad sig Gisla, ꜳlika og um Þorgils ꜳ Vôllum skied er og adra fleire. Sonur Arna hiet annars Gisle, en þad proberar eckert".

hans sonur Ion Biornsson ȷ fyrr saugdum stad og beiddist þar doms æ hvort honum bæri sinna syskina umbod at hafa edur eij. Þvi hann sagdist þæ vera tvitugur ath alldri. Svo oc kom þar fram fyrir oss at fyrr nefndur Ion Biornsson var ættleiddur af sijnum faudur sira Birni heitnum Jonssyne svo oc samfæddur broder vid sin fyrr nefnd syskin Baurn sira Biarnar heitins. uissum vier aunguañ standa nær arfi þratt nefndra barna en tijtt nefndañ Jon Biornsson. epter þeirri grein sem stendur skrifad i riettarbot Hakonar kongs hver ed kallast Heriolfs bref. hver ed suo seigier at ættleidingur skal taka alla arfa sem skilgetinn festarkonu son þess er ættleiddi. Þvi uirtist oss þad ecki ȷ moti laugum vera einkañliga þad fyst þessi Ion Biornsson samfæddur broder stendur ȷ þridiu erfd. uissum uier þar ecki logmal til uera at Ion Biornsson megi ecki sinna adur greindra syskina umbod hafa. virtist oss þar laugmalid æ vijkia ad sa skylldi ueita uaurd baurnum oc fie sem arfi er næstur. Þui ad heilax anda nǻd til kalladri ath svo profudu oc fyrir oss komnu dæmdum vier med fullu doms atkuædi tijttnefndum Ioni Biornssyne sinna opt nefndra syskina umbod so micid sem þrattnefndur Ion Biornsson hefdi uaurdslur fyrir epter þeirri grein sem stendur ȷ uorri landzlagabok. hvar ed suo seiger. erfingi æ kost ad hallda omaga eyri þo hann eigi minna fie eñ omagi æ ef hann uirdist ohættur skulldunautur. Suo og dæmdum uier hina nænustu frændur fyrr greindra barna sira Biarnar heitins skyllduga ad hyggia ath æ huerium xij manaudum huersu med fyrr greint umbod farid er epter þeirri grein sem stendur ȷ fyrr nefndum sama kapitula bokarinnar.

Samþyckti þennañ uorn dom adurgreindur kongz umbodzmann og setti sitt insigli med vorum fyrr greindra domsmanna insiglum fyrir þetta domsbref er skrifad uar æ Borg J Uidudal[1]) æ sama ǻri deigi sidar eñ fyrr seiger.

---

1) Svo.

237. 29. júní 1558. á Öxarárþingi.
30. apríl 1569. í Skálholti.

Vitnisburðr Ólafs byskups Hjaltasonar um landamerki Kalmanstungu.

Bps. Skalh. VIII, 17, frumritað transscriptum á skinni m. h. síra Gríms Skúlasonar í Hruna. Af 4 innsiglum eru 2 fyrir. — AM. Apogr. 2604.

Kalmanstunga.

Eg Olafur Hialltason vnder Gudz þolinmædi Byskup aa Holum oc superintendens Hola Byskupsdæmis giori godum monnum kunnigtt med þessu mijnu opnu brefi. ad fyrir mig kom Heidarligur Herra. Herra Gijsle Jonsson Byskup ad Skalholltti anno 1558 bad mic oc bijgeradi af mier sannligs oc fullkomligs vittnisburdar huad eg hefda heyrtt oc sied vm mældaga. kirkiu ʀeikningsskap oc landeign eptter brefum oc skilrikium sem til heyrdi logum og riettindum. þeirre fatækri kirkiu og gardi Skalholltzkirkiu. Kalmanstungu j Borgarfirdi liggiandi. Er þad minn fyrste framburdur ad ec for med Byskup Gotskælk heitnum. godrar minningar. xiiij vetra gamall oc þadan af elldri. bio þaa j Kalmanstungu Halldor heitinn Þorgeirsson. huer ed bued hafdi j fyrr greindri Kalmanztungu xxiiij aar. syndi hann og auglysti bædi med Brefum og jnnsiglum oc suo mældaganum þar heima oskaddan[1]). j þann tijma ad Kalmanztungu kirkia oc gardur ætti þessi landamerki sem eg uil nu vittne vm bera sialfur: J fyrstu ad eg hefi lesid bædi bref med heilum og oskoddum insiglum. og mældaga suo hliodanda ad kirkian j Kalmanztungu og gardurinn þar ætte fyrst ad vphafi alla landeign sem er j millum Arnarvatz oc Geitlandzaar med ollum þeim vottnum og veidistodum ad fyrr greindu Arnarvattne. Hier med Strut til greindan og ollum landeingium[1]) fyrir nordan hann. oc yfer vm hraun þad sem geingur j millum somu landeingia[1]). motz vid Fliotztungu. huar saa gamle faruegur fliotzens hefur ad fornu geingid. Jtem sagdi minn fader mier sem hiet Hialltti Arnkelsson ad fyrgreint fliot hefdi j sinum barndomi runned Fliodztungu[1]) meigen. þad

1) Svo.

nu geingur vm landeingiar. þui hann rere sudur vm land xviij vertijder. bar hann þennañ vittnisburd sem eg nu ber sextugur madur. eñ vard ættrædur oc fiorum ærum betur og hier eptter vil eg sueria. nær kongsualldid vill. oc Skalholltz kirkiu formenn[1]) mic til krefia. huerñ frekara vittnisburd elldri menn kunna ad bera. afseigi eg j onguañ mata oc eg hefi afheyrtt ad enn mune lifa. Og til sannenda hier vm set ec mitt jnsigli fyrir þetta vittnisburdarbref. Giortt æ Oxarærþingi die Petri et Pauli æ sama ære sem fyrr seiger.

Mæ nũ minn Herra og broder Herra Gijsli Jonsson auglýsa þetta bref fyrir logmanninum. syslumonnum og odrum heidursmonnum sierdeilis sijñum frõmum prestum oc prelãtum. Hueriu ec uil giarna til standa fyrir Gudi oc monnum.

Þat[2]) medkennunst vier Þordur Jonsson. Jon Eigilsson. Grijmur Skũlason og Jon Jonsson prestmenn Skælholltz sticktis at vier hofum sied Bref þess froma Herra Herra Olãfs Hialltasonar Biskups æ Holum godrar minningar med hans heilu og oskauddu jnnsigli so lætandi ord fyrir ord sem hier fyrir ofan stendur skrifat. Og til sanninda hier vm setium vier vor Signet vpp æ þetta Bref skrifat j Skalhollti laugardaginn næstan fyrir postula Messo Philippi et Jacobi ærum epter Gudz burd 1569.

---

## 238. 4. júlí 1558. á Bessastöðum.

Hirðstjóri veitir Eggert Hannessyni Snæfellsnessýslu og Ísafjarðarsýslu.

Lbs. 72, 4to., bls. 637—9, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1720—30, „skrifad effter originalnum". — Uppskrift frá ca. 1750—60 er í Additam. Khafnarháskóla 4, 4to., bls. 360—2, m. h. Jóns Marteinssonar, og sýnist hún eiga rót sína að rekja til uppskriftar síra Jóns Halldórssonar. Uppskrift þaðan er í JS. 372, 4to.

Hôfudsmannsins Knudts Stensonar veitingar Bref fyrir

---

1) form̃, frbr. 2) Það, sem eftir fer, er með öðru bleki og ósettari skrift, þó góðri og skrifaralegri, en svo sem meira hripaðri. Getr vel verið m. h. síra Gríms, eins og hitt.

Snæfellsness og Jsafiardar sýslum utgefid Eggert Hannessyne Lógmanne Anno 1558[1]).

Jeg Knudt Stensson. konglig Mayestets Befalningsmann ýfer allt Jsland. giöre öllum viturlegt. ad eg hefe unt og veitt. og nu med þessu mijnu opnu Brefe unne og veite heidurlegum og velburdugum manne Eggert Hannessýne lögmanne mijns herra kongsiñs sýslur. Snæfellsness sýslu og Jsafiardar sýslu[2]). innañ sinna takmarku i þetta år. og skal hann giefa mier þar af uppa konglig Mayestets vegna so mikid sem af greindum sýslum hefur ådur giefed vered. og afhenda þad uppa Bessastödum å Kongsnesid. til sancte Johannis dag i þetta til komanda år. [og skal[3]) fyrrnefndur Eggert Hannesson bruka og behallda sömu sýslur med allre konglegre rentu og riettugheitum. sem einum riettum sýslumanne ber ad hafa ad lögum. skal hann eignast öll vj marka mål og þar fyrer innañ. eñ ef stærre mål kunna til ad falla. þa skal hann þaug sækia under minn herra konginn til riettrar greinar og reikningskapar vid mig.

So og skal hann skicka hvörium manne lög og riett. sem þess beidast. so eingenn meige þad med sannleik segia. ad þeim verde riettariñs sýniad.

Sömuleidis skal þråttnefndur Eggert Hannesson vera skylldugur til uppa konglig mayestets vegna til ad hiålpa konglig Mayestets proföstum til alls riettar utj sijnum sýslum. um þær saker sem þeim til koma.

So og skal hann fýlgia Superintendenten um sijnar sýslur fyrer christelega religions vegna.

So og skal fyrrnefndur syslumann fyrerbiöda öllum i sijnum sýslum ad hafa nockurn þyskañ mann hia sier til veturvistar. fyrer utañ mitt lof edur leýfe.

Sömuleidis skal Eggert Hannesson hafa goda umsiön. ef þar liggia nockrar jarder. sem krununne tilkoma. i greindum sýslum. ad þær byggest og forbetrest. og hialpe þeim til. sem þær hafa til forlieningar og afgijfftar. ad þeir fåe sijna rentu.

---

1) Þessi fyrirsögn er á dönsku í 4, 4to. 2) 4, 4to.; sýslur 72. 3) [skal og 4, 4to.

So og fÿrerbÿd eg offtnefndum sÿslumanne. ad lata ganga lôg um fyrrsagdar ȷarder. utan mitt lof edur leÿfe.
Og ad so i sannleika er. sem fyrrskrifad stendur. þrycke eg mitt signet ꝺ́ þetta sÿslubref. skrifad ꝺ́ Bessastôdum 4. dag Julii manadar Anno Domini 1558.

med min eghen hand [Anno 1559[1]).

(L. S.)

---

## 239. 4. júlí 1558. á Bessastöðum.

Kirkjujörðin Hlið lögð til Bessastaða, en til Garða í staðinn Viðeyjarklaustrsjörðin Vífilsstaðir.

AM. Apogr. 1858 (Ex apographo Gardensi frá 1701). — Lbs, 115, 4to., I, bls. 220 m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1730 (ekki eftir transscripto).

Bref um kauped a Hlide og Wijfelstôdum Anno 1558[2]).

Jeg Knudt Stensson. Konglig Majestetz Byfalningsmann yffer allt Jsland kendez med þetta mitt obna Brieff. ath jeg hefi giôrt svoddañ ȷardaskiffte vppa konglig Majestetz vegna vid Sijra Lopt Narfason. kyrkiunnar vegna i Gørdum ꝺ́ Kőngsnese. ath jeg hefe under kőngsins eign til Bessastada tekid ȷørdina Hlid. er liggur a Kongznese. er þar [i landskÿlld af[3]) mꝺ́lnÿtu kugilldi och j Miøltunna. Eñ jeg hefi hônum þar igien feingid til kyrkiunnar i Gørdum Wideyarklausturs ȷørd. er heitir Wijfelstader i Bessastada kyrkiu sokn. tekst þar af i landskylld. i. mꝺ́lnytukugilldi. Og fyrer mismun landskylldanna hefi eg lofad og tilskijckad fyrrnefndum Sijra Lopte edur Gardakyrkiu umbodsmanne j tunnu miøls[4]) a Bessastødum. ad hun tækist[5]) þar ꝺ́rliga af kongsins miøle. Skal þad fylgia hvorre ȷørdu sem fylgt hefer ad fornu og nyu. Skulu þesse ȷardaskipte obrigdañlega standa og vera hier eptir uppa bꝺ́dar sijdur. utan konglig Majestet þar audruvijz um[skiffte a giôrer edur[6]) skickar. Samþyckte þesse fyrrgreind ȷardaskipte Herra Gijsle Jőnsson Super-

---

1) [Svo 72; sl. 4. 4to. 2) 115. 3) [af i landskulld 115. 4) „þessa mioltunnu hafa prestar i Gôrdum mist sijdan i tijd Hôfudzmanns Einvold Kruss af ővilld sem innfiell i milli hans og Sira Jons Krꝺ́ksssonar i Gôrdum" 115 (utanmáls). 5) takest 115. 6) [b. v. 115.

intendent yfir Skalhollt stikte. Og til meiri stadfestu og audsyningar hier um ad so i sannleyk er sem hier fyrrskrifad stendur. Þricke eg mitt Signet med adurnefnds herra Gisla signet a þetta jardaskiptabrief. Skrifadt a Bessastødum 4. Dag Julii [mánadar[1]). anno Domini M. D. LVIII.

(L. S.)

Ad þetta ofanskriffad sie rictug og ordriett copia effter originalnum og høfudmannsins Briefe. vottum vier sem samannläsum og originalinn sialfann med undersettu innsigli høfudsmansinz Knutz Steinzsonar säum og yfer skodudum ad Gørdum a Kongsnese 19. Junii. Anno 1675.

Petur Amundason manu propria
Helge Jonsson meh.
Halldór Stephansson m. e. h.

Ofanskrifad bref upplesed fyrer Riettenum a Kópavogsþynge. og medkenna underskrifader menn S. Petur Amundason. Helge Jonsson og Halldór Stephansson. ad copian hier frammløgd sie riett coperud effter synum Original sem þeir sied og samanlesed hafe. hvad þeir tilbióda sig med eyde ad stadfesta. ef naudsynlegt vera þætte. Dat. Kopavogsþynge d. 26. Julii anno 1701.

Jon Eiolfsson manu propria — Jon Petursson. Gudmundur Gudmundson.

---

**240.** 9. júlí 1558. á Arnarstöðum. / 28. júlí 1558. í Saurbæ.

Solveig Hallsdóttir sver fyrir alla menn nema Þorleif Grímsson.

AM. Apogr. 4652 „Ex originali“. Árni segir til innsigla.

Til þess legg eg Solueig Hallzdotter hond á helga bok og suo skyt eg minu male til guds ad eg hefe af aungum manne likamleganna syndgast nema af Þorleifi Grimzsyne ad sagdur er. suo og syndgadist eg og alldre med fyrr nefndum Þorleife Grimzsyne med likamligu samblande. suo þar

1) [sl. 115.

mætti barngetnadur af verda medañ Sigrídur Stulladotter kuinna hans lifde. og ad suo stofudum eidi sie mier Gud hollur sem eg satt seige.

Til þess leggium uær hond a helga bok og suo skiotum vær voru male til guds. ad vær hyggium þann sama bokareid riettan og sannañ vera og Solueigu Hallzdottur vel særañ. sem hun sor hier nu samstundis. Og ad suo stofudum eidi sie oss Gud hollur sem vær satt seig[i]um.

Þat giorum vier Snore prestur Jonsson. Bessi prestur Biornsson. Þorstein Simonarsson[1]). Grimur Olafsson. Biarne Jonsson leikmenn. godum monnum kunnigt med þessu voro opnu brefi. arum epter gudz burd ꝏ. d. l. og viij. ar. a laugardagin næstañ fyrir translacio Benedicti abbatis. a Arnarstodum ȷ Eyiafirde. vorum vier þar nær stader[1]). ad siera Torfi Jonsson stafadi suo hliodanda bokareid Solueigu Hallzdottur. sem hier fyrir ofan skrifad stendur. sonnudu þennañ eid med henne suo heitande konur.

Hallfridur Jonsdotter. Margret Magnusdotter.
Valgerdur Karadotter. Hallbera Teitzdotter.
Gudrun Sigfusdotter.

hofdu þessar fyrnefndar konur upp alist oc leingstum verit ȷ Gullhrepp[2]). Lysti adur nefndur Torfi prestur Jonsson þui fyrir oss. ad hann tæki þennan eid ȷ aungri ofdirfd vid kirkiunar valld ne kongdomsins. helldur sagdiz hann þetta giora ȷ Gudz trausti. oc þess heidarliga herra Eggertt[s] Hannessonar Logmanns nordan og vestan a Jslande. suo og heyrdum vier fyrr nefnder menn ad Solueig Hallzdotter krafdi og beidde tijttnefndan siera Torfa fyrir gudz skulld ad stafa sier þennan eid. Þui hun sagdizt ei vita huersu leinge hun lifa mætti med þeim krankleika er hun þa nyliga feingid hafdi. Og til sanninda hier um setti opt nefndur sera Torfi Jonsson sitt ȷnsigle med vorum fyrr skrifadra manna ȷnsiglum fyrir þetta bref. huert ed skrifad var ꝺ Saurbæ ȷ Eyiafirde. fimtudagen næstañ fyrir Olafsmesso a sama are sem fyrr seiger.

---

1) Svo. 2) þ. e. Saurbæjarhreppr.

**241.** **12. júlí 1558.** **í Glaumbæ.**

Kaupbréf fyrir 20 hundr. í Sólheimum í Sæmundarhlíð. (Virðist uppkast að næsta bréfi).

Add. Brit. Mus. 11,242 (FM. 206), bl. 26.

Þad giorum vid Einar Gilbrigtzson oc Jon Steingrimzson[1]) godum monnum kunnigt at vid vorum þar j hia sääum oc heyrdum æ ord oc handaband sera Gottskallz Jonssonar oc Magnusar Sæmundzsonar [anno domini] ꝏ. d. L viij þridiudaginn fyrir diuisio apostolorum j Glaumbæ [at svo] firir skilldu at fyrnefndr Magnus selldi adurgreindum s[era Gottskalk] þann xx^c þridiung sem hann vard fremst eigandi at [epter sinn] fodr oc j giof sinnar modr [i] iordena S[olheima] [j] Sæmundarhlid er liggr . . . . . . . . . . . . sera Gottskall fyrsogdum Magnuse Sæmundz[syni . . . . . . j] Suarttardal er liggr j Bergstada kirkiu [sokn med ollum] þeim gognum oc gædum er þeirri jordu [hafa fyl]gt at fornu oc nyu med riettv oc adursagdur [sera Gott]skall hefur fremst eigandi at ordit med logum. [Sky]lldi huor um sig hallda sinv kaupi til laga en sa suara lagariftingum ää er selldi.

Oc til sannenda.

---

**242.** **13. júlí 1558.** **í Glaumbæ.**

Jarðaskiptabréf, og er 20 hundr. í Sólheimum í Sæmundarhlíð skipt fyrir Brún(?) í Svartárdal.

AM. Apogr. 4641, „Ex orig. Gudmundar Þorleifssonar".

Þat giorum vid Einar Gilbrigztson og Jon Steingrimzson godum monnum kvnnigt med þessv ockru opnu brefi arum epter hingadburdinn. ꝏ. D. l. og viij. þridiudaginn fyrir divisio opostolorum[2]) at Glaumbæ ȷ Skagafirdi vorum vid ȷ hia saum og heyrdum æ ord og handaband þeirra sera Gottskalz[3]) Jonzsonar og Magnusar Sæmundzsonar. suo fyrir skildu at Magnus selldi Gottskal[3]) presti þann. xx^c. þridiung sem hann vard fremst eigandi med logum ȷ ȷordune

---

1) fyrst skr.: Gunnar Styrkarson, en það svo dregið út. 2) þ. e. 12. júlí. 3) Svo.

Solheimvm j Sæmundarhlid j erfd epter sinn fodr[1]). med ollum þeim gognum og gædum sem þeim parti á med riettu at fylgia. hier i mot gaf og gallt sera Gottskal[1]) Magnuse Sæmundzsyni jordina . . .[2]) j Suartardal er liggur j Bergstada[1]) sokn med ollum þeim gognum og gædum sem þeirri jordu hefr fylgt at fornu og nyu. skylldi hvor um sig hallda sinv kaupi til laga eñ sa svara lagariftingum æ er selldi. Og til sannenda hier um setium vid fyrnefnder menn vor jncigli fyrir þetta bref er skrifad var j sama stad deigi og are sidar[3]) eñ fyr seiger.

---

243. 30. júlí 1558. í Richmond.

Engladrottning eða ráð hennar leggr fyrir Dr. Cook dómara að rannsaka kærur kaupmanna á hendr Símoni Surbeck, er nú sé staddr í Harwich (ágrip).

Acts of the Privy Council, vol. VI. Samkvæmt eftirriti frá Dr. Jóni Stefánssyni í þjóðskjalasafni.

At Richemonde 30eth July. 1558.

A letter to Doctour Cooke. Judge of thadmiralty. with a coppy of Supplycacion inclosed. exhibited here by certain marchantes against one Symon Surbecke and other of the King of Denmarkes subjectes. which he is wylled to consyder; and forasmuche as it is informed here by the sayde complayna[n]tes. that the saide Surbeck is arrived with a shipp and other gooddis at Harwiche. he is wylled to geve order that the sayd shipp and goodes be stayed. and to sende by processe for the sayde Surbeck and suche other as the seide complayna[n]tes shall informe him of. and texamine hem dylligently uppon the particuler poyntes of the saide Supplycacion and such other matters as they shall declare unto him. and if they shall fynde good matter to charge them with. than[4]) to bynde them in good bandes with suertyes suffycient to be at all tymes furthecoming taunswer the same according to thorder of the lawes of the realm.

1) Svo. 2) líkl. Brún. 3) „Voluit, absqve dubio, scribere: i sama stad og are. deigi sidar“ (AM.). 4) Svo, þ. e. then.

**244.** **31. júlí eða 7. ágúst 1558.** **í Glaumbæ.**

Kaupbréf fyrir hluta af Sólheimum í Sæmundarhlíð og húsum þar.

Add. British Museum 11,242 (FM. 266), bl. 26.

æ sama are[1]).

Svnnvdagen epter Olafzmesso j kirkivnne j Glaumbæ var ec Magnus Sæmundz[son]. Einar Gilbrigtzson oc Þorgeir Sæmundzson þar j hia saum oc heyrdum ä ord oc handaband þeirra sera Gottskallz Jonssonar og Arngrims Jonssonar. Svo fyrir skilldu. at Arngrímur liet sier[a] Got[s-kalk h]afa j sinn þridiung til eignar þessi hus oc uoll af jordunne Solheimum. [fy]rzt andyra bvrit oc sængarstodu ena jnstu austan til j skala ofan ä . . . [t]uær sængarstodur þat vtar fra litla husit j gongum iij. basa [j] fiosenu minne heytottena. allan becken j badstofunne oc stafena iiij med allt vpp j gegn. þridivngen j kirkivne oc gongvnvm. Sydzta vollen allan j læk[i]ar farvegin oc þann sem fiosit stendr æ ofan j gotvna sem liggr til Bessastada Þetta j eingium næsta eingi er næst liggr ef þeim semdi svo allar slæur med steck sudr fra oc vt med . . . . vpp j þufu sem stendr ǽ melnum. þa vt rett j holltit oc vpp [un]dir nedsta vallargardin oc ur ytra endanum a honum ofan j heimvoll. En sera Gottskall liet sier oc lika j sina tuo parta til eignar skalaburit. Elldstofvna. skalan allan vestan til. þilit i andyrinu med rum[um oc] grindinne þar vid oc einn basin j fiosinu. storu heytottena oc vi . . . . j fiosenu badstofuna alla at becknvm med palli oc odrv . . . . . . [a]lla vt sem fyr greiner[2]).

---

**245.** **2 ágúst 1558** **í Silkiborg.**

Kvittun konungs til Knúts hirðstjóra Steinssonar fyrir peninga og silfr greitt í konungsféhirzlu í afgjöld af Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 630 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to., Laursens í þjóðskjalasafni).

---

1) þ. e. 1558. 2) hér stendr neðst á blaði hálffúið burt: . . . [f]atækum fyrir Stafnz Vic æ med lambi um haust . . . . . .

Knud Steenssenn fick quittantz paa .xj^c^. daller. v^c^ oc xxj lod sylff tiill wiider Regenschap.
Datum Sylckeborg ij die augusti Anno 1558.
Regia maiestas manu propria subscripsit.

---

**246.** **2. ágúst 1558. í Kaupmannahöfn.**

Konungr ritar Jóakim Beck, að Knútr hirðstjóri Steinsson hafi lukt sér upp á reikningsskap af Íslandi peninga og silfr, auk annarra greina, sem ekki varða Ísland.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 5, 399 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to., en Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Ioachim Beck fiick breff om Knudt Steenssens regenscap oc andenn bestilling. som her epther föllger.

Christiann etc.

Vor gunst tiillfornn. Wiidt. att oss ellskelige Knudt Steenssenn. wor mandt. thiener oc embitzmandt paa wort landt Islandt haffuer ladett anthuorde paa regenscap indt wdj vort kammer oss tiillhende xj^c^ dallere v^c^ xxi loedt söllff oc siiger handt. att icke kunde giöre sytt regenscap forre endt handt kanndt indkreffue huess hannom tiillstaaer paa wore wegene[1]) . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . Her wiidt att rette teg epther oc ladt thedt ingennlunde. Beffallenndis teg gudt. Schreffuedt Sylckeborg then 2. Augustj anno mdlviij.

---

**247.** **25. ágúst 1558. í Stóradal.**
**20. september 1558. á Grenjaðarstöðum.**

Testamentum og skiptabréf Eyjólfs Einarssonar í Dal undir Eyjafjöllum.

AM. Fasc. LXXV, 63, transscriptum á pappír frá 1614 í gamalli uppskrift. — AM. Apogr. 4653. „Exemplar þad er þetta er epter skrifad var gamallt og roted á pappír, og liedi þad mier Sigurdur Einarsson broder Olafs og Jsleifs Einarssona“ (AM.).

1) Hér er fellt niðr það, er ekki varðar Ísland.

Skipta Bref Eẏőlfs bőnda Einarssonar. sem var j Stőradal under Eyiafiőllum. skrifad epter brefabők sǻluga[1]) Sira Sigurdar Jonssonar. sem var ǻ Greni-[adar]stődum fyrer nordañ land[2]).

Þad giore jeg Eyolfur Einarsson godum monnum kunnigtt med þessu mijnu opnu brefi. ad jeg medkiennunst. ad Helga Jonsdotter mijn eigiñkuinna a hia mier j sijna heimañfylgiu tuo hundrud hundrada. og þar til jordina Medalfell er liggur sudur j Kios og er hun. lx$^{c}$. Hier til hefi jeg gefid henni fiordungsgiof vr þeim[3]) [vj$^{c}$ hundrada[4]). sem jeg atti. þa er jeg gieck til kaups vid mijna kuinnu adurnefnda Helgu og reikñast þad [.ij$^{c}$ hundrada[5]). þui reikñast hennar mali j minn gard [iiij$^{c}$ hundrada[6]). Hefi jeg sett henni þessar jarder j sijna fiordungsgiof.

Efrahuol fyrir .lx$^{c}$.

Mǻla j Fliotzhlijd fyrir .lx$^{c}$.

þar til .lx$^{c}$. j frijdum [penijngum og ofrijdum[7]).

Hier til a hun jordina Kirckiulæk j sijna tilgiof sem ockar kaupmalabref vtuijsar[8]).

Jtem j annare grein medkiennunst jeg med þessu mijnu brefi. ad med samþycki og rǻdi minnar kuinnu adurnefndrar Helgu Jonsdottur[9]) hefi jeg skiptt mijnum penijngum og hennar med ockrum[10]) skilgetnum borñum til riettra Erfdaskiptta. suo sem hier eptter skrifad stendur.

J fyrstu hefe[11]) jeg gefid og golldid minni dottur Aunnu [hundrad hundrada[12]). ad til skildum. Lxx$^{c}$. vpp i[13]) jordina Logmannzhlijd fyrir nordan land j Kuæklijngahlijd j Eyiafirdi. a kyrkian þar jord ǻ Hesiuvollum.

Jtem mijnum Ellsta syni Magnuse hefi jeg gefid og golldid. og gef enn nu med þessu mijnu brefi jordina Stőradal vnder Eyiafiollum fyrir .lx$^{c}$.

Storumork halfa .xxx$^{c}$.

1) „Svo stod ǻ þvi sem þetta er epter skrifad" (AM). 2) Þessi fyrirsögn er að eins í 4653. 3) 4653; þessum LXXV, 63. 4) [4653; vj$^{cc}$, Lxxv, 63. 5) [4653; ij$^{cc}$, Lxxv, 63. 6) [4653; iiij$^{cc}$, Lxxv, 63. 7) [og őfrĭdum penningum 4653. 8) et cetera, b. v. 4653. 9) 4653; ·dotter Lxxv, 63. 10) 4653; ockar Lxxv, 63. 11) 4653; hef Lxxv, 63. 12) [4653; .j.$^{cc}$, .Lxxv, 63. 13) a, 5653.

Sydstumork halfa .xc.
Nedradal halfañ .xc.
Saudhusvoll fyrer .xvc.
Medalfell ȷ Kiős fyrer .lxc.
Hier til lausafie. lxc. Summa [ijc hundrada[1]) og vc.

Hier til ad auk þessa a kyrkian ȷ Storadal .lxc. ȷ heimalandi. Sydstumork halfa .xc. Nedradal halfañ .xc. malnytukugilldi xviij. hesta tuo. hier til .vc. er fallid hefur ȷ porcio ǻ medañ ȷeg hefi halldid hier til dags. ad auk þess sem ȷeg hefi kirkiunni golldid ȷ bokum og skrw̋da. Eñ kyrkiañ a Medalfelli ǻ ȷordina[2]) Hurdarʙak. xxc. og vj[3]) malnytu kugilldi.

Jtem mȷȷnum syni Einare hefi ȷeg gefid og golldid og gef enn nu med þessu mȷȷnu brefi.

ȷordina Brautarhollt a Kialarnese med sȷȷnum hialeigum fyrer [jc hundrada[4]).

ȷordina Flangastadi fyrer .xlc. og ȷordina Krők fyrer xxc. er bǻdar liggia a Rostmalanese[5]).

Hier til lausafie. lxc. Summa [ijc hundrada[6]).

a kyrkiañ ȷ Brautarholltti .xiij. malnytukugilldi. einn hest fyrer .jc. a ȷeg ad suara .vc. ȷ porcio. nu ȷ þennañ[7]) tȷȷma fyrer þad fallid hefur medañ ȷeg hefi halldid.

Kyrkian a Flangastodum a .xc ȷ heimalandi þar[8]). þui hun er lc.

Jtem mȷȷnum syni Eiriki hefi ȷeg gefid og golldid. og gef enn nu med þessu mȷȷnu brefi.

ȷordina Hofdaʙrecku fyrer .lxc.

Kiellȷȷngardal fyrer .lc. er badar liggia ȷ Myrdal.

Stackhollt fyrer .xc.

Efrahuol ȷ Huolhrepp fyrir .lxc. og hier til .lxc. ȷ lausafie. Summa [ijc hundrada[9])

a kyrkian ad Hofdaʙrecku .xxc. ȷ heimalandi hier til. þui hun er .lxxxc. allz. Malnytu kugilldi .xiiij. hundradzhest. hefur fallid ȷ porcio a medañ ȷeg hefi halldid hier til dags .iiijc.

1) [4653; ijcc, Lxxv, 63. 2) sl. 4653. 3) 4653; iij, Lxxv, 63. 4) [4653; jcc, Lxxv, 63. 5) Rossmalanese 4653. 6) [4653; ijcc, Lxxv, 63. 7) þenna 4653. 8) b. v. 4653. 9) [4653; ijcc, Lxxv, 63.

Kyrckian ȷ Kiellingardal[1]) å .xc. ȷ heimalandi. þui hun er. lxc allz. og .iiij. malnytu kugilldi

Kyrkian ad Efrahuoli a .xc. ȷ heimalandi. þui hun er .lxxc. allz. og tuo malnytu kugilldi.

Eñ med þessum skilmåla gef ȷeg Eirike þessar eigñer ad Einar sonur minn vilie þær ecki haffa helldur eñ Brautarholltt. Flängastadi og Krok. sem ȷeg hefi ådur ȷ þessu Brefi honum Einari askilid. Enn vilie Einar helldur eignast Hofdabrecku. Kellŋngardal. Huol og Stackholltt. þå skal Einar þad mega. Eñ Eirikur skal þå[2]) eigñast apttur ȷ staðinn Brautarholltt. Flangastadi og Krők.

Jtem mıȷnum Syni Jsleifi hefi ȷeg gefid og golldid og gef enn nu med þessu brefi.

Jordina Mula fyrer .lxc.

Kyrckiulæk fyrer .lc. er bådar liggia ȷ Fliotzhlŋd. og ȷordina Harnyre a Eyrarbacka fyrir .xvc.

Hier til gef ȷeg Jsleifi syne mıȷnum ȷordina Steina vnder Eyiafiollum fyrer .lxxxc eñ gangi Steinar af honum med logum. þa skal hann eignast apttur þær ȷarder sem ȷeg hefi gefid vid Steinum. sem ero[3])

Sandar .xxc

Hallgilsey[4]) .xc

j[5]) Ey .xiijc og hier til lausafie. suo hann hafi ȷafnhafa peniȷnga sıȷnum Brædrum. [ijc hundrada[6]).

a kyrckian ȷ[7]) Mwla .xxc ı heimalandi. þui hun er .lxxxc. allz. og malnytu kugilldi .x. [J porcio hefur[8]) fallid. a medañ ȷeg hefi halldid .iijc hier til dags.

Kyrckian a Kyrckiulæk a .xc ȷ heimalandi þui hun er .lxc allz.

Jtem minni dottur Holmfrıȷdi hefi[9]) ȷeg gefid og golldid. og gef enn nu med þessu mıȷnu brefi.

ȷordina Næfurholltt fyrir .lxc og þar til .lxc ȷ lausafie.

a kyrkian ȷ Næfurholltti hier til .xxc ȷ heimalandi. þui hun er. lxxxc allz. målnytu kugilldi .xij. hundradzhesta .ij. fallid ȷ porcio medañ ȷeg hefi halldid hier til dags ijc

1) 4653; Kierlŋngadal Lxxv, 63. 2) þar 4653. 3) er 4653. 4) 4653; Hallgerdzey, Lxxv, 63. 5) b. v. 4653. 6) [4653; ijcc, Lxxv, 63. 7) 4653; a, Lxxv, 63. 8) [hefur j portio 4653. 9) 4653; hef, Lxxv, 63.

Hefi jeg gefid og golldid. og suo gef jeg þessar eigner fyrr greindar med þeim skilmala mijnum bornum. ad jeg halldi þær suo leingi sem[1]) mier [lijkar sialfum vel[2]) og minni kuinnu Helgu lijkar þær lausar ad láta og afhenda. og suo megi þessi mijn born huorki þessum eignum fyrergiora nie fyrermæla. a medan jeg læt eigi[3]) laust þeim j hond.

Og til sannleiks merkis ad þetta er minn stodugur og[4]) obrigduligur[5]) giornijngur. þá kalladi jeg til vitnis med mier Siera Sigurd Jonsson. Brodur [Helgu kuinnu minnar[6]) og Erlend Jonsson brodur minn. Nikulas Bonda Þorsteinsson og Aurnolf Bonda Olafsson. ad [aller þesser[7]) skylldu vera hier vm logligtt vitni ad jeg þennan[8]) giornijng giordi hia verandi og samþyckiandi minni kuinnu Helgu Jonsdottur. a Storadal vnder Eyiafiollum. a fimtudaginn[9]) næstan fyrer[10]) Decollatio Johannis. þad er xx og v[11]) dag Augustus manadar. þa lidid var fra Gudz Burd m. d. l. viij. ar.

Og til sanninda hier vm settu fyrr nefnder menn. Siera Sigurdur Jonsson. Ellendur Jonsson. Nikulas Þorsteinsson og Aurnolfur Olafsson sijn eigin[12]) jnnsigli med mijnu jnnsigli fyrer þetta bref er skrifad var á Greniadarstodum j Reykiadal. xx^a^ dag Septtembris manadar a sama áre sem fyrr seigier.

[Medkiennunst vid Einar prestur Sigurdsson og Olafur Arnason þá datum skrifadist 1614 ad vid hofum sied og lesid suo latandi bref med oskoddum hangandi jnnsiglum ord fyrer ord sem hier fyrer ofan skrifad stendur. Thil meiri stadfestu hier vm setium vid ockar handskriftter hier vnder. Skrifad a sama áare sem fyrr seigier.

| | |
|---|---|
| Einar Sigurdsson | Olafur Arnason |
| med Eigin hendi. | med Eigin hendi[13]). |

1) þ. v. 4653. 2) [likar vel siálfum 4653. 3) 4653; ei, Lxxv, 63. 4) sl. 4653. 5) obrigdanlegur. 4653. 6) [minnar kvinnu Helgu 4653. 7) [þessir allir 4653. 8) þenna 4653. 9) miduikudaginn *bæði.* 10) leiðr, eptter, *bæði.* 11) xx og v (25). *bæði*; miðvikudaginn ber á Bartholomeusmessu sjálfa (24. ág.); gæti því misskriftin helzt legið í því að „miduikudaginn" ætti að vera „fimtudaginn", sem væri 25 ág. 12) sl. 4653. 13) [einungis í Lxxv, 63; vantar í 4653.

248. 31. ágúst 1558. í Saurbæ.

JARÐASKIPTABRÉF.

AM. Apogr. 4643 „Ex orig. Hlidarend". — AM. Apogr. 4647 eftir öðru frumriti: „Eg mun brefed feinged hafa fra Gaulveriabæ. Originalenn gaf eg sidan Gudrunu Eggertzdottur i Bæ" (AM.).

Kaupbref fyrer Eysteinseyre og fyrer .xc i Vadle og fyrer vjc i Hattardal. Enn þar kom fyrer Hlid og Drángar og .iiijc. i lausafiam[1]).

Þat giorum vid Jon Kraksson prestur og Einar Palsson [hinn Elldre[2]) godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu briefe ad æ fimtudaginn næstan epter Bartholomei[3]) Apostoli þa lidit var frá Gudz burd ϖ. d. lviij. ȷ Saurbæ a Raudasande þa vorum vid ȷ hia sæum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna af eirne alfu Eggertz Hannessonar logmannz nordan og vestan æ Jslande En af annare Jons bonda Olafssonar. En þad faldizt og skildizt vnder þessu þeirra handabande. ad ædur greindur Eggert logmann selldi fyrnefndum Jone Olafssyni ȷordina Hlid. xviijc ad dyrleika er liggur ȷ Altafirdi ȷ Eyrar kirkiu sokn og ȷordina Dranga. xijc ad dyrleika er liggur ȷ Dyrafirde ȷ Sanda kirkiu sokn og þar til. iiijc ȷ godum geingiligum peningum. En hier ȷ mote gaf greindur Jon Olafsson tittnefndum Eggert logmanne ȷordina Eysteinz Eyre .xviijc ad dyrleika er liggur ȷ Talknafirde ȷ Laugardalz kirkiusokn og x hundrut ȷ ȷordunne Vadle er liggur æ Bardastrond ȷ Haga kirkiu sokn og. vjc ȷ ȷordunne meira Hattardal er liggur ȷ Altafirde ȷ Eyrar kirkiu sokn. Sellde huor audrum þessar ȷarder vndan sier og sinum Erfingium en vnder huorn þeirra firer sig og hans Erfingia. med aullum gognum og giædum sem fyrgreindum ȷordum og ȷardarportum fylger og fylgt hefr ad fornu og nyu bæde til sios og landz og huor fyrer sig var fremst eigande ad ordinn epter sinu kaupe. Skylldu huorutueggiu hallda sinu kaupe til laga. en sa suara lagariptingum sem att hefdi af huorum sem ganga kynne med riettu

1) Þetta segir Páll Hákonarson, að staðið hafi utan á frumritinu „med hendi Eggerts Hannessonar logmanns". Hið sama segir Arni við Apogr. 4647. 2) sl. 4647. 3) þ. e. 25. ág.

og orofnu logmæle. Og til sanninda hier vm þa festum vid [fÿrskrifader menn[1]) Jon [Kraksson prestur[1]) og Einar Palsson hinn elldre ockr ȷnnsigli firer þetta kaupbrief huert er skrifad var ȷ fÿrsǫgdum stad æ sama Are. viku sidar eñ fÿrr seiger.

Þetta bref ad vera riett copierad epter originalbrefi á kálfskinni med tveimur hángande innsiglum under, vottum vier underskrifader, i Skalhollte þann 17. junii. Anno 1712.

Arne Magnusson
Þorleifur Arason.
Pall Hakonarson[2]).

---

## 249. 31. ágúst 1558. í St. James.

Engladrottning eða ráð hennar leggr fyrir herra Ríkarð Cornwallis að láta laust við Símon Surbeck allt það, er kærendur hans láta sér lynda, að hann fái, og bréfið hermir (ágrip).

Acts of the Privy Council, vol. VI. Samkvæmt eftirriti frá Dr. Jóni Stefánssyni í þjóðskjalasafni

A lettre to Richard Cornewallys. esquier. that whereas the complaynantes against Symon Surbeck and others. Islande men. are contented that he shall have bothe the fre order and disposition of his fysshe by them arrested. and also the rigging. trymming and preparinge in aredynes of his shipp and vessell at Harwiche. he is therefore willed and required not only to suffer them so to doo. but also to take such order as he nor his factours be not by any others molested or interupted herein.

---

## 250. 1. september 1558. í Saurbæ.

Jarðaskiptabréf, og eru jarðirnar Hlíð í Álptafirði og Drangar í Dýrafirði lagðar fyrir Eysteinseyri í Tálknafirði og Vaðal á Barðaströnd.

1) [b. v. 4647. 2) Uppskriftin 4647 er staðfest í Skálholti 17. nóv. 1711 af Þorleifi Arasyni, Ormi Daðasyni, Gísla Bjarnasyni og Þorgils Sigurðssyni.

Jbsk. AM. Ísafjs. 9 (nú í þjóðskjalasafni). Utan a stendr: „Jon Þorvalldsson Jngre“ — Er ósamhljóða nr. 248, þótt sama sé kaupið að mestu, og því prentað sérstakt.

Kaup Brief fyrer Drøngum.

Þad giorum vid Jőn Krắksson prestur og Einar Pắlsson hinn Elldre gődum monnum kunnugt med þessu ockru opnu briefe ad ä fimtudæginn næstann Effter Bartholomej Apostolj[1]) þä lidid var fra gudz burde. ᴍdlviij ȷ Saurbæ ắ Raudasande. þa vorum vid j hia säum og heirdum ắ ord og handaband þessara manna af Eirne alfu Eggerts Hannessonar logmanns nordaṅ og vestaṅ ắ Jjslande. Eṅ af annare Jőns bőnda Ölafssonar. Eṅ þad faldist og skildist vnder þessu þeirra handabande ad adurgreindur Eggert lőgmann sellde fyrrnefndum Jöne Olafssine jordina Hlijd xviijc ad dyrleika Er liggur ȷ Ältafijrde j Eirarkirkiusokn. og jordena Dranga xijc ad dyrleika Er liggur ȷ Dyrafijrde ȷ Sandakirkiusőkn. og þar til iiijc j godum og geingelegum peningum. Eṅ hier j möte gaf greindur Jön Ölafsson tijttnefndum Eggert lőgmanne jordina EisteinsEire xviijc ad dyrleika Er liggur ȷ Talknafijrde ȷ Laugardalskirkiusőkn. og xc j ȷőrdinne Vadle Er lig[g]ur ắ Bardastrond ȷ Hagakirkiusőkn og vjc ȷ jőrdunne meira Hattardal Er liggur j Ältafijrde j Eirarkirkiusőkn. Sellde huor odrum þessar ȷarder vndaṅ sier og sijnum Erfingium Eṅ vnder huorn þeirra fyrer sig og hans Erfingia med øllum gőgnum og giædum sem fyrrgreindum ȷőrdum og jardarportum filger og filgt hefur ad fornu og niju bæde til sıős og landz og huor fyrer sig var fremst Eigande ad ordinn Effter sijnu kaupe. skilldu huorutueggiu hallda sijnu kaupe til laga. Eṅ sä suara laga Rifftingu sem ätt hefde af huorum sem ganga kiune med ʀiettu og oʀofnu lőgmắle. og til sanninda hier vṁ þä festum vid Jön og Einar Pálsson hinn Elldre ockar ȷnsigle fyrer þetta kaupbrief. huőrt er skrifad var j fyrrsogdum stad ắ sama ắre viku sijdar Eṅ fyrr seiger.

Þetta ordriett Copierad Effter kaupbriefinu (huőrt vid saum med sijnum tueimur oskiertum hangande jnnsiglum)

---

1) þ. e. 25. ág.

vottum vid sem samañ lásum med ockar nofnum hier vnderskrifudum þann 21 Junj Anno 1703.

Jon Palsson m e h.

Øgmundur Gudbrandsson m e h.

---

251. 19. september 1558. í Svefneyjum.

Sjöttardómr, kvaddr af síra Jóni Þorleifssyni, prófasti í Barðastrandarsýslu, staðfestir skipan Ögmundar byskups 1. sept. 1536, um skipti í milli Múlakirkju á Skálmarnesi og Flateyjarkirkju.

Jarðabókarskjöl AM., Barð. 18 (nú í þjóðskjalasafni) — AM. Apogr. 1404 „Ex originali Mulensi. epter hendi Sira Nikulass Gudmundzsonar" (AM.). — JS. 143, 4to., bls. 320—1, skr. ca. 1600.

Vtskriftt af dome siera Jonz Þorleifssonar wm tollwer i Oddbiarnarskere[1]).

Þat giorum vier sira Olafur Magnusson. Jndridi Amundason og sira Þorleifur Biornsson prestar Skalholltz biskupsdæmis. Þorleifur Þordarson. Vilhialmur Jonsson og Biarne Halldorsson leikmenn[2]) godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. Arum epter guds burd. ꝏ. d. L. viij a manudaginn næsta fyrir Mathesmesso[3]) um haustit ȷ Flatey a Breidafirde worum vier ȷ dom nefndir af sira Jōne Þorleifssyne. er þa var profastur yfir Bardastrandarsyslu at skoda og ransaka og fullnadardōm. á at leggia hueria magt at hafa skyllde þa' bref er þeir frambaru [et cetera[4]). sira Jōn Þorleifsson og Jon Biornsson Sira Jon Þorleifsson auglyste þar bref med hangande jnsigle biskups Aogmundar. godrar minningar. huers sal gud nade [et cetera[4]). Eñ Jon Biornsson liet og vpplesa bref biskupsens med þrycktu Jnsigle. [huad so jnne hielldu[5]) og samhlioda urdu. millum annara orda. bæde þesse bref at herra Aogmund hefde giort þau skipti ȷ millum Mulakirkiu a Skalmanese og Flateyarkirkiu a Breidafirde. at kirkian under Mula skyllde eiga fri toll skip og menn[6]) j Oddbiarnarskerj. eñ adurgreint sker hefur

---

1) Skrifað aftan á. 2) Hér stendr í 18: „giöri", en er of aukið. 3) Svo. 4) [b. v. 1404. 5) [Svo *bæði*.. 6) m̄ 1404.

i langa tijma eignat verit Flateyarkirkiu og alldri mismæli á leikit so vier heirt hofum. Jtem hier j mot tillagdj og skipade biskup Aogmund skogarhogg j kirkiunnar skog til Flateyarkirkiu vppa attært skip med kol. legg og hrijs [et cetera[1]) Og at heilax anda nád tilkalladri. dæmdum uier med fullu domsatkuæde brefiñ bædi mindug og. skialig med ollum sinum greinum. og onguan riufa mega utan biskupenn j Skalholltte herra Gijsla Jonsson. Eñ kirkiunnj. vnder Mula á Skalmanese fri toll skip og menn j Oddbiarnarskere. Eñ kirkiun[n]e j Flatey. fri greint skogarhogg j kirkiunnar skog. Sampyckte þennan vorn dom med oss adur skrifadur sira Jon Þorleifsson og setti sitt jnsigle med vorum fyrrskrifadra manna jnsiglum fyrir þetta domsbref huort skrifad var j Suefnejum a Breidafirde a sama áre deigi sijdar eñ fyrr seiger.

Ad þetta[2]) ofañskrifad sie ordriett Copierad epter sijnum Original a kalfskinn skrifadañ med þremur hangandi jnsiglum vottum [vid vndir skrifader wnder Mula a Skalmanese dag 14 Februarij anno 1703.

Finnur Nickulasson
M E H
Jőn Biarnason
m e h[3])

---

252. 4. október 18. október 1558. í Spjaldhaga. á Helgafelli.

Tylftardómr dæmir Þuríði Þorleifsdóttur og þá, sem henni standi jafnframmi að skyldugleika og skilgetningu, löglega erfingja Þorleifs Grímssonar.

Lbs. 1974, dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni (d. 1748), bls. 98—104, skr. ca. 1608 (=a). — AM. 238, 4to., bl. 114—15, Bessastaðabók (brot), skr. ca. 1570, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar á Kalastöðum. — AM. Apogr. 4651, uppskrift gerð eftir *a*.

1) [b. v. 1404. 2) hier 1404. 3) [er þad saum og saman lasum under Mula á Skalmanese Anno 1702 d. 5 Junij
Runolfur Biarnason meh. Sigurdur Sigurdsson eh.
1404.

Domvr um eiginord Þorleifs Grimssonar og Solueigar Hallzdottur.

Ollum Godum monnum sem þetta bref sia eda heyra. sendir Pall Grimsson. Halldor Einarsson. Arngrimur Jonsson Erlendur Jonsson. Magnus Gunnsteinsson. Þorsteinn Snorrason. Teitur Magnusson. Oddur Helgason suarner laugriettumenn. Biorn Biarnason. Halldor Ormsson. Sigmundur Þorgeirsson og Ormur Skeggiason. Kuediu Gudz og sijna kunnigt gioraudj Ad þa lidit uar fra hingat Burd vors herra Jhesu Christi ꝏ. D. l og viij Ar A Þridiudæginn næstañ eptir Michaelis messo vm haustid ȷ Spialldhaga ȷ Eyiafirdi a almenniligu þriggia hreppa þingi vorum vier ȷ dom nefndir af velbornum mannj Egert Hannessyni. Er til uar skickadur og skipadur Af vorum nadugasta og Haꝛornasta herra konginum og þar med samþycktur af aullum dugandis monnum ȷ Almenniligri laugriettu. þeim sem þar voru þa saman komner vr þessum tueimur landzfiordungum fyrir nordan og vestan ꝺ̈ Jslandi. ad hann skylldi vera laugmann þar yfer. ȷnnvirduliga ad skoda og nyttiliga ad ꝛansaka og fullnadar doms atquædi ꝺ̈ ad leggia epter laugum vm þa agreining sem var ꝺ̈ milli þeirra Eiriks Bonda Sniolfssonar og Orms Bonda Stullasonar. kiærdi greindur Eirikur þad fyrir oss og laugmanninum. At Ormur Stullason hefdi olaugliga ȷ sest og ad sier tekid Gardinn Maúdruvelli ȷ Eyiafirdi og þar med Aunnur Godz meiri þau ad att hafdi Þorleifur heitinn Grimsson huors sal ad Allzmectugur Gud herbergi. Eñ fẏrrnefndur Eẏrikur kalladi þessi Godz aull og aunnur fleiri þau sem sagdur Þorleifur hefur att. Ad sinni kuinnu Þuridi Þorleifsdottur og audrum þeim sem henni ȷafnt fram̄t standa til Erfda fallit hafa eptir fyrr nefndañ Þorleif faudur hennar. Þar ȷ mot sagdi adurnefndur Ormur Stullason. At hann hielldi nefnda Þuridi og þav Baurn Aunnur sem Þorleifur Grimsson hefur att med Solueigu heitinnj Hallzdottur. Godrar minningar. Ecki mega Arf taka eptir sinn faudur þar fyrir ad hann sagdist hafa heẏrt sagt at fiormennings mægdir hefdi verid þeirra æ medal. og vændist þar ad nockrum vitnis Burdar brefum. Laugdu þessir fyrrnefndir menn sig

þar vndir laug og lofudu þad ad hafa og hallda sem þar væri þæ þar vmdæmt þeirra j milli vm̄ sagda Agreining.

Þǫ́ j fyrstu tiedi og Birti Eirikur Sniolfsson fyrir oss med godra manna jnnsiglum suo hliodandj [vitnisburd] j millum Annara orda Ad þeir hefdu j hia verid og ǫ́ heyrt. ad Þorleifur Grimsson hefdi fest Soluaigu Hallzdottur sier til Eiginkonu med þeim ordum sem þar til heyra huort bref oss virtist j allan̄ mata skialligt og myndugtt med aullum sijnum greinum sem þad jnnehelldur. J Annari grein kom og fyrir oss domur er dæmdur var j fyrra haust ǫ́ adurnefndum þingstad af tueimur tylftum skilrijkra manna og vtnefndur og samþycktur af greindum laugmanni. og þar eptir sty[k]tur og stadfestur j almenniligri laugriettu af vors naduga herra kongsins fouita Knvt Steinssyni og Badum biskupum landzins og þar med fullnadar vrskurdur ǫ́ lagdur vpp ǫ́ sama dom af tittnefndum lǫgmanni huor domur ad suo hliodar j millum Annara greina ad þeirra manna Born sem j fiormennings ætthring hafa sinn hiuskap saman Bundit sidan þad var j laug leijdt ǫ́ Auxararþingi. skylldu skilgetin̄ og laugliga til arfs komnir vera eptir faudur sinn og modur og adra sina frændur. Kunnum vier þeim domi j aungu[an] mata ad brijgda. helldur samþyckiu vier ad hann skylldi halldaz og med mact ad blijfa med aullum þeim greinum og Articulis. sem hann jnne helldur og vtuijsar et cetera.

Nu þar ad adur greindur Ormur Stullason sagdist hafa heyrt sagt ad fiormennings mægdir hefdi verid j millum Þorleifs Grimssonar og Solueigar Hallzdottur og vændist þar ad nockrum vitnisburdarbrefum. Beiddunst vier af greindum Ormi ad vier villdum sia þad og heyra og feingum ecki. huad oss virtist þeim þa forskotid vera og þo ad greindur Ormur Stullason hefdi riettiliga kunnad þad ad Biuijsa med skialligum jnnsigludum brefum. Edur med laugligum vitnum og suordum Eijdum ad fiormennings mægdir[1]) hefdi verid greindra manna j millum þa virtist oss þad ecki afl hafa vtan sa domvr sie Brotinn og Rofinn sem hid fyrra

1) Hér byrjar brotið í 238.

arid var dæmdur. þui þad Birtist fyrir oss greindum domsmonnum. Ad sagdir menn Þorleifur og Solueig hefdi sinn Echtaskap til samans Bundit Epttir þad vors nadugasta herra kongs ordinantia var ȷnnkomin hier ȷ landit og þad var samþyckt Ad menn þeir sem væri fiormenningar ad frændsemi edur mægdum skylldu ad trialsu sinn Echtaskap [til samans[1]) Binda. Vissum vier fyrir full sannindi at tittnefndur Ormur Stullason hafdi[2]) nogan tima til haft ad sier ad koma aullum gaugnum og vitnum. Briefum og Biuisingum þau[3]) sem honum og hans akiæru hefdi matt til gagns og Bata koma. Eñ nu sakir þess þau komu Eingiñ fram̃. suo og hefdi hann aungua laga atferd haft þessi fyrskrifud gotz ad sækia og ȷ at setiast helldur hefdi hann med macktar velldi og ofbelldi sier[4]) ȷnnþrȷjkt og setst[5]) j fyrsaugd Gotz og peninga. þa sem Þorleifur Grimsson hafdi att. Sierdeilis til teknum [gardinum[1]) Modruvollum. Eñ þeim ȷ Burt skipad og vtskufat. med ʀeidum og arasum er satu ȷ fyrrskrifudum peningum sem var Gudbiorg husfreyia Erlendzdottir. huor ad lagt hafdi laug og dom fyrir greindañ gard og þessi godz fleiri ꝺ̃ vegna sonar sins Einars Grimssonar og annara þeirra sem honum standa ȷafnframmj til Af greindum Þorleifi Grimssyni til komnir. Þikiunst vier þad ȷ aunguañ mata kunna ad sia at ef suoddan ʀugl og ʀangirndj[6]) og oheyriligar attektir skulu suo vid gangast ȷ landinu at laugmalid munj hallda sig. edur þui munj verda vid komid. fyrer sakir þeirra manna sem suo vilia vera oforsialir og jllgiarnir og oraduandir. At fara meir eptir sinum vilia med sina mact og meingi at oprofudu mali hellddur eñ eptir ʀiettu laugmali og Bokarinnar ᴀvisan þeirrar sem virdvgligur herra Magnus kongur Hakonarson enn koronadj oss sendj hingad ȷ landit med Jone Stullasyni[7]). huor ad halldast skylldi hier ȷ landit til æfinligrar[8]) stadfestu. vtan þess væri Bedit med skynsemi af almuganum. Af konginum ad herda edur ad lina vort laugmal þar sem med þyrfti. Þikir oss slijkt ofbelldi horfa til stors ofridar og osamþyckis. Ef suoddan lagaleysi og ʀiettinda ʀan skal vid gangast ȷ landinu. huad allz-

1) [b. v. 238 2) hefdi 238. 3) Svo bæði. 4) sl. 238. 5) sett 238. 6) Svo. 7) Svo bæði; *rétt*: Einarssyni. 8) obrigdañligrar 238.

mecktugur Gud mildiliga Af verndi og Bidium vier adur nefndir domsmenn og allur annar almugi vors nadugasta herra kongsins fouita og Haufudzmann þann sem nu er til skickadur af uorum nadugasta herra konginum at styrkia þa suo til sem laugunum eiga at stýra hier ǿá landinu at sligt lagaleysi Gangist ecki hier vid. Eñ vier vilium giarnan ȷ gien veita alla skyllda hlydni og hollustu vorum nadugasta herra konginum. þa sem vortt[1]) forelldri hefur sig og oss vndir suarid vid kongdominn og krununa. Eñ vier ȷgen vonnm ad þad sie vid oss og vort afspringi halldit sem lofat hefur verid af kongdominum til. Nu þar ad adur greind Gudbiorg husfreyia Erlendzdottir hafdi lagt laug og dom fyrir adur greind godz lausafie og fasta Eignir virtist oss sem adur greindur Ormur Stullason hefdi att ad sækia hana vr þessum arfi. Eptir Bokarinnar Avijsan. þar ad suo vottar og auijsar laugmalid med stauddum Endimorkum. Arf skal sækia ȷ þeim fiordungi sem arfur er dainn. Eñ ef madur leidir ȷ audrum fiordungi votta siina eñ Arfur er dain þa hefur hann þeim forskotid et cetera.

J annari Grein seigir suo ȷ sama capitula. Nu situr madur ȷ Arfi og leggur dom fyrir. Eñ annar kallast til kominn ad laugum. þa skal sa stefna honum heimstefnu Rietta og krefia hann arfs og vrfarar þeim er ȷ situr. Nu vill hann eigi vr fara vr arfi. Þa skal hann stefna honum þing fyrir Ran og ȷsetu. Og ef honum fullnast þa vitni og gaugn aull til sins mals og kemur eigi Anduitnj ǿá moti. þa eiga þingmenn honum arf ad dæma et cetera.

Jtem ȷ þridiu grein til skipar laugmalid at eptir Gaugnum og vitnum skal huort mal dæma. Eñ ecki eptir Eins mannz lausungarordum.

Nu sakir þess ad Greindur Ormur Stullason hafdi huorki sokt nie ȷ sest þessa peninga eptir laugum. Suo og komu Eingin Gogn nie vitni og eíj bref nie biuijsingar ȷ dom fyrir oss þau ed greindum Ormi edur hans ækiæru mætti til gagns edur bata koma[2]) ȷ greindu malj. Eñ þad festingarbref sem greindur Eirikur bar [ȷ dom[3]) fyrir oss. sem hliod-

1) 238; vor *a.* 2) verda 238. 3) [b. v. 238.

ar vpp æ festing sem tittnefndur Þorleifur Grimsson hafdi giort vid adurnefnda Solueigu Hallzdottur Dæmdum vier ȷ allañ mata skialligt og myndugt med aullum sıȷnum greinum sem þad ȷnne helldur. og[1]) Auijsar laugmalid liosliga þar ad suo seigir. Aull þau skilord sem menn Giora ȷ kuennagiptingum. og suo ef menn kaupa ȷardir og fyrir huort vj$^{c}$ kaup edur meira þa skal huortueggie Giora bref eptir kaupi sinu og skildaga og nefni votta sıȷna. þa [hia[2]) voru stund og stad. med þeim fleıȷrum ordum og atvikum sem þar til luta. J annari grein seigir suo ȷ sialfum texta Bokarinnar. Nu leikur ꜵ tueim tungum huort madur er arfgeingur edur ei. þa skal hann stefna honum þing er honum stendur fyrir Arfi. þa skal hann niota votta sinna ad hann stefndi honum þangad. Þad skulu og so vottar hans bera. Vier vorum þar ȷ hia ad modur hans var fest. þa eiga þingmenn honum arf ad dæma. Virtist oss greindur Ormur Stullason nogliga fyrir stefndur vera. fyrst hann lagdi sitt mal vndir laug og dom og þui dæmdum vier hann ʀiettiliga fyrir kalladañ vera. J þridiu grein auijsar og suo ȷ fyrstu erfd þar ad suo seigir. Suo er og stadfest þar sem madur festir sier meẏ edur konu. Ad Gudz laugum og beggia þeirra samþycki þa eru þau Baurn aull sem hann ꜵ uid þeirri konu laugliga til arfs komiñ. huort sem þau eru getin fyrir festing edur Eptir med þeim fleirum ordum sem þar ad luta. Seigir suo J saumu Erfd. at su er ʀin lauglig festing eptir þui sem forn laug votta eñ Eingin aunnur. Madur tekur ȷ haund meẏ edur konu. ad næruerundum skilrikum vottum. og festir hana med þeim ordum sem þar til heẏra. Eñ huor sem annañ veg Bindur sinn hiuskap þa skulu þeirra baurn eigi [vera lauglig til Arfs[3]). Og þui fyrir allar þessar greinir og adrar fleiri sem ȷ laugmalinu standa og hier ad hnijga. og suo Eptir þui fyrskrifudu festingarbrefi. sem nu hefur fyrir oss komid og ad aullu suo profudu mali. sem nu hefur fyrir oss komid. þa ȷ Gudz nafni amen Dæmdum vier fyrrnefndir domsmenn med fullu doms atquædi og aligtunarordi[4]) eptir Bokarinnar aujsan og eptir vorri skynsemi Þuridi Þorl-

1) sl. 238. 2) [er vid 238. 3) [lauglig til arfa uera 238, 4) alyktarordi 238.

leifsdottur. og þa adra sem henni standa [jafnt fram̄[1]) til ad skulldugleika og skilgetningu lauglega Erfingia vera at aullum þeim godzum og[2]) fastaeignum og lausafiam sem ad att hefur þrattnefndur Þorleifur Grimsson. og fri og frialsliga mega eignast og j setiast. ad sier[3]) taka og skipta sijn ǻ milli. og Bita saugdum peningum. Eptir þui sem almenniligt Erfdatal og j Kuennagiptingum vtvijsar. huonær ǻ timum sem þessir menn vilia. þad sem optnefndur Þorleifur Grimsson hefur ecki adur laugliga j Burtu feingid. huorki ad giof nie gialldi edur saulu Eñ akiæru greindz Orms Stullasonar sem fyrr seigir dæmdum vier onyta og ecki afl hafa.

Laugsamdi og samþyckti þennañ vorn dom med oss fyrskrifadur Egert Laugmann og allur annar almugi þar saman kominn. og setti greindur laugmadur sitt jnnsigli med vorum jnnsiglum fyrir þetta domsbref huort ed giort og skrijfad uar ǻ Helgafellzklaustri j Helgafellzsueit þridiudægjinn fyrstañ j vetri ǻ sama ari og fyrr seigir.

---

**253. fyrir Mikaelsmessu 1558. á Hofi.**

Vitnisburðr um Vetrliðastaði.

AM. Apogr. 4608 „Epter transscripto (þessa og annara fleire brefa) giðrdu ǻ Grund i Eyiafirde sunnudag næsta fyrer uppstigningardag 1595“. — AM. Apogr. 722.

Um̄ Veturlidastadi.
Eidur sijra Þorsteins Gunnasonar.

Til þess legg eg hønd ǻ helga bok og þvi skyt eg til Guds. ad eg veit ecki annad sannara fyrer gudi um þann giðrning sem þeir biskup heitinn Jon. godrar minningar. og sijra Jon heitinn Philippusson giðrdu sin i mille um jðrdina Veturlidastadi. eñ so sem þad mitt vitnisburdarbref innehelldur. sem eg hefe sialfur skrifad og innsiglad um greindañ giðrning. og ad svo stðfudum eide sie mier gud hollur sem eg satt seige.

Svo felldañ vitnisdurd [berum[4]) vier Sijra Biarni Helga-

1) jafnframmi 238. 2) sl. 238. 3) Hér þrýtr brotið i 238. 4) [Svo.

son. [Gis]le Jonsson. Gudmundur Stefansson. Jon Helgason. Sigurdur Jonsson. [godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi[1]). ad vier vorum [i hiā]. sāum og heyrdum ā ȷ badstofunne ā Hofi ȷ Watzdal. ad Sijra Þorsteinn Gunnason sor so felldañ bokareid sem hier fyrer ofan skrifad stendur. med þeim fullum og ollum atkvædum sem i hans Eidi stendur. Og til sanninda hier um. setium vier fyrrskrifader menn vor ȷncigli fyrer þetta vort vitnisburdarbref. er skrifad var i sama stad og dag[2]) er fyrr seiger Anno Domini M. D. L og vııı.

---

## 254. 7. október 1558. á Hofi.

Úrskurðr Eggerts lögmanns Hannessonar um Vetrliðastaði.

AM. Apogr. 4649 „Ex originali chartaceo. 5 innsigle hafa vered fôst vid brefed, nu er ei epter nema innsigle Halldors Einarssonar og er þar i fugl“ (AM.). — „Under þessum dőmi er heillt pappirsark samanlagt in folio, er kiðlurinn efst ā brefinu og skriftin epter endelaungu arkinu, nær so skriftin nockud meir eñ ofan fyrer midiuna ā fyrstu sidunne, eñ hinar þriār sidurnar eru audar. Ytri Rôndin ā þessu samanlagda arke, sem nu er nedst ā brefinu, er samanlogd þribrotin so pappirinn er þar sexfalldur, og er so þar i gegnum stungid ȷnsigla reimunum, eñ eckert pergament er þar lagt innan i broted. Briefed er breidara eñ þad er langt, eins og flestöll gômul brief. Þesse Eggerts logmanns urskurdur stendur ordriett samhliőda i storu transscripto yfer morg bref um̄ Veturlidastadi, giôrdu 1595“. — AM. Apogr. 722 eftir transscripto frá 20. mars 1573. — Steph. 27, 4to, bls. 166—7.

Um Veturlidastade[3]).

Jhesus.

Eg Eggertt Hannesson logmann nordan og uestan ǻ Jslandi giore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad ǻ fostudæginn næstan fÿrer Dionicij[4]) episcopi þa lidit uar frā Gudz burd ꝏ d l og viii ǻr ǻ Hofe i Vassdal kom fyrer [mic] Jon Biornsson. beidde mig og krafdi liðsañ lagaurskurd ǻ ad leggia epter logum hver ad til æfiñligrar og obrigdanligrar stadfestu skylldi eignast jordina

1) [Svo. 2) Svo. Dagr er hvergi nefndr. 3) M. h. Árna Magnússonar. 4) Svo.

Ueturlidastadi. er liggur j Hniőskadal j Hőlss kirkiu sokn̄. Nu saker þess ad fyrer mig hefur komid bref og bivisingar hustru Þorunnar Jonssdottur hver ad halld hafdi ă greindre jordu. svo og hefur fyrer mic komid bref og bivisingar sira Geirmundar Jonssonar huer ad klagadi til sagdrar jardar. hliodudu þessi huorutueggiu manna bref huor őă moti odrum̄ og uoro logd i dom fyrer mic og adra goda menn j fyrra haust j Spialldhaga i Eyiafirdi. huer domur ad suo uar dæmdur. vppsagdur og samþycktur af mier greindum logmanni ad fẏrskrifud hustru Þorunn Jonsdotter skẏlldi leida tuo loglig uitni þau er þad bære med suordum bockareidum ad sira Jon heitinn Filpusson hefdi sellt med handsolum ttl fullrar eignar biskup heitnum Joni Arasyni godrar minningar fẏrskrifada jord Ueturlidastadi. Nu saker þess ad sogd vitne hafa leidd verid med suordum bockareidum sem domur þeim dæmdi þo ad sidar være en̄ domurinn avisar þa uirtist mier og odrum godum̄ monnum þeim sem nu uoru i hia mier þratt nefnd hustru Þorunn Jonssdotter eigi mega sitt odal þar fyrer missa. þvi ad landzlogin suo liosliga őăuisa med stoddum endimorckum j odrum kapitula i Mannhelgi ad eingin mann mőă jordu sinne fyrergiora vtan fyrir þau uerck sem þar til seiger et cetera. Ok nu saker þess ad uirduligur herra biskup Jon Arason og fyrskrifadur sira Jon Filpusson. godrar minningar. hofdu vid keypzt med fullum handsolum vm̄ þratt skrifada jord Veturlidastadi epter þui sem landzlogin̄ til skipa og skẏra j Kaupabalcki og vidar annarss stadar. Suo og var fẏrskrifadur sira Jon Filpusson huorcki dumbur nie daufur j þann sama tima er hann giordi fẏrskrifadan̄ kaupskap vid þrăttnefndan herra biskup Jon Arason et cetera. Ok þui i Gudz nafne amen og ad heilagss anda nad til kalladre mic[1]) i domsæti sitiandi og ad ollu suo profudu mali sem nu hefur fyrer mic komid. þa seiger ek greindur logmann med þessum minum liosum og logligum̄ lagaurskurdi og orofnu logmali suo sem ek vil ansvarandi verda fyrer Gude en̄ bikendur fyrir minum nadugasta herra konginum fẏrsagda jord Veturlidastadi werid

1) Svo.

hafa og vera skuli epter þennañ dag obrigdanlig eigñ optnefndrar hustru Þorunnar Jonssdottur og hennar erfingia.

Logsamdi og samþÿcktti þennañ minn vrskurd med mier i fÿrstu Halldor Einarsson. Biorñ Biarnason. Oddur Helgason. Einar Palss son og settu sin jnsigle med minu jnsigle fyrer þetta mitt urskurdarbref. huertt ad giortt og skrifat var i sama stad. deigi og are sem fÿr seiger.

---

**255. 8. október 1558. á Keldum.**

Vitnisburðr um þá lýsing Eiríks Þorsteinssonar, að hann hefði hvorki selt né gefið nokkurum manni jörðina Kross í eystri Landeyjum, heldr léð hana guði og heilagri kirkju á Krossi.

Bps. Skalh. IV, 2, frumrit á skinni; 6 innsigli, öll dottin frá. — AM. Apogr. 2544.

Vm Kross j Eÿstre Landeÿum 1558[1]).

[Suo felldan uittnessburd berum vier[2]) Ellendur Jonsson og Aurnolfur Olafsson og Eyolfur Magnusson. og Þoraren Jonson. oc Añe Magnusson. Magñvs Jngiallss son. [godum monnum kunnigtt[2]) med þessu vorv opnv brefi ad vier heyrdum Eijrek heijtin Þo[r]steinsson lysa þui optliga fyrir oss ad hann hefdi hvorki gefit nie sellt nockrum manne jordina Kross er liggur j eystre Landeyum. helldur hefdi hann lied hana gude oc heijlagri kirkiu æ Krosse suo leingi sem hun hefdi aptur golldit þann reikningsskap sem biskup Augmundur klagade til Eijreks vegna kirkiunnar æ Krosse og fallit hafde æ medan Magnus heijten Magnusson hiellt. huad er biskup Augmvndur reiknad hafde lxxx[c]. Reikñade Eirekur vera iij hvndrvd j landskilld æ fyrr greindri jordv en ad þessvm reikningss skap golldnvm hefde Eyrekur skiled aptur opt nefñda jord Kross vnder sig eda sina erfingia. Og til meijre sanninda hier vm setivm vier vor jnsigle fyrir þetta vort vitñessbvrdarbref hvert er skrifad var æ Kelldvm laugardægin næstan fyrir Kalixtusmesso. arvm epter guds burd. ꝏ. d. l. oc viij ar.

---

1) Utan á bréfinu með 17. aldar hendi. 2) [Svo.

**256.** **21. október 1558.** **á Stokkseyri.**

KAUPBRÉF fyrir parti í Traustholti í Flóa.

AM. Apogr. 4659 „Ex originali Oddz Eirikssonar á Fitium“.

Þat giore eg Pall Oddzson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi at ek hefi sellt Birne Biornssyni fiaugur ágilldi á enu vijda hundradi j jaurdunni Traustholti j Flőa er liggur j Villingaholts kirkiusokn. med jáyrdi og samþycki Valgerdar Hallzdottur konu minnar. med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum jardarparti hefur fylgt at fornu og nýu undan mier og míjnum erfingium. eñ under hann og hans erfingia. Hier i mot hefur hann feingit mier uit greindum jardarparte .x. malnýtu kugilldi. hest j hundrad og gielldfiar .c. þvi gef ek hann og giőri aullungis kvittañ og ákiærulausan um fyrrgreint jardarverd. skal hann hallda til laga fyrrgreindum jardarparti. eñ ek svara lagariptingum. Eñ i stadinn greindz jardarparts set ek Valgerdi konu minne so mikit ur minni jordu Brattzhollti i mála sinn. Voru þesser giorningsvottar. Oddur Oddzson og Arni Jonsson.

Ok til meire vissu. sanninda og stadfestingar hier um set ek mitt jnsigli med fýrgreindra vitnis manna jnnsiglum fyrir þetta jardarkaupsbref. skrifad á Stockseyri faustudaginn fyrstan j vetre arum eptir Gudz burd ꝏ v^c fimtiger og viij. fŏr þessi giorningur fram um vorit krossmesso dag á sama are sem fýr seiger[1]).

---

**257.** **23. október 1558.** **á Marðarnúpi.**

KAUPMÁLI Jóns Ormssonar og Þórunnar Gísladóttur.

AM. 242, 4to. bréfabók Guðbrands byskups, bl. 212v.. Á bl. 206—8 er uppskrift bréfsins, gerð handa Árna Magnússyni. — Hin prentaða bréfabók bls. 392—3.

Jn nomine dominj amen. War so felldur kaupmali lýstur og stadfestur á brudkaupsdeigi sem hier seiger á millum Jons Ormssonar og Þorunnar Gijsladottur a Mardarnupe j Watzdal á sunnudaginn næstañ fyrer Simonsmesso vm

1) þ. e. 3. mai.

weturinn Arum efter Gudz burd ↄ. d. l og viij ad Jon Ormsson taldi sier hundrad hundrada til kaupz vid Þőrunni. Reiknadist j þǎ peninga iardernar Draflastader halfer j Fnioskadal. jordeñ Weigastader fyrer xxc og iordeñ Melar fyrer xxc er bǎdar liggia j Draflastada kirkiu sőkn. og þar til xlc i lausagotze. Hier i mote gaf Gijsle Jonsson Þőrunne dőttur sinne lxc. reiknadist i þǎ peninga hǎlfur Helguhuammur fyrer xxc. er liggur i Kirkiuhuamms kirkiu sokn og þar til lofade Gijsle Jonsson Þőrunne dőttur sinne. xv. mǎlnýtu kugilldum. og vc og xx i silfre og audrum peningum kuikum og daudum. skiliandi hana mǎlakőnu i gard fyrrnefndz Jons Ormssonar. Gaf greindur Jon fyrrnefndre Þőrunne i fiordungsgiőf iordena Weigestade[1]) fyrer xxc og þar til. v. kugillde og vc i audrum peningum. Reiknadist þui mǎli hennar lxxxxc. voru þar i xx kugillde. Skýllde þad eiga kiørgrıp vr annars fie sem leingur lifde. főr þesse giorningur fram̄ med lőgligre festingu greindra hiőna Jons Ormssonar og Þorunnar Gijsladőttur i sama stad og deigi. woru þesser wottar festingar og brudkaups og alls fyrrskrifads giornings Biskup Olǎfur Hialltason. Sera Þosteinn Gunnarsson.[1]) S[era] Jon Sigurdsson. Pall Grimsson. Halldor Sigurdsson. Gudmundur Einarsson. huerier ad settu siju insigle fyrer þetta kaupmalabref sem giortt var i sama stad og deige og ǎre og fyrr seiger.

---

## 258. 23. októ̗ber 1558. á Grund.

Kaupmálabréf Sigurðar Bjarnasonar og Ragnheiðar Björnsdóttur.

AM. Apogr. 4476 m. h. Árna Magnússonar „Ex orig. ur Hustru Þrudar brefum fra Pali lőgmanni sendum 1723. enn sendum til baka 1724. Collata accurate satis. Innsiglen under brefinu eru.

1. Herra Olafs Hialltasonar. Þad almenna. Þar i Eyrormurinn ǎ krossinum. og .2. menn standandi under krossinum.

2. S. bᴅʀoni: p: TO: s. (innani kalekshus). Er stort. kringlott.

3. S. godeᴍᴠɴdi : skidᴀ s. (innani kalekshus). er kringlott.

4. er burtu.

1) Svo.

5. S. Magnvs: ar. (ihs).

6. sem vera skyllde Magnusar Gunnsteinssonar. hefur alldri under brefenu vered.

7. S: Arne: ıon (-R). Brefid er ritad med eigin hendi sira Sigurdar Jonssonar prestz ad Greniadarstad.

Eg ætla nu. þegar eg hefi betur adgiætt þetta. ad hôndin sie ecki sira Sigurdar. helldur ônnur ærid lik hans hendi. Eg hefi .3. samföst bref fra sira Magnuse Markussyne um Marstade ôll daterud ǎ Greniadarstôdum 1565. 66. 67. þar af eru þau .2. skrifud med sômu hendi. sem þetta kaupmalabref. og eg true ad þad 3ia sie og med sömu hendi. iafnvel þott skriften þar ǎ sie stærre. pennafared synest vera riett hid sama.

Jterum me recolligo. Eg true þo þad sie til samans hônd sira Sigurdar. hann hefur skrifad stundum sett. stundum fliotara. ductus marger eru allt eins og hans stafagiôrd. og mun so þetta kaupmalabref þo vera skrifad med hans hendi". (AM.).

## Kaupmalabref Sigurdar Biarnasonar[1]) og Ragneidar Biornsdottur.

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda Biorn Tumasson. Gudmundur Skidason. prestar. Þorsteinn Gudmundzson. Magnus Arnason. Magnus Gunsteinsson og Arne Jonsson. leikmenn. kvediu gudz og vora kunnigt giorandi. ad arum epter holldgan Christi M. D. L. og viii. sunnudaginn næstan fyrer Simonis og Jude um haustid. a Grund i Eyiafirdi. vorum vier i hia. saum og heyrdum a ord og handsaul sem þar frammfor. J fyrstu er þar auglystist og stadfestist kaupmali sa gior hafdi verid a mille heidarlegra manna. Sigurdar Biarnasonar af einne alfu. enn Ragneidar Biornsdottur af annari: suo hliodandi. ad Sigurdur Biarnarson[2]) fyrnefndur hafdi adur keypt nefnda Ragneidi Biornsdottur sier til loglegrar eiginkonu. epter gudz logum. med radi og samþycki Steinunnar Jonsdottur. modur Ragneidar. og Jons Biornssonar. brodur Ragneidar. er þa var hennar giptingarmadur. med þeim peninga skilmala ad nefndur Sigurdur Biarnarson[2]) taldi sier til kaups vid greinda Ragneidi eitt hundrad hundrada og attatiger hundrut. at tilgreindre iordinne Stoxeyre a Eyrarbacka sudur. og iordinne Leirubacka sudur a Lande i Landmannahrepp. Hier ı mot taldi Jon Biornsson systur sinne Ragneidi tiutiger hundrud.

1) „Þetta er fader Biarna ǎ Stockseyre" (AM.). 2) Svo.

ad tilskildri iordunne halfri Reykium i Midfirdi fyrer xxxc. og þar til xx. hundrada iord. Eñ af þeim hundrad hundrudum og lxxx. hundrada. sem Sigurdar Biarnarson[1]) hafdi talid sier. þa hafdi hann gefid Ragneidi Biornsdottur. konu sinne. fiordungsgiof. og þar uti skilinn halfur Leirubacki fyrer xxxc og þar til xxc i godum peningum. eñ halfan Leirubacka hafdi Sigurdur sellt Ragneidi konu sinne fyrer xxxc. uppi Reyki i Midfirdi. Kiore Jon Biornsson systur sina malakonu i gard Sigurdar Biarnarsonar[1]). og skildi[2]) hennar mali þa vera eitt hundrad hundrada og xxxc Svo og hafdi Sigurdur skilid ad peninga þa. er hann giæfi Ragneidi. og fyrr eru skrifader. ad þeir skylldu falla til þeirra barna. ef þeim yrde þeirra audid. Og ad aullu fyrer skildu hofdu þeir Jon Biornsson. broder Ragneidar. og Sigurdur Biarnarson handsaul þa enn til stodugleika og obrigdanlegrar stadfestu. oss asiaandi. og þar epter festi adur nefndur Sigurdur Biarnarson Ragneidi Biornsdottur. sier til logligrar eiginkonu. riett epter bokarinnar ordum og landzins logum. Hier epter frammfor logleg samvixla i kirkiunne epter kongsins ordinantiu skickan yfer nefndum hionum af Herra Olafi sem þa var biskup a Holum. og hann var forsagnarmadur ad aullum fyrgreindum skilmala. Og þvi til sanninda hier um setti hann sitt inncigli med fyrr skrifadra manna innciglum fyrir þetta bref. er skrifad var a Greniadarstad i Adalreykiadal. manudaginn næstan fyrer midian vetur. are sidar enn fyr seiger.

---

## 259. 2. nóvember 1558. í Skálholti.

Áminningarbréf Gísla byskups Jónssonar til Eyfellinga.

Lbs. 101, 4to., bls. 476—8, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal eftir „rotnu blaði“ úr bréfabók Gísla byskups. — Prentað í FJ. Hist. Eccl. Isl. III, bls. 325—8 (á íslenzku og latínu).

Bref herra Gisla Jonssonar til þeirra under Eÿiafiöllum um leidriettingu þeirra truar.
Anno 1558.

Nåd og fridur af gude fødur fyrir hañs kiæra son Jes.

1) Svo. 2) „ita extat“ (AM.).

um Christum med h[eilags] anda samverkan sie ydur alla tijma send af mier med minne kiærre heilsan. so og öllum ödrum dandismönnum under Eÿiafiöllum.

giarnan þacka eg ÿdur gőda kÿnning med godlǻtre ǻvarpan er þier sÿndud mier sijdast hvad eg bid ydur ad forlǻta mier mijna dijrfsku og marghǻttad őnÿtt hial. er eg ydur synda. eñ hafe nockud neÿtt vered i þvi. þa stadfeste þad gud med ydur. honum til lofs. ÿdur til nǻda. og öllum ydur til velferdar. þvi gud sie minn vottur. ad þar sem eg hefe talad um christelega tru hvor i Credo er samsett af födur. sÿne og h[eilögum] anda þa villde eg ei betur hafa kunnad. hvad þar er þo eingin önnur trua edur traust fyrir christna manneskiu. utan ad trua ǻ födur og skapara allra hluta. eilijfan kong og őd audliga ñ herra rijkianda um allar allder ǻn upphafs og enda. siǻanda eilijfa naudþurfft sinnar skepnu. þar næst ad trua uppǻ hans eingietenn son Jesum Christum. hvor med sijnu blessudu banablode. hardre pijsl og sǻrum dauda med allshattudum meinlætum leyste alla sijna truada fra eilijfum dauda og diöfle. fra ollum sÿndum og eilijfre fordæmingu. trodande so diöfulenn daudañ og alla jllsku under sijnum himneskum főtum. skiliandest so vid höfdingia mÿrkranna. ad hann batt hann őlösnanlegum jarnböndum. þo glőande. spyande þar sijnu bana blode um alldur og æfe. Eñ þesse Jesus afftur bÿrgiande so helvijte. ad i sinne dyrdarfullre upprisu upplukande oss himnarijke. afrekande oss so foduriñ fridugañ. giorande soddan umskijffte ad hann gaf oss lijf fyrir dauda. riettlæte fyrir rǻnglæte. nǻd fyrir naud. frid fyrir őfrid. sakleyse fyrir synder. eilijfan dag fyrir eilijfa nőtt. eilijfft himnarijke fyrir eilijfft helvijte. i einu ordi ad seigia. eilijfañ gud med öllum hañs himneskum gőda. fyrir eilijfañ diöful. med öllum hañs helvijskum voda so vier eigum nu med öllu heima i himnarijke. eñ fraskilder med öllu hinu heitasta helvijte. Þetta allt saman fyrir afrekan og forþenan Jesu Christi gudz sonar eñ fyrir öngvañ annañ hvörke ǻ himne nie jördu. hvört hann mǻ helldur nefnast Eingell. meÿ edur manu. þar fyrir er oss skÿlldugt öngum ad þacka vora lijfsgiöf og saluhialp utan þeim einum medalgangaranum. hvör ad heiter

Jesus Christus sannur guds sonur. takande med þvilijkum hætte upp á sig vora manndomlega nátturu. Þar fyrir villast þeir miôg ur máta. sem fyrir adrar hialper vilia komast til himnarijkis. hvad þo alldrei kann skie. þvi ad so seiger h[eilôg] ritning. ad þad er þad eilijfa lijfed og þar inne folged. ad trua upp á eingetinn guds son Jesum Christum. og þad er su sigran seiger Johannes sem yfervinnur dauda. diôful og helvijte. sem er vor skiær. stôdug. hreinferdug og ófleckud trua. hvoria einginn þo sialfkrafa ad hafa þad hlytur ad vera gefed af gude med nád og kraffte. uppveking. helgan og samverkan heilags anda. hvôr ad hin þridia persona er i guddomenum. þo einn eilijfur ósundurskifftanlegur almáttigur og æfenlegur. þvi ad so sem gud fader skapade alla hlute. hans Eingetenn sonur endurleýste alla hlute. so lijfgar og helgar heilagur ande alla hlute. þo verkande einn gud allt i ôllum hlutum. þvi so seiger hann i sijnum eilijfum guddome. fyrir Esaiam spámann. mijna dýrd vil eg ôngum ôdrum giefa. seiger gud. þad er. þad sem áhrærer vora sáluhialp og eilijfft riettlæte til hijmnarijkis vistar. þad vill gud sier einum láta þacka. en ôngum ôdrum. þvi villast þeir ærelega. og eru blindader. en nockrer adrer veralldleger menn sem meina sig fyrir nockurt annad midel edur máta meiga koma til himnarikis. hvad soddan hiatru med annarlegu akalle verkar ecke annad enn eilijfan voda og vanda. vid hvorre hiatrú gud oss forde. bidiande ýdur þar fyrir ad taka þessa mijna áminning ecke ydur til óvilia. Þvi ad fleira og meira mætte hier um skrifa. ef þôrf giôrdest. en vonandest þo ad af þessu litlu kann gud miked ad giôra. Bid ydur uppa gudz vegna. ad þier hafed gudleg rád ydvars brodur i þvi sem ydur vardar mestu. sem ahrærer ýdar sáluhialp og rietta tru til guds fôdurs. hans sonar og heilags anda. gefe almáttugur gud ýdur a þann veg ad snua. sem ýdur og ýdrum má til hellstrar æru koma bæde fyrir sál og lijf. viliandis i mijnum Bænum þar. vakinn fyrir liggia. bidiandis ydur og alla ýdra ad taka til einkis óvilia þetta mitt skrif. viliandis giarnan á auka i gódu i annan tijma. og ætijd vid ýdur og alla adra.

Til vitnisburdar ad so er i sannleika mijn alvara. þricke

eg mitt signetum fyrir þetta Bref Skrifad i Skálhollte. næsta dag effter allra heilagra messu Anno 1558.

---

## 260. 30. nóvember 1558. á Skammbeinsstöðum. 10. nóvember 1572. í Skálholti.

Vitnisburðr síra Þorleifs Eiríkssonar um Skálholtsfjöru í Landeyjum og um jörðina Kross í Landeyjum, að lögð hefði verið í vald Ögmundar byskups fyrir gamlan kirkjureikning.

Bps. Skalh. IV, 5, frumritað transscriptum á skinni. Af 4 innsiglum er nú að eins eftir innsigli Gísla Sveinssonar. — AM. Apogr. 2547.

Um Rekan fyrer Arnarhols landi[1]).

Suo felldañ vitnisburd ber eg Þorleifur prestur Eirecksson ad fra þui sem eg kom af Vestfiordum og til Breidabolsstadar j Fliotzhlijd og suo leinge sem eg þann stad hiellt heyrda eg alldri annad eñ Skalholldz kirkia ætte recka allañ j millum Alfholafioru og Berþorshuolsfioru. huer recki stundum var kalladur Skalhollzrecki. Eñ stundum Fiflhollzrecki. og alldri vissa eg nie heyrda hier nockud tuimæli ä leicka. ad fyr greindur recki væri nockrum jordum eignadur. Jtem keypta eg og suo sellda Arnarhol j Landeyium sem liggur fyrir ofan fyr sagda recka. og kunna eg ecki ad lata þennan recka fylgia huorcki j kaupe nie saulu.

Suo og medkennunst eg j þessum minum vitnisburdi. ad eg heyrda skiluisa menn seigia. ad Eireckur bondi Þorsteinsson hefdi lagtt jordina Kross j Landeyium j valld biskups Augmundar fyrir gamlan kirkiu reickningskap. Suo og vissa ec biskup Augmund bæla og bu ä hafa. jtem selia og aptur kaupa. og til benefitium giora fyr greinda jord. Og alldri heyrda eg Eireck bonda hier nockud vm tala nie ad finna og aunguan hans huernen þeesi jord færi. huersu optt sem vid saman vorum. Og nu hartt nær j xl är. hefi eg alldri annars vitad. Eñ þessi jord Kross mundi Skalhollz eign vera. vtan þa biskup Augmund skylldi gefa hana frænda

---

1) Utan á bréfinu m. h. Arna Magnússonar, og svo ártölin „1558/72“

sinum. Paule Haflidasyni. Og j sannleicka ad suo er. þrycke eg minu jnsigle ꝏ þetta bref. Skrifad ꝏ Skambeinstodum j Holltum ꝏ sialfa Andresmesso vm veturinn anno domini. ꝏ. d. l. viij[1]).

Þad medkiennunst vier eptterskrifuader menn Sjra Þordur Jonsson rædzmann og Gudmundur Gijslason kirkiuprestur. Jtem Gijsle Sűeinsson og Þoruardur Þorolfsson Laugriettumenn ad vier haufum sied og yferlesid brief med heilu og oskauddu innsigle suo latandi ord fyrir ord sem hier fyrir ofan skrifuad stendur. Og til sannenda hier vm festum vier fyrr nefnder menn vor innsigle fyrir þetta brief. Skrifuad j Skalholltti þann .x. dag Nouembris. Arum eptter Gudz burd ꝏ. d. lxx og ij.

---

## 261. 13. december 1558. á Koldinghúsi.

Kaldangrsrecess.

Recess þessi er lögleiddr á Íslandi með konungsbréfi 20. mars 1563 fororðslaust um hórdóma og legorð (kap. 60). Þó hafa menn talið svo, að þau ákvæði recessins hafi ekki verið hér lög lengr en tvö ár, og þykir mönnum svo sem þau hafi verið sjálffallin úr gildi með Stóradómi 1564 og staðfestingu konungs á honum 13. apríl 1565, og er hér að nokkuð vísu að ganga, og málið einfalt og óbrotið. Hitt er verra og vandasamara viðfangs, að kongsbréfið segir enn framar, að recessinn skuli einnig ganga fyrir lög um þau efni, „sem íslenzk lög þar um ekki áhræra né forklára“. Hlaut þetta að leiða til hins mesta ruglings og handahófs um það, hvar og hvenær ákvæði recessins áttu við eða ekki, og urðu dómendr í hvert skipti að skera úr því efni sjálfir, því að ekkert áreiðanlegt yfirlit eða skrá var til um það, hvar recessinn bætti með réttu upp landslögin. Dómendr vorir hafa því til varúðar, og stundum sjálfsagt með fram af lögspekifordild, tekið snemma að vitna heldr ríflega í recessinn, og þegar sá skriðr var á kominn, varð það að vana, og óvissan jókst svo, að merkustu lögfræðingar vorir á 18. öld, þegar farið var að rita með athuga um íslenzk lög og réttarfar, vilja engum orðum eyða „um þann harm og það margt illt, sem af þeirri dirfsku dómaranna sprottið hefir“ (Páll Vídalín: Skýringar yfir fornyrði Jónsbókar, Rv. 1854, bls. 396. Sbr. Jón Árnason: Isl. Rettergang, Kh. 1762, bls. 21; Lovsaml. for Island I, 79). Ókleift er, enn sem komið er, að rannsaka til hlítar. að hve

1) Þetta bréf sýnist vera m. h. Gísla byskups sjálfs, en transscriptarvottorðið, sem eftir fer, er með settri og annarri hendi.

miklu leyti eða hvað í recessinum dómarar vorir eða kirkjuvöld hafa borið fyrir sig í fyrri tíð, af því að dómar og bréfagerðir vorar frá þeim tímum, eftir að recessinn var settr, eru enn að miklu leyti óbirtar. Auk þess eru tilvitnanirnar oftlega almennar og í engan ákveðinn stað í recessinum, og því illt að handsama þær. Það eina, sem örugglega má fara eftir, er það, sem prentað hefir verið af alþingisbókunum, og efniskrárnar við þær. Er sumt af því, sem þar er að finna, að vísu almennar tilvitnanir í recessinn, svo sem í Stafholtsprestastefnu, samþykkt 11. maí 1592 (Alþb. II, 261), í alþingisprestastefnusamþykkt Odds byskups (sst. II, 270), í supplicatiu klerkdómsins 20. júlí 1592 (sst. II, 286), og í kæru Guðbrands byskups yfir Jóni lögmanni (sst. II, 300, 302), en þó er oftar vitnað í ákveðna staði. Dr. Jón þjóðskjalavörður Þorkelsson hefir tínt til allmörg dæmi, og eru athuganir hans birtar hér á eftir:

1. Sæmundr sýslumaðr Árnason á Hóli í Bolungavík vitnar í skjali því í móti síra Gísla Einarssyni í Vatnsfjarðarmálum, er hann lét lesa í lögréttu 2. júlí 1616, í *1. kapítula* þessa recess (Alþb. IV, 302), sem er um það, að „kongurinn skal hialpa huerium manni til laga og Riettinda".

2. Sæmundr vitnar og í sama skjali í *5. kapítula* í recessinum (sst. IV, 301[1]), 302), sem er um það, „huerñin kongur skal stefna lăta".

3. Í Akradómi Jóns lögmanns 17. okt. 1573 um Barð og í riti og röksemdum Guðbrands byskups um Barðsmál er beint vitnað í *8. kap.* recessins (Alþb. I, 181, 188, 288, 289). sem hljóðar um það, að „Einginn mǻ kallast fra hieradzþijngi, landzþijngi edur rijkisins cantzeler fyr enn domur er geinginn a mǻl hans". Sæmundr sýslumaðr Árnason á Hóli í Bolungavík vitnar og í skjali sínu, er hann lét lesa í lögréttu 2. júlí 1616 í móti síra Gísla Einarssyni, í þenna kapítula (Alþb. IV, 301, 302).

4. Í Staðarbakkadómi Jóns Magnússonar um mál Jóns Oddssonsonar og Sigríðar Halldórsdóttur 20. nóv. 1609 er vitnað í *14. kapítula* í þessum recessi (Alþb. IV, 148), sem er um það, að maðr skuli „wera wid uaradur adur witni eru leidd ȷ moti honum ǻ þijngi".

5) Í sama Staðarbakkadómi 20. nóv. 1609 og í vörn þeirra Þorbergs og Sigurðar Hrólfssona fyrir Þórdísi Halldórsdóttur á alþingi 1618 gagnvart umboðsdómurunum er vitnað í *19. kapítula* recessins (Alþb. IV, 148, 391; sbr. 327), er svo hljóðar: „Jtem skal einginn pijnast til sagña wtañ sa ǻdur er sannur giaurdur ad daudasauk fyrer nauckurt ȷllskuwerk". En Jörgen Daníelsson fógeti hafði þá fyrir mörgum árum látið pína Þórdísi til játunar með píslarfærum („jómfrú").

6. Í dómi þeirra Þórðar lögmanns og Gísla prófasts Guðbrandssonar 15. ág. 1595, um mál síra Jóns Guðmundssonar í Hítardal, og í Ballarárdómi Jóns Magnússonar 6. okt. 1609, um Jón Oddsson og Sigríði Halldórsdóttur, er vitnað í *20. kapítula* þessa recess (Alþb.

1) Hér er ranglega vitnað í „4. capitula"; á að vera „5. capitula".

III, 57, 58; IV, 144) „wm̃ hueriar sakier doms wrskurdur mcú gefast" (getsakir, mumesager).

7. Í alþingissamþykkt frá 1595 um kirkjugrið og í skýrslu Herlufs Daa hirðstjóra til konungs frá árabilinu 1612—16 er vitnað í *23. kapítula* recessins, sem er um það, „huerñin þyngrid og kirkiugrid briotast" (Alþb. III, 28 „kap. 12"; IV, 336).

8. Í Reyðarvatnsdómi Sigmundar Þórólfssonar 2. maí 1589 um húsgangsfólk er vitnað í *44. kapítula* í recessinum (Alþb. II, 143, ranglega vitnað í „18. og 21." kap.) sem hljóðar um það „ef kotungurinn will ofrid giora þa wñdan honum er býgt".

9. Í alþingisdómi 30. júní 1581, um Bjarneyjatolla, og í dómi Erlends sýslumanns Magnússonar 9. apr. 1594, um Kleifarblá, er vitnað í *50. kapítula* í recessinum (Alþb. I, 426; III, 34—35), sem er „wm tuttugu vetra hefd" og hér er nú prentaðr. Hefir þessi kapítuli af ýtnum eiginhagsmunamönnum sjálfsagt verið vel þeginn sem viðauki við 26. kap. í landsleigubálki Jónsbókar.

10. Í supplicatiu Odds byskups og klerka hans 20. júlí 1592 og í Staðarhólsdómi Jóns Magnússonar 8. maí 1600, um misgrun skatts og tiundar, er vitnað í *51. kapítula* recessins (Alþb. II, 28; III, 190), sem er um það „huerñin tijunda skal".

11. Í jarðabyggingadómi Þórðar lögmanns frá 1598 er vitnað í *66. kapítula* þessa recess (Alþb. III, 150), er hljóðar „wm̃ okur" og hér er prentaðr.

Sjálfsagt er allmargt af skírskotunum þessum og öðrum þeim fleiri, er gerðar hafa verið til recessins, óþarft og að ófyrirsynju, en bæði stjórnarvöld vor og dómendr hafa þá afsökun, þó að þeir væru nokkuð reikulir um þetta efni, að með siðskiptunum gerðist hér svo mikil óvissa á ýmsa lund um lög og rétt, sem lengi eimdi eftir af, að menn vissu ógerla, eftir hverju mátti fara örugglega. Er það nóg efni í heila ritgerð að rannsaka það, hvað gilda hefði mátt eða talið hafi verið gilda sem lög hér á landi í recessi þessum.

Margt af því í recessi þessum, sem eru almenn ákvæði, er þannig lagað, að hér á landi mátti oft vitna lauslega til þess jafnhliða öðru, þó að ekki væri það hér lög. Langmesti hluti recessins er þó svo sérstaklegs eðlis og varðar svo Danmörk eina, að ekkert viðlit er, að það gæti átt við hér á landi, eða að neinum manni gæti dottið í hug að fara hér eftir því. Er margt af því tekið eftir gömlum dönskum lagavenjum, fyrirskipunum, recessum og samþykktum, jafnvel allar götur ofan frá 14. öld, og hefir dr. V. A. Secher (d. 1917) rakið það rækilega í recessabók sinni. Hér gat því ekki komið til mála að taka annað úr recessi þessum en það, sem hér hafði verið lögskipað, eða það, sem þá var sérstaklegs eðlis á þann hátt, að ætla mátti, að hér mundi hafa verið eftir því farið, er ákvæði voru önnur ekki ljósleg til í landslögunum. Ekki hefir heldr þókt ástæða til að taka hér danska textann af kapitulum recessins þeim, sem nú eru hér

prentaðir; hefir íslenzka þýðingin gamla þókt mega nægja, því að fyrir þá, sem frekari rannsókn vilja gera, er einsætt að leita til hinna prentuðu bóka, og auðgengt að þeim. Alls er recess þessi 70 kapitular. Var recessinn birtr á prenti í fyrsta sinni í Khöfn 1559, en marg oft síðan, svo sem 1562, 1567, 1572, 1577, 1583, 1590 og 1642. En frá síðari tímum er reeess þessi í Danske Recesser og Ordinantser, udg. af J. L. A. Kolderup-Rosenvinge, Kh. 1824, bls. 253—86, og í bók V. A. Sechers, Corpus constitutionum Daniæ. Forordninger, Recesser o.fl. 1558—1660, I., Kh. 1887—8, bls. 1—50, og er það fullkomnasta prentunin. Sbr. enn fremur JS. Lovsaml. for Island, I. bls. 76—7.

Recess þessi hefir sjálfsagt í öndverðu verið þýddr á íslenzku, skömmu eftir það að hann var hér að nokkuru lögleiddr með konungsbréfinu 20. mars 1563. Eru nú að vísu til þrjár þýðingar af honum öllum:

1. Í skjalabók þjóðskjalasafns í fol., bl. 71—84, og er sú uppskrift ekki yngri en frá því um 1600; er hún hér kölluð *a*, og er hún elzt og bezt. — Ágripsuppskrift af þessari þýðingu frá ca. 1660—70 er í Lbs. 67, 4to., bl. 173—95, og er þar þó sumt yngt upp með hendi Páls stúdents Pálssonar.
2. Í Lbs. 10, fol., bl. 65—75, og er sú bók að stofni rituð á Baugsstöðum og Stokkseyri 1632—4 af S[igurði] J[óns]s[yni]. Er sú þýðing önnur, sem hér er, beldr en sú í *a*, þó að mörgu leyti góð, en hleypt er hér víða úr allmörgum kapitulum, og vísað í þýðing af recessinum frá 6. dec. 1547[1]), sem stendr framar í bókinni (bl. 55—64). En sá recess er höfuðundirstaðan undir þessum recessi ($^{13}/_{12}$ 1558).
3. Í Lbs. 261, fol., bl. 232—49. Er sú bók rituð nálægt 1690—1700. Sú þýðing, sem hér er, er allt önnur en sú í *a* og 10, og sýnist hún munu vera gerð á síðustu áratugum 17. aldar. Er hún þýðinganna miklu lökust og ekki til greina takandi. Þýðingamunurinn sést bezt á sýnishorni, sem er upphafið á 63. kapítula og hér fer á eftir, en þar reyndi nokkuð á þýðandann:

63. At ingen skal uprycke eller uphuge nogen klittetag. Jtem hvem som findis at upslaa. uprycke eller udi nogre maade ødelegge marehalm. hvideris. sener. klittetag. sli eller de torn. som groer paa strandbacken eller i klitten emod Vestrehaf o. s. frv.

1. Skjalabók þjóðskjalasafnsins í fol. skr. ca. 1600 og (ágrip í) Lbs. 67, 4to., skr. ca. 1660—70 (þetta m. h. Páls Pálssonar).

Lxiij. cap.

Einginn skal wpprijfa edur wpphauggua skieriauen̄di.

1) Sjá Recessasafn Kolderup-Rosenvinges (Kh. 1824), bls. 214—36.

Jtem huer sem werdur sannur ad þui ad hann wppslær. wpprijfur edur ȷ nauckurñ mata eÿder starhalme[1]). huijtuhrijsi. sinu. skieriawendi. marhalmi. slije edur þÿrñum. sem waxa æ strandarbackanum edur æ skieriunum wid Westurhafid o. s. frv.

2. Lbs. 10, fol., skr. 1632—4.

[Lxiij. cap.].

Ad Eiñgenn meige upphoggva eda rijfa Tãgier.

Jtem hvðr ad þui verdur fundenn ad hann slær. upprijffur eda i nockurñ mãta eydeleggur marhalm. hvitahrijs. mel. tagarpvñt (señer. klittetag. hielme). sly. ellegar þa þÿrña sem groa a siafarbacka. ellegar i Breckum (klitten) vid Vesturhaf o. s. frv.

3. Lbs. 261, fol., skr. ca. 1690—1700.

Articule 63.

Ad einginn skule vppslijta edur vpphoggva nockud klijttetag.

Jtem huor sem finst ad vpsla. vpprÿckia edur ȷ nockurn mata Eydeleggia marehalm. hviedehrijs. sener. klijttetag. hielme. slÿ. eller de Torn sem grær A Strandar Bockum edur ȷ klijttin ȷ mot Vesturhafe o. s. frv.

Hingað til hafa menn haldið, að nokkurir kaflar úr þessum recessi á íslenzku væru á skinnkveri frá ca. 1580—90 í AM. 458, 12mo. bls. 167—72, enda er svo talið í hinni prentuðu skrá safnsins. En þetta reynist ekki rétt. Þessir kaflar eru úr recessinum 6. decbr. 1547, en hann tók ekki til Íslands, þótt sumstaðar í íslenzkum handritum sé að finna þýðingar þaðan (t. d. Lbs 10, fol.).

Stormeck[t]ugasta og [tigña haufdiñgia og herra[2]) herra Christiañs þess[3]) þridia[4]) Danmerkur. Noreigis[5]). Wiñdlañdz og Gautlandz konungs Ressess[6]) ÿfer siedur og med nÿum articulum forbetradur[7]) ad[8]) Kolldinghus [Arum et cetera[9]).

1558.

Vier Christian sa þridie med Gudz nãd Danmerkur. Noregis[5]). Wiñdlañdz og Gautlandz[10]) konungur. Hertugi ȷ Sles-

1) „fjarhalm“ 67 (mislestr); er ofaukið. 2) hãborna herra og hoffdingia 10. 3) hinss 10. 4) med þui naffne b v. 10. 5) Noregz 10. 6) Recess 10 (alstaðar). 7) Endurbættur 10. 8) a 10. 9) [Anno 10. 10) Gotta 10.

uijk. Holsten. Stormaren oc Dýtmersken. Greifi ȷ Oldenborg oc Delmenhorst. Giaurum aullum witurligt[1]) ad wier [reýnum ad[2]) þeir Rescessar sem wier haufum latid wtganga sijdan wier med woru Elskuligu rijkisins[3]) rădi lietum wtganga [Rescessinn arum et cetera[4]) 1547 ȷ worum kaupstad Kaupenhafn. saumu Rescessar hafa giaurt hia ouitrum[5]) hieradzfouitum og domendum nauckur þýngsl. þui þeir kunnu sig ecki ad rietta epter þeim Rescessum. [Þar fyrir[6]) haufum wier nu med woru Elskuligu Danmerkur rijkis radi sem nu er hia oss. [huert ad [7]) er Johann Frijs til Heslager[8]) wor cantzeler. herra Otte Krumpen til Truidzholm[9]) marskalk ȷ woru ʀijki Danmark. herra Magnus Gýllinestiarna til Stiernholm[10]) ʀiddari. Býrgi Trolle til Litluø[11]) Olafur Mukur[12]) til Tuissel. Eirijkur Krabbi til Bustrupp. Antonius Brýske til Langsøe[13]) ʀijkisins cantzeler. Jørijn Lucka[14]) til Offuergard. Eyler Rønow til Huitkielldu. Hans Berneku[15]) til Birkholm. Niels Lange til Kiergard. Holgeir Rosenkrans til Boller. Herr[16]) Lauge[17]) Bra[g]de til Krogholm ʀiddari. Yfar Krabbi til Austurgard. og Herloff Trolle til Hellirisholm[18]). samandreigid þa Recessa alla ȷ þennan epterskrifadan Rescess huern wier med woru fýrnefndu elskulegu Rijkisrădi nu haufum [wiliad samþýckia[19]) sem hier epter fylgier. Þar[20]) þessi Rescess [giaurer ecki wrskurd ᾰ skal mann[21]) rietta sig epter lauguuum. þo skal sa Rescess sem wier med woru Elskuligu Danmerkur Rijkis radi. prelatum. edlafolki. borgurum[22]) og bændum haufum ȷnnsigla latid og wtganga hier med [oraskadur[23]) j aullum articulum sem hier [finnast ecki[24]).

L. capituli.

Wm̄ tuttugu wetra[25]) hefd[26]).

1) kunnigtt 10. 2) [merkium þad 10. 3) Rijkesrădi 10. 4) [þann Recess Anno Domini 1547, 10. 5) favijsum 10. 6) [þess vegna 10. 7) [sem 10. 8) Hesselager 10. 9) Svo fyrst líka 10, en breytt i: Truettholm. 10) Stiarnh. 10. 11) Litiley 10. 12) Munck 10. 13) —sio 10. 14) Lýcke 10. 15) Bernen(!) 10 (rétt: Bernekov). 16) Herra 10. 17) Lange *a*; Laug 10. 18) Hillerodzholm 10. 19) [vier vntt og samþycktt 10. 20) Og hvad sem 10. 21) [ei utskyrer. þa skulu menn 10. 22) kaupstadamonnum 10. 23) [vera okreinckttur 10. 24) [ecki nefnder ero 10. 25) ăra 10. 26) ătǒlulausa b. v. 10.

Jtem huada godz [og eigner nauckur[1]) madur hefur [med haund[2]) haft og[3]) halldit [j xx wetur[4]) oklagad og o-kiært. þui ma hann kuijdulaust hallda og skal þad ecki wn̄dan̄ honum gan̄ga nema suo finnist og bijuijsist þad sie j pan̄ta sett edur lient[5]).

Lviij. capituli.

Ad brur eiga ad giaurast oc færer weiger[6]).

Jtem skulu aller kongs fouitar og Embættismenn huer fyrir sig oc adrer sem hafa brur j lieni og fa arliga korn̄s jnntekt sem brunni til kiemur. wera skyllduger ad lata j sijnu lieni allar brur þær þar eru færar giaura med storum og sterkum stolpum og bordum wel nidur felldum og negldum og med godum og sterkum hlidstolpum beg[g]ia meigin̄. Sie þar æ weturn̄ar suo mýkid watn̄ wid endann æ brunni ad mann kunni ecki wel þar ýfer ad komast ān haska. þa skulu þeir lata lein̄gia flautu bruna suo lan̄gt sem þad watn̄ gein̄gur og ecki werdur farid ān haska. edur og vpp fýlla þar med steinum og grioti wid bada en̄dana suo þar werdi wel yfer komist an skada. Ef þetta er wanrækt þa stan̄di þeir konginum sinn riett þar fyrir þa þad er kiært og bæti skada þann wegfarandi þar af fā.

Skulu og kongsins fouitar og embættismenn saumuleidis hafa goda tilsion ad þær brur sem nauckur sokn̄ hefur ad gaumlu waun werid wppi ad hallda. þeim sie og suo wel færum wppi halldit. Suo og [ad huer borgari halldi wppi godum wegum og brum j þeirri borg þeir sialfer bua huer ecki will stan̄di sijnu yferualldi sinn riett og bæti aptur skada þann nauckur reisan̄di og wegfarandi fær þar af.

Jtem huar nauckrer wonder og diuper pýtter edur annar slijkur haski er æ almennings wegi þa skulu kongsin̄s liensmenn huer j sijnu lieni bioda til sijn hieradzmaunnum. skulu þeir koma saman̄ æ tilsettum tijma og deigi med hestum og waugnum flýtia þar ad griot og huad annad þaurf

1) [edur Eign̄um sem þad 10. 2) [sl. 10. 3) edur 10. 4) [xx vetrum leingur 10. 5) lanad 10 (þar þýtt eftir recess 1547). 5) Í 10 þýtt eftir recess 1547, og fyrirsögnin svo: Aff Bruargiörd og alfærum vegum.

giaurist. wppfŷlla og færa giaura suoddañ wonda og diupa weigi. þar med og kunna til þess skiptast hieradzmenniñer. suo margar sokner edur stader til huers par[t]s af weiginum sem skickanligt er og sie ecki fyrir winattu skulld einum hlijft meir eñ audrum og ecki meiri þŷngsl giaurd einum eñ audrum.

Skŷtur nauckur sier wndañ og kiemur ecki fram̃ ȷ asettañ tijma fǽe sinn dom þar fyrir og bæti iij maurk sijnu yferwalldi. og eina aultunnu sokñarmaunnum ȷ þeirri sokñ hann bŷr og skal liensmadurinn lata skoda tuisuar wm̃ arid slijkar brur og almenningsweigi ad þeim sie færum wppi halldit suo framt sem hann will ecki stañda riett þar fyrir sem fyrr er skrifat.

Lx. capituli.

Wm̃ hordoms sakier oc legord stulkña[1]).

Huer giptur madur sem hefur sijna eigiñkonu lifañdi. edur huer gipt kona sem hefur sinn eigiñmann lifañdi og werda fuñdiñ ȷ opiñberum hordomi. straffist med penijnga wtlatum sem frekast þau kunna. finnist þau annad sinn ȷ sama broti skulu þau saumuleidis straffast med peñijnga wtlatum og sijdan strax af landinu wtlæg giaurast. falli þau suo ȷ þridia sinn þa skal sa giptur madur sem ad þui broti werdur fundinn missa haufudit. Saumuleidis su gipt kuinna sem ad þui broti werdur fundiñ skal dreckiast.

Og nær hordomssauk werdur bijuijsud wpp a nauckurñ fyrir capitulariett edur fyrir nauckrum audrum domurum sem heŷrer. þa skulu domendurner wera skyllder ad wnderwijsa þad liensmanninum edur sijnum herrum edur audrum þeim ed ber þad ad straffa[2]).

Nær noc[k]ur werdur þui borinn og ad þui sannur hann hafi meŷ leigid þa skal hann þar fyrir bæta ix mark forsuarsmaunnum kuinnunnar og sijnu ŷferualldi.

Lxv. capituli.

Huar geitur [mega wera[3]).

1) Í 10 þŷtt eftir recess 1547, og fyrirsögn svo: Aff hordőms sokum og meŷiar spiöllum. Í recess 1547 er kapitulinn ófyllri. 2) Þessi grein er ekki í recessinum 1547. 3) [ma hallda 10.

Geitfie ma ad frialsu wera þar [sem lyng er[1]). suo og haer skogar eru og ecki [fiñst lagur widur[2]) og geitur werda halldnar [án skada[3]) og þar madur kann ad hallda þeim æ [sijnu[4]) huerium manni ad skadlausu.

Lxvi. capituli.

Wm̃ okur.

Med þui oss hefur wnderwijsad werid og wier haufum ȷ sannleika reyñt huer osidur og okristiligt athæfi hier[5]) ȷ rijkinu er medal edlafolksiñs suo wel sem presta. borgara og bænda med okrinu suo [huar einn[6]) lanar penijnga. lætur hann sier ecki nægia eina litla rentu og abata þar af. helldur an blÿgdunar dirfist ad taka af huñdradi. 6. 8. 10. og [stundum ad taka ȷafnmÿkid okrid sem peningarner woru lanader[7]).

Huar sem boñdi tekur dal til láns giefur hann korns tunnu ȷ leiguna. nær hann tekur til lañs eina korñstunnu. giefur hann eina tunnu þar af ȷ leiguna. nu suo ad slijk ochristilig og ouidurkuæmilig leiga og okur mætti af takast oc nidur leggiast. haufum wier radgast wid wort Elskuliga Danmerckur[5]) rijkisrad og suo wid nauckra af þeim lærdu[8]) ad enn[5]) þo ecki sie [skickanligt og þo ȷ[9]) moti gudz [bodi sie[10]) ad taka nauckra þuilijka[11]) reñtu og okur af reidu peningum edur audru sem suo er lánad og af þui suoddañ skipti kunna ecki wel [medal allra[12]) ad afleggiast. Og suo nær nauckur 'okurbrief koma fyrir [riett (dom)[13]). [Þa wite menn[14]) huerñen þar eigi wm̃ ad dæmast. Er suo þar wm stadfest ad huer sem epter þennañ dag will[15]) lana peninga. [korñ edur annad fyrir leigu[16]). þa skal eiñginn til reñtu og abata þar meira af taka wm̃ arid eñ tuttugasta part [werdisiñs æ þvi sem lanad war[17]) sem er epter riettri tiltaulu fimm daler ȷ leigu af hundrad (þad er tiutijer) daulum.

Wilie nauckur Edla edur oedla. prestur edur annar ept-

1) [þar heidar ero 10. 2) (finnas vñderskogar 10. 3) [skognum ad skadlausu 10. 4) [sialffs sijns Eigñ 10. 5) b v. 10. 6) [ad hvðr ðdrum 10. 7) [meire pening af ðdrum 10. 8) hálærdu 10. 9) [hæfelegtt og er á 10. 10) [Bodorde 10. 11) sl. 10. 12) [med ollu 10. 13) [*a*; dom 10. 14) [ad menn mege þa vita 10. 15) burtt b. v. 10. 16) [sl. 10. 17) [af þess verdi sem lánad er 10.

er þennañ dag lana nauckud ȷ burt reidu gialld. korn edur annad fẏrir leigu og reẏnist suo hann taki þar meira af ȷ leigu enn fẏr er skrifad þa skal sa hafa fyrirgiaurt [þui sem hann lanadi[1]). falli helftin wñder koñg[2]). helftiñ wnder þann þar aklagar. þo wilium wier auñgum hier med tilefñi giefa ad giaura nauckurt okur. Eñ minnist huer ad skicka sier ȷ þui efñi suo [ad hann hafi frialsa samuisku[3]) og [giauri ecki[4]) æ moti almattugs Gudz bodi og skipun.

Giefid æ woru sloti Kolldiñghus Sañcte[5]) Lucie[6]) Virginis dag sem er 13 dag Decembris Arum et cetera 1558.

med woru signeti.

Christian[7]).

---

## 262. 15. december 1558. í Skálholti.

Vitnisburðr Sveins Hólmfastssonar um lúkning jarðarinnar Kross í Landeyjum í vald Ögmundi byskupi upp í kirkjureikning

Bps. Skalh. IV, 3, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2545.

[Vitnessburdur[8]) Sueiñ[s[8]) Holfatzson[ar vm Kross i Landeyium[8]).

Suo felldañ vitnisburd ber ec Sueinn Holfatzson. at ec vissa at danimanna saugn vm sattmala Biskups Ögmundar godrar minningar oc Eireks heitens Þosteinssonar huerra sæl gud nadi at eg heyrda alldri anat Eñ adur nefndur Eirekur hafdi lagt alla ȷordina Kross ȷ Landeyium þad bondahlutan snerti Biskup Ogmundi ȷ valld æfiñliga vndañ sieʀ oc sinum fyrir þann stora ʀeikningskap sem þar hafdi ȷ langañ tima ꝺ̃a fallit kirkiunnar vegna. Suo og hefi eg eigi anat vitad nie heyrt ȷ næstv xxx ꝺ̃ar eda lengur bædi ȷ tijd Biskups Ogmundar oc suo sijdan Eñ þessi ȷord adur greindur Kross væri eign domkirkiunar. Og alldri vissa ec Eirek bonda

1) [allre ȷnnstædunne 10. 2) oss 10. 3) [sem hann vill hafa sijna samvisku frialsa 10. 4) [vill ei giðra 10 5) Sancti, hdr. 6) Lucis, hdr. 7) b v. eftir 261. 8) Utan á bréfinu; frá [ með 17. aldar hendi. Upphaflega hefir að eins staðið: Sueiñ Holfatzson, og er það með 16. aldar hendi.

feingiñ kallast. sem a moote Gudz logum og landsinz lætur sitt hionaband giðra. Jtem[1]) ȷ elleffttu grein stendur so skrifad. Nu leikur á tveim tungum hvortt madur er arfgeingur edur ecke. stefne þeim[2]) til þıȷngz. er honum stendur fyrer arfe. Nu skulu vottar[3]) hanz so mæla. vier vorum þar[5]) ȷ hia er moder hañz var fest loglega. ȷ þeim stad. gietum vier aungvar þær greiner ȷ logmalinu fundid. ad eige seige þad. ad festingiñ skule loglega fram̃ fara. J tolfttu grein stendur so skrifad ȷ H[akonar] K[ongs] R[iettar] B[ot]. Nu fær madur meẏ edur eckiu med tilgiof. þa meiga þaug leggia fielag sitt samañ.[6]) þegar þaug gieta sier borñ til arfz. þegar hvorutveggia vill. og[7]) su mær edur eckia. er med frænda raade er giptt ma leggia helmijngzfielag vid sinn bonda. ef hun[8]) vill. hvortt sem er ad skiptta med bornum̃ edur vtorfum. og legge ȷ fielag allt þad er þau eiga edur eigandi ad verda med slijkum arftokum̃. er þau eignast sıȷn ȷ mille. J þrettandu grein seiger so ȷ christinriette. hvor oss virdist samhliodande logbokinne ȷ K[vennagiffttıȷngum.[9]) þar ed so seiger. Enn huor sem sier vill kvonfangz leita. hann skal bidia þeirrar meẏar med athygle og goodre forsiaa. ad eige sieu meinbuger oc semur honum vm̃ þad raad. vid þa sem rǻda[10]) eiga ad logum. J fiorttandu grein seiger[11]) so. Nu er hiuskapur kallmanns oc konu loglegtt samband. og mǻ þad einginn madur skilia. ef logleg festing er komin. J fimttandu og sıȷdustu grein stendur so skrifad ȷ kongssiñz ordinantiu. hvor ed medfylgier [ollum fyrrnefndum[12]) greinum. oc so seiger. Þar skulu aungver med hiuskaparbande sam̃teingder vera ȷ mote þui sem bannad er ȷ bodnum lidum. eige helldur [þeir ed sialfer[13]) sıȷn ȷ mille trulofast hafa. ȷ mote þeirra vilia. hvorium þesser[14]) eru vndergiefner.

Þui ad heilagz Anda Nad [med oss[15]) til kalladre. ad

1) b. v. 789, 720. 2) 789, 720, 65, 812; honum 66, 101. 3) arfar(!) 720. 4) kongs(!) 789. 5) 789, 720, 65, 812; þa 66. 6) b. v. 789, 720, 65, 812. 7) sl. 789. 8) hann 789, 720, 65, 812. 9) [Kvennagipttiñga cap. 789, 720, 65, 812. 10) 789, 720, 65, 812; raad 66, 101. 11) stendur 789, 65. 12) [hier (sl. 65, 812) aullum loglegum 789, 65, 812. 13) [þeir ed sialfra 720; þau ed sialff 789, 65. 14) þeir 789, 65, 812. 15) [sl. 720, 789, 65.

so profudu oc fyrer oss komnu dæmdum vier firrnefnder domzmenn þann hionabandz giornijng er Gudmundur Jngemundarson[1]) hafde giortt vid Gudrunu Magnusdottur[2]) ologlegañ og onytañ j mote kongssins logum og kyrkiunnar giordañ[3]) hafa verid.

Samþycktte þennañ vorñ dőm [adurgreindur valldzmann[4]) oc sette sitt jnnsigle. med vorum̃ jnnsiglum̃ fyrer þetta domzbrief. er skrifad var ᴀ Þijngeyrum j Vatzdal. a sama ᴀare deige sijdar enn fyrr seiger[5]).

---

## 277. 4. mars 1559. í Árósum.

Leiðarbréf konungs til handa Knúti hirðstjóra Steinssyni til Íslandsferðar.

Ríkisskjalasafn Dana, Klevenfelds safn Fasc. 156, fol. (undir: Steensen). Frumrit á pappír með heilu innsigli. — Uppskrift í JS. 372, 4to., bls. 487—8.

Wij Frederich thenn andenn mett Gudtzs naade vdwald Konninng tiill Danmarck oc Norge. Hertog vdj Sleswig. Holstenn. Stormarnn och Dytmersken. Greffue vdj Oldennborg och Delmenhorst. Giőre alle witterligtt. att wij haffue afferdigett osss Elskelige Knud Stennsenn wor mannd och tiennere. att skulle lőbe mett thette wortt skijb fraa wor kiőbsted Kiőbennhaffnn. och innd vdj wortt lannd Jslannd och sidenn ther mett tijd tilbage egienn. Thij bede wij kierligenn alle wore kiere Herrer. Wenner. Naboer och forewannthe. Och strengeligenn biude alle wore fogeder. Embitzmend Borgmesthere. Raadmennd. och alle anndre. somm forne Knud Stensenn mett forne wortt skijb. folch och godtzs. paa samme reigse Hennder fore att komme attj fordere och fremme Hannom tiill thett beste. Och ther somm saa skiede att Hannd aff Stormm eller Vweder inndtrenngis vdj nogre etthers strőmme eller Haffnne attj tha vnndsette hannomm

---

1) b. v. 812. 2) 101; -dotter 66, 789, 720. 3) 789, 812, 101; i giordur 66, 65; gijordijr 720. 4) [adurgreindir valldsmenn 720. 5) Niðrlag dómsins er aðeins fullt í 66 og 101. — Dagsetning hér er 25. jan. (á Pálsmessu).

mett folck. fetalie. anncker. towff. och hwes andenn deell Hannom behoff giöris. Thett wille wij mett Hogmelte wore kiere Herrer. Wenner. Naboer och forewannte vdj lige och störe maade kierligenn och giernne fore skylde och bekiennde. Och aff wore egnne vnndersotthe. thett saa alworligenn hagdt haffue. Giffuett paa wor gaard vdj Aarhws thenn fierde dag Martij. Aar et cetera M. D. Lix.

Wnnder worth Signeth.

Friderich.

---

## 278. 5. mars 1559. í Árósum.

Opið bréf konungs til Íslendinga, að þeir komi til alþingis og vinni sér hollustueið fyrir Knúti hirðstjóra Steinssyni.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 7, 491 (uppskrift Laursens í þjóðskjalasafni). — Steph. 57, 8vo., bl. 449, ritað fyrir Árna Magnússon. — Lbs. 91, 4to., bl. 48, m. h. síra Hannesar Björnssonar í Saurbæ ca. 1698. — Lbs. 72, 4to., m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal 1720—30: a) bls. 313—14, b) bls. 672. Prentað í MKet. II. bls. 2. — Um Knút Steinsson eru minnisgreinir Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 447 (eftir skjölum Knúts sjálfs í Klevenfelds Saml. í ríkisskjalasafni Dana, Fasc. 156, Litr. S).

Kon. mts. obne credentz giffuenn Knud Stenssenn mett sig tiill Island etc.

Vij Frederich thenn andenn etc. helse etther alle wore kiere tro wndersotte. superintendenter. prouester. prester. laugmend. laugrettismend. bönder och meninge almue. som bygge och boe offuer alt wort land Island. euinndeligenn mett Gud och wor naade. Wider. at efftherthij Gud almegtigste effther sin guddommelige willige haffuer kallit sthormegtigste hogborne forste och herre. her Christiann thend thredie etc. wor kiere herre fader. aff thenne forgengelige werdenn och meniige Danmarckis och Norgis rigers indbyggere haffue hyllitt och suorit oss for theris rette herre och koningh. Tha haffue wij nu afferdigit oss elskelige Knud Stenssenn och (!) mand. thienner och embitzmand paa forschreffne wortt land Island at skulle Sanctj Hans dag midsommer först kommendis giffue sig ther thiill adelting och aff etther paa wore wegne annamme huldschaff och mand-

schaff. Thij bede wij etther alle och huer serdelis. atj skicke etthers fuldmegtige aff huert syssell ther aff landett tiill samme addelthing at hylde och suerge forscreffne Knud Stenssenn paa wore wegne. saa atj wille vere oss huld och tro. wide och ramme wort gaffnn och beste och wor och rigens skade och forderffue aff etthers yderste formue aff-uerge. som tro wndersotte theris rette herre och konning och egit federne land thes pligtig ere. Wij ville egen were etther en naadig och gunstig herre och konning och holde etther alle och huer serdelis wed Islandz loug. skiell och rett och ey tilstede etther ther emod at wforrettis i nogre maade. Datum Aarhus thenn 5 dag Martij 1559.

Dominus rex manu propria subscripsit[1]).

Knud[2]) Stenssôn kongl. Mattz Befalnijngzmand[3]) yfer allt Jsland. Păll Stijgsson þess sama landz yfermann. Olafur Hialltason og Gijsle Jőnsson Biskupar ă Jslande. Păll Wigfusson og Eggert Hannesson Løgmenn yfer sama land Jssland[4]) hafa Bored vitnisburd þar um̄. ad þetta fyrrskrifad[5]) kongz Fredrichz Brief hafe vered upp lesed ă Alþijnge ȷ Løgriettu med heilu og őskôddudu ȷnzigle Anno 1559[6]).

---

## 279. 5. mars 1559. í Árósum.

Bréf konungs til Magnúsar Gyllenstierne um för Knúts Steinssonar til Íslands til þess að taka hollustueiða, og skal hann fá honum skip til fararinnar, vel búið að mönnum og vopnum, til viðnáms sjóræningjum.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 6, 36 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 485, Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Her Magnus Gyldenstiern fick breff saa liudendis etc.

Frederich then auden etc.

Vor synderlig gunst tilforn: Wiider. att wij haffue nu afferdiget oss elskelige Knud Steenssen. wor mand och thien-

---

1) Það, sem hér fer á eftir, er að eins í Lbs. 91, 4to., og Lbs. 72, 4to. 2) Knut 72b. 3) -mann 72b. 4) b. v. 72b. 5) -ada 72b. 6) 1599 (!). 72a.

nere. att skulle drage tiil wort land Island att opbere wor och kronens rentte och rettighed. och tesligiste paa wore wegne att drage tiil adeltingene ther paa landet och ther att anname huldskaff och mandskaff aff wore vndersotte ther sammestedzs. och efftherthij wij forfare. att the Skotter och Engelske vdj forgangne aar skal haffue giort wore vndersotte skade. rôffuit och tagit fra thennom. Tha paa thet att ther som the eller andre moduillige siôrôffuere thennom wille wnderstaa at angri[be] hannom eller andre wore wndersotte ther sammesteds. att hand tha kand giôre thennom modstand. bede wij etther oc begere. attj wille lade hannom antuorde ett wore skib. huilcket etther selff siônis. och tilgiffuer hannom ij roder knegte och vdflier samme skib mett skôtt. krud. lod och anden nottorfft. effther som j selff ydermere kand tencke best kand were. Datum Aarhus then v dag Martij aar etc. m d l i x.

---

## 280. 5. mars 1559. í Árósum.

Veitingarbréf handa sira Halldóri Benediktssyni fyrir Munkaþverárklaustri.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. paa alle Landene 7, 491—2 (uppskrift Jóns Sigurðssonar i Lbs. 369, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar i þjóðskjalasafni). — AM. Apogr. 723, m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“ „á pergament“, og hér fylltr textinn eftir því.

Sire Halduord Benedictssenn fick breff paa Moncketueraa closter paa Jsland liggendis.

Vij Fredrich [thenn andenn mett gudtz naade wduoldt konning tiill Danmarck oc Norge. hertug wdj Slessuig. Holsteinn. Stormarnn oc Dýttmarschenn. greffue wdj Oldenborg oc Delmenhorst[1]) giôre alle witherligt. at wij aff wor sônnerlig gunst och naade haffue wndt och forlent och nu mett thette wort obne breff wnde och forlenne thenne breffuissere sire Halduord[2]) Benedictssenn wort och Norgis kronis closter Moncketueraa closter paa wort land Jsland liggendis at haffue. nyde. bruge och beholde mett bônder thien-

1) [723; et cetera, Reg. 2) Halduordt 723.

nere och ald sin renthe och rette tilliggelse ingtit wndertagit. ind tiill saa lenge wij anderledis ther om tilsigendis worder. dog saa att hand skall were oss och wore efftherkommere konninger wdj Danmarck huld och troe och wor lensmand ther sammesteds. thenn som nu er eller her effther kommendis worder. hørig. liudig och folagtig wdj hues hand hannom paa wore wegne tilsigendis worder. och skal hand arligen tiill gode rede giffue ther aff tiill oss och kronenn lxxx. Jochimsdaller. och bygge och forbedre samme closter och thet sidenn altid at holde ved god heffd och magt och holde thiennerne. ther tiill liggendis ere wed loug skiell och rett och ingenn aff thennom wforrette emod lougenn eller och thennom wdfeste aff theris gaarde. emedenn och ald th[e]nnd stund the aarligen tiill gode rede yde och wdgiffue theris aarlige landgilde och anden renthe och rettighett och holde theris gaarde ved heffd och magt.

Thij forbiude wij [alle Ehwo thee helst ere Eller were kunde serdelis wore foggetther. Embitzmendt oc all[e] andre forne Sire Halduordt Beneditssen[1]) her emodt paa forne Monckethueraa closter Eller nogenn sijnn Renthe Eller Rette tiilleggilsse Epther som forschreffuit staar att hindre. heller wdj nogen maade forfang att giore wnder wort hÿlleste oc naade. Giffuit paa wor gaardt wdi[2]) Aarhus thend 5[3]) dag Martij Anno[4]) 1559[5]).

[Dominus rex manu propria subscripsit[6]).

---

## 281. 5. mars 1559. í Árósum.

Veitingarbréf Árna Gíslasonar fyrir Þingeyraklaustri.

AM. Apogr. 4668, m. h. Hans Beckers „Efter originalen, som er skreven paa pergament. Det kongelige Sigill henger ved brevet. Þetta Exemplar med Hans Beckers hende er accuratius enn hitt med hendi Þordar Þordarsonar“ (AM.). Árni lýsir innsiglinu og dregr það upp. — Steph. 57, 8vo., bls. 453, skrifað handa Árna Magnússyni. — Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 7, 492, einungis ágrip (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to, Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni). — Prentað í MKet. II. bls. 3—5.

---

Svo. 2) [723; et cetera. Datum, Reg. 3) fempthe 723. 4) Aar etc. 723. 5) Mdlıx 723. 6) [wnder wort Signet 723.

Wij Frederich thenn andenn mett Gudtz naade vduoldt konningt iill Dannemarck oc Norge et cetera. Hertog wdj Slessuig. Holsteinn. Stormarnn oc Dyttmerschenn. Greffue wdj Oldennborg oc Delmennhorst Giôre alle wittherligt att wij aff vor synderlig gunst oc naade haffue wndt oc forlent oc nu mett thette wort obnne breff wnde oc forlenne thenne breffuiser Armen[1]) Gislesôn vort oc Norgis kronens closter Tingôrrencloster paa vort landt Jslandt liggenndis att haffue. nýde. bruge oc beholde mett bônder. thienner. oc alld sin Renthe oc Retthe tiilleggelsse ingthedt vndertagit indttil saa lenge wij anderledis ther om tiillsigenndis worder. Dog saa att handt skall were oss oc wore eptherkommer konninger vdj Dannmark huldt oc tro. oc wore lenssmandt[1]) ther sammestedtz. then som nu ere. eller her epther kommendis worder hôrrige. liudige. oc fôlgacthige wdj huess handt hannom paa wore wegene tiillsigendis worder. oc skall handt aarligenn tiill gode Rede giiffue ther aff tiill oss oc kroñenn ett hundrede Jochimsdaller. oc býgge oc forbedre samme closter oc thedt siiden alle tiidt att holde wedt godt heffdt oc magtt. oc holde thiennerne ther tiilleggenndis ere wedt loug. schiell oc Rett. oc ingenn aff thennom wforrette Emodt lougenn eller oc thennom wdfeste aff thieris gaarde. Em̃edenn oc aldt thenn stunndt thee aarligenn tiill gode Rede ýde oc wdgiiffue thieris aarlige Landgilde oc andenn Renthe oc Rettighedt oc holde thieris gaarde wedt heffdt oc magtt. Thij forbiude wij alle Ehuo thee helst er eller were kunde serdelis wore Foggetther. Embitzmendt oc alle andre forne Armen Gilessônn her Emodt paa forne Tingôrenncloster Eller nogenn sijnn Renthe Eller Rette tiilleggelsse Epther som forschreffuit staander att hindre Eller wdj nogre maade forfang att giôre. vnder wor hýlleste oc naade. Giiffuit paa wor gaardt wdj Aarhuss thenn fempthe dag Martii Aar et cetera mdlix.

Wnder wort Signet.

Friderich[2]).

---

1) Svo. 2) „Kongens nafn staar paa den venstre side af brevet, ud til breeden". (AM.).

282. 5. mars 1559. í Árósum.

VEITINGARBRÉF Eggerts Hannessonar fyrir Helgafellsklaustri (ágrip).

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 7, 492 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Eggert Hanssenn
fick och wdj lige maade breff paa Helgefeld closter och ther aff skall giffue tiill aarlig affgifft .x. lester fisk.
Datum vt supra.

---

283. 10. mars 1559. á Grenjaðarstöðum.

KAUPBRÉF fyrir Tungu ytri á Tjörnesi.

AM. Apogr. 3900 m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“. — AM. 255, 4to., bls. 474—5.

Þeim godvm monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Eirikur Hallsteinsson Þorgeirr Petursson kv[e]div gudz oc sina kvnnigt giorande at arvm epter gudz bvrd ꝏ d l oc ix a fostudaginn næstañ fyrir dominica judica a Greniadarstodvm j Adalreykiadal vorvm vid i hia saum og heyrdvm vppa ord og handaband sira Sigvrdar Jonssonar af einne alfv eñ Kristinar Þorsteinsdottur oc Olafs Finbogasonar af annari ad svo fyrer skilldo ad fyrnefnder menn Kristin Þorsteinsdotter og Olafvr Fimbogason selldu sira Sigurde Jonssyni jordina ytre Tvngv a Tiörnese med aullvm þeim gognvm oc giædvm rekvm og hlvnendvm jtolvlavsa sem greindre jordv hefvr fylgt ad fornv oc nyv oc fylgia a med logom fyrer xx^c og ecke bivisasat ad med lögvm sie frakomit vt i Hallbiarnastada gil oc inn a motz vid Hringver skyllde sira Sigvrdur vtgiallda þav xx^c j lavsa gozi hvort ar vij^c oc xx alner a þremur arvm j þeim peningum sem Kristin epter beiddist og hann hefde til aflags og hvn villde hafa en Kristin take af landskylld þeirre sem af jordvnne gellst hvndrad þav aren a medañ ei er allt vtgolldid oc hafe þad framyfer dyrleika jardarenar eñ sira Sigvrdur take þo avngvan abata af þeim peningvm sem hann gelldur Kristinv þav þriv areñ skyllde sira Sigvrdur eigñast strax greinda jord ytre Tvngv

oc ad sier taka ad næstum fardogvm og hallda jordinne til laga eñ Kristin svara lagariptingvm eñ ad þremur arum lidnvm skyllde sira Sigvrdur fa Kristinv af þeirre skreid sem þar j Tvngv j landskylld gylldist svo mikid sem þeim sialfvm vel semde og svo leinge sem þeim þad semde eñ þar fyrir skyllde Kristin giallda fvllt verd arliga. Og til sanenda hier vm setivm vid ockar jnsigle fyrir þetta bref er skrifad var a sama stad dag oc ar sem fyr seiger.

---

**284. 10. mars 1559. í Holti í Saurbæ.**

Steinunn húsfreyja Eiríksdóttir fær Guðrúnu Þorleifsdóttur, dóttur sinni, þrjár jarðir, með skilmálum.

AM. Fasc. Lxxii, 13, frumrit á skinni (m. h. Árna Gíslasonar). Af 3 innsiglum er að eins miðinnsiglið fyrir bréfinu. — AM. 234, 4to., bls. 509—10, skrifað ca. 1624 handa Oddi byskupi. — AM. Apogr. 1019 eftir frumritinn, sem þá var í eigu Sæmundar Magnússonar á Hóli.

Giorningsbref Steinunnar og Gudrunar dottur hennar[1]).

Þath giorum wier Arngrimur Ionsson. Olæfur Þorsteinsson. og Tyrfingur Halldorsson godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi ath arum efter Gudz burd ᴍdl ix i Hollti i Saurbæ faustudaginn næstañ fyrir passionem sunnudag worum wier i hiæ savm og heyrdum æ ord og handaband þessara manna af einne alfu Steinunn husf[r]eyia Eijreksdotter Eñ af annari ælfu Gudrun husf[r]eyia Þorleijfsdotter dotter hennar ath suo fyrir skildu ath Steinunn Eijreksdotter giordi skifti æ sijnum peningum faustum og lausum. kuikum og daudum. fieck hun ædur nefndri dottur sinne Gudrunu Þorleifsdottur thil fullrar Eignar med handsaulum þessar iarder. halfañ Reyner er liggur i Myrdal fyrir austan Eyiafioll og iordina Gilsfiardarmula i Gilsfirdi og iordina Bessatungu med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum iordum fylgier og fylgt hefur ath fornu og nyiu og eij er med laugum fræ komid. og þar thil xx kugilldi. skylldi þessi skifti standa æfinliga. Skildi Steinunn Eijreks-

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi,

dotter sier suodan thillag af dottur sinne Gudrunu. leigur wr Mula af wiij kugilldum og xij fiordunga smiors. landskylldina af Mula og tiunder wr Garpsdal. þriær wætter fiska og x aurar ath Sigrijdur æ ath gialllda. Reijknast þessir peningar vc. Skylldi þetta thillag stañda medan þær lifdu bædar. Eñ ef Ragnhilldur dotter Gudrunar Þorleifsdőttur færi fræ Steinunne þæ skylldi aftur ʀenna helmingur af þessu fyʀ saugdu gialldi. Og thil sanninda hier wm̄ setium wier fyʀ nefnder menn wor ȷnsigli fyrir þetta giorningsbref er skrifad war i sama stad og deigi og ære sem fyʀ seigier.

---

285. 14. mars 1559. í Goðdölum.

Ólafʀ Ormsson endrnýjar gerning sinn við eiginkonu sína, Margréti Jónsdóttur, og festir hana sér til löglegrar eiginkonu.

AM. Apogr. 4220, frumritað transskript frá 18. sept. 1726.

Þad giørum vid Olafur Thumasson og Thumi Þorgrimsson godum monnum kunnigth med þessu ockru opnu brefi ad arum epter guds burd ꝏ d l og ıx ắr ȷ Hieradsdal i Thungusueitt mắnudagin næstan eptir purificatio sancte Marie virginis[1]) vorum wier i hia saum og heyrdum æ med morgum odrum dandi monnum hia verondum ad Olafur Bondi Ormsson Endurnyadi sin giorning vid sina kvinnu Margretu Jonsdottur og festi hana sier til logligrar eigiñkonu med hennar godañ vilia med þeim ordum sem þar til heyra og vor landzlǫg giǫra rad fyrer. Og til sanninda hier um setium vid ockur inncigli fyrer þetta festingar bref er skrifat var ȷ Guddolum i Skagafıȷrdi þridiudagin ȷ ắtta viku fostu a sama ari sem fyrr seigir.

Þetta bref a kalfskinn er fra Hallgrijme Sigurdssyne a Svalbarde med tveimur ȷnnsigless Reimum Rett coperad efter sıȷnum original Testera underskrifader ad Greniadarstad d. 18. Sept. Anno 1726.

Thorleifur Skafftason prestur ad Muula. Magnus Markusson prestur ad Greniadarstad.

---

1) þ. e. 6. febr.

286. 10. mars 1559. á Grund í Eyjafirði.

Próventubréf Helgu Sigurðardóttur við Þórunni, dóttur sína.

ÍB. 67, 4to., xcvi, bl. 94—5, m. h. síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745). — Prentað í Tímariti Jóns Pétrssonar IV, 81—2, „úr gamalli bók“, og virðist auðsætt, að það sé einmitt þetta handrit síra Eyjólfs.

Profentugiorningur Helgu Sigurdardottur og hustrur Þorunnar Jonsdottur.

Þad g[i]orum vit Gudmundur prestur Skidason og Teitur Magnusson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi at vit vorum þar ï hiæ æ Grund i Eyafirdi fimtudaginn i pæskaviko þæ lidit var fra Guds burd M D L og ix ær. sæum og heyrdum æ ord og handaband. at heidurlig kvinna Helga Sigurdardotter gaf med handsolum til fullrar eignar husfru Þorunni Jonsdottur dottur sinni sier til ęfinligs framfæris og profentu hiæ henni xl^c virdt. ï tilskildum peningum. xv mælnýtukugilldum. xx^c i gelldum nætum og sædum. og v^c ï kǒplum. med þeim skilmæla. at ef greind Þorunn lifdi greindri Helgu lengur. þæ skylldo aller þesser fyrsagder peningar vera ęfinlig eign nefndrar Þorunnar. hvort sem greind Helga lifdi leingur edur skemur. en ef greind Helga lifdi greindri Þorunni lengur. þæ skylldo ædur nefnder peningar aptur gænga under greinda Helgu. en erfingium nefndrar Þorunnar so micit af þessum peningum sem skynsǒmum monnum virdtiz þeir vel halldner fyrir allan þann kostnat og omak sem greind Þorunn hefdi fyrir henni haft. og so fyrir þæ peninga sem hon hafdi henni fengit. En̄ i motj greindri giǒf og profento skildi ædurnefnd Helga sier heidurligt halld. at hafa øl nær hon villdi. og þar med þriæ retti til bords dagliga og þionustukono. under ǒllum kostnadi greindrar Þorunnar med ærligri þionusto og ij husum rædandi þeim hon villdi. þar med þeim sinum vinum og frędum semiliga vittoko veitandi. sem hana villdo til fundar heima hitta. So og lysti fyrrnefnd Helga at greind Þorunn hennar dotter hefdi min̄sta peninga upp borit af sier til. af ǒllum sïnum bornum. en sier þǒ mestan styrk og manndom veitt. sidan hon med þurpti um næsto

ıx ær hier fyrir. og sier peninga fengit. en þeir peningar greindrar Helgo. sem afgangs yrdo sagdrar giafar og prőfentu. skylldo vera under siælfrar hennar valldi og æbyrgd med ægængi. en hier med skylldi greind Þorunn umsiæ veita med hennar rædi og vilia. hion ræda og ǫllum nædsynligum kæpum kæpa. under rettan reikningskap vit Helgu. en hvad epter kynni[1]) verda hennar dag og hon giordi eigi ræd fyrir. skylldi optnefnd Þorunn eignaz fyrir sína umsiæ. kostnat og őmak. sem hon fyrir greindum peningum haft hefur.

for allur þessi giorningur fram med fullo jæyrdi og samþykki heidurligs manns Þorsteinz B[onda] Gudmundssonar med handsǫlum vit sagdar kvinnur Helgo og Þorunni.

Og til sanninda hier um setium vit ockar innsigli fyrir þetta giorningsbref. hvert skrifat var í Miklagardi i Eýafıjrdi degi sidar en fyrr seger[2]).

---

## 287. 17. apríl 1559. í Norðtungu.

Helmingaskipti á Norðtungu í Þverárhlíð og máldagi kirkjunnar þar.

Eptir þrem uppskriftum meðal Norðtungubréfa í þjóðskjalasafninu í Reykjavík: *a)* staðfestri uppskrift frá 1. ág. 1722 m. h. Þórðar Þórðarsonar í Háfi, en með eiginhandarundirskriftum þeirra, er saman lásu, og er hún gerð eftir transskripti Þórðar lögmanns og Einars á Hvanneyri frá 8. maí 1581; *b,* uppskrift frá sama tíma sem *a* og eftir sama transskripto; *c)* uppskrift 1840, gerð eftir *a*. Einnig er uppskrift í JS. 484, 4to., m. h. Jóns Sigurðssonar, gerð eftir *a*, sem hann segist hafa fengið (léð) „frá Hjálmi Péturssyni í Norðtungu 5/8 (18)69".

Þad giaurum vier Gudmundur Þorleifsson. Biarne Sumarlidason. Gudmundur Ormsson. Arnor Helgason. Grimur Jonson og Jon Olafsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad vær vorum til nefnder af Dada Gudmundzsyni og Gudmundi Snorrasyni æ manudæginn fyrstan j sumre vm vored. þa lided var fra gudz burd. ꝏ d l og ıx ar. ad giora lauglig eignarskipti og helminga skipti sijn æ mille æ jordunne Nordurtungu j Þuerarhlijd.

---

1) að, b. v. JP. 2) þ. e. 31. mars.

J fyrsta helmiuginn skiptu vær badstofunne og storu-stofunne med biorþile oc iij staufum. elldhusi vtar ȷ gaungunum. þeim meigiñ sem stofan er og gaungiñ fra badstofunne oc fram ad añdyrunum jnare. so og jnnre hlutur af fiosinu iij basar huorumeigiñ. oc lijtil hlaudutopt. og halfur heygardurenn sunnare parturenn. lambhus lasid og halft tunid af Haugnastaudum. hinn fremre hluti eftir þui sem gatan geingur austur vr vellenum oc suo ofan med forna heygardinum at henni Þueræ. og vollinn fyrir vestan fiosid. vr onshusinu oc suo vm kring nordur fyrir ad kirkiugardinum. Skiptiz þetta allt med hinum fyra partinum.

Eñ ȷ annan helminginn skiptum vær skalanum oc aundinne med jnnare dyra vmbuningi ad stofustaufum skalabur oc annad jnnar fra oc elldhus vtar ȷ dyrunum þeim meigiñ sem skalinn er. fremra fiosid iij basar huorumeigiñ. vestare gardurinn halfur oc hustott su sem Arnor hefur haft. ytra vollinn fra onshusınu oc vestur ȷ gard efter merkium. oc fyrir sunnan fram allt ad kirkiugardinum halft tunid ǻ Haugnastaudum enn sidra hluta. fiarhustoftina med litlu husi þar var hia. kalldyra vmbuninginn attu bader ad eiga jafnt. hlotnadizt Dada Gudmundzsyni skalin oc bured. hus oc taudur. vollur og topter þad sem þeim partinum fylger. Enn Gudmundi Snorrasyni badstofan og stora stofan. hus oc taudur. vollur oc totter þat sem þeim partinum fylger.

Samþyckti adur skrifadur Gudmundur Snorason oc hans kuinna Jngibiorg Andriesdotter med fullu handabandi vid Jon bonda Olafsson obrigdanliga ad halldazt skylldi fyrir sier oc sıȷnum eruingium oc efterkomendum sem vier adurskrifader menn skipt haufdum.

Eñ til meire stadfestu oc sans vitnisburdar hier vm setium vier vor ȷnnsigle fyrir þetta skiptabref huert ad giort og skrifad var ȷ adurnefndum stad oc dag oc fyr skrifad er.

Jtem var þetta ȷñuentarium kirkiunnar j Nordurtungu.
eirn kaleikur med silfur gamall.
tuenn messuklædi.
ȷtem v kluckur med smam oc storum.
skrudakista oc kirkiu stockur.
tuenn alltaresklædi.

glodarkier.

messubok stor oc grallare med saung.

Katrinar saga ä eirne bok lijtille oc historia sanctorum[1]).

Katrinarblad oc ij krossar j kirkiunne med Katrinar likneske og fleirum audrum likneskium.

Jtem a Nordurtungu kirkia Haugnastade .xvj^c. ad dyrleika. allañ halfan Aurnolfsdal. xij manadar heit aullum peningi j Sleggiulækiar land vr Nordurtungu j Blesamyre. manadarbeit j Hamars jord saudfie vr Nordurtungu. og skogar haugg j Þorunarhollt millum gatna til elldevidar. oc Kirkiuas j Hamars lande mille gatna. manadarbeit ä sumar aullum peningi vr Nordurtu[n]gu j Kuíja land.

Jtem ä kirkian holma hinumeigiñ Aurnolfsdalsar ad forna farueigi. oc med þessum jtaukum. selldi hann bondanum Dada halfa Nordurtungu til eignar med halfum adurgreindum jtaukum.

Þad medkiennuzt vid Þordur Gudmundzson og Einar Eijreiksson med þessu ockru opnu brefi ad vid haufum sied og ifer lesid suo latandi bref ord efter ord med iij manna jnnsiglum sem hier fyrir ofan skrifud standa Og til sanninda hier vm setium vid ockar jnnsigle fyrır þetta medkienningarbref huert skrifad var j Nordurtungu j Þuerarhlıjd þann viij dag Maij[2]) anno 1581.

(L. S) (L. S.)

Framan og ofan skrifad bref er ordriett og stafriett utskrifad epter gömlu vidisse tveggia manna Þordar Gudmundssonar og Einars Eirikssonar, hvar under ad voru tvö äþrÿkt jnnsigle nefndra manna. Þessu til stadfestu eru vor nöfn og signet hier under sett j Skälhollte þann i. dag Augusti Anno Christi 1722.

N. Kier m[anu] [pro]pria (L. S.)

Vice Laumand Sÿnden og Østen og Sÿsselmand j Kiose Syssel.

---

1) Sc̄to a, b, c. 2) *b*; Mai *a*, *c*.

Jon Halldorsson
prestur til Hijtardalskyrkiu
og profastur i Mýrasýslu
(L. S.)

Joon Joonsson
soknarprestur á Stadastad
(L. S)

Þórdur Þórdarson
Radzmadur Skálholltzstadar
(L. S.)

Epter framan skrifudu Nordur-Tungu kirkiu skiale, virdest mier eigendum jardarennar sie óhæti ad hallda. svo leinge önnur vigtugre skiöl koma ecke á móte, þvi eingañvegenn meiga þeir undan kirkiunne ganga láta þad sem reýnest ad hennar Eign sie og hun hefur j langañ tima hallded. Datum Skálhollte d. 3. Augusti Anno 1722.

Jon Arnason
Super: Skalh.: Stiptis.

---

288. 27. apríl 1559. í Hruna.

Sjöttardómr, kvaddr af Gísla byskupi Jónssyni, dæmir ógilt hjónaband Sigmundar Oddssonar og Guðrúnar Guðmundsdóttur, með því að Sigmundr hefði áðr ber orðið að legorði með þremenningi Guðrúnar.

Bps. Skalh. XXI, 85, frumrit á skinni m. h. Gísla byskups. Öll (6) innsigli dottin frá. — AM. Apogr. 2425.

Domur vm Sigmũnd [Oddson og hañz hionaband[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Biorñ Olafsson. Einar Olafsson og Þordur Jonsson prestar Skalholltz Biskupsdæmis. Gisle Sueinsson. Magnus Jonsson og Olafur Asbiarnarson Suarner logriettumenn Quediu Gudz og sina. kunnigt giorandj ad sub anno gratiæ. ɱ. d. l og ix. Miduickudaginn næstañ fyrer Petri Martir[is] vm vorid[2]) j Reyckiardal j Hrunamannahrepp. vorum vier j dom[3]) nefnder af Sijra[4]) Gisla Joñssyni Superintendens Skalholltz sticktiz. til ad skoda og rannsacka og suo fullnadardom ǻ ad leggia. huertt afl[5]) ad hafa skylldj þad hionaband sem Sigmundur Odzson hafdi giortt og bũndit vid

1) Utan á bréfinu; frá [ með 17. aldar hendi; hitt eldra. 2) þ. e. 26. apríl. 3) nú máð út úr frbr. 4) Svo. 5) alf, frbr.

Gũdrũnu Gũdmundardotter. kom þar fram fyrir oss ad greindur Sigmundr hefdi teckid adur med legordi til þeirrar kuinnu huer ad riettrj ættartolu var oskackur þrimeningur fyrr nefndrar Gũdrũnar. huertt legord ad nefndur Sigmundur medkeñdizt þar fyrer oss. Og hafdj med þuilickum hættj vitandj og viliandj þetta hionaband ȷ suodañ mata bundit. vmskodudum vier vors nᷓdugasta herra kongsins Ordinantiu. j huerre ad fyrirbodinn er þridie lidur til hionabandz. Suo og rannsockudum vier vortt gamallt laugmal. þad vorer forelldrar af gamalle tiid hafa halldit hier ȷ landit. huertt logmæl ad þuerliga neitar suo nᷓnum ættlidum til hionabandz. Suo hofum vier og alldrj vitad. ad suo fellt hionaband hafi opinberliga verid leyft edr tillatid hier ȷ voru landi. Þui ȷ Gudz nafne amen ad heilags anda nᷓd til kalladri. dæmdum vier nefnder domsmenn med fullu doms atkuædi suodañ hionaband fyr greindra manna Sigmundar og Gũdrũnar vtgiortt og onytt og ad aungu halldanda. og huortt frij fra odru æfenliga hiedan ȷ fra.

Samþycktte þenna vorñ dom med oss adur skrifadur Gisle Jonsson. og setti sitt ȷnscigle med vorum ȷnnsiglum fyrir þetta doms Bref. Skrifad ȷ Hrũna ȷ Hrunamannahrepp. ᷓ sama are. Eñ deigi sidar eñ fyrr stendur skrifad.

---

289. 29. apríl 1559. Í Saurbæ.

**Kaupmálabréf** sira Jóns Sigurðssonar og Halldóru Þorbergsdóttur.

Bréfabók Guðbrands byskups í þjóðskjalasafni, bl. 40 (hin prentaða, bls. 469—70). — Uppskrift Halldórs konrektors Hjálmarssonar í JS. 213, 4to., nr. 62.

Kaupm[a]labref Sijra Jons S[igurds]sonar og Halldoru Þ[orbergs]d[ottur].

Jn nomine domini amen lystist og stadfestist so felldur kaupmali og giorningur a brudkaups deigi millum þessara manna Sijra Jons Sigurdzsonar og Halldoru Þorbergsdottur. ad suo fyrir skildum fiarvegsti ad h[erra] Olafur Hialtason reiknade fie Sȷjra Jons vera hundrad hundrada. med ȷordunne Arnarvatne. hueria jord fyrr skrifadur herra Olafur

honum þar fieck morgum godum monnum hia verandi. Hier i mot gaf Þorbergur Bessason dottur sinne Halldoru lxc at tilgreindri jordinne Haga fyrir xlc og þar med v kugilldi og þar til xvc i odrum þarfligum peningum. Eñ vr þeim hundrad hundrada. er fyrr skrifadur Sijra Jon Sigurdzson reiknadi sier. gaf hann sinne kuinnu Halldoru Þorbergsdottur sinar loggiafer feingins fiar og ofeingins ad tilgreindri jordunne Arnarvatni. Eñ ef su jord geingi af adurskrifudum Sijra Joni Sigurdzsyni [med] laugmali riettu þa skylldi hun eignast jordina Stafnshol halfa sem liggur i Hofs kirkiu sokñ a Hofdastrond. hueria biskup Olafur setti domkirkiunne fyrir adurskrifad Arnarvathn. skildi Þorbergur bondi Bessason sijna dottur Halldoru malakuinnu i gard sins bonda Sijra Jons. var herra Olafur forsagnarvottur fyrir ollum þessum fyrr skrifudum giorningi. hier epter festi Sijra Jon Sigurdzson sijna kuinnu Halldoru Þorbergsdottur riett epter logbokarinnar ordum. Voru þesser menn festingarvottar Geirmundur prestur Jonsson. Þorsteirn bondi Gudmundzson. Magnus bondi Arnason og Kietill Teitzson. Og til sannligs vitnisburdar hier vm̃ setium vier fyrr skrifader menn vor insigle fyrir þetta kaupmalabref huert ed skrifad var j Saurbæ i Eyiafirdi laugardæginn næstan fyrir tueggia postulamesso Philipi og Jacobi vm̃ vorid arum epter gudz burd ∞ d l[1]) og ix.

---

## 290. 29. apríl 1559. á Hrafnseyri.

Landamerki Galtardalstungu (falsbréf).

Eftir tveim uppskriftum: *a*, á pappír frá ca. 1775, staðfest af Halldóri Jónssyni; er uppskrift þessi keypt handa þjóðskjalasafninu af Jóni Thorarensen frá Stóraholti 18. okt. 1904, en hefir fyrrum sýnilega verið í eigu síra Friðriks Eggerz. — *b*, uppskrift í skjalabók þjóðskjalasafnsins m. h. síra Friðriks Eggerz 1841. — Bréf þetta er af öllum rökum falsbréf.

Landamerke Galtardals-Túngu[2]).

Þad giöre jeg Jon Gislason godum̃ monnum vitañlegt med þessu mijnu opnu Brefe ad jeg medkiennest hafa gief-

1) lx, frumbók (rangt). 2) v. v. *b*.

ed sine mijnum Asbyrne med samþicke og vilia konu minnar Kristinar Sumarliidadottur jördina Galltardalstungu 48c ad dyrleika og þar med filg[i]ande jördina fremre Galltardal 30c ad dýrleika med öllum þeim gög[n]um og giædum sem þeim jördum filgt hefur og filgia ber. En landamerke mille nefndra jarda eru þessi ad Ain sem rennur vr þeim sydra dal rædur landamerk[i]um á nordursijduna so langt sem landed nær. En á sudursijduna Eru landamerke j þa griotvordu er stendur æ hrauninu nalægt þuij gile er nefnt er Færugil j Stadarfells kirkiu lande. Rædur so hraunhriggurinn lande Allt ad gile þuij sem rennur ofan hia fornbýlinu Barkarstödum huort nu Rennu[r] j Fleckudalzá. En æin rædur þá landamerkium so langt sem Tungu land nær. Þessar nefndar jarder liggia j Medalfellsstadar kirkiusokn j Dalasyslu . . . . .[1])

Hier med gief jeg bænhusinu j Galltardalstungu jördina jtre Galltardal 12c ad dýrleika jnnan þessara landamerk[i]a. Ad Austanverdu rædur landamerk[i]um Ørskotzteigadalsgil sem rennur j Sudurdalzá. En á vtnordurssijdu eru landamerke j Þrijgil sem Rennur vr tiörnum þeim sem eru firer ofan fialls brun. [En þvij[2]) rædur Merk[i]um j Sudurdalzæ. þar næst gief jeg bænhusinu j Galltardalztungu Ejar þær sem liggia æ Huámsfirde sem nefndar Eru Tungueyar og tilskil jeg ad firnefnd jörd Galltardalur jtre og Tungueýar sie hænhussinz æfinleg Eign. Eirninn þaug jtök sem nefndu bænhuse til heirer og skiöl og skilrijke firer finnast. Hier med skal minn fir nefndur sonur Asbiörn ad sier taka nefndar jarder til fullkomlegrar Eignar nu stragx j fardögum. Og til sanninda hier vm setta jeg mitt nafn og jnsigle fiere[3]) þetta oped brief asamt kona Mijn Kristin Sumarlidadotter Eirninn þeir Menn er vottar eru ad þessum giörninge. Var þetta bref ritad æ Hrafnseyre vid Arnarfiörd á laugardaginn næstan firer krossmessu vm vorid þa lided var fra hingadburde vors herra Jesu Christo[4]) M D[5]) L viiii.

Jon Gislason Kristin Sumarlida Dottur
(I. G. S) (K. S d.)

---

1) Svo *a*; engir punktar í *b*. 2) [Svo *a*, *b*. 3) *a*; fyrer *b*. 4) *a*; Christi *b*. 5) *b*; er sem öfugt ò í *a*.

Jeg Jőn Þorgeirsson og ȷeg Arne Sæmundsson vorum̃ vid stadder þá bondinn Jőn Gislason og fru Kristin Sumarlidadotter settu sitt nafn og ȷnnsigle vnder ofañ skrifad brief. Og til vitnis hier vm̃ setium̃ vid ockar nőfn og ȷnnsigle hier vnder.

Jon Þorgeirsson (I. Þ. S.) Arne Sæmundzson (A. S. S.)

Þad vitnum vid vnderskrifader ad þetta ofañ og framañ skrifad bref er Riett vt Coperad Effter þvij gamla og Rotna kalfskins briefe sem fanst æ Sæbole.

Nikulas Narfuason (N. N S) Jon Oddzson (I O. S.)

Þetta ofañ og framañ skrifad skial er Riett vt Coperad Effter þuij skiale er mier hefur j hendur borest þad vitna eg Med Minne Eigiñ handar vnderskrifft og ǽ þrick[t]u zignete.

Halldor Jonsson
(L. S)[1])

Upplesed fyrer Rette ad Stadarfelle d. 12ta Junii 1775 testr

M. Ketilson[2]).

---

291. 3. maí 1559. í Saurbæ á Rauðasandi.

Sex menn transskribera Vestfirðingaskrá frá 3. júní 1501.

AM. Fasc. XXXV, 2, frumrit á skinni. Sex innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en fjögur eru nú dottin frá.

Þat giorvm vier Þorlakur Einarsson. Halldor Einarsson. leikmenn. Jon Kraksson. Are Steinolfsson. Prestar. Biorn Jonsson. Jon Olafsson Godvm monnum kunigtt med þessv vorv opnv brefi ad vier hofvm sied ok heyrtt yfer lesid suo latandi bref ord fyrer ord vnder godra manna heilvm ok[3]) oskoddvm hangandi ȷnsiglvm sem hier firer ofan skrifad er. Og[3]) til meire avdsyningar stadfestv ok[3]) sanns vitnisburdar hier vm̃ þa festvm vær fyr skrifader menn vor ȷnsigle fyrer

1) Þetta er eiginhandarskrift og lakkinnsigli í *a*. 2) Eiginhandarrit Magnúsar sýslumanns í *a*. 3) Þannig

þetta transkriftar bref hvertt ad skrifad var j Savrbæ a Ravdasandi krossmesv sialfa vm vorid arvm epter Gvdz bvrd. ꝏ. D. L. og ıx ar.

---

## 292. 4. mai 1559. í Laufási.

Afhending Laufáss til handa síra Jóni Sigurðssyni.

Máldagabók Guðbrands byskups í frumriti (í þjóðskjalasafni), bl. 34.

Laufaskirkia. þa Sijra Jon Sıjgurdsson tok vid anno 1559. Skrifad vr brefa B[ok] h[erra] O[lafs][1]).

Þad giorum vier Gudmundur Skidason prestur. Ormur Jonsson. Halldor Ormsson. Jon Jonsson. Jon Biornsson og Halldor Hallkelsson leikmenn. godum monnum kunnaugt med þessu voru opnu brefi. ad vier vorum þar ȷ hia. saum̄ og heyrdum̄ a. ȷ Laufase a Eyafiardarstrond þa lidid var fra gudz Burd 1559 a vppstigningardag vors herra Jesu Christi þa herra Olafur Hialltason afenti[2]) og greiddi staðinn ȷ Laufase Sıjra Joni Sygurdzsine ȷ hond. voru so morg kugillde med stadnum heima og vtan gardz sem hier seiger.

J firstu xv kyr eingilldar og ij gamlar. þar ofan a giordar ij ær.

Jtem x asaudar kuilldi gilld.

Jtem vtangardz k[ugillde] xx gilld.

med Lomatiorn vj.

med Grund iiij.

med Palsgierdi iiij.

med Voll og Þorsteinzstodum̄ vj.

ollum̄ lofad gilldum̄ þa þeir vid skiliast ȷardernar.

Jtem gielldt naut v vetra. Annad tuæuett. iij fyrir v aura. x sauder tuævetrer fyrir ȷc og v aura. xvj sauder gellder veturgamler.

Jtem v gimbrar gelldar. og iiij lembdar.

Jtem ij hestar fyrir ijc og hross gamallt fyrir x aura. eru þa golldner aller stadarkaplarner sem med stadnum attu ad vera.

---

1) m. h. Guðbrands byskups. 2) Svo.

[hier vantar öll ornamenta. og ȷnnan stoks. sem voru epter biskup Jon. anno 1551[1]).

---

293. 5. maí 1559. í Laufási.

Reikningsskapr Laufásskirkju, er Ólafr byskup Hjaltason við skildist, en síra Jón Sigurðsson tók við.

JS. 213, 4to., bls. 231—3, m. h. Halldórs konrektors Hjálmarssonar ca. 1802. „Þetta bref var ecki i visitatiubók biskups Olafs helldr barz mer öðruvise i höndur, er þad hvorke insiglad ne underskrifad .... brefit þotte mer eiga her vel heima, oc set þad her inn, til ad fria þad fra undergånge“ (H. H.).

Lafasi svarad af biskupi Olafi 1559.
[Lafas Reikningskapr þa ec vid skildizt en̄ Sera Jon med tok[2]).
[Þetta er hönd sáluga Olafs Hialltasonar. sem fyrir ofan skrifad stendur oc þvílíku á Sıȷra Jon Sygurdzson ad svara þa hann skilr vit[3]).

Þad giorum ver Gudmundr Skidason prestr. Ormr bondi Jonsson. Halldor Sıȷgurdzson. Halldor Ormsson. Jon Jonsson. Jon Biornsson. Eyvindr Magnusson. Bernardr Ormsson. Halldor Hallkelsson. Hallr Þordarson. Eigill Teitsson og Bödvar Ketilsson. leikmenn godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. at þa lidit var fra guds burde 1559 i Lafasi a Eyafiardarstrond v. dag Maıȷ vorum ver tilkallader af verdugum herra biskup Olafe Hialltasyne ad skoda oc meta kirkiuna oc stadinn í Lafasi. oc þa peninga sem greindr biskup Olafr reiknade sic skylldugan sladnum þar oc saman reiknad var.

J fystu .xvij. malnytu kugillde heima oc .xx. utan gardz öll gilld. oc þar til ıııȷc i gelldum peningum. gallt greindr biskup Olafr i þessa peninga. fyst heima xj kyr gilldar oc ij asadarkugillde. Jtem .xx. kugillde med ȷördum gilld er nu sa reikningskapur klar. Item fyrir þa ıııȷc gelld sem fyrr greiner. gallt hann nat .v. vetra gamallt fẏrir hundrad oc xl alner. tvævett fyrir .x. ara. iij kalfar fyrir .v. ara .x.

1) [m h. Guðbrands byskups. 2) [Stóð „utan á brotit“ skrifað „með eiginhendi“ Ólafs byskups. 3) [Þetta hafði Guðbrandr byskup „siálfr skrifað“ utan á bréfið.

sa/der tvævetrer. atta sa/der vetrgamler[1]). ero þetta iiij^c. Item ij. hesta fyrir .ij^c. oc hross fyrir .x. a/ra. er þa allr sa gamle reikningsskapr sem biskupinn medtok i fridum peningum klar oc kvittr. Item gallt hann ȷardar verd Ra/darar[1]). hver ad reikningur var fyrir xv^c. oc hann sagdiz samþyckt hafa. at biskup Jon godrar minningar feck Þorsteini bonda Finnbogasyni eñ hann skyllde giallda honum hennar verd. oc ı þad verd hefr hann biskupinn nu golldit fyst i malnytu iij kyr oc asa/dar kugillde. item viij^c ı kôplum xvij sa/der veturgamler med iiij gymbrum lemdum fyrir ij^c. oc xij fiordunga smiors. oc .x. a/ra hia Halldori Sigurdssyni fyrir .ij^c. er þa hennar verd klart reiknad oc golldit kirkiunne þar. item hafde kirkia verit giord fyrir xl^c. an hennar ornamentis fyrir .iij. arum. hvad oss leist at hon munde ecki spillz hafa. Eñ ȷnnestadenn med storu badzstofunne oc litlustofunne. oc ollum uthysum g[i]ordum vær fyrir xvij^c oc xx^c. Ero i stadnum xvij hurder a ȷarnum. oc eñ atianda la/s forn. reiknadiz ad biskupinn var kirkiunne skylldugur x^c i portionem hafde hann þar af gølldit i biskups Jons tıd iiij^c med vitorde godra manna. eñ nu gallt hann messoklæde med damaskshokli ra/dum fyrir vj^c. oc jarnkall fyrir .x. a/ra. item fyrir kaleiksbrot er hann hafde fargat sem var iij a/rum. gelldr hann ſnyia Testamentum. er þa allr reikningskapr kirkiunnar klar. hefr biskupinn fargat ij smakluckum fyrir kirkiunne. lagt adra til kirkiunnar i Fiôrdum. oc adra til Hôfda kirkiu. eñ ı stadinn þeirra klucknanna lagt kirkiunne stora klucku. bækur oc skrude oc onnr ornamenta sem skrifat stendr i storubok. item reiknadiz at kirkian væri skylldug biskupinum fyrir hennar bot xx^c. oc onnr xx^c i stadarbot. sagdiz biskupinn hafa fengit med dande presta rade oc dome upp ı þessa xl^c bot ȷordina Neslônd fyrir xx^c oc iiij^c. sem kirkiunne hafde adr verid golldnar[2]) i kirkiuspiôll oc stadarfyrnd. standa þa epter xvj^c obitôlud biskupinum upp ı La/fas kirkiu peninga. Item innañ stocks i gamlan reikningskap golldit stadnum xij trog eñ biskupinn lagde þar til fyrir sina giæzsku vııȷ. ero þau ôll mathelld. item

1) „óskírt“ (H. H.). 2) Svo.

þar til iiij skriflistrog. fôtur .ij. vondar. vij uppgiordarkeröll. koppafloti .x. skaler. vixluaskar. ij. dryckiaraskur .x. fiordungaketil nyan fyrir fornan uppgiafa tunnuketil. er hann sagdiz hafa medtekit. pottr litill. halfs annars fiordungs ketil nyan fyrir tvo smakatla ærulausa[1]). item i sudurskemmu byrduhrof stort oc gamallt. ij. larar lasner. x. fôt heil. oc viij matbær smærre. kista gômul med jarnum. smiôrjarn. smiôrhiallr[2]). ullkambar goder. oc ij. liospônnur. er biskupinn fyrir lagde. xj. skerbord þysk oc .vj. jslendsk. pallbords dukr hringofinn. svo sem i kirkiureikninge skrifat stendr i storu bok. lagde biskupinn til af sinu bordhandklæde hringofit. stolhandklæde hringofit. kniahandklæde. ij lindukar a sveinabord svo nær ny er. þvi þetta var ecki neitt adr. piparkvôrn lasin. ij. reiduhillur. pundari oc reidsla. malltkvôrn. item i buri keralld i jôrdu stort. oc annat uppi stort. oc .ij. onnr uppi. oc er annat lasid af þeim. ij strockar .iiij. stampar heiler oc nyier. halftunnustampr. iij skyrgrinder med einne litille. ij sijur. einn sijll med grind. ij. tunnur einbotnadar. iij fialer. ij storkeralldshlemmar. item i skala ein sæng alfær. tialld nytt. er biskupinn gelldr med hringum fyrir tialldslitre hvitt oc svart. er hann medtok. er þad tialld vel tiu alna langt. fyrir tinter tvær er hann hafde medtekit. oc lagu a ij merkur hvorri. gelldr hann nu stadnum .v. marka tinkônnu. oc þar til tint gamla. sokn. sa[l]lzkall oc munnlaug sem adr var. auxi fyrir snidil. i stofu iij bord. konustoll heill oc sterkr. sem adr var brakadr. ij beckiarfialer. oc forsæti at sveinabordi. oc þiliugolf fyrir pallbordi nytt. sem ecki var adr. i badstofu er nu ein skak er verit hafde sa gamle pallr. sem hann medtok. oc þar a vj fialer. eñ biskupinn a sinn kostnad hafde latit giora nyian pall med fellibordi. þa hann let giora badstofuna at veggium oc vidum. item hefr biskupinn aukit litlu stofu bordi. oc ôdru litlu bordi i litlustofu. item fyrir bat þann sem virtr hafde verit fyrir .x. aura leggr biskupinn stadnum .x. aura upp i þann nyia sexahring. er hann feck fra Joni Sygurdzsyni. utan hann vilie þa .x. aura giallda stadnum. eñ eigniz sialfr skipit. ef hann vill svo. Afgreidde

1) „óskirt“ (H. H.). 2) Svo.

greindr biskup Olafr kirkiuna oc stadenn i Lafasi med ǫllum fyrrskrifudum peningum gilldum oc godum svo sem bref innehelldr. utan stocks oc innan. oc veitte greindum Sira Joni Sigurdzsyni hann. epter þvi sem hans collationis bref innehelldr ı hans lıfstȷd. eñ af þvi at greindr Sira Jon var ecki storrıkr madur. setti biskupinn i borgan fyrir hann þa xvȷc. er hann atte epter hia kirkiunne oc stadnum. fyrir hennar ;bot oc stadarins. ef hann kynne nockut at vanta á þenna reikningsskap. þa hann edur hans erfingiar ættu hann aptr ad giallda domkirkiunnar formonnum i hond. elligar nioti þeirra peninga sialfr. ef hann þarf þa ecki stadnum at giallda.

Og til sannenda her um setti adrnefndr biskup Olafr sitt insigle med voru fyrir þetta g[i]orningsbref. er giort var i sama stad. degi og ari sem fyrr seger.

---

## 294. 5. maí 1559. á Grenjaðarstöðum.

Sjöttardómr, kvaddr af Magnúsi Jónssyni, dæmir Kristínu Þorsteinsdóttur ekki skylduga börnum sínum af arfi í 10 hundr. í Halldórsstöðum.

AM. Apogr. 67 „Ex orig. fra Sira Skula Þorlakssyne". Árni lýsir innsiglum og dregr upp innsigli Odds. — AM. 255. 4to., bls. 480—1.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra. senda[1]) Torfe Þorsteinsson. Oddur Asmundzson. Jon Þorleifsson. Sigurdur Asmundzson. Þorsteinn Biarnason og Marteinn Teitzson kuediu gudz og uora[1]). kunnigt giorandi at þa lidit var fra gudz burd. ϖ. d. l. og ȷx ær. a Helgastad i Reykiadal a þingstad riettum a fostudagin næstan epter krossmesso vm vorit[2]). vorum vier i dom nefnder af heidarligum manne. ϖagnusi bonda Jonssyni er þa hafdi kongsens syslu og umbod i Þingeyarþingi at skoda og rannsaka og fullnadardom a at leggia vm þad er Kristin Þorsteinsdotter beiddist doms a hvort at þeir peningar sem hennar bornum hafdi til erfda fallit epter sinn fodur Benedickt heitinn skyldi vppasseyrer eda ei.

1) Svo. 2) þ. e. 5. maí.

J fyrstu kom þar fram̄ bref med dandi manna innsiglum þeirra er a hofdu litid a sama hausti er Benedickt hafdi fra fallit a þa peninga er þa voru til. hafdi þeim þa litist at Kristin ætte at hafa i sinn mala þessa peninga. fyrst ȷordina Þvera i Laxardal sem hun hafdi vr fodurgardi og þar til ȷordina ytri Tungu a Tiornesi fyrir sina heimanfýlgiu og þar til i sina tilgiof xxx^c upp i ȷordina Halldorstadi i Laxardal. eñ þad lausagoz sem hafdi til verit og bivisadist at verit hefde ei meir eñ. viij^c. og xx^c. þad hefdi stadit fyrir kirkiugozum a Þuera og svo audrum skulldum sem a fenu voro og Benedickt atte med logum at svara. reicknadist þa barnanna partur ein x^c upp i ȷordina Halldorstadi i Laxardal. voro þar đ. skilgetiñ born v og eitt laungetid enn þo Kristin hefdi att at hafa sin born ad helminge þa var a þeim .x^c. iiiȷ omage med þeim enum laungettna pillti. stendur suo i vorre lan[d]slagabok. nu virdist suo innstæda at þar sie v^c fyrir omaga hvern. þa skal þad fe hvorki vaxa ne þverra hvert sem þad er i ȷordum eda audrum peningum. Nu med þui at þetta barnagoz reicknast hvergi nærre suo mikit. þa at gudz nafne tilkolludu at so profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier med fullu doms atkuædi þesse x^c. hafa fyrir greindum omogum etist og uppeýst fyrir laungu og Kristinu matt eignast þau .x^c. ȷ fyr nefndum Halldorstodum og hana sinum bornum af þeim arfi ecki par skyllduga at vera.

Samþyckti þennañ vorn dom adur greindur vallzmadur og setti sitt ȷnnsigli med vorum ȷnnsiglum fyrir þetta bref ed giort var a Greniadarstodum sama ár og dag sem fyr seigier.

{Þetta alltt fyrrskrifat medkienni eg Magnus Jonsson[1]).

---

**295. 5. maí 1559. í Saurbæ.**

Tylftardómr, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, dæmir Jón Íslending um þjófnaðarsök og Ólöfu Björnsdóttur þjófsnaut.

1) {„hæc alia manu, absqve dubio ipsius Magni. mier virdizt þetta vera hönd Magnusar Jonssonar (i Ögre). er smätt skrifad, og settara eñ Magnus skrifadi almennelega“ (AM.).

AM. Apogr. 4665, m. h. Hans Beckers „Ex originali Hlidarend. xiij þveinger hanga vid domenn. 1ta þar af fylger innsigle Eggerts Hannessonar, hid stora, cum insignibus nobilitatis. 2°. sem vera ætte Þorlaks Einarssonar, hefur alldri under dominn komid, og er sa þveingur hvítur, og audur fra ôndverdu. „Hið 3. og 4. var innsigli Haldórs Einarssonar og Björns Bjarnasonar. „5°. er hvitur þveingur. 6° er burtu, ef þad hefur nockurn tima fyrer brefed komid. 7. 8. 9. 10. 11. 12. 13. Eru hviter þveinger, sem alldri hafa innsigle vid fest vered. Utskrift af þessum dőmi um Jon Islending var i *Sirpu Gisla Jonssonar* ǎ *Reykholum* (er eg so kalla). Var ein af þeim bestu Copium, nærre ordriett, og vida stafriett." — Uppskriftir af dômi þessum eru til allvíða í dómabókum. — Það þarf víst ekki að efa, að frumritið hefir borizt að Hlíðarenda með Þorleifi Magnússyni, dóttursyni Eggerts, og legið þar fram á daga Árna Magnússonar.

Um þiofnad Jons Jslendings[1]).

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra. sender Þorlakr Einarsson. Halldor Einarsson. Biorn Biarnason. Biorn Konradsson. Einar Palsson. Biarne Jonsson. Olafr Gudmundzson og annar Einar Pallsson. Stulle Eÿolfsson. Þordur Jonsson. Jndride Jonsson og Oddr Þoruardsson. kvediu Gudz og sina. kunnigt gioraude ad þa er lidit var fra hingatburd vors liufa lausnara Jesu Christi. m. d. l og ix ǎr i Sudavik i Altafirdi a þingstad riettum vorum vier i dom nefnder af vel bornum manni Eggert Hannessÿne logmanne nordan og vestañ a Jslande ȷnnvirduliga ad skoda og rietteliga ad rannsaka og fullnadardoms atkvæde ǎ ad leggia epter logum huerra svara edr sekta ad Jon Jonsson. sem kendr er Jslendingur. mætte skÿlldugr verda vorum nadugasta herra konginum fyrir þa peningatoku sem hann tok ȷ Sudauik æ nætrþela[2]) ȷ burtu ur læstu huse. og laun æ dro. og lÿste alldri ad logum. og hafdi þa suo med leÿnd heim til Eÿrardals ad næsta bæ Sudauikr[3]). og þar voru sagder peningar hÿster. halldner leingi a laun. og þar etner og druckner þeir peningar sem þess kyns uoro. ȷ huerre veitzlu ad var Oluf husfreÿa Biornsdotter. og annad hennar lid fleira. þad sem sig hneigdi i þessa fyrskrifada furueizlu[4]) et cetera.

1) Þessi fyrirsögn er með hendi Árna. 2) „ita extat" (AM.). 3) Svo. 4) Svo stendr og í fleiri en einni uppskrift dóms þessa í gömlum dómabókum. Árni ritar við þenna stað: „delendum, ut puto, fur".

Lagde adur greindur Jon Jslendingr sig þar vnder log suo ad vier heÿrdum og a saum. og lofade logmanninum med handabande. þad ad hafa og ad hallda sem domr dæmdi sier a hendr vm sagda peningatoku. Voru þesser fÿrskrifader peningar vpp skrifader og fram̄ talder fyrir oss. og kendizt Jon Jslendingr ad þeir hefdi svo verid sem þeir uoru fram̄ talder fyrir oss. og felldum vier þa fyrst til mannþurdar. og uirtist oss þeir þo vera þriggia marka virdi. Og af þui ad fÿrskrifadur Jon Jslendingr kiendizt og medgongu veitte fyrir logmannenum oss a heyrande. ad hann hefdi suo fellda peninga tekit sem fÿr seigir. þa uirtizt oss þa ecki þurfa ad boka. þar fyrir ad oss þotte til fulls ȷ giegn geingit fyrer hans medkenning æ sagdre peningatoku. Vmskodudum vier vora landzlagabok. bæde framarliga. og suo vm middÿkit og allt til enda. og villdum grankunnliga skoda og vmhuxa og rannsaka. vikta og vardiera[1]). huort ad þetta skÿlldi helldur dæmazt grip edr rān edr þiofnadur. Nu saker þess ad opt nefndr Jon Jslendingr kendizt. ad hann hefdi fyrrsagda peninga leyniliga ȷ burtu flutt ur læstu huse a nætrþela ān allz uilia og vitords þess sem atte. og alldri lÿst epter þui sem log giora rad fyrir. fÿr en̄ longu seirna. þa hann matte ecki dÿlia leingr. Og þar fyrir uirdtizt oss þesse tiltekt næst ganga þiofnadarmale. Og nu af þui ad suo seiger i vorre landzlagabok ȷ Þiofabælke. Þad er nu þvi næst. ad vor skal einginn annan̄ stela. J annari grein seiger og svo ȷ sama capitvla. Nu ef þiofr stelr til tueggia marka ad fysta bragde. þa hefr hann fyrirstolid lausafie sinu aullu. En̄ ef hann æ ȷ iordu. þa uirdi ur henne til xiij. marka. og hafe ad auk slika refsing sem sa madr leggr æ hann sem kongs valld hefur ȷ hendi sier til riettrar refsingar. og [halldi[2]) þo lifinu. Nu saker þess ad vier vissum fyrir full sanninde. ad opt sagdr Jon Jslendingur hafde ecki stor lausafie att þa er hann fiell ȷ þetta māl. þess og annars. ad vier vissum hann alldre fÿr ad neinum oknÿktum[1]) hafa kendr[1]) verit. og ad þetta hefdi helldr matt ske fyrir honum af hans fauizku og æggiun annara vondra manna. Og af þvi ad

1) Svo. 2) [hadinu(!), frumritið. Árni leiðrétti, og er það samkvæmt gömlum uppskriftum dómsins.

aull mal skal til betra vegar færa. þess og annars. ad suo seiger ȷ sialfum texta bokarinnar ȷ xuij capitula ȷ Mannhelgi ad þeir hafa hlotid hardar hefnder af Gude sem vandæmt hafa. eñ þo þeir hardari sem ofdæmt hafa. og þui eiga domendr dom̃ hueruetna til betra vegar ad færa. ef þeir vita iafnuist huorttueggia. med þeim fleirum ordum og atuikum sem þar ad luta. þo eigi sie þau hier inn sett. Og þui nu fyrir þessar greiner og adrar fleire sem hier ad hniga. þa dæmdum vier fÿrnefnder domsmenn med fullu doms atkvæde. af opt nefndum Jone Jslendinge .vc. kongdominum fÿrer hans fiesekt. eñ refsing skyllde standa ȷ hendi riettarans til slikrar mÿskunnar sem hann uillde a giora. Eñ þeim full giold fiar sins er tekit var fyrir. Og ad þessum .v. hundrudum greiddum og refsinginne vpp giefinne edr ut tekinne. skÿlldi greindr Jon Jslendingr vera kuittr. fri og frials vm fÿrskrifad brot bædi fyrir kongi og karle et cetera.

Saumuleidis vorum vier og til nefnder af fÿrskrifudum Eggert Hannessÿne logmanni. ad skoda og rannsaka og fullnadardoms atkvæde a ad leggia. hueriu þeir menn skÿlldu skÿllduger vera vorum nadugazta herra konginum sem af fÿrskrifudum peningum hefdi haft ad giof. kaupe edur låne. Heÿrdum vier logmannenn þeim monnum fullar saker[1]) æ hendur seigia kongdomsins vegna. sem af fÿrsogdum fiãm hefdi haft med leÿnd visuitande. epter þui sem logmalid framazt vottar og vtuisar. Eñ Olof husfreÿia Biornsdotter kom fram̃ med hareyste og hordum ordum. og forbannade sogdum logmanni og oss dom ÿfer sinum malum ad seigia. villde suo med vellde og ofbellde fottroda og nidur þrÿckia vors nadugazta herra kongsins og krununnar riette. Nu af þui ad suo stendr i vorre landzlagabok. ȷ Þiofabælke. Jafnsekur er sa madur sem tekr uid fie þiofstolnu visuitande ad giof. kaupe edr lane. hefer hann þad og hirder. og leggr laun æ. sem hinn er stal. vtan eigi uerdr hann dræpr. sa heiter þiofsnautr. Og þui er þad vor settur domur og samþÿcktur med fullnadar doms atkuæde og alÿktarorde. ad

1) „*adde*: þeim", ritar Árni hér við. En það er einhver vangæzla; „þeim" má ekki standa hér.

þeir menn sem af sogdum peningum hafa haft. epter þui sem logmalid auisar. hafe fyrirgiort aullum sinum lausafiām vid kongdominn sem þeir attu j þad sama sinn. ellegar suo micid vr þeirra fastaeign sem logmalid tiluisar. ef eingiñ hafa lausafie til verit. og hafi ad auk slika nafnbot sem logiñ utvisa. vtan þeir sýnie med siettareide. ad þeir vissu eigi ad oheimillt var.

Logsamde og samþýkte þenna vorn dom med oss adr greindr logmann og sette sitt jnnsigle med vorum innsiglum fyrir þetta domsbref huert ad skrifad var j Saurbæ a Raudasande fostudaginn næstañ epter vppstigningardag vm vorid. a sama are sem fýr seiger.

---

**296. 5. maí 1559. á Hólum.**

Kaupbréf fyrir Leifsstöðum í Kaupangssveit.

AM. Fasc. LIV, 21, frumrit á skinni. Öll (4) innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 140.

Kaup sira Halldors fyrir Lifstodum[1]) j Kaupangssueit.

Þath giorum vier Snorre prestur Jonsson. Teitur Magnusson. Magnus Gunnsteinsson og Biorñ Biornsson. godum monnum viturligt med þessu voru opnu brefi at arum epter gudz burd ꝍ d l ix. i Holum i Eýafirdi faustudaginn næstan epter vppstigñingardag vm vorid worum vier hia saum og heyrdum ā ord og handsol sira Halldors Benedikzsonar og Gudbiargar husfreýo Ellendzdottur at suo fyrir skildu at hun selldi sogdum sira Halldori xx^c iord Leifstadi sem liggr i Kaupangs kirkiu sokñ med ollnm þeim gognum og giædum sem greindri iordu fýlger og fylgt hefur ath forñu og nýo og hun vard fremst eigandi ath med þui landi og vmmerkium sem þeir fedgar Þorleifur Grijmsson og Grijmur sonur hans bygdt hofdu. ath fyrir sunnan rædur lækur sā sem fellur vr fialli ofan vndan Raudaflaugum og so ofan i lækinn sem fellur næst fyrir vtan Hestaklett og so j kijlinn sem fellur næst eynni. eñ fyrir vtan vr sama kijl og vpp med gardi þeim sem liggr fyrir sunnan Budarlāg og þa i

1) Svo.

Budarlǻg er hann þrýtur og vpp i Þingmannalæk og so ǻ fiall vpp at siae i Hnioskǻ. hier i mot gaf sira Halldor nefndre Gudbiorgu viij malnytu kugilldi er hun hafdi til býggingar ǻdr af honum. þar til skilldi[1]) hann suara Mukaþuerǻrklaustri fyrir reikningsbrest þann sem erfingiar Grijms heitins skylldo suara i nordrvmbodum sem voro viij malnyto kugilldi til klaustursins iarda þar og til Ærlækiar einum klǻrhesti og xxiij ǻm edur annari malnýto. eñ ef þessi iord Leifstader geingi af honum med logum þa skilldi[1]) hun eda hennar erfingiar suara honum edur hans erfingium þeirre xxc ȷordu sem honum lȷjkadi. Og til sanninda hier vm settum vier fyrskrifader menn vor inncigli fyrir þetta bref huert skrifat var i sama stad deigi og ari sem fýrr seiger.

---

**297.** **6. maí 1559.** **á Svalbarði.**

Páll Jónsson semr við föður sinn, Sigurð, bróður sinn, og Jón Björnsson, systurson sinn, um skipti ýmis, einkum jarðir.

AM. Apogr. 194 „Ex originali Svalbardensi". „5 innsigle hafa under brefenu vered, sem nu eru öll burtu".

Þad giore eg Pall Jonson godum monnum kunnegt med þessu mino opnű brefe ath eg hef aptur lagt faudur minum Jone Magnussýne og brodur minum Sygrde Jonsýne alla ȷordina Sualbard ǻ Sualbardzstroñd. Breidabolstad og Tungu med handsolum og vottum hia verañdi. med vpplagie. ȷayrde og fullnadar samþýckie kuinno minnar Helgu Aradotter[1]) vñdañ mier og minum erfingium eñ vñder hann oc hans erfingia oc son Sijgurd Jonson huer alleinasta nu er ǿleystur af faudurgarde. hier ȷ mot hefur fader minn Jon Magnusson skipt nu og feingit mier fyrir adur greindar ȷarder Videvelle oc Liotzstadi. Dǻlstade og hǻlfa Gardzvik ȷ minn part oc hlutskiptte. med ȷayrde. vilia og fullnadar samþýckie sonar sinz adur nefndz Sygurdar Jonsonar brodr minz. fram̄leidiz gielld eg oc greide eg fýr nefndur Pall Jonson med krapte þessa brefs minum systursýne Jone Biornzsýne adur skrifada ȷord Videvelle er ligur ȷ Fnioskadal. ȷ Draflastada

1) Svo.

kirkiusokn fyrir .xlc. med ollum þeim gognum oc giædum er greindre jordu fylgier ath fornu oc nyio og eg var fremst eigandi ad j fyr skrifat hlutskipte. oc þar til .vj. malnyto kugillde. Hier til skal ec og lofa ad giallda Jone Biornzsyne .xx. hun̄drada jord ad forfallalauso ad næstum fardogum En̄ hann skal hafa til pan̄ta oc afgiallz þar til. xxc. j Dålstodum er ligr å Sualbardzstrond j Sualbardzkirkio sokn. hier j mot hefur opt nefndur Jon Biornson giefit mic kuittan̄ og ækiærulausan̄. mïna erfingia oc epterkomendr vm̄ þa .xlc. jord .vj. malnyto kugilldi oc iiijc. sem eg var skylldugur Steinunne Jonsdottur systur minne fyrir malstadinn æ Stadarhole j Saurbæ og þeim eignum og peningum er þar med fylgia ad til skildre jordinne Saurhole epter þui er kaupbref jnsiglat þar vm giortt vt visar oc hun hefur feingit greindum Jone syne sinum nu hia mier med han̄dsolum. brefe og jnnsiglum. skal Jon Biornson få nu j sumar fyrr skrifut iiijc. suo oc hef ec lofat at suara titt sogdum Jone Biornsyne oc hans erfing[i]um lagariftingum oc suo godum jordum. ad dandi manna virdingum ef þær jarder kunna af honum eda hans erfing[i]um med logum ad ganga er eg fæ honum. for þesse allur giorningr fram̄ med han̄dsolum vor fyrr skrifadra manna åå mille sem fyrr skrifat stendur å Sualbarde a Sualbardzstrond. a laugardaginn næstan epter vppstigningardag arum epter gudz burd. M. D. L. og ix. ad þessum vitnum hia verande siera Jone Jonssyne. Arngrime Kolbeinssyne. Hialme Þorsteinssyne oc Eyolfe Skidasyne huerier ed setto sin jnnsigle fyrir þetta afgreidslubref med mino jnnsigle huertt skrifat [var] j sama stad og dag sem fyrr seigier.

---

298. **6. maí 1559. á Svalbarði.**

Jón Magnússon samþykkir jarðaskipti sona sinna, Páls og Sigurðar.

AM. Apogr. 195 „Ex originali Svalbardensi“.

Þad giorum wier Jon prestur Jonsson. Arngrimur Kolbeinsson. Hialmur Þorsteinsson og Eyolfur Skidason godum

monnum kunnigt med þessu woru opnu Briefe a laugardaginn næstañ Eppter vppstigningardag wm worit þa lidit war fra Gudz burd M. D. L. og ix ar a Svalbarde a Sualbardzstrond worum wier ȷ hia saum og heẏrdum a ord og handaband þessara manna ȷ fẏrstu Jons Bonda Magnussonar er skilde fẏrer kaupe og med handsolum samþẏckte þann giorning er þar sama stadar for fram med handsolum millum begia. sona sinna Pals og Sẏgurdar ath Pall Jonsson fieck og aptur lagde brodur sinum Sẏgurde med ȷaẏrde. wpplage og fullnadar samþẏcke kuinno sinar Helgu Aradottur oss hia werande alla ȷordina Sualbard. Tungu og Breidabolstad hueriar ȷarder at honum hofdu giefnar werit ȷ riett erfdaskipte a motz wid sina brædur. hier ȷ mot gaf fẏr nefndur Sẏgurdur Pale brodur sinum ȷardernar Widevelle og Dalkstade. halfa Gardzvik [huat honum[1]) hafde og þessar ȷarder med brefe og ȷncigle giefnar werid ȷ sitt hlutskipte epter faudur og modur. Og til sannenda hier wm settium[1]) wier fẏrskrifader menn wor ȷnncigle fyrer þetta ȷardaskiptabrief huert skrifat war ȷ sama stad are og deigi sem fẏr skrifat stendur.

---

## 299. 10. maí 1559. á Refsstöðum.

Kaupbréf fyrir Skjaldteinsstöðum.

AM. Apogr. 4672 „Ex originali. Eitt einasta innsigli hefur vered fyrir brefenu, og er þad nu burtu“ (AM).

Þat giorvm ver Arñe Branzson. Eirekur Arñason. Are Ionzson. Atfinnvr Ionzson. Þordur Gislason godum monnum kvneckt med þessv woro opñv brefe. at ver vorvm þar i hia. heyrdvm og savm ꝍ̃ ord og handaband þessara manna Einarz Arasonar og Þordar Biornzsonar at suo fyrir skilldv. at greindur Einar sellde fyr skrifvdvm Þorde Biornzsyne iordena Skiallteinzstade. er liggur i Refstada kirkiv sokñ. vı. c. at dyrleika. er reikñast fiordvngur vr sydre Vik. bede[2]] til sios og lan[d]s. vtan med logvm se fra komit. leist þad þeim dandi monnum sem þar woro hia werañdi. at hann

1) [Svo. 2) Svo.

mvndi þessa iord selia meiga bornvnvm til framfæris þui honum bar þad wmbod vegna sinnar kvin[n]v Ranvegar Einarsdottur. epter laganna tilvisan. hier i mott gaf tittnefnddur[1]) Þordur halft ed siotta .c. i ollvm þarfligvm peningvm. og hafa eitt barn fiogur ar. lofade þratt nefndur Þordur at hallda sinv kaupi til laga en hin svara lagariptingv er sellde. Oc til sannenda hier wm settium[1]) ver fyr skrifader menn vor insigle fyrir þetta iardarkaupsbref. skrifat á Refstodvm i Vopnafirde. midkvdagen nestan fyrir hvitasvnnv arum epter gudz burd þvsvnd d. l. og ix. ar.

## 300. 10. maí 1559. á Grenjaðarstöðum.

Kristín Þorsteinsdóttir lýsir því, að hún hafi selt síra Sigurði Jónssyni jörðina Ytri-Tungu á Tjörnesi, og kvittar hann einnig um andvirði Þverár í Laxárdal.

JS. 66, 8vo., m. h. Grunnavíkr-Jóns ca. 1740 „Epter pergamente, med somu bokstafa setningu. eckert jnsigle er nú under, og ei nema Reimarnar tómar". — AM. Apogr. 3901. — AM. 255, 4to., bls. 481—2, bréfabók síra Skúla Þorlákssonar.

Þat giorum vier Þorgrimur Þorleifsson. Vigfus Þorsteinsson. Asmundur Þorsteinsson. Þorgeir Petursson godum monnum kunnigt med þessu voro opnu brefe at þa lidit var fra gudz burd ꝏ d. l. ix ar. manudagin næstan epter vppstigningardag a Greniadarstad i Reykiadal uorum vier i hia saum og heyrdum a at Kristin Þorsteinsdotter og Olafur Fimbogason medkenndist at þau hefdi sellt sira Sigurdi Jonssyni jordina ytri Tungu a Tiornesi med þeim skilmala sem kaupbref þar um giort jnnehelldur. en ef jordin Tunga geingi af sira Sigurdi med laugum þa skylldi hann eignast xx^c upp i jordina Halldorstadi er liggur i Lagxardal. en geingi jordin Halldorstader af med laugum þa skylldi sira Sigurdur Jonsson eignast xx^c upp [i] iordina Hoskullstadi i Reykiadal þui Benedict heitinn Einarsson sem verit hafdi hennar bondi hafdi giefit Hoskulstadi uid Halldorstodum. en þrem nottum adur hofdu Kristinu dæmst Halldorstader i sina tilgiof xxx^c. Suo og medkenndist nefnd Kristin at hun

1) Svo.

hefdi fulla og alla peninga vpp borit fyrir iordina Þuera i Laxardal af sira Sigurdi Jonssyni og gaf hann þar kuittan vm. for þesse allur giorningur fram̄ med handsolum og þetta allt samþyckti Olafur Fimbogason. Og til sanninda hier um̄ setium vier vor ȷnsigli fyrir þetta bref ed giort var a sama stad ij daugum sidar en̄ fyrr seigier.

---

**301. 11. maí 1559. undir Múla.**

Síra Jón Þorleifsson fær Einari Þorgilssyni til eignar jörðina Fjörð.

AM. Fasc. LIV, 22, frumrit á skinni; 1. og 4. innsiglið (af 4) er fyrir bréfinu. Það er m. h. síra Jóns Þorleifssonar. — AM. Apogr. 5714.

Jhesus.

Þad gio[r]er Eg Jon prestur Þorlofsson[1]) Godvm monnum kunigt med þessu Minu opnv brefi ad ec hefi golldid Einare Þorgilssyni xuc vp j ȷordina Fiord er liggur ȷ Mula kirkiu sogn̄[1]). vegna sinar modur Sigridar Gudmundardottur fyrir þau xuc sem honum ber til erfda uid sin syskin vpp ȷ ȷordin̄[a] An̄abrecku[2]) er liggur j Borgar kir[k]iv song[1]) med audrum fridum og friduirttum peningum. þeim sem nu koma á huers partt. barna Sigridar med reittre[1]) tiltaulu af hennar mala. Somuleidis geld ec og Einare .xcm. vp ȷ ȷordina adurskrifada Fiord fyrir viij malnytv kugilde. eitt geltt c og þar til dautt c eitt. c er hann á hia mier j sin faudurarf. ȷttem gef ec adur skrifadur Jon prestur Þorleifsson adur skrifudum Einare vc vp ȷ opt skrifada ȷord Fiord ȷ sin þionvstulaun̄ med suonan[1]) skilyrde. ad Einar sei[1]) mier til gan̄ggs[1]) og Goda. og min man æ medan gud vill ockur til lida. skal eg og ecki midur til hans giora en anars mins vndermans. ef hann vil[1]) þar til stunda vid mig og sin̄a modur og syskin̄. ȷttem skil ec þessa opp[t] skrifada ȷord vndan̄ mier og minum barnvm[1]). En vnder Einar Gilsason[1]) og hans skilgettin̄ baurn̄. med suonan̄[1]) skilmala. ef Einar a ecki skilgettin[1]) baurn eptter sig. þa skullv[1]) min baurn og hans syskin eiga launs[1]) a ȷordunne fyrir malnyttv[1]) frida og fridvirtta pen-

1) Svo. 2) anā becrv, frbr.

inga. Somuleidis gef eg og geld adurskrifada jord Fiord titt skrifudum Einare med aullum þeim gaungvm[1]) og giædum. sem greindre jord fylgtt hefur ad fornv og nyv og ec hefer fremst Eigande ad ordit badi[1]) til siozs og landz. og þar eyia allra med þessum landamerkivm. jn fra Firde j þad nes er þar sa steinn ꝺ vid nesid er kendur. hefur verid Kerling og nidur feill[1]) j mycklu flæde. Suo og vp j almenningsgottuna a [Midal eidinv[2]). reittsynis[1]) ur gottunne vp j storan stein. þar stendur. vpp vnder fiallenv. og þar þradbeint j vestanverda auxlina ad fial[l]id er [vid] kentt. Og til saninda hier vm sett[1]) eg mitt jnsigle fyrir þetta mitt gials[1]) og giafar bref med anar[a] vel dugandee[1]) manna jnsiglum Nikulas Jonssonar. Pettur[s] Jonssonar og Baudvars Jonssonar. huertt bref ad skrifad var vnder Mula a Skalmarnesi fimttudægen næstan fyrir huittasunvdag vm voritt Arvm eptter gudz burd. ꝏ vc fimtige og ix.

---

## 302. 28. maí 1559. í Ögri. 4. december 1562. á Kirkjubóli.

Sigríðr Björnsdóttir ættleiðir og arfleiðir son sinn, Björn Bjarnason, með samþykki systur sinnar, Guðrúnar yngri.

AM. Apogr. 4663 „Ex originali Þorbiargar Sigurdardottur á Kulu. innsiglen eru i burtu. Þad sem under er dreged er burt fued ur originalnum" (AM.). Það undirstrikaða er hér sett í [ ].

Þad giaurum vid Olafur prestur Jonsson. Halldor Einarsson. godum monnum kunnigt med þessu ockrv opnu Brefi. ad þa er lidit var fra hingadburd vors lausnꝺra Jhesu Kristi ꝏ. d. l. ix ær. j Augri j Jsafirde a sunnudaginn næsta epter fardagauiku. vorum vid j hia saum [og heyr]dum ꝺ ord og handaband þessara kuenna. af einne alfu Sigridar Biorns[dottur en af] annare alfu Gudrunar Biornsdottur hinnar yngre. systur hennar. ad suo fyrir skild[u og] undertoludu ad fyrr greind Gudrun gaf fullt jayrde og samþycke til ad adur [greind Si]gridur skyllde mega arfleida sinn son Biorn Biarnason til alls þess arfs sem [fyrrskrifud G]udrun stod til

1) Svo. 2) [sýnist standa svo.

epter fyr sagda Sigride. Jtem tilskilde Sigridur Biaurnsdotter [vid fyrrsagdan] Biorn Biarnason. ad hann skylldi jata vndan sier þessum fyrsaugdum halfum arfe [til þess ad] arfleida son sinn Þorleif Biarnason. og med þessum skilmala geingu þ[esser menn Sig]ridur. Gudrun og Biorn fyrir kirkiudyr. og hielldu aull a einne Bok. og þa [mællte optnefnd] Sigridur þessum ordum. sem hier epter skrifad stendur. Eg Sigridur Biaurnsdot[ter arfleidi] hier j dag son minn Biorn Biarnason til allz þess fiar sem eg æ. og eiga [kann] j faustu og lausu. tiil gialldz og til giafar. til sess og til sætis. og til allz þess ʀettar er laugbok skyrer. og ættleidingarcapitule vtuisar. ad arfleidingur á ad hafa ad laugum. Og til sanninda hier vm festum uid fyrrnefnder menn ockar jnsigle fyrir þetta arfleidzlubref huert ad skrifad var a Kirkiubole j Valþiofsdal. faustudaginn næsta fyrir Nikulasmesso vm ueturenn. Arum epter gudz burd ꝏ. d lx. og ij.

---

## 303. 6. júní 1559. á Möðruvöllum.

Kaupbréf fyrir hálfri Hlíð í Miðfirði.

AM. Apogr. 1018 „Excerptum ex originali Sæmundar Magnussonar á Hole i Bolungarvik“ m. h. Árna Magnússonar. Bæði innsiglin voru fyrir bréfinu.

Kaupbref um Hlid i Midfirdi halfa. gefen fyrir Holseigner[1]).

Anno 1559. manudaginn fyrstan i sumri. i minne Brecku j Haurgardal. voru Einar prestur Sigurdzson og Jon Asgrimson vid ord og handaband Asgrims Einarssonar og hans kvinnu Halldoru Gudmundardottur af einni alfu. Eñ af annarre sira Biðrns Gislasonar i umbodi sins brodur Arna Gislasonar. Sellde Asgrimur med iayrde og samþycki Halldoru kvinnu sinnar Arna Gislasyne iðrdena halfa Hlijd i Midfirde j Stadarbacka kirkiusokn. Hier j mot lofadi sira Biðrn vegna sins brodur Arna. at Arni skyllde veita uppfæde tveimur brædrum Halldoru. Asmunde og Birne Gudmundzsonum. þar til þeir være matvinningar edur matlaunamenn fyrer

1) Þetta var skrifað utan á bréfið „eg meina med hendi Arna Gislasonar“ (AM ).

aldurs sökum. Eñ kynne sagder brædur ad verda sárer eda siuker. þa skylldu þeir hverfa af peningum Arna Gislasonar þa þeir være xvj vetra. Til sannenda hier um setia nefnder menn (Sira Einar Sigurdzson og Jon Asgrimsson) sin innsigle fyrir bref hier um giört. og skrifad a Maudruvaullum j Haurgardal. þridiudaginn næstan fyrir Barnabæ postula messo dag anno ut supra.

---

**304. 30. júní 1559. á Öxarárþingi.**

Tylftardómr, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, staðfestir dóm, er dæmt hafði Páli Grímssyni Hof á Höfðaströnd.

AM. Apogr. 4669 „Ex apographo vetusto vidimato. fra Gröf a Höfdaströnd" (AM.).

Domur á mille Pals Grimssonar og Þorbergs Bessasonar um Hof á Höfdaströnd.

Ollum mönnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Arngrimur Jonsson. Oddur Tumásson. Jon Grimsson. Gisle Jonsson. Loptur Gudlugsson[1]). Þorarinn Gislason. Sigurdur Oddsson. Magnus Jonsson. Gottskalk Tumasson. Olafur Jonsson. Biörn Jonsson og Olafur Tumasson. kvediu guds og sina kunnigt giorande. þa lidit war fra guds burd M. D. L. ix. a föstudagin næstan um sumarid epter Peturs messu og Pals a almennelegu Óxarárþinge vorum vier i dom nefnder af heidarlegum herra. sem er Eggert Hannesson lögmann nordan og westan a Islande. at skoda og ransaka. og fullnadardom a at leggia. uppa þann dom er Pall bondi Grimsson hafdi fyrer sier og wier adurgreinder domsmenn birtum og lásum opt oe trackterudum. og adur fyrer ij árum a Alþinge hafdi herra Eggert laugmann utnefnt og samþyckt þar med höfudzmannenum. sem var Knutur Steinsson. med laugrettunnar samþycke. Svo og war fyrer þessum dome laugmannsens Eggerts jnnsigle og laugrettumannanna hvad þessi domur hlyddi upp a jördena og gardin sem er Hof a Höfdaströnd. med þeim utiördum er þar fylgia. og sa domur innehelldur. eñ Þorbergur bondi Bessason hefdi enn at

1) Svo.

hallda i mote vilia Pals og hans kvinnu. Kom og þar fram̄ kaupmálabref Pals og hans kvinnu Margretar Ellendzdottur med heilum og oskóddum ȷnnsiglum. hvad laugmannenn og vier giórla skodudum. allan skilmala þeirra a mille a brudkaupsdeige. birte þar og synde oss Eggert laugmann þann eid er hann hafdi tekid af Teite preste Magnussyne. og hann fyrer hónum sor i Spialldhaga. epter sinu ȷnnsigle. er hann hafdi adur ut fyrer kaupmalabrefit gefid. og hann var i þeim dome tildæmdur. sem hlyddi upp a gardinn. sem er adurnefnt Hof. Stőd og svo i þeim dome epter bokarinnar ordum. at bonde skal eigi selia eigner husfreyu sinnar eda þær þau eiga bæde. hafdi Margret kvinna Pals þar fyrir svarid lyritareid. fyrir Orme Stullasyne. er þa var laugmann og hann lysti þui þar fyrer oss at sa eidur væri hia sier upp skrifadur er hun hefdi alldrei ȷayrdi nie samþycki til gefid. Stendur og svo i ódrum stad i worri laugbok at hvorki hiona ma fyrirgiórа ne fyrirmæla annars fe. i þridia stad avisar og wor landzlagabok i Kaupabælke. at eingin skal annars fie framar selia eñ i laugum er mællt. Nu fyrer þær allar laugmætar greiner. sem i þeim dome at luta og inne standa. og at óllu svo profudu og fyrer oss komnu og at guds nad med oss til kalladre. þa dæmdum wier med fullu doms atkvædi þann sama dom sem Páll Grimsson hafdi fyrer sier. lauglegan um Hof. og skiælegan og myndugan. med óllum sıȷnum greinum og Páll Grimsson ʀietteliga og skyllduglega mega at sier taka sinnar kvinnu wegna. og hennar eign vera og verid hafa þennan gard Hof. og hennar utiarder epter þui sem domurinn helldur. Svo og leizt oss Þorbergur bonde eiga og sitt andvirdi. þad domurin[1]) helldur. Svo og Pál Grimsson at svara iafnhám peningum i ȷórdum sem domurinn helldur. þeim sem ʀettilegur soknare og eignarmadur wære. Eñ þau[1]) misfelli. sem millum Pals og Þorbergs Bessasonar var[1]). og þeirra stefnur inne hielldu. þa dæmdum wer heim i hierad at hvór skyllde ódrum laugum svara.

Samþycktti þennan worn dom ádur greindur herra Eggertt Hannesson laugmann og svo hofudsmennerner. sem

1) Svo.

voru Knutur Steinsson. og Pall Stigsson og settu sin jnnsigle med vorum fyrrnefndra domsmanna jnnsiglum. hver ed dæmdizt og uppsagdizt i sama stad og dag sem fyrr seiger.

---

**305. 30. júní 1559. á Öxarárþingi.**

Páll hirðstjóri Stigsson kvittar Magnús Jónsson um gjöld af Þingeyjarsýslu.

Lbs. 72, 4to., bls. 40, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal, ca. 1720—30, „Effter originalnum". — Uppskrift m. h. Jóns Marteinssonar ca. 1750—60 í Additam. Khafnarháskóla 4, 4to., bls. 3—4.

Påls Stijgssonar kvittunar Bref Magnuse Jonssýne utgefed uppa afgijpt Nordursýslu Anno 1559[1]).

Jeg Povell Stijgssen kongl. Majst. Befalningsmand paa Jssland giðr viterligt met thette mitt obne Breff. at nerverende brefviiser Magnus Jonssen haffver mig paa kongl. Majst. vegne afhendt for afgijfft af Norder Sýssell. xxx. schatter vadmell. j. hest og der till haffver hand affhend mig .ij. Skibztolde af Husavigh och Saltvigh och samme thid for Flatøe ix daller. disslige haffver hand ogh giðrth regenskap for Proviste Thienden af forn^te Sýssell for lvj^c hundrede och xxvij^c. hvilket er beregned i vadmell xxxix voder. iiij. alen. for hvilche forne Tiendevadmell iegh hannem qvitt giffve. naar hand thet betalt haffver. [hvor jeg[2]) hannem tilsigendis vorder. Hermed haffver hand dissligeste guldet i bordom och megdespiill af forne Sýssell x daller. foı hvilcket forne Skatter. Skibstolde och Sagefald ieg hannem qvitt giffve for mig och ýdermeere tilltale.

Till vidnesbyrd trycker ieg mitt Signet neden for thette mit obne[3]) Breff. giffvet paa Uxeraaething anden dagh Petri et Pauli aar 1559.

(L. S.).

---

1) Fyrirsögn sama efnis á dönsku í 4, 4to. 2) [4, 4to.; hvar 72. 3) obnen, 72.

## 306. 1. júlí 1559. á Þingvelli.

Kvittun Knúts hirðstjóra Steinssonar til herra Marteins Einarssonar fyrir 1c dala til Símonar Surbecks, en herra Marteinn hafði ábyrgzt fyrir Erlend Þorvarðsson.

AM. Apogr. 4671, m. h. Hans Beckers „Efter originalen, paa papir. Knud Steensens indsegel er tröckt neden paa brevet. Brevet bekom ieg udi Jsland“ (AM.).

Jeg Knudt Steenssenn kiendis mett thette mytt[1]) obne breff att ieg haffuer annamett it hundritt daller aff her Morthenn Einerssenn som ieg skall anttuorde Symenn Surbeck paa her Morthens wegne om gud will ieg kommer vell fram og er forne hundride daller aff the penge som hand sagd[1]) god fore paa Elend Toruardurssens vegne. Thiill ydermere windnisbýrdt trýcker ieg mitt[1]) signete her nedenn paa thette mitt obne breff. Datum Tinguoldt löffuerdagenn effther Sanctorum Petri et Pauli apostolorum dag Anno Domini 1559.

---

## 307. 1. júlí 1559. á Öxarárþingi.

Bréf til konungs frá Gísla byskupi Jónssyni og prestastefnumönnum, og er þar getið silfrsendingar til konungs frá Skálholtskirkju, en beiðzt timbrs, með því að kirkjan sé að falli komin.

Island, Færö og Grönl., Supplem II, 31, frumrit (nú í þjóðskjalasafni).

Stormectige. Hôgborne och Hôgmectiighe Herre. Frederick
theñ andhen. Danmarcks. Norgis. Vendis och Gottis
konningh. hertugh vdij Slesuigh. Holsten. Stor-
mareñ och Dytmerskeñ greffue vdij
Oldenborgh och Delmeñhorst.
gandske ydmygheligheñ.

Jegh Giillebert Ionssôn vuerdig superintendent tiill Skalholtz stigtt mett meninghe[1]) capitels prestir eders naadis Kongeligh Mtt. fattiighe vndirdanighe vndersottir och tiennere her paa eders naadis landt Islandt hiilser eders naadis

1) Svo.

Kongel. Mtt. gandske ydmygelighen och vndirdanniglighen mett gudt almectigiste och wor herre. giiffuendis eders naadis Kongel. Mtt. gandske ydmygelighen tilkiende. att wij haffue efftir eders naadis budth. beffalningh och begieringh aff uendth och leuerit Erligh och welbyrdigh mandth Knud Stenssôn eders naadis Kongel. Mtt. beffalningzmandth offuir worth fattighe landt Islandth noghett sôlff fra Skalholtz domkircke sem weier halff andheñ fôringh och viij marck efftir ret Islendsk aeltingz wecktt. och wiille wij gierne nath och daghfindis for eders naadis Kongel. Mtt. och beffalningsmendth hôriighe. lydiighe. hulde. och troe som wij eders Kongel. Mtt. sorritt haffuir. och wij tiill des plictighe ere.

Aller naadigiste och hôgmectigiste herre och konghe. eders naadis Kongel. Mtt. godhedth mod fattighe vndirsottir och tieñere vndir eders Kongel. Mtt. krone driister oss tiill. att giiffue eders Kongel. Mtt. tiilkiendhe att wor fattighe domkircke er môgitt skrôbeligh och weyligh. saa at wij wiide icke nar hun faller nedth ellir ey. att wiilde eders naadis Kongel. Mtt. werdis tiill for gudz schyldth. att styrcke hende och hielpe hende mett nogher thôm̃er. tha wore thett wor fattighe och gandsche ydmygelighe bôn och begierring aff eders naadis Kongel. Mtt.

Her mett eders naadis Kongel. Mtt. theñ almechtighe gudth befallendis baade tiill liiff och siell. huilcken eders Kongel. Mtt. vnde leñghe att leffue och well att styre och regere.

Skreffuit paa Oxeraa ting ij Islandth. lôffuerdaghen nest efftir apostolorum Petri och Pauli dagh. aar mdlix.

Giillbberth Jonssôn. och meñighe capitels prester tiill Skalholtz stigtt eders naadis Kongel. Mtt. fattighe. vnderdañighe och plictighe thienere och vndirsottir.

---

308. 2. júlí 1559. á alþingi.

Bréf til konungs frá lögmönnum báðum, Páli Vigfússyni og Eggert Hannessyni, og geta þeir þar um tilkall manna til stóls og kirkna um jarðir, óska lagaboða og refsinga á illvirki, er fari í vöxt, og beiðast þess að endingu,að Páll Stigs-

son verði skipaðr yfir landið, svo fremi sem Knútr Steinsson hafi ekki yfirstjórn áfram, enda hafi Páll komið vel fram í vetr.

Island, Færö og Grönl., Supplem. II, 32, frumrit (nú í þjóðskjalasafni).

Stormectiighe och högborne herre och förste. Her Fredrick mett gudz naadhe. Danmarcks. Norgis. Wendis och Gottis konningh. hertugh vdij Slesuigh. Holsteñ. Stormareñ och Dytmerskeñ. greffue vdij Oldenborgh och Delmenhorst. sine fattiighe wndersottir gandsche vnderdanniglighen och ydmygeligen.

Stormectigiste. Högborne herre och förste. her Frederick then andeñ. Danmarckz. Norgis. Vendis och Gottis konningh. hertugh vdij Slesuigh. Holsten. Stormareñ och Dytmerscheñ. greffue ij Oldenborgh och Delmenhorst. hiilser wij Pouell Viigfusessön. och Eggirt Hanssön laugmendt paa eders naadis Kongel. Mtt. landth Islandth met gud almectigiste och wor fattiighe. plictiighe. vnderdañighe och tro thieneste.

Aller kieriiste naadigiste herre och konningh. werdiis eders naadis Kongel. Mtt. naadelighen att wiide. at erligh och welbyrdigh mandth. Knud Stenssön eders Kongel. Mtt. beffalingsmañdt paa thete wort fattighe landth Islandth haffuir werrit paa aeltingh mett eders Kongel. Mtt. breff. och haffue wij efftir samme eders Kongel. Mtt. breff och begieringh skicket[1]) oss ij alle maadhe. som eders Kongel. Mtt. breff indeholler och som forne Knud Stenssön eders Kongel. Mtt. ydermere berette kandt. och willle wij altiidt som tro. fattighe. vnderdanighe och plictighe vndirsottir och tienere findis nath och dagh som wij eders naadis Kongel. Mtt. soritt haffuir och des plictighe erre. ydermere aller kieriiste naadigiste och högmectigiste herre. wiille eders naadis Kongel. Mtt. werdis tiill for gudz schyldth naadelighen att wiide. huorledis mañghe klaghe paa stigterñes och kirckerñes iorder och gaarde och meñer att the met vreth skulle werre komne fra theris foreldre. och wiilde eders naadis Kongel. Mttz.

1) Tvíritað.

lensmandt paa wort fattiighe landh Islandth. icke legge thennom vndir lands loughen met thennom som paa klaghe. thij eders naadis Kongel. Mtt. herre faders. mett saligh ijhukomelse. breff ligger her paa landet ther emodth. Fremdelis aller kieriiste naadigiste herre och koñghe wiilde eders naadis Kongel. Mtt. werdiis tiill att wiide huorledis att ther manghe store. sleme vhðrlighe och vchristelighe gierninger her ij landet. tiil huilcke gierniñger der findes inghen dðdz reffsingh ij wor landsloug som eders naadis Kongel. Mtt. beffalningsmandt Knud Stenssðn eders naadis Kongel. Mtt. ydermere ther om berette kandt. Bedendis eders naadis Kongel. Mtt. att eders naadis stnrmectighed wiilde werdis tiill for guds schyldth. at sende oss meninghe fattiighe almue och vndirsottir. eders naadis Kongel. Mtt. retteboder. straff och naadhe ther paa. och huorledis mandt skall handle mett thennom som haffuir werrit brodliighe ij sliighe vchristelighe gierniñgher fðr end at wij finghe eders Kongel. Mtt Retterbðder ther paa. om wij eders naadis hðffmectigheds[1]) fattighe vndirsottir kunde forhuerffuet[1]) aff eders naadis Kongel. Mtt. att guds ære motthe fordris och fremmis. och syndt och ondskab motte straffes the gode tiil fredth och eendrectighedth. och onde tiill eeñ spegill och syndsens fornedriilse tiil euig tiidt.

Aller kierriste naadigiste herre och koñghe giffue wij eders Kongel. Mtt. gandsche ydmygelighen at wiide. att erligh och welbyrdigh mandth Pouell Stiisseñ haffuir skicket sigh mðgit erlighen och well her paa landit ij winther. saa at inghen mandt kand skylde hannom andet eñd gott. ther for aller naadigiste herre och koñghe. att kunde thett saa werdis. att wij motte icke beholde erlig och welbyrdigh mandt Knud Stenssðn tiil wor hðffuidsmandth. ther som saa att eders naadis Kongel. Mtt. wiilde sende forne Pouell Stiissðn hiid ij landet. tha wiille wij gierne anamme hannom paa eders naadis Kongel. Mtt. wegñe tiil wore[1]) hðffuidzmañdt her offuir landet. helst fordij hannom er noget wort lañdt kundigtt mere endt noghen andhen vkundigh her kunde

1) Svo.

komme eller huem eders naadis Kongel. Mtt. wiil[1]) hiid sende som landit kunde werre nyteligtt. och oss wiil[1]) holde wedt Islendsk loug och reth. tha wiille wij gierne beuise hannom then wiillighed och vndirdanighedth som wij hannom paa eders Kongel. Mtt. vegne plictighe ere.

Aller naadigiste herre och konghe. wij eders naadis högmectigheds vndirsottir torffue icke wiidere bemöghe eders Kongel. Mtt. paa thenne tidth. Men eders naadis kongel. Mtt. then almectigiste gud beffallendis. huilcken eders naadis Kongel. Mtt. ladde lenghe att leffue och well att regiere gud almectigste behageligen och eders Kongel. Mtt. fattighe vndirsottir tiil fredth och eendrecktighedth.

Giiffuet paa Aeltingh ij Islandt then andeñ dagh Julij aar mdlix.

Pouell Wiigfusessön och Eggert Hanssön eders Kongel. Mtt. fattiighe thienere och vndirsottir.

---

309. 2. júlí 1559. á Öxarárþingi.

Páll hirðstjóri Stígsson kvittar Eggert Hannesson um afgjald af Helgafellsklaustri og Ísafjarðarsýslu.

Lbs. 72, 4to., bls. 639, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1720—30. „Skrifad effter sijnum original". — Uppskrift m. h. Jóns Marteinssonar frá ca. 1750—60 í Additam. Khafnarháskóla 4, 4to., bl. 4—5.

Höfudsmannsiñs Påls Stijgssonar Bref Eggert Hannessýne utgefid uppa afgijft Helgafellsklausturs 1559[2]).

Jeg Povel Stiigssen kongl. Majst. Befalningsmand paa Jsland giöre videnligt med dette mit obne Bref. at jeg haffver annammet i afgijfft af Erlig och welbyrdig mand Eggert Hanssön laugmand for norden och vesten paa Jsland for Helgefelds klöster thij lester fiske och xlvij daller. ogh xl lodt sölff. och derudofver een handskrifft af Herman Otenssen paa xx daller. och een anden af Eggert Hanssön paa xlv daller hoss Villum Vedingh till Lýbech i afgiftte af Haderdall Thorffve Fussassens Jörder. Sagefald och Sýsselgield

---

1) Svo. 2) Fyrirsögnin er á dönsku í 4, 4to.

af Jsefiords Syssel. for huilke forne udlagte daller och Sølff och fisk ieg forne Eggert Hansson qvitt gifver och naar forne ij handskrifter ere fuldgiørdte. tha giffver iegh hannem paa kongl. Majst. vegne qvit och frii for thette aars afgifft for mig och ÿdermere tiltall.

Till vidnesbÿrd trÿcher ieg mitt Signeth neden for thette mitt obne Bref giffvet paa Uxeraaethingh then anden dag Julii aar 1559.

(L. S.)

Och dessligeste haffver ieg annammet af forne Eggert Hanssøn .vij. Skibstolde.

---

310. 1559. á alþingi.

Alþingissamþykkt um skattfrelsi nefndarmanna og að nefndarmenn, sem lögleg forföll hafa, skuli eiga nefndarkaup sitt (ágrip).

JS. 343, 8vo., bl. 86, skr. ca. 1650. — ÍB. 125B, 4to., nr. 64, skr. ca. 1650 eða síðar. — Steph. 62, 4to, bl. 28, skr. ca. 1650—60 (að eins fyrri greinin).

Alþijngis samþÿckt [1559.

Var[1]) þad dæmt og samþÿckt ꝯ̄ Jslañde at allir þeir nefndarmenn sem ehrliga ganga vr siȷnne nefnd. sie skattfrij vr þui so leingi sem þeir lijfa.

Jtem ad þeir allir nefndarmenn sem løglig forføll hafa. skÿlldu sialfir sitt nefndarkaup eijga. eñ þan forføll skulo metast af løgmanni[2]) og logriettumonnum ad næsta Oxarꝯ̄þinge. eñ sÿnest eij loglig forføllin̄ þa skulo sÿslumenn huor J siȷnne sÿslu þad aptur heijmta og greida þetta þiȷngfararkaup ad næsta alþinge løgmanne[2]) og logriettomonnum. og þar med secktina sem þar med fylgir.

---

311. 14. júlí 1559. í Skálholti.

Transskriptarbréf.

AM. Apogr. 1358 „Ex transscripto pergameno satis accurate. Þetta Transscriptum hefur fyrrum leiged i Skalhollti medal stolsens

1) [Anno 1559 var 125. 2) -monnum 125.

brefa og hefi eg sied Copie þar af med hendi Sira Biarna i Odda ritada þá hann var heimilismadur i Skalhollte. Nu (1712) er hann eign Gudrunar Eggertsdottur i Bæ á Raudasande. Brefid á nu (1725) Monsr. Ormur Dadason". — Árni lýsir innsiglum. — AM. Apogr. 4662.

Um Bæ á Raudasande.

1. Bréf sira Ara Steinólfssonar 17. júní 1551, Dipl. Isl. XII. nr. 144.
2. Sira Greips Jónssonar 11. júní 1552 — — XII. — 216.
3. Síra Jóns Erlingssonar 8. sept. 1550 — — XI. — 669.

Þat medkennunst uier epterskrifader menn Oddr Halldorsson Þordr Gudmundsson prestar Skalhollt[s] biskupsdæmis. Gisli Sueinsson og Magnus Jonsson logriettumenn. ad uier hofum siet og yfirlesit suo latandi bref ord fyrir ord med heilum insiglum suo sem hier stendr fyr skrifat. og i sannleika at suo er setium uier uor jnsigli fyrir þetta bref skrifat j Skalhollti. fostudagin næstan fyrir attunda sunnudag trinitatis anno domini ꝏ. d. l. ix.

---

312. 15. júlí 1559. á Reykjum.
1. júlí 1562. á Þingvelli.

Tylftardómr, kvaddr af Gísla byskupi Jónssyni, dæmir um hjónabönd og bannar önnur en þau, sem bundin eru að kirkjuskipan konungs „og eftir þeim öllum máta og manneri, sem vor gömul íslenzk lög hljóða".

Bps. Skalh. I, 5, frumrit á skinni. Fyrir bréfinu hafa að vísu verið 22 innsigli. Innsiglaþvengirnir eru ristir úr gamalli latínubók. Af þeim eru nú að eins hin 3 fyrstu fyrir. — AM. Apogr. 2503. — Uppskriftir af þessum dómi eru margvíða í dómabókum, misjafnar að gæðum. — Prentaðr í FJ. Hist. Eccl. Isl. III, 320—4 (á íslenzku og latínu).

Reyckiadomur[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. Senda Oddur Halldorsson. Biorn Olafsson. Einar Olafsson Radzmann. Þordur Jonsson. Gudmundur Þordarson. Simon Jonsson prestar Skalhollz biskupsdæmis. Magnus Jonsson. Annar Magnus Jonsson. Magnus Petursson. Gislle Sueinsson. Olafur Asbiarnarson[2]) og Jon Gislason suarner laug-

1) Utan á frumritinu með 16. aldar hendi. 2) Asbiarnarnarson, frumritið.

riettumenn Q[uediu] G[uds] og sina kunnugt giorandj. at árum epter Guds burd: M: d. l. og ix: laugardaginn næstan fyrir Thorlaks Messo um Sumarit a nedrum Reykium a Skeidum worum vier til skodunar og doms nefnder af Herra Gisla Jonssyni Superintendens Skalholltzstigtis: huersu fara skylldj vm þau marguijsligh hionabaund: sem nu um nockur forlidin ár hefdi giorst og giaurduzt enn j Skalhollts stigte med marghattudum og ymisligum atfellum riett a mothe Guds laugum og godra manna sidsemdum. wissum vier fyrir full sannendj. At j fyrstu hafa sumer tekid sier til hionabands þær kuinnur sem ædur hofdu þeir haft med legordj fram hia sinum eigin kuinnum. J annan mæta hafa sumer giortt suo sitt hionaband at þeir hafa keypt þær ad morne. fastnad þær ad kuelldj. En saumu nott þar epter strax med þeim leigit. J þridia máta uitum uier suo skied hafa: at þeir hafa tijtt og opt gipst sem sic hafa vitad þo j full um saukum. Suo og j saumum meinsemdum. sumer at skylldsemi. sumer ad mægdum vid þær konur sem þeir þa feingit hafa: J fiorda máta witum uier og þratt sinnes skied hafa at þeir hafa komit ur audrum fiordungum og audrum sueitum gipt sig strax. en fundizt epter á eigingipter adur med audrum fleirum marghattudum braugdum raungum og oriettum atfellum. huat eij uerdur suo tiáđ nie talid sem þad skied hefur. At þad sama hionaband sem sialfur Gud settj med worum fyrstum fedginum: Adam og Efu: Genesis j .ij. capitula: Huertt þa j fyrstu var upp byriat og sijdan halldit var af hofutfedrunum og spamaunnum og aullum audrum Gudhræddum allt til Christum. En sialfur Jhesus Christus Guds son þad stadfestandj jn Chana Galilee Johannis j audrum capitula. Jtem Matth[e]i. xix. Ephe. v. og j fyrra brefi til Tessalonisenses og j fiorda capitula: Galatas iiij. til Ebreos. xiij. og vijdar annarstadar bædj j gamla laugmali og nya. Má mann liosliga finna huersu uorer forfedur hafa hionabandit wiliat vanda og vandliga halldit hafa. Jtem þa hardliga straffat sem þui raskat hafa sem siazt mæ a þeirri kuinnv sem leidd uar fyrir Jhesum Johannis j viij. Jtem finnum uier suo skrifat j upphafi uorrar laugbokar at þad uardj micklu fyrir þa sem til arfanna kalla at þeir sieu

ȷ logligum hiuskap getnir. Stendur og suo ȷ sialfum Texta bokarinnar og ȷ upphafe kuenna giptinga. at fader og moder skulu ræda giptingum dætra sinna. edur frændr nǻnustu. Jtem ȷ sama capitula stendr og suo at ef kona edr mær vtañ eckia giptist vtan ræd faudr[1]) sins. brodur edur modr[1]) edur þess giptingarmannss sem fyrir radj hennar ǻ. at sia hafi fyrirgiaurtt arfi sinum epter giptingarmann et cetera. Jtem hliodar enn suo uor gamlle christiñriettur huer ȷ morgum staudum mæ vel[2]) finnazt neẏtur þar hann talar um hiuskaparbandit at menn skuli sier kuonfangs leita med godrj forsia vid þa sem fyrir hennar rǻdj eiga at sia. sidan kaupa. lata lẏsa. og sidan festa et cetera. Og til meire stadfestu og styrkingar hionabandinu: Stendr suo ȷ uors nadugazta herra kongsins Ordinantiu at þeir skulu aunguer giptazt til samans ȷ skẏlldsemj sem er ȷ þridia lid. Eigi helldr þeir sem leẏniliga bindazt til samans ǻn huorutueggia forelldra radz. edr latj eij adr lẏsa opinberliga af Gudz þienara. þa seigir hans heẏgmectugheit þad hionaband eckj myñdugt og ad aunguo halldanda sem audru uijs giorist epter þui sem hliodar uortt gamallt logmal bædi andligt og ueralldligt og uorer forfedur hafa halldit hier ȷ lañdi. Þuj ȷ Guds nafnj amen. at Jhesu Christo til kallanda med þeim himneskum heilugum añda tragtierudum vier ȷ fyrstu og skodudum huort þad hionaband mættj takazt sem adur hefdj ȷ hordomj fundizt eda sa eda su sem horast hefdj ȷ sinu hionabandj þeir med einhleẏpum konum eñ þær med einhleẏpum monnum. leizt oss ȷ aunguan mæta þad epter laugnnum uera. at þeir menn megj eiga þær konur sem þeir hofdu adur fram̄ hia sinum eigiñkonum. Eñ þo suo hefdi skied at kallmann hefdi einu sinne tecid einhleẏpa konu. giortt þar fyrir bot og betran ǻ. tekid bædi lausn og skripter og suo fie golldit. þa hofum uier witad ad þad hefur lidizt. Eñ med huerium riettj þad hefur werit þad uitum wier eckj. Þui setium wier þa grein ȷ logriettu vndir hofudzmannsins urskurd. Laugmannanna og laugriettunnar allrar þar med allra lærdra og leikra. Jtem ȷ annare grein dæmd-

1) Svo. 2) yfir línunni.

um uier med fullu doms atkuædj at aull hionabaund sem audru vijse bindazt helldr eñ suo sem Gudz orda bydur og uors nadugasta Herra Kongsins Ordinantia helldur og epter þeim ollum mœ̃tha og mannere sem uor gaumul laug jslendsk hlioda. og uorer gamler forfedr halldid hafa med aullu onyt og at aunguo halldanda æfinliga hiedan j fra. Jtem þeir menn sem okunnugir ur audrum sueitum kiæmj dæmdum wier med aullu at þeir skylldu ecki giptazt fyrr enn þeir hefdu sanna witnisburde med sier suo menn wissu giorlla huada menn þeir værj. Jtem hueriu þeir væri sekier aller og sierhuerier þeir og þær sem nu uilldu eñ eij at giora. helldr samt suodan oriett hionaband biñda. sem ædur hafa tiæd uerit. kunnum uier ecki um at tragtiera j þessu sinne: helldr uikiande þui af oss og vnder enu yppustu landsens stiornendr.

Samþygti þennan uorn dom med oss fyrr nefndum domsmonnum [herra Pæll Stigsson hirdstiori oc haufudzmann yfier allt Jsland med bædum laugmaunnunum herra Pæli Vigfussyni og herra Egert Hannessyni og suo af allri laugriettunnj.

Og til sanninda hier vm setium vier vor jnnsigli med fyrr greindra herramanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref. Skrifat æ Þingvelli miduikudaginn næsta fyrir visitatio Mariæ vm sumarit. Anno et cetera 1562[1]).

---

1) [„Þad, sem er eptir þetta merki, og alt út til endans, er ritad med aunari hendi og ödru bleki en sjálfr dómrinn. Dómrinn hefur fyrir laungu gerdr verid af þeim tólf mönnum, sem fyrir hann eru skrifadir, og af þeim innsigladr. En herra Gísli hefur sídan látid skrifa copiu af honum, og haft til alþingis, til ad confirmerast þar, og því hefur hann ekki viljad láta skrifa finale dómsins, eins og gert var á Reykjum 1559, heldur látid þad vanta til, og hefur þad svo tilsett verid á Alþingi", — segir Arni Magnússon við Apogr. 2503. En Reykjaniðrlag dómsins 1559 hefir verið svo (Öxnafellsbók, ÍB. 309, 8vo.): [fyr nefndur herra Gijsle og sette sitt jnnsigle med vorum jnnsiglum fyrir þetta doms Bref huortt skrifad var j Skalhollte manudaginn næstañ fyrir Þorlakzmessu vm̃ sumarid[1]) [a] sama are sem fir seigir.

1) þ. e. 17. júlí.

313. 30. júlí 1559. á Mýrastað (þ. e. Desjarmýri). 21. janúar 1560. í Njarðvík.

Þorvarðr Björnsson kaupir að systkinum sínum hluta þeirra í jörðunni Njarðvík.

AM. Apogr. 4675 „Ex originali fra Niardvik i Mula syslu".

Þat giöre ec Magnus prestur Hialmsson. Olafur Þorsteinsson. Jon Olafsson. og Þorsteirn Gudmundzson godum maunnum kunnegt. med þessu uoru opnu brefe þa lidit uar fra hingadburde wors herra Jhesu Christi. m. d. l og niu ár. æ Mýrastad ȷ Borgarfirde. sunnudagen næstan epter Olafs Messo fýrre um sumaret. vorum vær ȷ hia saum og heýrdum á ord og handabaṅd þessara manna. ȷ fýrstu at Þoruardur Biornsson keypte þessa ȷardarpartta ȷ iordunne Niarduik at sinum syskinum skilgetnum til kallz og konu. sem var Jon. Steingrimur og Gudlaug. sem þeim hafdi til erfdarfallit epter sina modur Holmfride Þoruardzdottur. huad reiknudust x$^{c}$. or ȷordunne allra þeirra uegna. til fullrar eignar. og frials forrædis. med þeim aullum gognum og giædum sem greindre ȷordu fýlger og fýlgtt hefur at fornu og nýu. og þau urdu fremst eigandi at med laugum. Hier ȷ mot gaf fýrr nefndur Þoruardur adur greindum sinum syskinum tuær hundrud fyrir huert ȷardarhundrad. ȷ malnýtu og audrum godum og þarfligum peningum halft huort. og ut golldid á þremur arum at forfallalausu. Var þetta giort med radi og samþýcke þeira faudurs. sem þar var þa uid staddur. en fýrr skrifadur siera Magnus uar forsagnaruottur fyrir þeirra kaupe. huad þau lietu sier aull vel lika. Og til sanenda hierum settum uier adur skrifadir menn vor ȷnnsigle fyrir þetta ȷardarkaups bref. huertt skrifad var ȷ Niarduik sunnudagen næstan fýrer Palsmesso vm veturen are sidar eñ fyrr seger.

---

314. 11. ágúst 1559. á Mýrum.

Ólöf Björnsdóttir samþykkir ættleiðingar Sigríðar, systur sinnar, á sonum hennar, Þorleifi og Birni Bjarnasonum.

AM. Apogr. 4666, m. h. Árna Magnússonar „Ex orig. fra Gunnsteinsstodum. Innsiglen eru nu öll i burtu„ (AM.).

ar geingi af. so og skildi sira Sigurdur og Cecilia sier og sinum orfum fyrst kaup aptur a Hafralæk fyrir lausafe svo mikit sem adrer villdu vid gefa nær sem Torfi eda hans arfar villdu eda þýrftu ad selia. Og til sanninda hier um setivm vier fyrskrifader menn vor incigli fyrir þetta bref ed skrifad uar æ sama stad deigi sidar eñ fyrr seigier.

---

**353.** **1. júní 1560. á Helgastaðaþingi.**
**27. mars 1561. í Múla.**

Vitnisburðr um lýsing Brynjólfs Jónssonar á því, að Jón Brynjólfsson hefði aldrei mátt lofa síra Halldóri [Benediktssyni] nokkurum hlut í jörðunni Höskuldsstöðum.

AM. Apogr. 68 „Ex orig. fra Sira Skula Þorlakssyne". „Hönden ä þessu brefe er riett hin sama sem ä eydi Elinar Jőnsdőttur fyrer samrædi vid karlmenn, teknum af Sira Jiluga Gudmundssyne 1561". Innsiglid var fyrir bréfinu.

Svo felldan uitnisburd ber eg Magnus Kolbeinsson at eg var hia staddur æ Helgastada þingi. þa lidit var fra guds burd. ᴍ. ᴅ. lx. laugardagin næstan fyrir huitasvnnu. at Bryniolfur heitin Jonsson lysti þvi at Jon Bryniolfsson hefdi alldri matt med rettu lofa sira Halldore nockrum hlut i iordunne Hauskollstodum. eda pantsetia þvi hvorki hann Bryniolfur og ei moder hans Jons Kristin hefde honum Jone feingit hvorki micit nie litid ȷ nefndre iordu. sagdi nefndur Bryniolfur at sira Jllugi Gudmundsson ætti laugmala ȷ nefndre iordu. Uar hier hia staddur Magnus bondi Jonsson kongs umbodzmadur. Sigurdur Asmundsson og Þorarinn Magnusson og ei midur enn xx menn adrer. Og til sannenda hier um set eg mitt incigli fyrir þetta bref skrifat ȷ Mula ȷ Adalreykiadal fimtudagin næstan epter annunciacio ᴍarie. ær[e] sidar en fyr seiger.

---

**354.** **3. júní 1560. í Reykjahlíð.**

Nikulás Þorsteinsson leggr í vald síra Sigurði Jónssyni lögmála í Stóru-Laugum.

Jbskj. AM. Þing. 16. Staðfest uppskrift að Stóru-Laugum 6. júní 1704 af Jóni Sigurðssyni og Sigurði Bjarnasyni.

Þad Giøre Eg Nikulas Þorsteinsson Gödum monnum kunnugt. med þessu mijnu opnu Brefe. ad Eg medkiennest ad Eg hefi giefid ȷ valld Sira Sigurdar Jonssonar þann laugmăla sem Eg ătte j jordina Störulauga j Reikiadal. Er ligg-ur j Einarstadakirkiusőkn. med jăirde Og samþicke Sigrijd-ar Einarsdotter. kuinnu minnar vndañ ockur og ockar Erf-ing[i]um. Eñ vnder firrskrifadañ Sira Sigurd og hañz Erf-ing[i]a. Og Til sannenda hier vm̃ set Eg mitt ȷnnsigle firer þetta sama Bref Er skrifad var ȷ Reikiahlijd vid Mijvatn Manudaginn næstañ Epter huitasunnu Anno Domini ꝏ. D. lx.

Þetta brief med einu hangande jnsigle.

---

## 355. 5. júní 1560. á Grenjaðarstöðum.

Samþykki Nikulásar Þorsteinssonar á sölu Stóru-Lauga.

Jbskj. AM. Þing. 16. Staðfest uppskrift að Stóru-Laugum 6. júní 1704 af Jóni Sigurðssyni og Sigurði Bjarnasyni.

Þeim Gődum monnum sem þetta Bref sia Edur heira senda Gottskalk Magnusson Einar Tumason. Vijgfus Þor-steinsson Biarne Þorsteinsson kuediu gudz og vora. kunn-ugt giorandi ad ärum Epter Gudz Burd. ꝏ. D. Lx. a laug-ardaginn næstañ firer huitasunnudag[1]) a Backañum firer nedañ Andorstade. vorum vier ȷ hiă. săum og heirdum a ord og handsol. Nikulăsar Bonda Þorsteinssonar. af eirnre alfu. Eñ siera Sigurdar Jőnssonar af annari. ad so firer-skildu. j fyrstu samþichti Nikulăs Bönde þad kaup sem sira Sigurdur sagdist hafa keipt Stőrulauga j Reikiadal ad Torfa Brődur hans. og Torfi þar þä medkiendist. og lofade adur-nefndur Nikulăs Bőnde. ad Tala þar Eij vpp ă sinna vegna nie sinnar kuinnu vegna. þő honum Eda henni hefde þar ădur nockur lofun verid a giord. ad su jord skillde þeim seliast. og suo j sama handabandi lofade nefndur Nikulăs Bönde greindum Sira Sigurde. ad giallda honum Lx$^{c}$ j jord-um. Ef adurgreind jord Stőrulaugar j Reikiadal geingi af

1) 1. júni.

Sira Sigurde Jonssine. Eda hans orfum̄. og Til sannenda hier vm̄ setium̄ wier firrskrifader menn vor jnnsigle firer þetta Bref. huort Ed giort var a Greniadarstad j Adalreikiadal iiij nőttum sijdar Eñ firr seigest.

Þetta brief med tveimur hangande jnnziglum öschertum.

---

356. 10. júní 1560 á Þingeyrum.

Transskript síra Bjarna Arasonar og þriggja leikmanna af lausnarbréfi Stefáns byskups fyrir Jón Sigmundsson 1516.

Prentað i Dipl. Isl. VIII. bls. 594 (sjá þar).

---

357. 14. júní 1560. á Heggstöðum.

Dómr um misþyrming Gísla Árnasonar af hendi Eyjólfs Jónssonar og Margrétar, konu hans (ágrip).

AM. Apogr. 4687 m. h. Árna Magnússonar „Ex apographo vetusto". — AM. 213, 8vo. (Chorographica).

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Einar Eiriksson. svarinn logriettumann. Gudmundur Erlendzson. Sturle Jonsson. Þorvalldur Styrsson. Jon Jonsson. Þormodur Asmundzson. kvediu guds og vora. kunnigt giorandi. ad arum epter gudz burd 1560. fôstudaginn næstan epter Dyradag a Heggstodum i Andakyl a þingstad rieltum. vorum vier i dom nefnder af Þordi Gudmundzsyne er þar þingadi þā i umbodi Orms bonda Jonssonar. kongs umbodsmanns i Skegghatti[1]) til ad skoda og ransaka og fullnadardom a ad leggia um þa agreining er var ā millum þeirra Gisla Arnasonar og Eyolfs Jonssonar.

[um misþirming vid Gisla af hendi Eyolfs og Margretar konu hans[2]).

---

1) „J Heggstadaholltum er klettur, sem nu kallast *Hattur*, og ætla menn þar af dreged þetta *Skegghattz* nafn". (Árni Magnússon).
2) [Árni hefir ekki skrifað dóminn lengra, en sett að eins þetta efniságrip af framhaldi hans.

358. 27. júní 1560. við Brunna.

STEINN Jónsson synjar fyrir að hafa verið kvaddr til vitnis um samning þeirra Ara lögmanns Jónssonar og Þorleifs Grímssonar um heimanfylgju Halldóru, dóttur Þorleifs og konu Ara.

AM. Apogr. 4678, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Stadarhol".

Svo felldañ vitnisburd ber eg Steinn Jonsson. ad sakier þess ad Pall Jonsson hefur mig ad spurdt og krafid. sannleikan um̃ ad bera. og medkiennast eg hefde verid til qvaddur ad bera vitni ǎ kaupdeigi um giorning og kaupmala millum Ara heitins Jonssonar og Þorleifs Grijmssonar. huor verid hefdi þa Þorleifur Grijmson (epter ordum laganna) skilde heimanfylgiu og tilgiof fyrir hönd dottur sinnar Halldoru. þeirrar er hann gipte Ara Jonssyne. Eñ fyrir þa grein ad einum og sierhvörium friǎlsum og fulltijda manne er skylldt sannleikan ad seigia og einkum̃ þar hann er ad logum til krafdur. þvi seige eg greindur Steinn Jonsson. ad eg hefe alldrei þad kaupmǎlabrief er greindur Þorleifur Grijmsson skal up[p]ǎ mig og fleire adra [skrifad hafa[1]) fyrrsagdara[2]) mann[a] ǎ mille Ara Jonssonar og Halldoru Þorleifsdottur hvorki sied nie heyrt[3]). J annare grein hefe [eg] þad brief alldrei jnsiglad nie leyft ad jnsigla. J þridiu grein. þa minnest eg huorki nie veit neitt um kaupmǎla edur skilyrdi ǎ fyrrskrifudum giorningi j millum Þorleifs og Ara. var eg þar alldrei vid staddur nie til kalladur neitt vitne um̃ ad bera. Og til sanninda hier um set eg mitt jnsigli nedañ fyrir þetta mitt opid vitnisburdarbref. hvort giört og skrifad var fyrir sunnan Kalldadal. þar sem kallaz vid Brunna. ǎ fimtudagzkvolldit næsta epter Johannes Baptista dag. þa er lidit var fra Gudz burdi M. D. Lx. ǎr. þessum dande monnum nærverande. Magnuse Jonsyni. Þordi Jonssyne. Olafi Jonssyne. Runolfi Asmundzsyne og Helga Jonssyne et cetera.

---

1) [b. v.; vantar í Apogr. 2) Svo. 3) Sbr. bréf frá 6. nóv, 1530. Dipl. Isl. IX. nr 454.

359. 29. júní 1560. á Öxarárþingi.

Kæra Páls Jónssonar til Orms Sturlusonar, um hald á Möðruvöllum og á kúgildum.

AM. Apogr. 4679, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Stadarhol".

Fyrer þeim heidurligu og velburdugu. vijsu og forsialu Pale Stijgssyne kongsins hirdstiora og haufudzmanne yfer ǫllu Jslande og Egiert Hanessyne lǫgmanne nordan̄ og vestan á Jslandi. somuleidis logriettumonnum skilarijkum[1]) þeim svarner eru. klagar og kiærer eg Pall Jonsson til Orms bonda Stullasonar.

J fyrstu grein. ad hann hefur halldit fyrir mier jordunne Modruvollum j Eyiafijrdi med ij kirkiunnar jordum er heita Gudrunarstader og Biork. hvoria jord Modruvelle er Þorleifur Grijmsson gaf alla Halldoru heitinne dottur sinni (þeirrar sál Gud gledie) med handsolum á kaupdeige i heimanfilgiu skilarijkum[1]) vottum og svarnum[1]) logriettumonnum til kvoddum nærverandis. hvor jórd Modruveller til erfda er fallen̄ konu minne Helgu og Þoru Aradottur efter Halldoru Þorleifsdottur frafallna skilgietna modur þeirra. hefur Ormur bondi Stullason halldit þessari jordu adurnefndri med tveimur ámálgudum kirkiunnar jordum um̄ eitt ár og enn helldur hann án mijns leyfis og vilia.

J annare grein klaga eg þad til Orms Stullasonar og Þorbiargar Þorleifsdottur konu hans at þau hafa mier ei greidt nie aftur golldit þa jnstædu. lausafie. landskyllder og abata er Þorleifur heitin Grimsson hafdi jnn tekid. og eij aftur skilad á medan̄ hann hiellt fyrgreindra systra um̄bod.

J þridiu grein klaga eg þad til Orms Stullasonar og Þorbiargar Þorleifsdottur. ad Þorleifur Grijmsson hiellt fyrir mier pantajordunne Audbrecku x tiger hundrada med .iij^c. i daudum peningum .xxiiij^c. i frijdum peningum og .xxx. malnytu kugilldum. Hőle heimland fra Audbrecku med .v. kugilldum. Fornhaga .xl^c. med .v. kugilldum og xxvi kugilldum er golldist hofdu af Audbrecku og þeim tveimur jordum i þau .v. ár er Þorleifur hafde um̄bod Helgu og Þoro. Enn xix jnstædu kugilldum og xlv landskylldar kugilldum er epter stodu fra Einarstodum og þeim jordum. og

1) Svo.

.x. jnstædu kugilldum fra Eyrarlandi. og. xv. landskylldar kugilldum er þar af jordum hafdi jnn tekest og epterstodu.

Þessum fyrrskrifudum peningum og kugilldum jc.xxxv. ad tolu hiellt Þorleifur Grimsson ad sier lifanda j .iij. ár á moti einum hieradzdome og einum alþingisdome án mijns leyfis og vilia en nu sijdan under hanz erfingium standa tiutiger og .xv. kugilldi med leigna leigum og laga avexti med ollum og fridum peningum og ábata j fullu frelse. og stadid hafa um tvo ar efter þui sem reikningsbok Ara heitins med hans hende sialfs skrifud noglega utvijsar. Og þvi beidezt eg og kref hier nu i dag j almenniligre logriettu doms og laga á fyrgreindum klogunum af adurgreindum hijrdstora Påle Stigssyne og Eggiert Hannessyne logmanne og lögriettumonnum epter þui eg má audmiukligast. frekligast og logiligast[1]). en þeir vilia andsvara fyrir Gudi og godum monnum epter riettum texta jslendskra laga. Hier til sie Gud j upphafi mitt vitne. og aller goder menn þeir ord mijn heyrá. sierdeilis nefne eg hier vitnismanna. En eg skil mier þessa mijna kløgun ad auka. mijnka. umbæta og leidrietta. epter sem mier ber og bezt hentar ad logum.

Og til sanninda hier um um set ec Pall Jonsson mitt jnsigli nedan fyrir þetta mitt klogunarbref hvert skrifad var ó Oxarárþingi á Pieturs messu og Påls. hvor ed var hinn þridia vetur i olld á ődru áre rijkis og stiornanar þess hogborna og stormegtigazta hofdingia og herra. herra Fridreks Kristianssonar kongs til Danmerkur og Noregis vors nadugasta herra. En arum eptir Jesu Christi vors frelsara fæding M. D. Lx. ára.

---

**360. [1560]. á alþingi.**

Svör Eggerts lögmanns Hannessonar við sakargiftum Árna Gíslasonar (sbr. nr. 328–9 í þessu bindi).

Steph. 27, 4to., bls. 543–6, Svartskinna, m. h. Benedikts lögmanns Þorsteinssonar ca. 1720. — Lbs. 787, 4to., bls. 144–8, m. h. Odds digra ca. 1680–90: „Þetta er skrifad effter Eigen handskrifft Eggerts". — Sbr. Sýslumannaæfir II. bls. 35–7.

1) Svo.

Andsvar Eggertz Hannessonar mőte sakargifftum̃ Arna Gijslasonar.

Svofelldt andsvar og Appelleran gief og giore eg Eggert Hannesson uppa þær saker svo margar sem eg kann þær ad minnast er Arne Gijslason lagde mier til j firra a þïnge sem her effter fylger.

Jn Primis fyrer þad skip sem Arne sagde fader miun hefdj haft burt ur Vatnsfijrde. þæ gief eg þad svar þar uppa. ad þad sama skip fieck honum og afgrejdde til eignar Biőrn Gudnason hver þæ hiellt og hafde konglega heimild fyrir grejndum Garde Vatnsfijrde og greindur Biőrn kallade þann enn sama Gard sina eign vera enn kyrkian j Vatnsfijrde atte þetta sama skip. og þar fyrir þottest Biorn vel meiga af þui giora hvad hann villde. enn Sira Jon Eijreksson med styrk Biskups Stephans greip og tok greindañ Gard undañ laga hallde og konglegre heimilld Biarnar Gudnasonar. bravt og ravf þrattnefndur Sira Jon svo med vallde og ofbellde kongsens bref a Bijrne og ravf ǻ honum ij tilftardőma. J annare grein þæ gaf Biskup Stephan kvittan j þeirre sattargiord um̃ allt huad hann hafde ad sier teked kyrkiunnar vegna.

Su onnur sők ad Arne lagde mier til ad Sira Jon Eijreksson hefde teinged mier skip fyrir kugun og hrædslu. þar gef eg soddañ svar uppa ad Sira Jon Eijreksson fieck mier þad skip med sinn godan vilia morgum godum monnum nærverande effter þvi sem ockar giordningsbref til vijsar og liet sialfur sina eigeñ menn hafa þetta skip um̃ vored ut til Bolungarvijkur oc hans hejmamenn afgreiddu mier þad þar effter hans skipan. enn hann þæ af mier j stadenn til lieniss um̃ sina daga ij jarder þær eg til kalladj og eg helld enn nu mina eign vera og alldrej hefur þæ nockur madur vitanlegañ giordning vid mig giort ef Sira Jon Eijreksson var eckj vilianlegur til þessa giornings vid mig. allt þad eg kunne ad merkia bæde ad sijn og hejrn. ordum̃ og handabande enn hans hugskot var mier ovitanlegt. Enn eg greindur Eggert Hannesson gef Arna Gijslasyne her æ fullar saker og allar effter þvi sem eg mæ þad framast ad log-

um̃ giora ad hann bar mic þessare sok ad eg hafe kugad fe ut af monnum̃.

Su er þridia sok er Arne Gijslason lagde mier til ad eg hefde hallded lande af Furufijrde og Rejkiafijrde uppa mörg ar. Þar gef eg soddan̄ svar uppa ad eg kennest ad eg medtok nockra peninga i afla og busgagne af þeim monnum sem æ firrgrejndum jordum̃ biuggu þæ. enn eckj voru þeir helldur greidder j landskulder. enn adrar þeirra skullder og sekter er þeir voru mier skillduger kongdomsens vegna. utan̄ allt ætte med þessum̃ peningum so upp ad jafnast bædj um̃ jardar æbijled og adrar þeirra skullder og sekter. enn vijst var þad og er enn so ad eg kallade og enn kalla uppa þessar jarder og sem adrar flejre þær eg hefe fyrir bref og skilrijke. Enn þar ed Arne Gijslason giefur mier þæ sok j sijnum sakargifftum̃ ad eg hafe omakad þæ peninga sem Sira Jőn Eijreksson hefur haft ad hallda. þæ gef eg þar soddan svar uppa ad eg hefe þottst klaga mitt enn eckj hans allt þad sem þeim aurgata[1]) er sem Biorn Þorleifsson hefur honum sellt er eckj atte hann. ef eg og miner samborner skulu Jslendskra laga niotande verda. og bid eg ydur um̃ Arne Bonde ad giefa mier þad til þo ad eg kunne eckj par þar um̃ ad ijdrast þo ad þad sie af mic[1]) ad verda fyrer höfdingia Rejde[2]).

Su en fiorda sok er Arne Gijslason klagade til min ad jeg hiellde ij kongsens kugilldum̃. þar seige eg neij fyrir. þad er mier ovitanlegt ad nockur kugillde vantade uppa kongsens um̃bod þæ eg þad af hondum̃ liet so ad eckj fyrer stæde annadhvert ungt edur gamallt effter þvi sem eg medtok þad enn þav ij kugillde sem Arne skrifade mier til um̃ til Þingeijra um̃ veturenn med Þorarinum[1]) Gijslasyne ad vanta skyllde j Mosdal. þæ hafdi eg þav afgrejtt hans um̃bodzmanne Helgu Jonsdőttur. Enn kunne Arne ad bevijsa med vitnum og svördum bokareijdum ad nochurt kugillde hafe annarsstadar i þetta um̃bod vantad þa hefur hann alldrei þar til lagt nie brigdur æ bored fyrir mier. enn ef so reinest þæ vil eg þeim þar til svara sem eg hafde þetta

1) avegata, Steph. 2) Hér stendr út undan: Iron, og hefir verið skorið blaðið, upphaflega vist staðið „Ironice" eða eitthvað því líkt.

um̄bod af. þvi hver æ vid sinn sala og heimilldarmann. enn Arne var alldrej hverke minu kavpe nie sale ad þessu nie nejnu ðdru umbode vid mig. og ef odruvijs reinest enn hann hefur fram̄bored her um̄ þæ giefur[1]) eg honum þar fulla sðk uppa ad hann hefur svo rægt mic fyrir vallde.

Su en fimta sðk er Arne hefur mier giefed ad eg hiellde ij kugilldum sem Sira Jon Eıjreksson hefde att. Svara eg so þar til ad eg vejt mig alldrei hafa haft fyrir Sira Jőne Eıjrekssyne svo miced sem xx alna virde enn þav ij kugillde sem eg medtok æ Jokle j Adalvijk þar hefur eg kavp fyrir. enn eg vona ad Arne giore grein fyrir ordum sinum̄.

Su en siotta sok er Arne gaf mier ad eg hefde broted kong Christians bref og kong Hans bref. og annad kong Christians bref. þæ kann eg þar eckj firr svar uppa ad gefa. enn eg veit hveriu male þav til hlijda og eg mæ sialfur þad siæ og yferlesa. hvad þessara volldugra og wirdulegu Herra og konga bref utvijsa og innehallda. þvi morg kongabref eru alls til j lande voru og eg vil þeim giarnañ hlijda og hliod giefa þæ eg þav hejre og sie.

Su siðunda sok er Arne Gijslason gaf mier ad eg hefde rofed dom Finnboga Jonssonar og Fusa Ellendssonar. her med bref Þorleifs Pælssonar og Orms Stullasonar (straffa eg þessara dandemanna doma og bref j avngvañ mæta) eru mier þesser domar og bref j allañ mata okunnuger og eige veit eg hveriu mæle þav til hlyda firr enn hejre þav uppleseñ hvad þav innehallda. etc.

Enn hafe eg nockrum̄ af hans sakargifftum glejmt þæ mæ Arne effter þeim leita ef hann vill svo.

---

## 361. 1. júlí 1560. á Öxarárþingi.

Vitnisburðir um sátt Eggerts lögmanns Hannessonar og Árna Gíslasonar.

### a. Sigurðar Þormóðssonar.

AM. Fasc. LXXII, 14a, frumrit á skinni, læst með innsiglinu saman við bréf Þórarins Gíslasonar, sem hér fer næst á eftir. — Prentað í Sýslumannaæfum II. bls. 40—42.

---

1) Svo.

Þad giore eg Sigurdur Þormodzson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad arum epter Gudz burd. m. d. lx. manudaginn næstañ epter Peturs messo og Pals ꝺ́ꜳ [almenneligu Auxararþingi uar eg ȷ hia sa eg og heyrdi ꝺ́ꜳ þann sama og sattmala er giordur uar ȷ milli þeirra Eggiertz laugmanz og Arna Gíjslasonar fyrir bon. tillaugur og medalgaungu þessara herramanna. ȷ fyrstu Pals Stíjgssonar mins herra kongsins bifalnin[g]smans yfer allt Jsland. Pals Vigfussonar laugmans sunnañ og austañ æ Jslandi. herra Olafs Hialltasonar biskups æ Holum. herra Gijsla Jonssonar biskups ȷ Skalhollti suo og fyrir fleire godra manna tillaugur er þar uoru þa saman komner. kom suo þeirra samtali ad þeir beiddu greindañ Arna Gíjslason ad hallda þann sama sem þessir fyr greinder herramenn uilldu semia þeirra[1]) ȷ millum advr nefn[d]s Eggier[t]z laugmans og Arna Gíjslasonar[1]). Gaf Arne þad suar ad hann uilldi þad giora fyrir þeirra bőn ȷ suoddan mata ad hann feingi sæmd upp æ þeirra ægreiningar sem þeim hafdi ꝺ́ꜳ mille borid Eggiert laugmanni og honum eñ annars þyrftu þeir þar ecki um ad tala utan med laugmali þeirra ꝺ́ꜳ mille. giordu þessir greinder herramenn þa þann sama milli optnefndra manna Eggiertz laugmans og Arna ad Eg[g]iert skylldi giallda Arna Gijslasyne .xl^c. ȷ godum peningum. geingu þessir fyr greinder[2]) iiij herramenn til handsala uid Arna Gijslason og lofudu ad giallda honum fyr greind[3]) xl^c ȷ godum peningum þeim Arna Gíjslasyni likadi ad taka. síjn x^c huer þeirra og skylldi þad allt golldid [hid seinasta[4]) ad[1]) næstum epter komandi fardogum. sagdist Arne ecki uilia refiazt epter þessum peningum helldur sagdist hann uilia þa greidugliga utgolldna fꝺ́ꜳ þui hann sagdist ecki uera mann til sier huern þeirra til laga ad sækia hier um. Eñ þeir gafu þad suar ad hann skylldi þess ecki med þurfa og þui þeir hefdu honum lofad hier um þad skylldu þeir honum greidugliga ut giallda ed seinast[5]) ad næstum fardogum. Suo og skildi greindur Arne þad til uid Eggiert laugmann ad hann skylldi alldreigi omak ꝺ́ꜳ giora nie upp æ klaga þa peninga er sira Ion

1) sl. *b.* 2) nefnder *b.* 3) nefnd *b.* 4) [b. v. *b.* 5) Svo *b*, seinastazt, *a*.

heitinn Eireiksson hafdi keӱpt af Biarnar Þorleifssonar peningum og ad þessu ollu[1]) hölldnu og fyrgreindum peningvm golldnvm þa gaf Arne Gijslason optnefndum Eggiert Hannesson[1]) laugmann aulldungiss kuittan̄ og ækiærulausan fyrer sier og sijnum epterkomendum um allt þad hann hafdi[2]) matt med laugum til hans tala og Arna til heyrdi kuitt ad giefa og hann mætti med laugum kuitt giefa nema ef suo uæri ad ef[3]) Arna brygdist opt nefnd[t] peninga gialld af fyrr skrifudum herramonnum þa sagdist Arne ȷ aunguan̄ mata þessa sijna fyr skrifada kuittan̄ og lofan hallda helldur sagdi hann hana þa lausa og rotna af sier ȷ allan̄ mata. svo og gaf Eggiert laugman Arna Gijslason aulldungiss kuittan og akiærulausan fyrir sier og aullum sijnum erfingium og epterkomendum um allt þad[4]) huad hellst hann mætti med laugum til hans tala. hier med skylldu þeir alsattum satter epter þui sem fyr skrifad stendur. Og til sannında hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta bref er skrifad uar j sama stad deigi og are sem fyr seiger.

### b. Þórarins Gíslasonar.

AM. Fasc. LXXII, 14b, frumrit á skinni (með svipaðri hendi sem Árna Gíslasonar) með heilu innsigli. Bréfið er læst með innsigli Sigurðar Þormóðssonar saman við bréf hans (LXXII, 14a).

Sættargiord æ millum Eggerttz Hanessonar og Arna Gislasonar.
Jhesus.

Þath giore eg Þorarinn Gislason godum monnum kunnigt med þessu míјnu opnu brefi ath ærum Efter gudz burd. m d l x manudaginn næstan̄ efter Pieturs messu og Pæls æ almenniligu Auxarærþinge war eg ȷ hiæ sæ eg og heyrdi æ þann sama og sættmæla er giördr war ȷ millum þeirra Eggerts lavgmans og AArna Gislasonar o. s frv.[5])

---

1) b. v. *b*. 2) hefdi *b*. 3) Svo *ab*; ofaukið 4) sl. *b*. 5) alveg samhljóða bréfi Sigurðar Þormóðssonar (Lxxn, 14a) með marklitlum orðamun, sem þar er tilfærðr.

362. [eftir alþingi 1560].

Svar byskupa til konungs við beiðni hans um tillögur þeirra til fyrirmæla um refsingar við blóðskömmum og lauslæti, og leggja þeir til, að hálærðustu menn kongsins séu látnir semja slík fyrirmæli.

Lbs. 72, 4to., bls. 168—9 m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal. — Prentað á íslenzku í Safni til sögu Íslands II, 368—70, á latínu í FJ. Hist. eccl. Isl. III. bls. 303—4, og kafli úr á dönsku í MKet. II. bls. 8—9. Þetta skjal, sem nú finnst að eins í riti Guðbrands byskups um stóradóm, er í bréfaskránni í Kirkjusögu Finns byskups (IV, 395) árfært til 1562. Það er þó sýnilega rangt, og er skjal þetta frá 1560. Sbr. kgsbr. til prófessora 15. jan. 1561 og svar prófessora 2. febr. 1561.

Audsvar byskupanna uppa þetta Bref[1]).

Worum allra kiærasta. nádugasta hábornum[2]) fursta og nádugum konge. konung Frederich ødrum med þvi nafne ÿfer Norege og Danmorck [et cetera[3]) heijlsum ÿdur ÿdrir fá-tæker undersátar[4]) Superintendentar i Jslande kiærlega og audmiuklega med gude og hans Elskulega sÿne Jesu Christo. audmiukliga þackande ÿdar hōjmegtugheitz[5]) nád fyrir allt þad traust og hugsvalelse. sem vid hōfum feingid med ÿdar nadar hōjmegtugheitz[6]) skrifelse [med ÿdar Befalningzmanne Pále Stijgssÿne[3]).

So giefum vier ÿdar nadar hōjmegtugheit[5]) audmiuklega[7]) til kÿnna[8]). ad vier feingum ydar nadar skrifelse á alþinge med ÿdar hōymegtugheitz[6]) Befalningzmanne Pále Stijgssÿne. J hvōriu skrifelse[9]) ad ÿdar nád bifaladi ockur. ad ÿfervega og skoda hvōrnin fara skylldi um [þaug storu[10]) oskickan-ligheit. og marga stóra óheyriliga giōrdninga. sem i voru fátæka landi skie[11]) og skied hefur. þa hōfum vid allra kiær-aste nádugaste herra effter vorri[12]) fátækri formegan skodad og yferlesid vor gōmul landzlōg hvad ockur virdist effter riettum gudz lōgum hiñs gamla og nÿa testamentis miōg samhlióda.

1) þ. e. kgsbr. „um blóðskammir“ frá 29. mars 1560. 2) heyg-borna, Safn. 3) [sl. Safn. 4) -dánar, Safn. 5) [heyg-, Safn. 6) hōg-, Safn. 7) b. v. Safn. 8) kenna, Safn. 9) sl. Safn. 10) [þann stóra Safn. 11) sker, Safn. 12) okkar, Safn.

Stendur i fyrstu so skrifad i vorri Landzlaga Bők. ad alla þa vandrædamenn sem komast ắ kýrkiunnar nắder. skule sektalaust flýtia til Noregs og koma þeim þar i kyrkiu. effter rắde Lôgmannz utan þa sem kyrkia ắ ecke ad hallda efſter lôgum.

Jtem stendur i gômlu[1]) kyrkiu lôgum sem hier hafa halldist i landinu. ad ef madur liggur modur sijna. dottur. stiupdottur. þa eru þaug bædi fridlaus þar til þaug taka [lausn af Býskupe og skrifft[2]). sem hann leggur ắ þaug. og bædi hafa þaug fýrergiort hvôrium peninge fiắrs[3]) sijns vid kong og Býskup.

Jtem. vor allra kiæraste[4]) nắdugaste herra. finnum vid ecke i ockar[5]) landzlôgum fram̄ leingra i ættinne. þa sem ecke meiga til nắdar og fridar takast en̄ þessa fyrrnefnda.

Enn þar fýrer. vor allra kiæraste nắdugaste herra. ad vid hôfum heýrt ýdar nadar[4]) Bref lesid fyrir ockur med ýdar hoýmegtugheitz[6]) jnnsigle so hliőđande. ad vid skulum halldast vid jslendsk lôg og riett. þvi setium vier þetta inn til ýdar hôymegtugheitz[6]) nắdar og millde og vilium ockur þar effter leidrietta. sem ýdar hôymegtugheit[6]) ockur tilseiger. En̄ fýrir þa sôk ad ýdar hôýmegtugheit[6]) begeradi. ad vid skýlldum setia endiligt svar uppa þeirra strôffun. begerum vier nắdar af ýdur þar um saker ockar fắfrædis bidiande ydar hôymegtugheit[6]) fýrir gudz skulld[7]) ad ydar kongl. Majst. vilie lắta ydar nắdar vijsustu og hắlærdustu andlega og veralldlega yfer soddan hắfum Articulis tractera og endilegan̄ urskurd ắ giôra. og vilium vid sijdan þar effter leidrietta ockur. nær þad kiemur inn i landid et cetera.

---

## 363. 3. júlí 1560. í Óðinsvé.

Konungr skipar Hans Nielsen forstöðumann brennisteinsverzlunar konungs norðan lands um 10 ár.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a L. 7, 526—7 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

1) gômlum, Safn. 2) [skript og lausn af biskupi, Safn. 3) Svo 72. 4) b. v. Safn. 5) okkrum, Safn. 6) hôg-, Safn. 7) skyld, Safn.

Hans Nielssen. borgerre wdj Kiöbnnehaffnn. fick breff som her epther fölger etc.

Vij Frederich etc. giöre alle wittherligtt. att efftherthij her finndis stor bröst for suoffuell thiill wortt oc rigenns behoff. acthe wij her effther selff att lade driffue thennd handell mett suoffuell som falder for nordenn paa wortt land Islannd. som fremmede her thill brugett haffuer. oc ther fore haffuer beffallitt thenne breffuissere Hans Nielssen. borgerre wdj wor kiöbstedtt Kiöbnnehaffnn. samme handell paa wore wegnne att skulle anthage oc vdj x sambfelde aar nest effther thette wortt obne breffs datum regnenndis att skulle bruge oc mett wortt skib oc wore ware löbe for nordenn paa forschretfne wortt lannd Islannd oc ther driffue thend suoffuell hanndell oc all andenn handell. ther falder oss thill beste. som stedernne ther nu driffuer. oc hues suoffuell hand ther bekommer. skall hand före thill Kiöbnnehaffnn oc ther lade thennd luthre paa wor omkostninng oc ther vdjnndenn thienne oss troligenn. erligenn oc well oc i alle maade wiide oc ramme wortt gaffnn oc beste oc att före tiill gott clartt regennskaff alle the ware. hannd paa forschreffne wortt lannd Islannd köbinndis oc forhanndlindis worder. Oc for saadanne forschreffne Hans Niellsssenns tro thienniste skall hand mue haffue thennd fempte pennding aff ald thend frij fordeell. ther komme kannd aff all forschreffne handell. hand kand driffue nordenn paa forschreffne wortt lannd Islannd. effther som stedernne her thill brugett haffuer. oc skall hand aarlighenn mue haffue fem lester thönne gotz föring paa wortt skib thill forschreffne wortt lannd Islannd oc tilbage igenn frij vthenn fractt thill hanns huss holdung. som hand mett hans egnne ware kiöbe skall oc ther foere inngenn regennskab giörre. Oc nar forschreffne thij aar erre forlöbnne. wille wij ydermere lade handle mett forschreffne Hans Niellssen om samme handell. hues ther om holdis skall.

Datum Ottonie 3 dag Julij aar 1560.

Regia maiestas manu propria subscripsit.

364. 5. júlí 1560. í Óðinsvé.

Konungr býður Magnúsi Gyldenstierne að fá Magnúsi hertoga, bróður sínum, matvæli ýmiss konar, þar í þrjár lestir af íslenzkum fiski.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 6, 291 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 497, Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Her Magnus Gyldenstiern fick breff. som effther følger.
Frederich then anden etc.

Wor synderlig gunst tiillforn. Wiider. att wij haffue vndt oc giffuit hoguerdige hogborne første. wor kiere broder hertug Magnus. biscop til Øzel oc Churland etc. xx lester malt iiij^c sider fiesk. thij bede wij etther oc wille. attj antuorder hogmelte wor kiere broders bud forschreffne malt oc flesk. nar hand etther mett thette wort breff besøgendis worder. Sammeledis som etther fortencker. att wij tilforn haffuer giffuit hogmelte wor kiere broder vj lester sild. iij lester Islandzs fisk oc nogen harnisk oc j wor schriffuelsse ther om fangit haffuer. huilcke sild. fisk oc harnisch vij forfare hans kierlighet icke end nu fangit haffuer. tha bede wij etther oc wille. attj vdj lige maade antuorder forschreffne hans kierlighedzs bud forschreffne vj lester sild. iij lester Islandz fisk oc forschreffne harnisch. effthersom wor første schriffuelsse ther om videre formelder. Ther mett etc.

Datum Otthensse then v Julij aar etc. mdlx.

---

365. 14. júlí 1560. á Bessastöðum.

Sendibréf Páls hirðstjóra Stigssonar til konungs, að mestu um brennistein á Íslandi, en einnig nokkur önnur efni, er Ísland varða, svo sem flutning lögréttu.

Ríkisskjalasafn Dana, „Island, Færö og Grönl.“, Supplem. II, 28. — Utan á er þetta skrifað: „Breffue aff Jslannd. fran Pouell Stiisen oc Superintendenterne. som schal giffuis swar paa.“ — „Productum Haldsted closter thend xix Augustj 1560.“ — „Nota. Superintendenternis breff bleff forschickitt till the hoglerde vdj Kiøpnehaffuenn“.

Stormegtiige herre och högborne förste. her Frederich then
anden. Danmarkis. Norgis. Wendis och Gottis konningh.
hertzugh wtj Slesuigh. Holstenn. Stormaren. och
Dytmersken. greffue wtj Oldenborgh och
Delmanhorst[1]): mijn aller naadigste
herre och konningh[2]).

Alder naadigste herre och konningh gudt aldmegteste[1]) beuare ether kong. Matt. med languarigt och lycksaligt spir. Wiill ether naadis kong. Matt. werdis till at wiide huorledis ether Kong. Matt. schib hanem war well till Jslandt kommet wtj en god haffuen ther som ether Kong. Matt. schib pleier at ligge och ther annammer huess miigh befalet war paa ether Kong. Matt. wegne at leffuere wtj same schib. baade fisk. wadmell. peñingh och handskriffther som ieg haffuer soldt el[h]er Kong. Matt. fisk. wadmell och andet for ssom mit regenskab skall wduise.

Jtem aller naadigste herre och konuingh will ethers Kong. Matt. naadeligen werdis till at wide huorledis ieg haffuer her for syndenn paa ethers Kong. Matt. landt Jslandt ladett söge och leett och selffuer med werit epther suogell[1]) bierge. aller naadigste herre och konningh. saa haffuer wi her inthedt kundt[1]) fundet at noget wert war at giöre nogen omkost for och skullde iegh haffue sendt aff ssame suogell ssom wi funde till ethers Kong. Matt. Menn jngenn kunde ther till komme och graffue for frost och sne epther ssame suogell. Fordj aller naadigste herre och konningh at her haffuer werit saa saare haardt en winther wtj landet at hun haffuer icke werit större her wtj hundritt aar. och ther som saa skede (thed gudt naadeligen affuende) at her komme mange sliige winther tha ware thette landt forderffuit wtj grundt som iegh ethers Kong. Matt. Rentemester ydermere om skreffuit haffuer. och ieg icke thorde ethers Kong. Matt. ther med bemöde. Endt aller naadigste herre och konningh. der ssom ether Kong. Matt. willde lade söge suogell her wtj landett. tha er thed best for nordenn her paa landet. och daa maa Ethers Kong. Matt. lade thed bruge

1) Svo. 2) Þetta er utanáskrift bréfsins.

som kiøbmendene thed brugher och haffue ther enn eller ij med aff thennom ssom før haffue segelt hidt epther suogell som wed och kand handle bode med bønderne och med suogeledt. och skulle ssame kiøbmendt med siigh haffue sliige ware och kiøbmandtzskaff som pleier at foris hidt till landet. ssom ieg haffuer ethers Kong. Matt. Renthemester ochsaa om schreffuit.

Jtem aller naadigste herre och konningh will ether Kong. Matt. och naadeligen werdis till at wide at her er god samdregtighedt och lydachtighedt wtj thette ethers Kong. Matt. landt Jslandt (gudt were loffuit). Enndt her ere mange ssom klager paa nogle kronens och kirkens iorder ssom tilforñ for ethers Kong. Matt. er beret. huilke forne klagemaall ere ssaa liudende at the same jorder som the paaklager skulle were wnder stigtedt och kirkene komne med wolld och wret aff forne biskoper her wtj landet. huilked ieg icke kandt forstaa at ssaa skall were wtj alle maade ssom the klager. End dogh at forne biskoper haffuer giort ssomme nogenn wret. Men mand kand her well bespørge wtj landit aff nogle at ther haffuer werit breffue for nogle the iorder ssom paa klagis nu och same breffue ere nu bort komne och ei kunde findis. fordj at then ene biskop kommer epther anden. och breffuene wtj sliige forañdling bort komme. nu huis ssom iorderne klager thette fornemme komme da frem med gamle andkomstbreffue och odelsbreffue och wille da tilkalle siigh the iorder ssom før ere forbrot. och nu ingeñ breffue ere fore. Aller naadigste herre och konningh wilde ethers Kong. Matt. derfor naadeligenn werdis thil at sende ether Kong. Matt. breff hidt till landet at ingeñ skal eller maa ssame iorder naa eller faa wdenn hand søger thennom med nøgagtige breffue och beuisningh for Ethers Kong. Matt. sielffuer. Eller huad Ether Kong. Matt. will her om were lade.

Jtem aller naadigste herre och konningh will ethers Kong. Matt. och naadeligeñ werdis till at wide huorledis at her skeer mange whørlig och wtilbørlige gierninger her wtj landet som ey er hørligt for ether Kong. Matt. ørne. huilked dog til forn er beret for ether Kong. Matt. Och ether Kong. Matt. haffuer skreffuit bisperne till her i landet om. huilke breffue

ieg haffuer nu wdsent ssom the ethers Kong. Matt. tilskreffuitt haffue. At ethers Kong. Matt. wilde naadeligen werdis till for gudtz skyldt at sende ethers Kong. Matt. retteböder hiidt til landet huad straff thennom skall offuergaa ssom for slige ketterj kunde falde. fordj her er end thette aar (desuer) iij eller iiij fundet som for sliige sager haffue falledt och der som thed icke straffis da monne thed ey affleggis.

Jtem aller naadigste herre och konningh. wijll et[h]ers Kong. Matt. och naadeligeñ werdis til [at] wide huorledis at thend platz som kallis Laugrettedt och altinget pleier at hollis paa. er neder falleñ och hart ner bort tageñ aff wandt saa at mand ey well kand holle ther altinget lengger paa ssame platz ssom laugmendene och altingesmendene thedt haffue beklaget. och naadeliigeñ ombedet at ethers Kong. Matt. wilde naadeligeñ beuilget[1]) at ssame Laugrette maa holdis paa enn andenn stedt. ther ssom laugmendene. med ethers Kong. Matt. tiener och foged siuniss thed were best tilfallenn och beleiligt.

Aller naadigste herre och konningh ieg wed ei mere paa thenne tidt at skriffue ethers Kong. Matt. till om thenne landtz leilighed. Enndt ieg skall med gudtz hielp findis nu och altidt ethers Kong. Matt. thro thiener. Then almegteste gudt beuare ethers Kong. Matt. lenge karsk och sundt med et lycksaligt och got regimenth.

Schreffuit paa ethers Kong. Matt. gaardt Bessestadt paa Jslandt 14 die Iulij Anno 1560.

Ethers naadis Kong. Matt. wnderdanigh och thro thiener
Pouell Stisen.

---

366. 18. júlí 1560. Í Skriðu.

Vitnisburðr um heitorð Arngríms Kolbeinssonar, um að selja Magnúsi Jónssyni fyrstum manna jörðina Grænavatn, ef hann mætti nokkuru um ráða.

AM. Apogr. 4680 „Ex orig. fra Jone Jonssyne a Gunnsteinsstodum".

---

1) Svo.

Eg Jon Magnusson yfer lýsi og opinbert giôri fýrer ollum þeim sem þetta bref sia edur heyra arum epter Gudz burd ꝏ. d. lx. a fyrsta are rijkis þess habornasta stormegtugasta og viidfrægasta forsts[1]) og herra Fridrich[s] Kristianssonar kongs yfer Danmork og Noregi ꜵ manudaginn næstan fyrer Þorlaksmessu vm sumarid þann fimtanda dag Julij manadar[2]) nær hadeigi i mille Skutustada og Grænalækiaross. Lofadi Arngrimur Kolbeinsson mier medur handsolum þessum vitnum hiaverandi. Þorlake Jonssyni og Biarna Biornssyni. at hann skylldi sijn ord til leggia. og allt þad hann mætti. vid fodur sinn Kolbein Arngrimsson. suo þad hann selldi Magnusi Jonssyni jordina Grænavatn vid Mýuatn fýstum allra manna. ef Kolbeirn villdi nockut fyrer sijn ord giora. Somuleidis kynne suo verda. ad Arngrimur sialfur ætti. edur eigande yrdi ad somu jordu Grænavatni. þa hiet. lofade og jatadi hann i sama handabandi ad selia þa jord Magnuse Jonssyni fyrstum. og hann skyllde hennar fyrstur manna. mætti hann vm̄ rada. niotande verda. Og til sanninda hier um̄ settu fyrgreind vitne sin jnsigli med mino fyrer þetta bref. huort skrifad var j Skridu i Reýkiadal þrem nottum sijdar en fýrr seiger.

---

367. [1. ágúst 1560]. 5. febrúar 1561. á Melgraseyri.

Kaupmáli Magnúsar Þorleifssonar og Agnesar Magnúsdóttur.

Fornbréfasafn Jóns Sigurðssonar nr. 13. frumrit á skinni. Af 5 innsiglum er 1 nú fyrir bréfinu.

Jn nomine domini amen var svo felldur kaupmale gior og stadfestur j mille Magnusar Þorleifzsonar og Agnesar Magnusdottur at suo fyrir skildu at Þorleifur Eyolfzson fader greindz Magnusz gaf syne sinum thil qvonvmvndar til mothz vid adur greinda Agnesu Magnvzdottur þriatiger hvndrvt j þessvm peningvm og [svo] greindvm. jordena half Latur er ligg[i]a ꜵ Breidafirde j Flateyar kirkiu sokn med ollvm

1) Svo. 2) Friðrik konungr II. kom til ríkis 1. jan. 1559. Eftir því er þetta á 2. ríkisári hans.

þeim gognvm og giædvm sem greindri jordv halfum Latrum fylger og fylgt hefur at fornv og nyiv og greindur Þorleifur hefur fremzt eigande at ordit. En hier j mote gaf Suanborgg dottur sinne fim malnytukugillde. Jtem gaf sera Eirekur Magnusson broder fyrgreindrar Agnesar henne iij hundrut j þarfligum peningum eñ Jon Einarsson madur Suanborgar tuo hundrvt og hiellt brvdlavp hen[n]ar og reiknade þad fyrir fiogur hundrvt. kiore Suanborg og Jon Einarsson madur hennar j vmbode adur greindz sera Eirekz Magnussonar og Biarna brodur greindrar Agnesar malakonv. gaf fyrgreindur Magnus Þorleifzson þrattskrifadre Agnesv fiordvngzgiof vr þriatige hundrudum at fullu jayrde og samþycke Þorleifz Eyolfzsonar fodur sins og sera Magnuss Eyolfzson brodur Þorleifs. Reiknadezt þæ henar male og peningar med brudlaupzgiordenne og fiordvngzgiofenne eitt hundrat og xx og halftt betur þa j hans gard. hafde hun þa og halft annat hundrat j silfre at avk þessara fyrr greindra peninga. Voru þesser ærliger men[n] vid stadder er suo heita Jon Þorleifzson. Panthaleon Olafzson prestar. Jon Olafzson. Einar Gislason. Gudmundur Jonson leikmenn og morgvm odrvm hia verendvm j stofvne ꝺ́ Melgraseyre a Langadalzstrond fimttvdægen næstan efter Olafz messu enu fyrre vm sumaret þa þesse giorningur og loglig festing for fram fyr greindra manna æ mille Magnvs Þorleifzsonar og Agnesar Magnusdottur. Og thil meire uithnis[burdar] og saninda hier um setium uær fyrr nefnder menn vor insigle fyrir þetta kaupmalabref er skrifat var æ Melgraseyre j Isafirdi midvikvdægen næstan efter kyndelmessu um veturin þa lidet var fra gudz bvrd þussund fim hundrut sextiger og eitt.

---

368. 5. ágúst 1560. í Skálholti.

Veitingarbréf sira Jóns Loptssonar fyrir Útskálum.

AM. Apogr. 1875 „Ex orig. communicato a Paulo Jonæ Vidal. [er komid ur Jsafirde]. appensa sunt: 1°. Sigillum Pauli Stigonii. 2°. Gislonis Jonæ". (AM.). — AM. Apogr. 1423, einnig, að því er sýnist, eftir frumriti, og er þó dálítill stafsetningarmunr.

Eg Gisle Ionsson undeʀ gudz þolinmædi overduguʀ superintendens Skalhollltz sticktis. ɢiore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. at med ʀædi og samþycki hofudzmannzins Pæls Stíjgssonaʀ. hefi eg vnlt og veitt Erligre personu sıjra Ioni Loptzsyni stadinn Utskæla liggiandis æ Rosthvalanesi til ʀiettraʀ eignaʀ og frials forrædis um leingd sinna lifdaga med ollu þvi faustu og lausu kviku og daudu sem greindum stad fylgeʀ og fylgt hefuʀ at fornu og nyiu. Skal hann eignazt og at sieʀ taka svo sem ʀiettuʀ beneficiatoʀ. og alla hluti eignazt og ævoxtt af hafa at fra tekinne kirkiunnar portio. Eñ ef nockut verduʀ gefit kirkiunne þad sem minna eʀ eñ hundrad. þa skal presturinn eignazt þat. Eñ þat sem æ hundrudum stendzt og þadan af meira þa eignazt kirkian þat. Jtem hafi nockut verit ʀangliga haltt fra kirkiunne. þa skyllda ieg syra Ion þat aptur lagsoknum at sækia. Og til meire sanninda hier um set eg mitt innsigli med haufudzmannzins ȷnnsigli fyrir þetta bref skrifat i Skalhollti manudaginn fyrir Laurentıus messu um̃ sumarit. Anno domini. 1.5.60.

---

369. 5. ágúst 1560. | 24. mars 1562. í Njarðvík.

Þeiʀ Jón og Steingrímur Björnssynir gefa Þorvarði, bróður sínum, Gripdeildarreka.

Frumrit á skinni meðal Njarðvíkrbréfa í þjóðskjalasafninu í Reykjavík, komið frá Njarðvíkrkirkju 1. okt. 1902. Þvers um utan á bréfinu samtíða skrift: „[Lo]f. dyrd og heidur og ilift þacklætti se þi[er] fyrer allar þær gafur er þu hefer mier . . . . idi". Og á hinum endanum: „Lot se liufum herra þeim sem lyten giorer . . ." Af 3 innsiglum er hið fyrsta fyrir bréfinu.

Vm̃ Gripdeilld[1]).

Þat giorvm vær Þorsteirn Olafsson. Jon Olafsson. Asmundr Jonsson. goodum monnum vitanligt med þessv voru opnu brefi. þa lidit var fra gudz burd. ꝏ. d. og lx. ár. ȷ Niarduíik ȷ Borgarfirdi. manudagenn næstan epter Olafsꝏesso fyrre vm sumarit. vorvm vær þar hia heyrdum og

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi.

savm æ at Jon Biornsson. og Steingrimur Biornsson gafu brodur sinum Þoruardi Biornssyni Gripdeildar Reka. sem liggur jnn fra Olafssandi. fortakslaust. vndan sier og sinum erfingium. epter þui þeir voru fremst eigandi at. Og til sannenda hier vm settvm vær fyr ritadir menn vor jnsigle fyrir þetta vitnesburdarbref. huertt skrifad var j adur nefndri Niarduiik næsta dag fyrir Annunciacio Marie. vm ueturenn. tueimvr arum sidar eñ fyrr segir.

---

## 370. 6. ágúst 1560. á Grenjaðarstöðum.

Ólafr byskup Hjaltason metr kirkjubót á Grenjaðarstöðum 40 hundr., og geldr hann síra Sigurði Jónssyni upp í þetta eina eyðijörð kirkjunnar, Hólkot, svo langt sem til hrekkr.

ÍB. 67, 4to, xcix, bl. 96, m. h. síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum (d. 1745).

Bref Olafs Biskups Hialltasonar.

Eg Olafur Hialltason under Gudz þoliñmedi Biskup æ Hőlum og Superintendens Hőla Biskupsdemis giori godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at ærum epter Guds burd M D og lx siðtta dag Augustj mænadar æ Greniadarstad i Adalreykiadal. beiddi mic og krafdi heidurlig persőna Sira Sigurdur Jonsson at skoda og ælita æsamt med mier tilkőlludum godum mőnnum. hveria bőt edur semd mier med þeim virdtiz hann giort hafa a kirkiunni þar æ fyrrgreindum stad. hver at ædur var at hrőrnun og őllu nær nidur falliñ. fyrir utan þæ bőt sem hann ædur hafdi lætit giora æ űtbrotunum. og tekit var ædur i kirkio reikning. Þui at Guds nafni til kőlludo og med yfersyn vj skilrikra presta og leikmanna. virdtiz mier med þeim fyrrgreindur Sira Sigurdur i engan mæta minna mega hafa fyrir þuilïka bőt og forbetran kirkiunnar helldur en xxx^c þad nu allareidu er at giort. hefur fyrrnefndur Sira Sigurdur lofat. med Guds fulltingi sic styrkianda. at leggia sud æ greinda kirkio beggia vegna ofan æ utbrot fyrir utan fram. og at þui giordu skylldi hann hafa þar fyrir x^c so þad yrdi alls xl^c. skylldi hann upp i þessa bőt nu strax mega frialsliga at

sier taca og eignaz fyrir sic og sīna erfingia til ęfinligrar eignar eina eydijord sem kirkian hefur litla nӯtsemd af haft ī længa tima. sem heiter Holkot i Reykiahverfi. sudur i þad stora gil sem gengr a midli Længavatns og Holkots fyrir vc. en hvad kirkian er honum meira skylldug. komi alla tima under rettan reikningscap. Voru þeir ᴅændimenn lerder og leiker med mier þetta samþӯkkiandi. sem þæ voru þar saman komner.

Og til sanninda et cetera.

---

## 371. 11. ágúst 1560. á Einarsstöðum.

Páll Jónsson fær Steinunni, systur sinni, Ljótsstaði fyrir Saurhól.

AM. Apogr. 4681 „Ex orig. fra Jone Jonssyne ǎ Gunnsteinsstodum". Innsiglið var fyrir bréfinu. — JS. 66, 8vo, m. h. Grunnavíkr-Jóns „Ex originali in membrana. Honden er halfsett fliőtaskrift, og mun þvi vera Stadarhols Paals (er so almennt kallast) eigenhȯnd, eins og ǎ hinu odru hier næst vid af sama dato. þvi skriftarlag og Signet eru eins". Innsigli Páls var fyrir bréfinu.

Þad medkiennist eg Pæll Jonsson. ad eg hefi feingid heidurligre dande kuinnu Steinunne Jonsdottur alla ȷordina Liotzstade er liggia i Hnioskadal i Hals kirkiu sokn. til fullrar eignar og frials forædis[1]) vndañ mier og mijnum erfingium. eñ under adurgreinda Steinune og hennar erfingia med ollum þeim Gȯgnum og giædum er greindre ȷord fylger og fylgt hefur ad fornu og nӯu og eg hefe fremst eigande ordit i fieskiptum vid brædur mina. Hier i mot hefur Steinunn giefit mic kvittan. akiærulausan og mīna Erfingia um̄ ȷordina Saurhol er liggur i Saurbæ vestur i Stadarhols kirkiu sokn. Og til sanninda hier um set eg mitt ȷnsigli nedan fyrir þetta mitt opid brief. huort giort var ǎ Einarstaudum i Reӯkiadal þessum ærligum monnum og vottum nærverandis Erlende Bonda Jonssyni og Þorvalldi Olafssyni. sunnodaginn næstan fyrir Mariumessu hina fyrr[i] um sumarid arum epter Guds burd ∞. d. lx ar.

---

1) Svo.

372. 11. ágúst 1560. í Snóksdal.

Kaupbréf fyrir hálfum Víðilæk í Norðrárdal, og eru tilgreind landamerki, ásamt áreið.

Jbskj. AM. Mýrasýsla 1.

Þad Giore eg Arnbiorn Salamonsson goodum̄ Monnum kunnugt. med þessu mijnu opnu brefe. ad eg Medkiennist. ad med Rǻde og samþicke konu minnar Halldoru Auduñardotter. hefe eg selt Dada bǒnda Gudmundssyne jǒrdena halfa Wijdilæk i Nordurǻrdal. er liggur i Hiardarholltskyrkiusokn viij^c ad Dyrleika. med øllum þeim gognum̄ og giædum̄ sem firnefndre halfre jordu. filgt hefur ad fornu og niju. og vid hofum fremst eigande ad ordid. undañ ockur. og ockar erfingium̄. eñ under Dada og hans erfingia og epterkomendur til frialz forrædis. og fullrar eignar. Hier i mǒt gaf hann ockur viij^c þau sem ockur vel lijkade ad taka. Medkienunst. eg Arnbiorn Salamonsson. ad eg hefe þaug ǘtteked og uppbored. epter þvi sem i ockar kaupe var um̄skilid. Afhendte minn fader mier Salamon Einarsson. firskrifada halfa jord. med þeim ǻkvednum landamerkium. Imillum Vijdelækiar. og Svartagils. ad lækur sǻ sem ad rennur ur Hǒlmavatne og ofan ǻ Torfahialla. og fyrer fram̄añ Hrijsnes. og Hrijskinn og fyrer framañ Sandvoxt og fram̄ i Nordurǻ hid efra. A mille Wijdelækiar og Hallar. var halldid epter þui sem votnum hallar. ǘt ǻ Hallarmǘla. og ur Mulanum Rennur ein kiellda. ofan i Nordurǻ. Rædur hun ǻ Milli Einifells og Vijdelækiar. og þetta sagdist minn fadir hafa haft og halldid. ǻ medañ hann atte firnefnda jord Vijdelæk og hans kvinna.

Eñ til meire stadfestu. og san[n]s vitnis hier um set eg mitt jnnsigle fyrer þetta kaupbref og kvittunarbref. huort ad skrifad var i Snocksdal i Breidafiardardolum ǻ Sunnudaginn næstañ epter Laurentiusmesso um sumared. þǻ lided var fra gudsburd 1560 ar.

Medkiennunst vid Biarne Sumarlidason og Arne Sveinsson. ad vid ridum jafnframt Arnbirne Salamonssyne ǻ þaug ǻqvædd landamerki. sem hann sagde ad Salamon heitinn

fader sinn hefde halldid. ä milli Vijdelækiar og Svartagils og hier eru nu fyrer ofanskrifud. med äkvæddum ornefnum Sagdest firnefndur Arnbiorn hafa buid a firnefndum Vijdilæk. og ecke heyrt hier þa tvimæli ä leika. Og med þessum äkvæddum landamerkium. medkiendist hann fyrer ockur. ad hann hefde sellt firskrifudum Dada bőnda. optnefnda halfa jord Vijdelæk. En til meire stadfestu. og sans vitnis hier um setium vid firskrifader menn ockar jnsigli fyrer þetta kaupbref. Skrifad j sama stad og dag. sem fir seiger.

Þad Medkiennist eg og votta Þorvalldur Nichulasson. og Jon Halldorsson ad vid hofum sied og yferlesed solätande bref. med őskoddudum hangande jnsiglum. ord fyrer ord sem hier fyrer ofan skrifad stendur. og ad so i sannleijka er. setium vid ockar jnsigli hier. under. Var þesse ockar medkienning skrifud 9 Dag Septembris Anno 1623.

Framan og ofan skrifad Riett Coperad vera Epter sinum original huorn vijer säum med tueimur őskoddudum jnnsiglum. votta vnderskrifader er saman läsu ad Øxarăralþinge Anno 1704. 15 Julij.

Skaphti Josephsson. Þorsteirn Steingrijmsson
Eh. Egh.

---

**373. 12. ágúst 1560. á Einarsstöðum.**

Páll Jónsson fær Steinunni, systur sinni, Víðivelli og Ljótsstaði í Fnjóskadal og Fljótsbakka fyrir Staðarhól.

JS. 66, 8vo., m. h. Grunnavíkr-Jóns ca. 1740 „Ex originali pergameno. Under brefenu eru tvö signet þad fyrra er so skrifad + S. PALLS IONS. SON. og innan i P. hitt annad er Sira Þorvallds Olafssonar. a brefenu er halfsett fliötaskrifftarhönd, þo meir sett".

Jeg Pall Jonsson giore aullum einum og sierhuerium þeim er þetta brief birtist med syn. heyrn eda sealfs lesningi kunnigt ad eg hefe greidt og golldit og nu med krapte þessa briefs greide. gielld og afhende Heidurligre dandekuinnu Steinunne Jonsdottur sýstur mine med handsolum j fýrstu

jordina Widevelle er liggr ij Hnioskadal fyrir xl^c og þar med .vj. kugilldi og þar med iordina Liotstade er liggur ij greindum Hnioskadal fyrir viij^c og þar med jordina Fliotzbacka er liggur ij Fliotzhlid fyrir nordan ij Einarstada kirkiu sokn fyrir xx^c med aullum þeim gaugnum og giædum er greindum jordum fẏlgier og fẏlgt hefur ad fornu og nẏu og eg hefe fremst eigande ad ordit ad ollu tilskilldu en aungu fra ij jordu og ꝺ og eigi finnst eigandi ad vndan mier og minum erfingium eñ vnder Steinvne og hennar Erfingia til ein[n]ar æfinligrar obrigdeligrar eignar og frials forædis. Eñ hier ij mőt hefur adur nefnd Steinunn Jonsdotter giort. giefid mig og mina erfingia kuitta ǫlldungis og ækiærulausa vm jordina Stadarhol ij Saurbæ og allar þær eigner sem hun hefur þar eignast med giof modurfodur sins Pieturs heitins Loptzsonar med dommum og logmanna vrskurdum ad tilskilldre jordune Saurhole. fyrir sier og ollum sinum erfingium og eftterkomendum til æfinligrar tidar suo ad huorki hun nie neiner hennar skullu mig fẏrnefndan Pal nie mina erfingia omaka. ẏfa nie ꝺklaga til þinga nie mannfunda eptter þennan dag ij nockurn mata. enn þott ꝺklage þa sie þo su ꝺklogun þegar jafnsnart alþingis onẏt. daud og magtarlaus.

Samþẏckti þennan giorning og kuittan Helga Aradotter. voru vitnesmenn ad þessare kuittan og giorningi Erlendur bondi Jonsson. Sira Þorvalldur Olafsson. Þorarin Philpusson. Grimur Andriesson og Halldor Gislason og settu sin jnsigle med minu jnzigle nedan fyrir þetta afkuittunarbrief huort[1]) eg hefe sialfur tuo huort samhlioda audru mier eitt eñ greindre Steinunne annad eptter logunum og hennar beidzlu skrifad med minne eiginligre hende ij kirkiunne æ Einarstodum ij Reẏkiadal vm̃ dagmalaskeid manudægin næstan fyrir Mariumessu hina fẏre vm̃ svmarid. huor dagr er var hinn xij dag Augusti manadar hid þridia sumar ij olld en ꝺ audru are Rikiss og stiornanar þess hogbornasta og stormectugasta Herra. Herra Fridrechs Christianssonar kongz til Danmerkur og Norgis vors allra nadigasta hera. Eñ ꝺrum efter vors frelsara fæding ꝏdlx. ara.

1) Svo.

374. **13. ágúst 1560. á Grenjaðarstöðum.**

Steinunn Jónsdóttir fær Magnúsi Björnssyni, syni sínum, 40 hundr. í Ljósavatni.

AM. Apogr. 108 „Ex originali sira Olafs Stefanssonar“, tvær uppskriftir, báðar m. h. Styrs Þorvaldssonar. — Jbskj. AM. Þing. 27 (nú í þjóðskjalasafni).

Um Liosavatn i Bardardal.

Þad giorum vid Olafur prestur Arnason. Þordur Peturs-son godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. ad þa lidit var fra guds burd ϖ. d. og lx. ǽr ǽ Laurentiusmesso[1]) um sumarit ǽ Greniadarstad i Adalreykiadal. vorum vid i hiǽ saum og heẏrdum ǽ. ad Steinun Jonsdotter fieck med handsólum til fullrar eignar Magnuse Biornssyni syni sıȷnum. xlᶜ. uppi ȷórdina Liosavatn i Bardardal. skylldi þessi. xlᶜ. koma uppi þa peninga sem fader nefndz Magnusar hafdi Steinunni giefit med þeim skilmala. ad þad skylldi til þeirra Barna falla. þessi xlᶜ. skylldi Magnus hafa i sinn part þar ut af. þar til gallt nefnd Steinun sógdum Magnusi i sama handabandi. xxᶜ. i Liosavatni fyrir þau .xxᶜ. i lausagotzi sem hun medkendist ad hun hafdi fargad af þeim um̄bodzpeningum sem hun hafdi haft af Joni Bonda Magnussyni fódur sijnum og Magnusi hafdi til heẏrt epter sinn fódur og Daner hófdu honum og hans sẏskenum skickad. en̄ geingi Liosavatn aptur af Magnusi med nockru moti þa skylldi hann eignast og meiga ad sier taka domlaust. þä hann villdi. Hol i Sæmundarhlijd fyrir. xlᶜ. og þar til .xxᶜ. ȷord af þeim ȷordum sem nu ætti hun og aklógunarlaus væri. en̄ þo hun hefdi lofad sonum sıȷnum Teiti. Biarna og Arna sijnum xxᶜ hverium þeirra i greindre ȷordu Liǒsavatni þǽ tæke hun hana aptur fyrir þa grein. ad hun villdi ad sijna xxᶜ ȷórd feingi hver þeirra. en̄ feingi þeir ecki þær. þa skylldi þeir eignast. lxᶜ. af sıȷnum ȷordum þeim sem þǽ ætti hun. Lẏsti adurnefnd Steinun ad hun hefdi þennan adurskrifadan̄ Giorning allan̄ ǽdur giort fyrir ij ǽrum. þo hun hann þa endurnyadi. Og til sanninda hier um setium vid

1) þ. e. 10. ág.

fÿrskrifader menn ockar jncigli fyrir þetta bref. hvert ed giort var á sama stad og áre .iij. nottum sıjdar en fyrr seiger.

---

375. 14. ágúst 1560. á Grenjaðarstöðum.

Jarðaskiptabréf, og er skipt Eyri í Fjörðum fyrir Brettingsstaði í Laxárdal.

AM. 255, 4to., bls 447 (bréfabók síra Skúla Þorlákssonar).

Kaupbrieff fyrer Eyre j Hualvatnzfirde og Brettıjngstödum j Laxardal 1560 med tueimur oskiertum jnciglum.

Þeijm gödum mönnum sem þetta brief siä edur heyra senda Jlluge Gudmundsson. og Oddur Jonsson prestar kuediu gudz og vora kunnugt giørande. ad þa lided var fra gudz burd ꝍ. D. lx ar a Greniadarstad j Adalreykiadal vi dag Augusti. vorum vid j hia säum og heyrdum a ord og handsöl. virduglegz herra Biskupsins Olafz Hialltasonar ad Hoolum. og sira Sugardar[1]) Jönssonar Ad suo firerskilldu. ad biskup Olafur sellde nefndum sira Sugurde Eijna Eijde jørd er Brettijngstader heijta. er liggur j Laxardal j Þuerar kirkiusokn. med øllum þeijm gøgnum og giædum. Eignum. skogum og veijdum j jördu og a. sem filger og filgt hefur ad fornu og niju. og filgia a ad lögum. þar j mot gaf adurnefndur. sira Sigurdur Jonsson jørdina bigda Eijre j Fiørdum j Backa kirkiusokn. med øllum sijnum gøgnum og giædum. eijgnum og jtølum Rekum og hlunnendum sem greijndre jördu filger og filgt hefur ad fornu og niju. og filgia A ad[2]) lögum. j jørdu og a. sagde Biskup Olafur ad jørden Brettıjngstader være nockud dÿrre. og skillde sira Sigurdur hafa þad kuitt firer sijn gømul þionustulaun. og þad ad a jørdunne Brettıjngstödum var med öllu eıjngen hus og hafde leijnge j eyde vered. og til sanninda hier vm setium[2]) vid firrskrifadir menn ockar jnnsigle firer þetta brief. huort ed giørt var a sama stad og are. viij døgum sijdar en firr seijger.

(L S) (L S)

---

1) Svo. 2) Tvíritað.

376. 25. ágúst 1560.

Konungr býðr Páli hirðstjóra Stígssyni að styðja sendiboða Antóníuss greifa af Aldinborg, er hann hafi leyft að kaupa fisk á Íslandi til heimilisþarfa.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 6, 321 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to, bls. 499, Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Pouell Stissenn fogett paa Island.

fick breff. att effther som greff Anthonnis aff Oldenburg haffuer schreffuit kon. mts. thiill och giffuer tilkiennde. att hand achter att haffue hans bud ind wdj Island ther att kiôbe tiill hans husses ophold nogenn Islands fisk. tha beder kon. mts. Pouel Stissen. att nar hans bud hannom mett kon. mts. breff besôgendis worder. att hand tha fôrdrer hannom thiill thett beste och er hannom behielpeligen ther att maa bekomme fisk tiill kiôbs aff kon. mts. wndersotte for hans pendinge etc. Datum vt supra.

---

377. 28. og 29. ágúst 1560. á Möðruvöllum.

Dómr, kvaddr af Ormi Jónssyni í umboði Páls höfuðsmanns Stígssonar, um kæru Jóns Marteinssonar um gjafir Þorleifs Grímssonar til Gríms, sonar síns, og eru gjafirnar dæmdar löglegar.

Stepb. 27, 4to., bls. 47—8, Svartskinna, m. h. Benedikts lögmanns Þorsteinssonar ca. 1730.

Domur sem Jon Marteinsson nade uppa giof Grijms Þorleifssonar.

Þad giorum vier Nickulas Þorsteinsson. Þorsteirn Magnusson. Magnus Gunnsteinsson. Þorstejrn Sijmonsson. Halldor Þorlaksson. suarner logriettumenn. Einar Thomasson og Fuse Biornsson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad þa lided var fra hijngadburd vors Herra Jesu Christi 1560 Midvikudagenn næstann effter Bartholomei um sumared i Spialldhaga a Almennelegu þriggia hreppa þinge uorum uier i dőm nefnder af hejdurlegum Manne Orme bonda Jonssyne er þa hafde logleg[t] umbod hofudzmans-

enz Páls Stijgssonar þing ad setia og doma ut ad nefna greindum hofudzmanne hiauerande. huoria magt edur krafft su akiæra skillde hafa sem Jon Marteinsson klagade uppa giof þa er Þorleifur heitenn Grijmsson gaf Grijme syni sinum og beuijsade med ij innsigludum brefum Þorbiorgu Þorleifsdottur hiaverande. tiedist og birtest fyrir oss ad sal[ugi] Þorleifur Grijmsson hefde i þad sinn átt xvj^c hundrada.

Nu stendur so i vorre landz laga bok ad giefa ma madur tijunda part ur erfdagotse. eñ fiordung ur aflagotse.

Þui i gudz nafne ad h[eilags] anda nad til med oss kalladre ad so profudu og fyrir oss komnu dæmum uier med fullu doms atqvædi firgrejnder domsmenn med þeim logmáls grejnum er hier standa skrifadar greinda giof Þorleifs heitens Grijmssonar loglega. skiallega og minduga i allañ máta og frialsa hallda meiga vegna Ejnars Grijmssonar af oskifftum arfe.

Samþickte þennañ dom grejndur hofudzmann Pall Stijgsson og Olafur Hialltason biskup og Ormur Jonsson.

Skrifad a Modruvollum i Eyafirde 29. Augusti sama árs sem firr seiger.

---

## 378. 1. september 1560.

Eggert Hannesson ættleiðir börn sín, Jón, Björn, Þorleif og Ragnheiði, með samþykki systra sinna, Guðrúnar og Katrínar.

AM. Apogr. 4685 „Ex originali". Arni segir til innsigla. „Brefed gaf eg Ormi Dadasyne" (AM.).

Þad giorum vier Magnus Eyiulfsson. Olafur Jonsson prestar. Jon Olafsson[1]) Halldor Einarsson[2]). Ormur Ellingsson. og Oddur Helgason. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad þa er lidit var fra hingadburd vors liufa lausnara Jesu Kristi m. d lx. ara. a faustudaginn næstañ epter Decollatio Johannis[3]). vorum vier i hia. saum og

---

1) „Jon þesse Olafsson er, óefad, sa sem syslumadur var 1537 mille Gilsfiardar og Audna. Sigilla bædi eru lïk (vide delineationes) þott þetta sie minna". (AM.). 2) Innsigli Halldórs var ekki fyrir bréfinu, heldr innsigli Þorláks Einarssonar, bróður hans. 3) Þ. e. 30. ág.

heyrdum á ord og handaband þessara manna. af einni alfu herra Eggertz Hannessonar. En af annare alfu Gudrunar Hannesdottur og Katrinar Hannesdottur ad suo fyrir skildu og undertauludu. ad fyrgreindar systur Gudrun og Katrin selldu og uppgafu vndan sier og sinum erfingium alla þa peninga kuika og dauda. lausafe og fastaeignir. sem þær mattu til standa epter greindan herra Eggert Hannesson. en vnder born herra Eggertz Hannessonar sem suo heita. Jon Eggertzson. Biorn Eggertzson. Þorleifur Eggertzson. og Ragneidur Eggertzdotter. til æfinligrar eignar. nada eg nytsemda. En hier i gien fieck greindur Eggert Hannesson adurnefndri Gudrunu Hannesdottur til æfinligrar eignar fyrir vpplag á sinum arfe Lokinhamra. Dalsdale. Sliettanes og Seluoga. Reiknazt þessar iarder sextige hundrut ad dyrleika. En ef þessar fyrrgreindar jarder kynne af fyrrgreindri Gudrunu Hannesdottur med riettu laugmale ad ganga. þa skylldi hun eda hennar erfingiar eiga adgang ad annare fastaeign jafnmikille. af herra Eggert eda hans erfingium. En Katrinu fyrir sal og upplag á sinum arfe sem hun tilstod epter herra Eggert aunnur sextige hundrut. at til greindri xx hundrada jaurdu. nema dyrare kynne ad verda epter þui sem þeim syskinum badum skylldi vel semia og þar þa til adra peninga goda og geingilega. suo vera skylldi alls sextige hundrut med jaurdunne. Og nu epter allan þennan giorning fram farinn þa geingu þessir menn aller samt fyrir kirkiudyr vnder Nupe. herra Eggert Hannesson. Gudrun Hannesdotter. Katrin Hannesdotter. Jon Eggertzson. Biorn Eggertzson. Þorleifur Eggertzson. og Ragneidur Eggertzdotter. og hielldu þar þa aull a einni bok. Og mæltte þa herra Eggert þessum ordum. Eg Eggert Hannesson ættleidi þig Jon Eggertzson. Biorn Eggertzson. Þorleif Eggertzson og Ragneidi Eggertzdottur. til allz arfs eptir minn dag. sem nu á eg. eda eigandi verd. i huern mata sem under mig kann ad bera. og þar med til allz riettar sem laugbok skyrer og ættleidingarcapitule uottar ad ættleidinge ber ad taka ad laugum. þo med suoddan forordi og skilmala. ad greindur herra Eggert villde kost á eiga ad skipta sinne fiordungsgiof ef hann villdi suo giora med sinum nidium og naung-

um. eda sinum holluztumonnum. skýlldum eda vandalausum bæde or kuiku og daudu. faustu og lausu. for allur þessi giorningur fram eptir laugbokarinnar auisan og skipan. og epter þui uite og skýni sem allzmegtugur gud hafdi oss giefid ad laugligazt matti giorazt.

Og til meiri audsyningar. stadfestu og sannz vitnisburdar hier vm. þa festi greindur herra Eggert Hannesson. og Þorlakur Einarsson. er þa var eiginbonde Gudrunar Hannesdottur. sin jnnsigle med vorum jnsiglum fyrir þetta arfleidingarbref. huort ad giaurt og skrifad var j sama stad sem adur greinir tueim nottum sidar eñ fyrr seigir.

Laus Deo.

---

**379. 2. september 1560. á Hólum.**

Skiptabréf á eignum Þorleifs Grímssonar og Gríms, sonar hans.

AM. 238, 4to., bl. 120—1 (gamalt blaðatal 90—1), Bessastaðabók, skr. ca. 1570, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar á Kalastöðum. — AM. Apogr. 724 m. h Jóns Magnússonar „Ex transscripto“ á pappír frá 23. nóv. 1600. — AM. Apogr. 5869 (lakari uppskrift).

Skiptabref á peningum Þorleifs heitins Grimssonar og Grims sonar hans Anno 1560.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra. senda Loptur Narfason. Gvdmvndur Skidason. Geirmvndur Jonsson. Þorarinn Jonsson. Snore Jonsson. prestar. Ormur Jonsson. Þorsteirn Simonarson. Magnus Gunsteinsson. Magnus Jonsson. Halldor Þorlaksson. svarner laugriettumenn. Hialmur Sueinsson og Teitur Magnusson. kvediu gudz og uora kunnigtt gioranđi. ad arum epter gudz burd ꝏ. d. lx. ar fimtudaginn næstañ epter Bartholomieus[1]) messo[2]) um sumarit á Maudruvaullum j Eyiafirdi. vorum vier til nefnder af herra og[3]) haufudzmannenum Pali Stigssyni konglig Maiestetz bifalningsmanni yfer alltt Jsland og Olafi Hiallttasyni [superintende[nte] og[4]) biskupi Hola stigtis til ad giora riett lagaskipti á þeim peningum og aullu arfagossi. huerir ad

1) Bartholomeus 724; Bartholomei 5869. 2) þ. e. 29. ág. 3) sl. 5869. 4) [sl. 5869.

fiellu epter Þorleif Grimsson og hans son Grim. hverra saler [ad[1]) gud nadi. Epter þeim domi sem dæmdur var j Spialldhaga midvikudaginn nærstañ fyrir. þui j gudz nafni[2]) Amen giordum uier suoddañ peningaskipti j milli erfingia adur greindra [manna] Þorleifs og Grims sem hier epter steñdur skrifat. og ad þeim reikningskap sem fram̃[3]) fyrir oss kom. reiknudum uier j fyrstu af allar skullder sem fram fyrir oss voru laugliga fram sagdar. og krafdar sem [var j fyrstu profenttvmanna skulldir[1]) hveriar reiknudust niutigi c. og .iijc. betr. hvat vier skiptum j saumu skullder fyrst .lxxx. og .v. kugilldi. med Holum og Hola jordum og þar til med .viijc. j jordvni Palmhollti. skylldi fyrr nefnda peninga eignast og profentumennina annast sa sami erfingi sem jordiñ Maudruvaller skiptist. sem var Einar Grimsson. þar nærst skiptum uær j þa giof sem Þorleifur heitinn hafdi gefit Grimi syni sinum med jayrdi og samþycki dottur hans Þorbiargar og lauglig var dæmd ǫ́ adurnefndum Spialldhaga. hvat vær skiptum Hola fyrir .llc. Torfufell med Villingadal .lxc. Leifstader fyrir .xxc. hueria giof ad Einar Grimsson og Þorunn Grimsdottur[4]) Erfdu epter faudur sinn. Ormi bonda Jonssyni. vij kugilldi fram̃tals. siera Halldori Benedictssyni eitt kugilldi. Siera Olafi Arñasyni eitt kugilldi. Skylldi Jon Marteinsson umbodzmadur fyrr greindra barna vt greida þessar skullder af peningum Þorleifs heitins oskiptum. þar nærst reiknadist oss Orm̃ Stullason hafa vpp borit vegna kuinnu sinnar[5]) Þorbiargar Þorleifsdottr[4]). med þui hann hefur til forna og ad nyiu feingit og fargat. .vc. hundrata. lxxxc. og .vjc. betur. hier nærst skiptum uier Einari Grimssyni og hans systur Þorunni j heimanfylgıu Grims heitins Þorleifssonar. j fyrstu jordina Maudruvelli fyrir hvndrat hvñdrata og .xlc. betur. ad auk þess þridiungs er kirkiañ ætti j heimalañdi epter jnnsigludum maldaga er[6]) þar kom fram̃ fyrir oss. Kirkiuuog fyrir .lxc. Vargia[7]) fyrir .xlc. Eyrarland fyrir .xxc. Finnastader .xxxc. Kerhvoll[8]) .xxxc. Anastader .xijc. Draflastader .xiijc.[9]) [Oddstader. xijc. Skinnalon .vc.[1]) Griotnes .vc.

1) [sl. 5869. 2) 724, 5869; sl. 238. 3) sl. 724, 5869. 4) Svo 238. 5) hanz 724, 5869. 6) sem 5869; sl. 724. 7) Wargǎ 724. 8) Kierhǒll 5869; Berholl 724. 9) xijc 5869; xvjc 724.

liggia þessar ȷarder æ Sliettu. Skogar ȷ Hnioskadal. xxc. ȷ Palm̄hollti .xijc. er liggur ȷ Haurgardal. Jtem kugilldi med Maudruuaullum og ȷordum þessum er hier fyrir stan̄da. xxxviijc.[1]) Jtem j staufutiaulldum[2]) og aullum[3]) gagnsemdum .xxc. hier nærst kom fyrir oss ad Þvridur Þorleifs dottr[4]) hefdi feingit ȷ sina heimanfylgiu .ijc. hvndrata. þar til skiptum vær henni ȷordunni[5]) Rukstadi[6]) xlc. og ȷordunni[5]) Brin̄gu fyrir .xxc. Jtem skiptum vær j þann partt er Sigridi heitinni Þorleifsdottur bar[7]) ȷ sina heimanfylgiu. Vatzen̄da[8]) fyrir .xxc. Jokull .xxc. Halldorstader. xxc. Tiarner .xlc. Jorunnarstader .xlc. Kolgrimastader .xxc. Oxnafell .xlc. Fifilgerdi xxc. Krokstader .xxc. Jtem skiptu vær Hallottu Þorleifsdottur ȷ sinn arf ȷordina Silfrastadi fyrir .jc. hvndruta. [Eigilstader .xxxc. Havkastader .xxc.[9]) Borgargerdi .xijc. Skalldstader .xxxc. med saumu ȷordum .xvij. kugilldi. Jtem med gardinum heima .xiȷ. kugilldi Voru þessar ȷarder afhlaups þessum arfaskiptum. Audbrecka med Brakan̄da .jc. hundrata. Fornhagi .lc.[10]) Midbacki .xc. hveriar ȷarder vier settum[11]) fyrir þa aklagan̄ er Pall Jonsson sagdist hafa vegna sinnar kvinnu Helgu og Þorv hennar systr[4]) ǿ greindum peningum Þorleifs heitins Grimssonar. En̄ Jon Marteinsson skylldugan ad hallda þessar ȷardir þar til ad[12]) greindur Pall Jonsson leiddi sig til med laugum huersu hǿfa[13]) peninga þær ǿ van̄ttadi riettiliga ǿ[14]) motz vid onnur skilgetin̄ born[15]) Þorleifs heitins Grimssonar. Jtem[16]) hier ad auki settu uær fyrir vtlen̄dar[17]) skulldir sem þar fram̄ komu.[18]) og þo ecki [sig til med laugum leitt[19]) .vj.[20]) kugilldi ȷ vardveiting Jons Marteinssonar. þar til þysker sig med laugum til leida epter domenum. En̄ ȷordina Kaupang fyrir bon haufudzmannzins og biskups Olafs og allra vorra sem vorum ȷ giordinni. laugdu vmbodzmennerner adr greindra erfingia er þa hia uoru. fyrr skrif-

1) xxxviij 724, 5869. 2) stofutiolldum 724, 5869. 3) audrum 724, 5869. 4) Svo 238. 5) ȷordina 724, 5869. 6) Rugstadi 724, 5869. 7) 724, 5869; sl. 238. 8) Wassender 724. 9) [Fornhagi jcc Eigilsǿ fyrir xxc 5869. 10) jcc 5869. 11) setium 724, 5869. 12) er 724; sl. 5869. 13) ha 724. 14) 724, 5869. 15) 724, 5869; syskin̄ 238 16) sl. 724, 5869. 17) vtlendskar 724, 5869. 18) kom 724. 19) [sl. 5869. 20) xȷ 724, 5869.

ada jord Kaupang. sinn hluta þar j. so framtt sem þeir þad med laugum mætti. Þorbiorgu Þorleifsdottur. med þui forordi [ad[1]) ef hun þarf ad selia [greinda jord[1]). þa skylldi hun fyrrnefndum umbodzmonnum fyrst bioda og selia. Eñ ef þessi goss kunna af ad ganga med riettum laugum af erfingium[2]). þa skerdi fyrir hverium sem tala rennur til þar til ad[1]) aller hafast riettar taulur vid. Skulu þessi fyr skrifut skipti standa og halldast obrigdanliga um alldur og æfvi med greindum erfingum epter vorri samvisku og sem fram fyrir oss hefr komit.

Samþyckti þennañ vorn giorning nefndur kongs Maiestetz bifalningsmann herra[3]) Pall Stigsson[4]) og biskup Olaf[5]) og setti[6]) sin[7]) jnnsigli med vorum jnsiglum fyrir þetta bref. [Skrifat[8]) á Holum j Hialltadal annañ dag Septembris[9]). á sama ari sem fyr seigir.

Þad medkennum vid Arni Magnusson og Olafur Jonsson ad vid hofum sied og yfer lesit suo latandi bref ord epter ord med vj heilum og oskoddum hangandi jnsiglum sem hier fyrir ofan skrifad stendur. Og til sanninda hier vm þryckium vid ockar signet nedan a þetta transkriftarbref huort ad skrifad var a Grytubacka j Hofdahuorbi þann 23. dag Noue[m]bris manadar. Anno 1600[10]).

---

## 380. 4. september 1560. í Álptanesi.

Skipan Gisla byskups Jónssonar á kirkjusóknum bæja til Akra, Krossholts, Hítarness og Staðarhrauns.

Bps. Skalh. XII, 8. frumritað transscriptum á skinni. Fyrra innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 2449. — JS. 143, 4to., bls. 317—18, skr. ca. 1600. — AM. 258, 4to., bls. 357—9, m. h. Hákonar Ormssonar. — Lbs. 107, 4to., bls. 389—90, m h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal.

Bref Herra Gjjsla wm̃ kirkiu sokn mille Akra og Krossholltz[11]).

Þad giore eg Gisle Jonsson o[verdugur] Superintendens

1) sl. 724, 5869. 2) -ingiunum 724. 3) sl. 5869. 4) [b. v. 724, 5869. 5) Olafur 724. 6) settu 5869. 7) sitt 724. 8) [hvort ed skrifad var 5869. 9) Decembris(!) 5869. 10) Þetta transskriptarvottorð er að eins í 724. 11) Utan á bréfinu með allgamalli hendi.

Skalholltz stigtis godum mônnum kunnugt med þessu mijnu opnu brefe Anno dominj 1560. æ Alptanese æ Mýrum miduikudaginn næstan fyrir Mariumessu enu seirne ad ec tok med mier til alitz og yferskodunar þessa heıjdursmenn. Herra Martein Einarzson officialem Skalholltz kirkiu. Arna Arnorsson. Einar Marteinsson profast. Petur Arnason. Narfe Nichulasson. Einar Hallgrimsson prestar. Oddur bonde Thomasson. Jon bonde Gislason. Fiôlsuinnur Helgason. Arnor Arnason. Gudmundur Helgason leıjkmenn huersu fara skyllde vm þessar kirkiusoknir sem liggia til Akra oc Krossholltz ad saukum þess ad Krossholltz kyrkia var af fallin med aullu suo eckert embætte mǻtte ad flytiast. þui leıjst oss suo best fara Jôrue oc Bruarhraun læge til Hitarness þar til kirkian er bıjgd vpp aptur ǻ Krossholltc. eñ til Akra kirkiu skipade adurnefndur Gisle Jonsson med samþýcke oc Rǻde firr greinđra danumanna ad þessar ȷarder store Kalfalækur. Skıjdzhollt. Hamrar. Laxǻrhollt. Skutulzey. Vogur. til æfinligrar kirkiusoknar til Akrakirkiu med allre rentu og þeir .vj. aurar med aullu afskipader. sem til Krossholltz hafa arliga ǻrz golldner verit. Eñ þessir bæer litle Kalfalækr. Skiphylur og Einhollt ligge suo leinge til Akrakirkiu. þar til Krossholltz kirkia verdur vpp bygd. Jtem su ȷord heıjtande Lækiarbugur sem ǻdur hefur leigit ad halfu til Krossholltz. ligge ad aullu til Hraunstadar. Skipade þetta allt firrskrifat. adur nefndur herra Gisle Jonsson. eñ þuilıjgt allt samþycktu og Rǻǻdlôgdu firrnefndir danemenn. Og til sannenda hier vm. Set eg mitt ȷnncigli med firrnefndra danemanna ȷnciglum fyrer þetta bref skriffad ǻǻ sama stad ᴅag og ǻre sem fyrr seiger.

Þetta sem hier fyrir ofan skrifad stendr hôfum vid eptirskrifadir menn. Siera Jon Þorsteinsson og Gissur Gislason sied og yfirlesit ȷ Skalhollte xxij Octobris ᴀr 1600. ord eptir ord suo sem hier greinir med fiorum hangande ȷnciglum. Til sanninda þar vm festum vid ockar signet hier fyrir nedan þessa ockar medkienning. skrifat ȷ sama stad deige og ǻre sem hier seiger.

381. 4. september 1560. í Álptanesi.
24. júlí 1615. í Ásgarði.

Gísli byskup Jónsson leggr tvær jarðir til Ásgarðskirkjusóknar.

AM. Apogr. 2300, uppskrift, staðfest í Skálholti 7. febr. 1708, af Arngrími Bjarnasyni, Snorra Jónssyni, Þórði Þórðarsyni og Ormi Daðasyni „Epter Original transscripto fra Asgarde i Hvammssveit".— Lbs. 108, 4to., bls. 540—1, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal (eftir bréfabók Gísla biskups).

Þad giori eg Gisli Jonsson O[verdugur] Superintendens Skalhollts sticktis godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad æ midkudaginn næstañ fyrer Mariumessu seirni a Alftanesi æ Myrum Bar eg til skodunar og alits ad tilteknum þessum dandismonnum med mier. Her[r]a Marteinn Einarson. Arni Arnorson. Einar Marteinsson. Einar Hallgrimsson. Petur Arnason og Narfi Nichulasson prestar Steindor Finnsson. Oddur Thomasson. Jon Gislason. Fiolsuinnur Helgason. Arnor Arnason og Gudmundur Helgason[1]) æ ad lita kirkiuna j Asgardi hver ad aungva sokn eda tilsaufnud hafdi. skipadi firnefndur H[erra] Gisli Jonsson ad Leisingiastader og Magnusskogar leggist til Asgardskirkiu med allri Rentu. Samþiktu miua skipun adurgreinder menn hver skipun og samþýçki ad standa skal inn til þess ad laug og danumanna domur æ geingur. J sannleika ad so er þryck[e] eg mitt insigli med firnefndra manna ȷnsiglum a þetta bref. skrifad æ sama stad og dag sem fir seiger Anno 1560.

Medkennum vid Þordur Sigurdsson og Bodvar Philippusson. ad vid hofum sied og yferlesid svo latandi pappirsbref med fiorum ȷnciglum ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifad stendur. Og til sanninda hier um setium vid ockar jnsigli fyrir þetta bref hvert ad skrifad var ȷ Asgardi ȷ Hvam̄sveit þann xx. og iiij. dag Juli. Anno M. vj^c. og xv.

---

382. [ca. 10. september 1560.]

Máldagi Garðakirkju á Akranesi.

1) ad, stendr hér í Apogr., og er ofaukið.

JS. 143, 4to., bls. 293, skr. ca. 1600.

Garda kirkiu maldage.

Kirkian j Gørdum ä Akranese a halt heimaland. Galmars vijk alla. hun ǿä millum Oss j Arnarnese og griotgardz j Galmarsvijk allañ storreka. og øll þau trie er þar eru leingre eñ vj alner. og bøløxi meigi a setia. hun æ reka allañ upp med Ǽlǿä. og land alltt inn ad Merkilæk. eñ sa er vid gard ä Ose. selfarer tuennar. adra upp med Leirǿä fyrir vestan. gagnvart Biskupsbrecku. adra fram̄ ǿä Mǿästødum. afriett j Suanga øllum nautum. eñ ǿä Gagnheide avllum saudum. Tuenn messuklædi alfær. silfurkaleik nu. alltarissklædi gaumul. iij kluckur. fiordu j fontvirke. skip virt fyrir hundrad. v. kyr .iij asaudarkugilldi .iij. hesta .iij saude iij vetra. og ij tuævetra.

---

## 383. [ca. 10. september 1560].

Vitnisburðr Sigurðar Þorkelssonar um landamerki Garða og Kross á Akranesi.

JS. 143 4to., bls. 293—4, skr. ca. 1600. — Lbs. 108, 4to., bls. 394 (m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal).

Þad giøre eg Sugurdur Þorkielsson godum monnum kunnugt med þessu mijnu opnu brefe. ad þetta hafa verid hallden landamerki xx är og þadan af leingur atølulaust þessara epterskrifadra jarda Garda og Kross a Akranese þann tijd minn fader sira Þorkiell heitinn hielltt Gardastad. ad Gardar eiga alltt land ad Krosslæk. þǿä hann fiell riett fram̄. eñ Kross austan ad læknum. eñ ecki leingra og þad holltt sem Tannaberg heiter var þa halldiñ eign stadarins. og hier hefe eg aldre heyrt tuimæle ǿä leika fyrre eñ nu sijdan sira Jon Einarsson kom til Garda. Hier epter vil eg sueria ef þurfa þiker[1]).

---

1) Sira Jón setr utanmáls: „*NB* sira Þorkell helt Garda strax eptir reformationem fram til Anno 1558 edur þar um bil. En sera Jon helt þa (ad sogn) 10 ar. og for þadan til Reykholts Anno 1569“.

384. 10. september 1560. í Görðum.

Áreiðargerð í milli Kross og Garða á Akranesi.

JS. 143, 4to., bls. 294—5, skr. ca. 1600 (fúið). — Lbs. 108, 4to., bls. 394—5, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1720. — Bréfabók Brynjólfs byskups Sveinssonar AM. 269, fol., bl. 248—9, og uppskrift í Lbs. 1078, 4to., bls. 449—51 (=*b*).

Areidarbref ꜵ millum Kross og Garda a Akranese m. d. lx.

Þad giørum vier epterskrifader menn Biørn Olafsson. Freysteijrn Griımsson. Asgeir Hakonarson. Eirekur Grijmsson. Einar Hallgrijmsson. og Steirn Eyolfsson prestar. Gijsle Sueinsson. Oddur Tumasson. Jon Grijmsson, Jon Gislason. Jngemundur Magnusson. løgriettumenn. og Þorolfur[1]) Eyolfsson. godum monnum kunnugt. ad Anno domini m. d. lx. manudaginn næstan̄ epter Mariumessu seirne um haustid j Gørdum ꜵ Akranese. vorum vier til bedner af herra Gisla Jonssyni ad[2]) skoda og ꜵ ad lijta um̄ þä stora og langa landamerkia þrætu. sem verid hafdi ꜵ mille Garda kirkiu og Kross ꜵ Akranese. Komu þar fram̄ mørg skiallig vitne. bæde med brefum og munnligum ordum. af þeim dandimonnum sem upp høfdu alist ꜵ Akranese og þar barnfædder. sumer lx sumer meir. huerier suodan ly̋stu. ad þeir hefdu ecki annad heyrt af sijnum forelldrum og ødrum godum monnum. ad suo hafde[3]) halldid verid. ad Krosslækur riede landamerkium milli Gardastadar og fyrrnefndz Kross. þui tøkum vier oss stødu j þui midiu undvarpe lækiarfarvegsins sem oss leist þad hefdi ad fornu fare falled fram j sioinn. og ridum þadan rietta sionhendijng upp ä myrena. gagnvart þeim hols enda sem oss var sagt af skilvijsum monnum ad Kross ætti leingst upp. vissum vier j þessu sinne ecki ønnur landamerki sannare vera mille Garda og Kross helldur en̄ suo [sem nu er ä greint[4]) vard þessu samþyckur ädur nefndur herra Gisle Jonsson og suo Vilhialmur Oddsson med Ellende Gudbrandzsyne huerier bꜵder Kross attu og lofudu bꜵder med riettum handsølum ad þeir sky̋lldu alldrei uppꜵ fyrr sogd landamerki tala ævinliga. hier epter.

1) 108 og b; Þöralfur, 143. 2) sl. 108. 3) hafe 108. 4) [108 og *b*; fúið úr 143.

var hier vid staddur þessa areid og alit Hallur bondi Olafsson. huer þá hafdi kongsins syslu j Þuerárþijnge. og samþyckti þessa vora areid og älit kongsins vegna. Og til sanninda hier um sette herra Gisle Jonsson sitt innsigle med vorum fyrrnefndra manna innsiglum fyrir þetta landamerkia bref. er skrifad var á sama áre. deige sijdar en fyrr seiger.

[Þad medkienne eg Einar Hallgrimsson med þessare minne Eigen handskrifft at su áreid mille Kross og Garda for so fram j allan máta sem þetta fyrrskrifad áreidarbref jnnehelldur. so eg veit eige betur fyrer minum Gude en þetta Brief sie riett og satt effter þui sem þá fram fór. Til sannenda þar um skrifa eg þetta hier fyrer nedan med eigen hende á Hvalsnese Anno 1597 þann 14 Septembris.

Einar Hallgrimsson p.[1])

---

**385. 19. september 1560. í Múla.**

Vidimus af Hólateigsbréfum.

Kopíubók Hólastóls hin yngri (bls. 176—82), m. h. Sigurðar Einarssonar byskups, Þorsteinssonar, ca. 1694—5)

Brief um landeign fyrer Hólum.
med fim hangande insiglum.

[Hér koma þessi bréf:

1. Bréf ca. 16. sept. 1472—3. jan. 1474. Dipl. Isl. V, nr. 605.
2. —»— 4. nóv. 1473. ib. V, 643.
3. —»— 4. nóv. 1473. ib. V, 642.
4. —»— 3. jan. 1474. ib. V, 648,
5. Dómr 29. apr. 1474. ib. V, 654.
6. Bréf 11. maí 1474. ib. V, 659.
7. —»— 26. júní 1474. ib. V, 667.
8. —»— 22. júlí 1474. ib. V, 674].

Þath giorum vier Oddur Jonsson og Olafur Arnason. prestar. Magnus Kolbeinsson. Vigfus Þorsteinsson. Einar Thumason og Nikhulas Thomasson. leikmenn. godum monnum kunugt med þeszu voru opnu brefe ad vier höfum sied og yfer lesed suo latande vitnisburdarbrief oll med hang-

1) [að eius í b. Þá (1656) var þetta bréf í Skálholti.

ande inciglum sem hier fyrir ofan stendur skrifad ad vndanteknum þeim einum sem Klængur prestur bar. var þar fra ȷncigled eñ oll bæde domurinn og brefeñ med gomlu skyru og skiælligu skrife. suo ord epter ord sem hier stendur skrifad. Og til sannenda hier vm setium vier fyrrnefnder menn vor incigle fyrir þetta bref. skrifad i Mula i Adalreikiadal. fimtudæginn næstañ epter krossmesso vm hausted þá lided var fra Guds burd. m. d. lx.

---

386. 21. september 1560. í Snóksdal.

Daði Guðmundsson fær Oddi Tómassyni umboð til að stefna Páli Jónssyni til Sauðafells, svo framt hann er í lögréttu nú í sumar.

AM. Apogr. 4676, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali chartaceo fra vicelögmanninum Oddi Sigurdsyne".

Þat giaure ec Dadi Gudmundzson godum monnum kunigt med þessu minu opnu brefi eg medkenuzt ad ec hefi gefid Oddi bonda Tumazsyni mitt fullt og laugligt laga umbod til ad stefna Pali Jonzsyni til Saudafells i Breidafiardardali. svo framt sem han er i laugrettu nu i sumar. ad iafnfullu sem eg sialfur. fyrir þær sakir sem eg ma med laugum til hans tala. En til meire stadfestu og sans vitnisburdar hier um þrycke ec mitt insigli a þetta umbodsbref hvert skrifad var i Snogsdal i Breidafiardardaulum laugardagin i Sæluviku um sumared anno ꝏ d lx ar.

(L. S.)

---

387. 6. október 1560. í Snóksdal.

Sjöttardómr, kvaddr af Steinþóri Finnssyni í umboði Eggerts Hannessonar, dæmir sakargiftir Daða Guðmundssonar á hendr Páli Jónssyni til næsta alþingis.

AM. Apogr. 1480 „Ex originali. fra Holi i Hördadal".

Ollum monnum þeim sem þetta bref siá edur heyra. senda Einar Gislason. Gudmundur Gislason. Biarne Einars-

son. Arne Oddsson. svarner lögrettumenn. Biarne Þorleifsson og Arnor Helgason kvediu Gudz og sina. kunnigt giörandi ad árum epter Guds burd ᴍ. ᴅ. Lx. ár á Saudafelli j Breidafiardardaulum þingstad riettum. faustudaginn næstañ epter Michaelsmessu um haustid[1]. vorum vier j dőm nefnder af ærligum dandimanni Steinþori bőnda Finnssyni. er þá hafdi þar fullt og allt laga umbod laugmannsens herra Eggerts Hannessonar þing ad setia og doma ut ad nefna. um þá ákæru sem Dadi Bőndi Gudmundsson hefdi þar ad klaga til Páls Jőnssonar. til ad skoda og rannsaka og fullnadardőm á ad leggia. hversu fara skylldi um sakargifter sem Dadi bőndi gaf Páli Jonssyni. og hann beiddist og krafdi riettar á.

J fýrstu kom þar fram̃ fyrer oss stefna med sakargıyftum. hver ad svareñ var þar strax oss áheyrendum af tveimur laugligum vitnum. hveria vær dæmdum laugliga og myndnga. ok Pál Jonsson laugliga fyrerkalladan. ok sekañ mörk j stefnufall.

Jtem j fystu klagadi Dadi bondi þad til Páls Jonssonar. ad hann hefdi borid sig þeirre sök j laugriettu um sumarit. ad hann hefdi gripit og halldit fyrir sier Stadarhőli j Saurbæ. og stadarens eignum kvikum og daudum j fiögur ár. j mote kongsens nádar brefi. dandi manna dőmum og laugmanna urskurdum.

Jtem þá adra sauk er Dadi bőndi klagadi þad til Páls ad hann hefdi sagt ad hann hefdi halldit landgilldum og tollum sidan kongzins dőmur var utgiefenn j Danmörk.

Þá þridiu sök ad hann sagdi. ad hann hefdi ad sier tekit tolla j Biarneyium epter þad ad hann hefdi heyrt kongzins dőm.

Gaf hann honum þá fiőrdu sok ad hann appelleradi sitt mál ur lögsettum dőme a alþinge. hver ad ut var nefndur af laugmannenum Eggert Hannessyni. enn hann hafdi ádur vilianlega sig under lög lagt med handsaulum vid sig ad margra dándi manna vitni.

Þá fimtu sauk klagadi Dadi bőndi til optzskrifadz[2] Páls

1) þ. e. 5. okt. 2) Svo.

Jőnssonar. ad hann hefdi stefnt sier ut af landinu őlaugliga.

Þă vj. sauk klagadi ădur skrifadur Dadi bőndi Gudmundsson til Păls Jőnssonar. ad hann hefde rægt sig fyrer sinum nădugasta herra konginum j tvær reisur.

Jtem þă enu vij. sauk gaf Dadi bőndi Păli Jőnssyni. ad hann hefdi sagt hann hefdi rofed sinn eid og trulofan vid nădugasta herra konginn og giört sig svo őmyndugan og ærulausañ. hveriar saker ad oss virdtest sannar. saumuleidiss og svo hătt horfa. ad vær vorum ecke menn til einvirdiliga yfer ad dæma eda til fullnadar ad rannsaka.

Þvi ad heilags anda năd med oss tilkalladre. ok ad svo profudu oc fyrer oss komnu. dæmdum vier fyrrnefnder dőmsmenn med fullu dőms atkvædi allar þessar greiner og fyrer[1]) skrifadar saker til alþingis ad sumri næstkomanda wnder laugmannsens dőm og utnefning. ok Păl Jonsson skylldugañ þar ad koma. og laugum hier fyrer ad svara. eda hañs laugligur umbodzmadur. vilium vier ad hann făe bref edur skælligt bod um þennañ vorn dőm af herra laugmannenum Eggert Hannessӯni. eñ ef hann kiemur ecke ad svara þar laugum. edur hans laugligur umbodzmadur. þă hallde þad sem dőmur dæmer þeirra ă millum. Et cetera.

Og til meire sannenda hier um samþyckti med oss þennañ vorn dőm ădurskrifadur herra laugmannsens umbodzmadur Steinþőr Finnsson. ok setti sitt innsigli med vorum fyrr greindra dőmsmanna innsiglum fyrer þetta dőmsbref. hvert ed skrifad var j Snőksdal j Breidafiardardaulum. ă sama ăre deigi sidar eñ fӯrr seiger.

---

**388. 6. október 1560. í Hrísdal.**
**23 nóvember 1562. í Selárdal.**

Festingarbréf og kaupmáli Jörundar Steinmóðssonar og Arndísar Einarsdóttur.

AM. Apogr. 1298, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali Ara Þorkelssonar".

Jhesus.

Þad giorum vier Olafur Magnusson. Sveinn Þorbiarnar-

1) Svo.

son prestar Skalholltzbiskupsdæmis. Einar Þordarson. Jon Jonsson leikmenn godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at ǿarum epter gudz burd ꝍ. d. og lx. ȷ Hrisdal j Arnarfirdi ȷ Selardals kirkiusokn svnnudagin næstan epter Michaelsmessu um haustid vorum vier i hia. saum og heyrd um ǿa at Jorundur Steinmodzson setti og samdi sitt laga braullaup til Añdisar Einarsdottur epter godum og gomlum landzens sidvana og lagana[1]) skipan. vorum vier til nefnder fyrskrifader menn hier vitne vm at bera. ad adurgreindur Jorundur Steinmodzson festi Añdise Einarsdotter[1]) sier til logligrar eiginkonu epter gudz logum og landzins med soddan skildogum og kaupmala at tittnefndur Jorundr Steinmodzson gaf fyrgreindre Añdise Einarzdotter[1]) fim hundrud ȷ ȷordenu[1]) Hrisdal i fyrnefndre kirkiu sokn motz vid sig til æfinligrar eignar og frials forrædis. hier med lyste hann ad hun ætte adr full fim hundrud j fridum peningum j sinn gard. Hier med gaf optnefndur Jorundur Steinmodzson þrætt nefndre Añdise Einarzdotter konu sinne so mickla bus buhlute sem til þessara fim hundrada þyrte an nockurs reikningskapar og bitallings vit sina erfing[i]a. hier med skilde Jorundur Steinmodzson suo fyrir ad kynne hanz erfing[i]ar at bua[1]) tittnefnda Añdise Einarsdotter wt af þessum fim hundrudum ȷ adr greindre iordu Hrisdal þa skyllde optnefnd Añdis Einarzdotter selia sinn part huerium odrum sem hun villde. Jtem skyllde þrattnefndr Jorundur Steinmodzson Añdise Einarsdotter malakonu j sinn gard til þessara fyrrgreindra x hundrada j fostu og lausu. var hun fyr skrifut Añdis þessu ollu vel iaza og honum samþyck. Og til saninda hier um settum vier fyrr nefnder menn vor insigli fyrer þetta kaupmalabref og braullaupsgiordar. skrifad i Selardal manudægin næstan fyrir Andriesmessu um veturin arum epter gudz burd ꝍ. d. lx og ij.

---

**389.** **10. október} 1560. { i Brekkubæ.**
**13. október} { á Stapa.**

Skipti á Hellnalandi með þeim bræðrum Guðlaugssonum.

1) Svo.

AM. 252, 4to., bls. 63—4, skr. ca. 1660; transskr. Guðmundar Jónssonar, Odds Þorleifssonar og Ögmundar Jónssonar, gert eftir frumbréfi á kálfskinni 16. december 1649; AM. Apogr. 1622.

Hellna jarda landamerke.

Jn Nomine Domini Amen.

Woru suofelld lagaskipte a giðr a millum þeirra brædra Halldorz Gudlaugssonar. Jons Gudlaugssonar og Geijrmundar Gudlaugzsonar. effter þeim lagadome er þeir logdu sijn a mille a Laugarbrecku a þijngstad riettum a miduikudæg enn firer weturnætur j huorium lagadome ad voru kongz vmbodzmadurenn Brandur bönde Eijnarsson. Pietur Eijnarsson. Ellendur Jonsson. Jőn Gijslason. Ormur Pietursson og Arne Jonsson. huorier sőmu menn vtann Arne Jőnsson. enn j hans stad var tilneffudur Þorgeir Þordarson: ad skipta Breckubæiar partinum vid Hellna husum. tauduvőllum og budum: J firstu ad Jon Gudlaugsson skillde eignast allañ Skialldartradabala sudur ad sijnu eigeñ lande: sem Øxnakielldu heffur filgtt sijdañ hann vard hennar eigande. og vt ad lækiar farueg þeim sem rennur offañ epter lægenne firer vtanñ Skialldartradar bud: Suo og skillde hans eign vera su sama bud: Skialldartrőd; og þar med mætte hann vppbiggia j þessu sijnu lande buder til jaffnadar vid sijna adurskriffada brædur: suo og skillde huőr þeirra brædra meiga haffa j sijnum pőrtum fiőra budarmenn og fimm skip: enn eff þeir juke fleirum budum edur skipum þa skillde þad giőra med allra þeirra samþicke. og allra þeirra gagn vera: Suo og kom a þeirra part brædranna Halldőrz og Geirmundar allt tuned Breckubæar firer vtann lőgena: enn buder skiptust suo. ad Halldor og hans skilgietenn sonur Hallur skilldu eignast tuær buder j tunenu firer vtan Breckubæ og Olaffzbud: enn Geirmunde war skiptt Gijslabud og Vermundarbud og Molldarholubud. enn Fotaspinnu eiga þeir bæder Halldor og Geirmundur: Enn Wppsatur naust og vergőgn skilldu þeir siðlffer skipta og haffa ad jaffnade. og aller lijka miked: Suo og vorum vær vottar ad og tilkallader sera Steingrijmur Gudmundzson. Brandur Ejnarsson. Pietur Eijnarsson. Jon Gijslason. Ellendur Jonsson og Olaffur Jonsson. ad þeir keyptust uid Geirmundur Gudlaugsson og Hall-

ur Halldorzson j wmbode faudur sijns riettu lagakaupe vm þann mismun sem var a mille tunsinz a Laugarbrecku og tunsins sem nu er i Breckubæ. huar firer ad Geirmundur þä kuijtt tuð hundrud aff Halle er Geirmundur atte ad greida kirkiunne a Laugarbrecku. Enn øll ønnur landz og sioargiæde skilldu þeir brædurner aller haffa til jaffnadar: for þesse giôrnijngur og lôgleg eignarskipte fram̃ med fullum handsaulum og lôglegum giôrninge. ad þessum øllum wottum hiauerendum og môrgum ødrum godum mônnum. j Breckubæ a fimtudægenn firer weturnætur[1]). Enn kaupskapurenn þeirra Hallz og Geirmundar giôrdest a Stapa j Knarrar kirkiu sokn a sunnudægenn næstañ þar effter. þä lided var fra Gudzsonar hijngadburd Anno 1560 ar. Og til sanninda hier wm festum vær firskriffader menn vor jncigle firer þetta brieff: huôrtt ad skriffad var a Stapa a sama are og fir seiger.

---

## 390. 16. október 1560.

Skrá um matvæli á skipi konungs einu nálægt Árósum (ágrip).

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 6, 340 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 111, 4to., bls. 109, Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Register paa huad som skall werre paa thett skib. som
er kommett fran Kiôbnehaffn oc end nu ligger
iiij miell fran Aarhus.
Fôrst.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Islandz fisk .v$^{c}$.

. . . . . . . . . . . . . . . . . .[2])

---

## 391. 22. október 1560. á Seylu.
## 8 apríl 1561. á Skíðastöðum.

---

1) þ. e. 10. október. 2) Hér er að eins tekið það, sem Ísland varðar.

Sjöttardómr, kvaddr af Nikulási Þorsteinsyni, er þá hélt Hegranesþing, dæmir um framfæri barna Jóns Ólafssonar.

AM. Apogr. 297 „Ex orig. fra sira Skula Þorlakssyne. Nockur innsigle synast ad hafa vered fyrir brefenu, eñ nu eru öll burtu. Originallenn er under lok lidinn". (AM.).

Þat giorum uier Torfi Þorsteinsson. Kær Sæmundzson. Oddur Filpusson. Petur Þorsteinsson. Tum̄e Þorgrimsson. Hallsteinn Einarsson. godum monnum kunnigt med þesso uoro opno brefi. arum epter gudz burd m. d. lx. þridiodagen næstan fyrir Simonsmesso. a Seylo ȷ Skagafirde. a þingstad riettum vorum vier ȷ dom nefnder af heidarligum manni Nikulase bonda Þorsteinssyne. er þa hafdi kongzins syslo og umbod ȷ Hægranesþinge. at skoda ransaka oc fullnadardom æ at leggia hvar born Jons Olafzsonar skilldo framfære hafa. hver hann sagdi modurlaus uera oc þroten. þui hann uære med ollo fielaus. oc beiddest þar domz æ. J fyrsto kom þar fyrir oss. at Olafur Ionsson fodurfader barnanna uære nanastur oc næstur arfi. epter þau. af þeim sem fie hefur. Nu fyrir þa grein at suo stendur ȷ vore landzlagabok. Ed[1]) sa skal framfære ueita er arfi er næstur. og forlagzeyre hefur til. Þa adra grein. nu sækier þrot bonda ȷ hierade. þa skal skipta omogum hanz. epter þui sem ȷ fielag þeirra kom. skal hvort hiona færa omaga sinn a hendur frændum þeim sem arfue ero næster. oc forlagzeyre eigo til. Nu fyrir þessar greiner og þær fleire sem ȷ logmaleno standa oc hier at hniga. og at suo profudo sem fyrir oss kom dæmdum uier fyrr nefnder domzmenn menn fullo doms atkuæde. þesse adurnefnd born Jonz Olafssonar sem modurlaus uære. æ fie adur greindz Olafs Ionssonar suo morg sem hann a forlagzeyre fyrir epter logum. oc faderen fær ecki borgat. Eñ ef optnefndur Olafur æ ecki meira fie enn virdist til framfæris þessum fyrnefndum bornum. þa dæmdum vier þa omaga huerfa skylldo af fie hanz. sem onanare væri a fieno adur. epter þui sem logbok seigier. Og þui dæmdum uier Olaf skylldugan at lata virda fie sitt. oc uinna þar at fullan eid. at hann æ ecki meira fie en hann þa

1) „ita est" (AM.).

fram telur nema minna sie. Suo oc dæmdum vier Ion Olafsson skylldugan at lata hreppstiora þar i hrepp skoda oc virda sitt fie oc vinna þar at fullan eid. at hann æ ecki meira fie enn hann þa fram telur. nema minna sie.

Samþyckti þennañ vorn dom adurgreindur valldzmadur. oc setti sitt ȷnsigli med vorum fyrskrifadra domsmanna ȷnciglum fyrir þetta domsbref. er skrifat var a Skijdastodum ȷ Tungosveit a iiȷ[a] dag ȷ paskum. vm voret. are sijdar eñ fyrr seigier.

---

**392. 10. nóvember 1560. í Flatey.**

Guðrún Þorleiksdóttir arfleiðir með samþykki föður síns dætur sínar tvær, er hún átti með Jóni Björnssyni.

AM. Fasc. LIV, 26, frumrit á skinni m. h. síra Þorleifs, og eru öll (4) innsiglin fyrir, en tvö af þeim eru brákuð. — AM. Apogr. 1207.

Arfleiȷdslubrief Gudrunar Þorleikzdottur 1560[1]).

Þat giorum uær Þorleifur prestur Biornsson. Biarne Sueinsson. Haldañ Þorsteinsson og Jndride Arnfinnsson leikmenn godum monnum kunnigtt med þessu uoru opnu brefi at arum epter gudz burd. ꝏ d. lx. a manudaginn næstan epter Lavrencius ꝏesso[2]) ȷ Flatey æ Breidafirde uorum uier hia stadder saum æ og heyrdum. at Gvdrun Þorleikssdotter arfleidde dætur sinar tvær sem hun atte med Jone Biornssyne Margretu og Olofu med ȷayrde og samþycke fodur hennar Þorleiks Þordarsonar er þa war hennar logligur erfinge. Geingu þesser aller fyrnefnder menn fyrir kirkvdyr og hielldu aller a̋ eirne bok. Þorleikur Þordarson. Gudrun Þorleiksdotter og dætur hennar Margret og Olof. og adur greind Gudrun arfleidde þessar sinar opttskrifadar dætur epter logbokarinnar ordum tıl allz þess fiar sem hvn atte og hvn eigande yrde feingins og ofeingins. til gialldz og til giafar til sess og sætis og allz þess riettar sem ættleidingur æ at hafa at logum og logbok ut skyrer. Eñ ef þrattnefnd Gudrun Þolleiksdotter giptiztt og ætte skilgetin borñ epter sig þa skyllde helming hennar penniñga erfa og eignazt. hvor

1) Svo, utan á bréfinu með 17. aldar hendi. 2) þ. e. 12. ág.

vm̄ sig. Og til sannin̄da hier vm̄ sette optt nefndur Þorleikur sitt ȷncigle fyrir þetta arfleidzlubref med vorra fyrr greindra manna ȷnciglum huertt ad skrifad var ȷ Flateẏ a Breidafirde sunnudagin næsta fyrir Marteinsmessv wm haustid æ sama are sem fyrr seiger.

---

**393. 11. nóvember 1560. á Mælifelli.**

Skipti á Völlum stóru í Vallhólmi fyrir Tungufell og reka á Skaga til Reykjakirkju í Tungusveit fyrir Fornu-Velli í Vallhólmi.

Bps. Hol. III, 8. Fyrir bréfinu er nú 1 innsigli, en hafa verið 3. — AM. Apogr. 4684. „Þetta bref hefi eg fe[n]ged af Erlendi Jonssyni ä Hvoli, eñ feck þad (originalenn) 1708 Eggert Jonsssyne ä Ökrum“ (AM.). — AM. Apogr. 4129 m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“ „ä kalfskinn“.

Kaupbref herra Olafs og Magnusar Biornssonar fyrer Vollum og Tungufelle 1560[1]).

Þat giorum uier Þorsteinn Hallson Hola domkirkiu radzmadur. Þorgilz Sigurdsson oc Sveinn Bærdarson prestar Hola biskupz dæmis. Jon Sigurdzson. Grimur Einarsson Simon Juarson. leikmenn. godum monnum kunnigt. med þesso uoro opno brefe at arum epter Gudz burd M. D. lx. xja[2]) dag nouembris manadar. a Mælifelli ȷ Tungosueit ȷ Skagafirdi. vorum vier ȷ hia. saum oc heẏrdum æ ord oc handaband verdugz herra biskupz Olafz Hialltasonar af eirni alfo. Eñ af annare Magnusar bonda Biornssonar. at suo fyrir skildo. at greindur biskup Olafur selldi fyrrgreindum Magnuse Biornssẏne vndan domkirkiunne oc sier ȷordina Storo Velle ȷ Vallholme ȷ Skagafirdi ȷ Holtz kirkiusokn. vnder hann og hañs erfingia. eñ vndan sier domkirkiunne oc hennar formonnnm. fyrir .xlc. med ollum þeim gognum oc giædum. eignum og itolum sem greindri ȷordo fylgier oc fẏlgt hefur at forno oc nyio og biskup Jon heitenn godrar minningar Hola domkirkiu uegna vard fremst eigandi at

---

1) Utan á frumritinu. Enn fremr stendr þar m. h Guðbrands byskups: Kaupbref Vallna og Tungufells 1563(!). 2) vja 4684.

ordinn. med þessum vmmerkium. Rædur gardur fyrir sunnan upp at Krossuade. oc ofan æ motz vid Forno Velle. Eñ ur Krossuadi riettsýnis j Sandkvisl eda Kora kallader ero. med ollum bockum austur j Votn og ofan j Sporda med þeim holma er kalladur er Grisarholmi. Hier j mot gaf Magnus kirkiunne oc biskupinum ȷordina Tungofell ȷ Svarbærdal[1]) j Vrda kirkiusokn. med littla Tungofelle. med ollum þeim gognum oc giædum. sem greindre ȷordo fýlger oc fylgt hefur at forno oc nyio. og hann hefur fremst eigandi at ordit vndan sier oc sinum erfingium oc vnder kirkiuna oc hennar formenn fyrir .xl$^{c}$. Jtem j sama handabandi selldi fyrr greindur biskup Olafur adur greindum Magnuse. vegna hans kirkiu æ Reýkium j Tungosveit. oc menn uisso at greind kirkia atti ongvañ reka sier til uppähelldis. huort at henne geingi elldur eda hrornan. eda æ þeim gardi sem hun a stendur. og goder menn hafa giefit fyrir sinne salo. gudi til lofz. oc hañz blessada ordi til upphelldis. þann rekapart allañ a Skaga. sem liggur a mille Kiellingar og innra[1]) foruada fýrer Kleifarlande. ȷ vidum oc hvolum. nema þridiung allz hvalzreka skylldi Hola domkirkia eignast oc leigolide af uidrekum suo micit sem honum ber at hafa vndan domkirkiunne. Eñ vnder greinda Reykia kirkiu til ævenligrar eignar. Hier j moti gaf oc gallt greindur Magnus domkirkiunne æ Holum fyrer greindan rekapart iordina Fornovelle j Vallholme j Skagafirde ȷ Holtzkirkiusokn hueria jord. at kirkian æ Reykium sialf atti adur. til æuenligrar eignar vndan henne. oc vnder domkirkiuna. þui fyrrgreind jord liggur afost vid kirkiunnar jord Skinnhufo[1]). og þotti hun jafngagnsom vid kirkiuna sem rekaparturenn. Skilldi huor hallda sino kaupe til laga er keypte. eñ hinn suara lagariptingum sem sellde. Og til sannenda hier vm setti fýrrgreindur biskup Olafur. og adur nefndur Magnus sijn ȷnnsigle med vorum fyrrskrifadra manna ȷnnsiglum fyrir þetta bref er giort var j sama stad. deigi oc are sem fyrr seigier.

Lit. C. Þetta kalfskinsbref var upplesed fyrer Rette

1) Svo.

ad Seilu manntalsþinge. Þann 29 Junji Anno 1728.
Testerar

Jens Madtssen Spendrup
manu propria[1]).

---

394. 12. nóvember 1560. á Grenjaðarstöðum.

Torfi Þorsteinsson heitir síra Sigurði Jónssyni að selja honum Hafralæk fyrstum manna.

AM. Apogr. 102, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex authentico sira Olafs Stefanssonar. Concordat etiam cum originalibus, mihi similiter communicatis per Dn. Olaum Stephanium“ (AM.). — Jbskj. AM. Þing. 15 (nú í þjóðskjalasafni).

Um Hafralæk.

Þad giore ec Torfi Þorsteinsson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi. ad ec hefi lofad sira Sigurdi Jonssyni med handsölum og svo lofa ec enn nu med þessu mïnu opnu brefi ad selia honum fyrstum eda hans Erfingium jördina Hafralæk j Adalreÿkiadal j Neskirkiusőkn fyrir lausafie so mykit sem adrer villdu mier med sannleika fyrir giefa. nær sem ec villdi eda þyrfti eda mïner Erfingiar ad selia. giordi ec þennañ Giorning ä Greniadarstad j Adalreÿkiadal xij. dag Novembris manadar hiaverandi minne kvinnu Guidnyu Magnusdotter og svo med hennar samþycki. svo og samþÿckte hun þä enn þad kaup sem ec hafda keÿpt vid ädur nefndañ sira Sigurd þad er ec hafdi sellt honum Lauga. svo sem innciglad bref þar um̃ utvijsar. Og til sanninda hier um̃. set ec mitt inncigli fyrir þetta bref. hvert ed giört og skrifad var mier hiaverandi ä fyr greindum stad og deigi sem fyr seigier anno domini ꝏ. d. lx.

---

395. 8. december 1560. á Hólum.

Kaupbréf fyrir Lundi í Fljótum.

AM. Fasc. LIV, 27, frumrit á skinni, úr safni Hólastóls („sk“) (nú í þjóðskjalasafni). Öll (6) innsigli fyrir. — AM. Apogr. 3463. — AM. Fasc. LIV, 29$\alpha$, skrá á skinni frá ca. 1564. — AM. Apogr. 298.

1) Þetta er ritað aftan á bréfið.

fullrar eignar jördina Grænavatn er liggur i Reykiahlijdar kirkiusokn med öllum þeim gögnum og giædum sem greindre jördu fylger og fylgt hefer at fornu og nyu. og fyrrnefndur Kolbeinn vard fremst eigande ad. Sagdi fyrnefndur Kolbeinn j þessari jördu lægi kristfie iij^c. og þui lofadi Grimur at tijunda þad .epter gomlum vana. So og sagdi þrattnefndur Kolbeinn at jörden Balldursseimur[1]) ætti Eingiatak fyrir æstan Krakä vid Langhollt og jördin Hrakstrond ætte .iij. kua fodur ä eingium j Grænavatzlandi. So og ætte Grænavatn alla veidi j tveimur drättum fyrir Gardz landi. þa männudur væri til vetrar. Eñ j .vij drattum fyrir Briansnes[2]) landi þä männudur væri til vetrar. Eñ j þessum .ix. drattum halfa veidi upp fra veturnottum og til Mariu messo. kierta messo. Hier i mot gaf fyrrnefndur Grimur ädur skrifudum Kolbeine. xv. mälnytu kugilldi og xv^c j ödrum peningum gilldum og godum. og þar til skylldi Grimur at sier taka adur greindan Kolbein og modur sijna þa þæ villdu eij lengur bunad hafa og hallda þæ ærliga til matar og fata älagalæst so leinge sem þeir lifdu til. skylldi optnefndur Kolbeinn svara lagariptingum a greindri jördu eñ Grimur skylldi hallda til laga. Og til sannenda hier um setium vid fyrr nefnder menn ockar jnsigle fyrir þetta jardarkæpsbref. hvert ad skrifad var ä Storu Lægum j Reykiadal. sunnudagen epter paskaviku um vorit ä sama are sem fyrr seiger.

Þetta bref er riett skrifad epter originalnum sem er ä pergament ritadur og med tveimur heilum hängande jnnsiglum. Til merkis vor nöfn j Hvamme j Hvammzsveit þann 5. Junij. Anno Christi 1710.

| | |
|---|---|
| Magnus Magnusson. | Þorsteirn Sigurdsson. |
| (L. S.) | (L S.) |
| Þordur Þőrdarson. | Ormur Dadason. |
| (L. S.) | (L. S.) |

---

**448.** 23. apríl 1561. **á Hólum.**

Fjórir prestar vitna um prestskyldu á Grund i Eyjafirði eftir máldögum Hólakirkju.

1) Svo. 2) briäsnes, Apogr.

AM. Fasc. LV, 4 (nú í þjóðskjalasafni), frumrit á skinni úr skjalasafni Hólastóls, með öllum (4) innsiglum, sumum bráknðum. — AM. Apogr. 3462.

1561 Vm̃ prestskilldu a Grund ȷ Eiafirdi[1]).

Þat giorum uier Þorsteinn Hallsson Holaradzmadur. Þorgilz Sigurzson. Ion Biornsson. Andres Asgrimsson prestar Hola biskupzdæmis godum monnum kunnigt med þesso uoro opno brefi at þa lidit uar fra gudz burd: m d lx oc eitt ær: beiddi oc skipadi oss uor yfermadur biskup Olafur Hialltason grandliga at skoda alla Holakirkiu maldaga sem nű til stadenz liggia fra tijd Audunar raudz og allt til biskupz Gottskalz sijdusto tijdar hins síjdara: um kiennemanna skylldo at kirkiunne æ Grund i Eyiafirde: sagdi hann oss allan sinn tilgang huar upp æ hann uilldi hier bref oc insigle af maldogonum hafa: at hustru Þorunn Jonzdotter þar verandi hefdi giortt sitt skipun̄arbref um prestuist þar oc skylldo: omyndugt fyrir laus tolut ord: svo at sa prestur sem hann hafdi þangat skipad nu um ij ær: hefdi þar alldri feingit nema halua sina skÿlldouero huorki fyrir skipun nie audmiuka beidne. Þui hofum vier nu sied. skodat oc innuirduliga yferleset iiij heila oc oskierta mældaga Hola domkirkiu: suo at eingen umskipti ero a neinum giord allt til þessa dagz: suo latandi oc samhliodande sem hier epter stendur skrifat: Þat at kirkiunni æ Grvnd ȷ Eyiafirde er ij[a] heimiles presta skyllda oc diaknz med ȷafnade. Og til sannenda hier um setium uier fyrr greinder prestar uor insigle fyrir þetta uortt uitnisburdarbref: giortt a Holum ȷ Hialltadæl: xx og iij[a] dag aprilismanadar: a sama ære sem fyrr seiger.

---

## 449. 30. apríl 1561. á Hólum.

Vottorð Ólafs byskups Hjaltasonar um Bergsstaðamáldaga.

Bergsstaðaskjöl í þjóðskjalasafninu: *a)* uppskrift Gísla Konráðssonar, staðfest 8. mars 1845 af Birni sýslumanni Blöndal; *b)* uppskrift

---

1) Utan á bréfinu með 17. aldar hendi þeirri, sem venjulega er utan á Hólabréfum.

Jóns háyfirdómara Pétrssonar 1851. Báðir rita eftir frumritinu á skinni. Stafsetningin er hér færð til aldarvenju.

Eg Olafur Hialltason biskup æ Holum oc ouerdugur superintendens Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnegt med þesso mino opno brefe at eg hefi grandliga skodat oc yfer leset alla kirkiunnar maldaga a Holum. sierdeilis um kirkiunnar eign a Bergstodum og stadarinz þar.

J hinum fyrsta og elldsta maldaga sem 'uar datum m. iij$^{c}$ og xuiij ar. stendur suo. at Bergstader uoru bonda eign. atti þa kirkian þar þridiung ȷ heimalandi.

Jtem anno m. iij$^{c}$ og lx ar uar ritadur maldagi greindrar Bergstada kirkiu suo hliodande ad kirkian a Bergstodum a allt heimaland. hun æ og allan Fossadal halfuan framan at riettum. Jtem stendur i sama maldaga at Sueinn Þordarson og Uigdijs kona hans keypto Bergstade at Ijsleifi med þeim skilmala. at halfur Fossadalur skyllde fylgia Bergstodum at allre eign bædi iardar og haga oc hrisa og allra landz nytia þeirra sem betra er at hafa eñ æn at uera framan til rietta fyrir austan oc þar gegnt fyrir uestan utan upp hogguit gras fra Ions messo baptiste til iiij$^{a}$ uikna. þann tima skal eigi[1]) til beitar leggia dalenn. Eñ skipi þess æ millum med iafnade. husgiord uar skilen þar sem hafa uillde i dalnum af Bergstodum med þui skilorde. at bondi sa er i Stafni byggi skylldi fæ saudamanni af Bergstodum husrum. kietil. elldiuid. dryck og uinno sem sinum monnum oleigis eda lata giæta sauda sialfur. oc hafa eyrir a xu saudi. gellt naut skilldi[2]) uera med kunautum i Stafne. huert sumar. ef Bergstada bondi uillde. hefi ec Sueirn Þordarson med þesso skilorde keypt Bergstadi oc Fossadal at Ijsleifi oc sellt Halli preste.

Jtem ȷ þridia maldaga anno m. iij$^{c}$ ıx tier oc v stendur innskrifadur same maldagi kirkiunnar allur um landareign oc Fossadal sem fyrr greiner.

Jtem i hinum yngsta oc sijdasta maldaga sem giordur hefur uerit vm allar kirkiur anno m. iiij$^{c}$ lx oc eitt ær. sem eingen umskipte hafa sijdan uerit innskrifut nie sett alltt til

---

1) ei GK. 2) skyldi GK.

þessa dagz. helldur hann allt um Bergstada land oc eign sem hiner fyrre maldagarner aller sem hier ero nu inn setter.

Hafa alla þessa maldaga med mier saman lesit heidarligar personur Þorsteinn prestur Hallsson Holastadar radzmadur oc Ion prestur Biornsson. huerier at settu sin insigli med mino insigli fyrir þetta maldagabref er giortt var a Holum i Hialltadal sijdasta dag aprilis anno domini m. D lx og eitt.

[Upplesid fyrir manntalsþingsrietti i Bólstadahlíd þann 1ta Julii 1778. Testerar.

M. Gíslason[1]).

---

**450. 3. maí 1561. á Reykjahólum.**

EIÐR Ragnhildar Jónsdóttur um börn sín og síra Þorleifs Björnssonar.

AM. Fasc. LV, 5, frumrit á uppskafningi úr gamalli skinnbók, m. h. síra Þorleifs Björnssonar. Öll (3) innsiglin dottin frá. — AM. Apogr. 1251.

Eidur Ragnhildar konu sira Þorl[eifs][2]).

Þad medkennuzt ec Jndride prestur Amundason. at ec hefi so felldan eid teckit og stafat Ragnhillde Jonsdottur at hun suer born sin upp æ sira Þorleif Biornsson sem hier epter stendur skrifad.

Til þess leg[g] ec hond a helga bock og so skyt ec minu male til gudz at sira Þorleifur Biornsson er so sannur holldligur fader sem ec holldlig moder at þessum minum bornum er so heita Pall. Gudrvn og Jngibiorg epter þeim til tecnum tima sem ec hefer fram reiknad fyrir sira Jndrida Amundasyni og fleirum audrum. og ad suo stofudum eide se mier gud hollur.

Voru þesser menn til kallande[3]) uottar Jon Gudmundzson og Jon Svarttzson at fleira folke hia ueranda.

Og til meire[4]) audsyningar hier vm festa ec mitt jncigle med þeira fyrr greindra manna[5]) jnciglum [fyrir þetta eidbref[6]) huertt at skrifad var a Reykiaholum a Reykianese. jn-

---

1) [b. v. GK. 2) Utan á bréfinu m. h. frá 17. öld. 3) Svo. 4) meira, frbr. 5) tvískrifað. 6) [niðri við fald bréfsins og vísað inn.

uencio sancte crucis um uorit arvm epter gudz burd. ꝏ. d. lx. og eitt ar.

---

451. 10. maí 1561. eða 19. maí 1571. } að Lundi.

Dómr Þórðar lögmanns um ósvarin frillubörn, genginn að Lundi í Lundarreykjadal 10. maí 1561.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol., bl. 114, skr. ca. 1600 (= α). — ÍB. 309, 8vo, bl. 119—20b, Öxnafellsbók m. h. Ara Magnússonar í Ögri ca. 1620. — Margar uppskriftir og misjafnar eru til af þessum dómi. — Dómr þessi er árfærðr 1571 í Alþingisbókum Íslands I. bls. 92—3, og er það í samræmi við Öxnafellsbók. En allt eins mikil ástæða virðist til þess að treysta megi aðalhandritinu um þetta, og að hin hafi breytt ártalinu og sett inn í samræmi við það lögmannsstétt Þórðar. Oddr Halldórsson mun og ekki hafa lifað lengi fram yfir 1561. Það, sem mælir í móti ártalinu 1561, en með 1571, er helzt það, að Þórðr Guðmundsson virðist árið 1561 hafa verið umboðsmaðr Orms Jónssonar, er þá hafði Þverárþing sunnan Hvítár, og að þetta er ekki nefnt í þessum dómi, og gæti þó hafa fallið niðr. Ártalið er því vafasamt.

Domur wm̄ osuarin̄ frillubaurn̄.

Ollum maunnum sem þetta Brief siæ edur heyra senda Einar Eireksson. Þormodur Asmundsson. Teitur Arn̄ason. Sigurdur Biaurn̄sson. Oddur Halldorsson [oc Einar son han̄s[1]) kuediu Gudz oc sijna kunnigt giaurandi ad þa lidit war fra [Gudz sonar[2]) fæding 1561[3]) laugardaginn næstan̄ fyrer wppstigningardag wm̄ worid æ Lundi ȷ sydra Reykiadal æ þijngstad riettum worum wier ȷ dom nefnder af Þordi Gudmundzsyni[4]) er þa hafdi kongsins wm̄bod ȷ Þuerarþijngi fyrer sunnan Huijtæ til ad skoda og rannsaka oc fullnadardoms atkuædi (?) ad leggia [þad mal Er grein̄dur kongs wmbodzmadur beiddist þa alits æ huersu[5]) fara skylldi vm þær orijkar[6]) konur sem færi wm̄ sueitina med [baurn̄ sijn[7]) wppa fatækan̄ almuga. en̄ eignudu þeim baurn̄in sem peninga eda biaurg hefdi nauckra fyrer þau ad leggia oc buandi wæri ȷ

1) [Einar Halldorsson 309. 2) [lausnarans 309. 3) *1571* 309; 1561 α og flest handrit önnur. 4) logmanni sunnan og austan, b. v. 309 og flest önnur hdr.; sl. α. 5) huorninn 309. 6) fatækar 309. 7) [bornum sijnum 309.

hieradinu[1]) eñ þeir willdu þeim[2]) ecki gott giaura af[3]) þuj þeim þætti þau eckj wera ættfærd[4]). J fyrstu stendur suo j vorum[5]) christinrietti. Sa skal fader ad barñi er moder seiger æ heñdur wtañ hann færist wñdañ med eidi ad laugum. Jtem j worre landzlagabok. Huer madur er skylldur fram̃ ad færa faudur sinn oc modur oc suo baurñ sijn. J þridia stad. Ad huer madur sem lætur ganga baurñ sijn ꝍ wonarwaul. J fiorda mata ef menn skiota nidur baurñum̃ sijnum ad olaugum j hreppa. suo og ef madur wijsar omaga sijnum[6]) wr wist oc lætur hann ganga ꝍ fatæki bæia j millum. Jtem R[iettar] B[ot]. Huer madur er skylldur ad leida eda bera baurñ sijn. Þui fyrer þessar greiner sem j laugunum standa oc hier ad hnijga dæmdum wier fyrnefnder domsmenn med fullu domsatkuædi huerñ mann skylldugañ ad annast baurñ sijn sæ sem nauckud hefur fyrer þau ad leggia oc sialfer eiga werk sijn. Eñ þeir sem winnumenn eru hia audrum skulu leggia mædrunum med þeim allt þad fedrunum geingur af einfaulldum wadmalsfautum dag og nott. wtañ þeir færist wñdañ med slijknm eidi sem [fyrr wottar[7]). Eñ ef þeir wilia ecki wñdañ færast eda baurñunum biaurg weita þa dæmdum wier hreppstiorana þar j hrepp sem fedurner bua skyllduga ad taka baurñin og færa heim til fedranna og setia þar nidur. Eñ hina skyllduga wid ad taka oc biaurg weita epter [þui sem bok seiger[8]).

Samþyckti þennañ worn dom.

---

**452.** **11. maí 1561.** **í Glaumbæ.**

Kaup á hálfum Kimbastöðum fyrir hálfa Brúnastaði.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206), bl. 27a. Blaðið skemmt.

Þad giorum uier Einar Gilbrigtzson oc Þorg[eir Sæmundzson] g[odum monnum kunnigt med] þessu uoru opnu brefi arum epter Gudz burd ꝏ. d. lxı sunnudagin fyrir uppstigningardag um uorit j Glaumbæ uorum uid j hia saum

---

1) hreppnum 309. 2) b, v. 309. 3) 309; ad *a*. 4) riett færd(!) 309. 5) fornum 309. 6) b. v. 309. 7) [log seigia 309. 8) [laugum 309.

oc heyrdum a ord og handaband sera Gottskallz Jonssonar [oc] sera Niculasar Þordarsonar oc kuinnu hans Gudrunar Arnadottur at suo fyrir skilldu med jæyrdi oc samþycki fyrgreindrar Gudrunar at sera Niculas selldi sera Gottskall Jonssyni [til] fullrar eignar jordina halfa Kimbastadi er liggr j Siafarborgar kirkiusokn med ollum þeim gognum oc gædum sem þessari fyr greindre halfre jord hefur fyllgt at fornu oc adurnefnd hion urdu fremst eigandi at. hier j mot gaf sera Gottskall adur nefndum hionum halfa jordina Brunastadi er liggr j Mælefellz kirkiusokn med ollum þeim gædum sem þeirri halfri jǫrdu hefur at logum fylgt oc þar til vj malnytu kugilldi. Skylldi huorer hallda sinu kaupi til laga en huor þeirra skylldi sitt anduirdi aptur hafa ef af þeim geingi sem keypt hefdi. lofadv þau j sama giorningi at selia fyr [nefn]dum sera Gottskall aptur fyrstum þessa jord Brunastadi þe[gar þau] uilldi selia fyrir suodan uerd sem annar uill fyrir gefa.

---

## 453. 12. maí 1561. í Múla.

Vitnisburðr um skilríki fyrir Hólateig eða landamerkjum í milli Reykjarhóls og Hóla í Fljótum.

AM. Fasc. LV, 6, frumrit á skinni úr skjalasafni Hólastóls (nú í þjóðskjalasafni). Af 6 innsiglum er enn hið 1. fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 3461. — Sbr. Dipl. Isl. V, nr. 605, 642—3, 648, 654—5, 659, 674.

Vitnesburdur um̃ landamerke mille Reikiarhols og Hola j Fliotum 1561[1]).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra Sendum uier Biorn Gislasoñ Þorstein Hallzson Holakirk[i]v radzman. Kolbein Audvnarson. Teittur Magnusson. Geirmvndvr Jonsson. Gudmundur Skidason. kuediv Gudz og vora kunnigt giorandi at þa er lidit var fra hingatburd vors herra Jhesu Christi. ꝏ. d. lx og i ár midvickvdagin næstan epter krossmessv vm vorit[2]) a Eyrarlandi j Eÿiafÿrde.

---

1) Er utan á bréfinu með hinni sömu hendi frá 17. öld sem er utan á Hólabréfum. Upphaf bréfsins er útskafið hinum megin á skinnblaðinu. 2) þ. e. 7. maí.

a almenneligre prestastefnv. vorvm vier til nefnder. at heidvrsamligvm herra biskup Olafi Hialltasýne. at skoda nockur bref. nær .ıx. tige ara gomvl. sem eru vm eirn reitt edur teig sem liggur ȷ millum Reyckiarhols og Hola ȷ Fliottum. og menn kalla .xc. lañd. liggur þesse teigur fyrir svnan merckigardin. sem suarin hefur verit ȷ millvm fyrskrifadra ȷarda. hafdi þessi teigur nv vm langan tima ȷordune Holum fýlgt. og med henne selldur og keýptur verit. Hafdi sira Jllugi Gvdmundsson þessa ȷord Hola nu med eignarhalldi. og beiddi hann oss hier licka skodunar a.

J fyrstu kom fram fyrir oss bref vegna ȷardarenar Reýckiarhols. suo hliodanda. at iiij men baru þan vitnesbvrd at þeir hefdu hia verit at Brandur Jonsson logmann hefdi teckit af iij monnum eida at nefndan ȷardarpartt. og landeigñ hefdu haft þeir eignarmenn og leigvlidar. sem buit hofdu a Reýckiarholi. med fullv eignarhalldi vpp ꝺ̃ .xl. uettur og þad hefdi þeir ei heýrt tuimælis orcka. at nockvr anar ætti þenna partt og landeign nema ȷordin a Reýckiarholi fyrr en þeir heýrdu þad hermt fra ordum þeirra Þoruardar og Steingrims. Skýlldi og einn af þessum iij hafa svarit at ein gam̃al madvr hefdi honum sagt at þessi sami parttur og landeign hefdi fýlgt ȷordunne Reýckiarholi fyrir hina mýcklu plagu. bar og annar þessara manna svo. at eirn madur sem bio a Reýckiarholi tok fenad þeirra sem ȷ Holum biuggiu[1]). ȷ þessare landeigñ. og inn setti en hiner leýstu vtt.

J annare greiñ kom fram fyrir oss vegna ȷardarenar ȷ Holvm vittnisburdarbref. iij. manna suo hliodanda. at sira Jon Broddason radzmadur Holakirkiu og Þorualldur Jonsson sem þa var eignarmadur Reýckiarhols. og med þeim prestar og leikmenn. hofdu ridit a landamerki ȷ millvm opt nefndra ȷarda. og þeir sem a ridu vissu ei bettur. en ȷordin ȷ Holum ætti þetta lañd. var þar lessid kaupbref nefndz Þorualldz fyrir Reýckiarholi og stod þessi teigur þar ecki ȷnne. En hann hafdi þo adur sagt. at Arne Holskollzson[1]) hefdi sellt sier hann. En þa vard hann þar tvisaga ad. er

1) Svo.

brefid var lesid. fyrerbaud sira Jon þa Þorualldi ath nýttia teigin. En hann suaradi honum. at hann skýlldi fa hann odrum. Var þetta einv are fyrre eñ Brandur logmadur tok adur greinda eida vegna Reyckiarhols og hier epter soru þesser menn seirna.

Hier med komu fram þriu uittnisburdarbref. voru þau suo hliodande at þeir hofdu heyrt Eignadan oft nefndan teig jordunne Holum svmer xxx vettur. sumer xx vettur med morgum lickligum atburdum og hefdum og suo bar eirn þessara manna sem hiett Kolli Magnvsson. at hann hefdi spvrt Arña Hollskollzson[1]) at hvort hann hefdi sellt Þorvalldi Jonssyne þenan teig. En greindur Arne sagdi nei fyrir. og hann visse ecki hvortt Reyckiarholl ætti hann edur ei og marger menn hofdu heýrt þessa lýsing Arna: og þa Biorn Þorleifsson atti þessa jord Reýckiarhol bio þa eirñ þessara mana þar og uar þa eignadvr Holum reitturin. voru þesser vitnisburder svarner aller vm næsta vor epter er Brandur logmadur tok eidaña.

Hier a ofan kom fram fyrir oss xij presta domur. huer oss þotti skiællegur. epter þui sem þa geingu log j lañde og vor skýnsemi er til. var sa domur dæmdur a þessv sama vore epter er Brandur logmadur tock fyrir greinda eida. og woro þa eidar þeir sem greindur Brandur tock onýtter[1]) dæmder. var og Brandur logmadur sialfur hia er greindur domur uar dæmdur. En opt greindur teigur og landeign var þa jorduñe Holum dæmdur. epter þeim gognvm og vitnum sem j dominvm standa.

Og hier til kom fram vittnisburdarbref eins prest[s] sem hiett Olafur Jngemundarson suo hliodanda[1]). at a sama svmre efter er domur þesse gieck. var hann j logrettv a alþinge. og þa hefdi tittnefndur Brandur logmann og logrettvmenerner med honum samþýckt þennan dom og profvaleislvr biskups Olafs vm marggreindan teig. logligt.

Og fyrir soddan skilricke og greiner kunv vier fyrr greinder prestar þennan dom og logmannzins samþycke. og logrettvnar j ongan matta at rivfa. helldur[2]) epter uore skýn-

1) Svo. 2) tvíritað.

seme mvndi þessi teigur jordune Holvm fÿllgia eiga og hennar eign vera En oss þotti þesser Reyckiarholseidar onyter. sem þeir hefdu adur dæmder verit og ecki afl hafa eiga. og þo vier hefdum doms athkuædi att a ad leggia þa mvndv vier so dæmt hafa.

Og til sannenda hier vm siettivm[1]) vier fÿr greinder prestar vor inscigli fyrir þetta vortt bref hvert ed giort uar manvdagin næstan epter Iohannis ante portam lattinam[1]) j Mula j Adalreÿckiadal a sama áre sem fyr seiger.

---

454. 16. maí 1561. í Reykholti.

Legorðsmál Einars Oddssonar og Þorlaugar Hákonardóttur.

AM. 238, 4to., Bessastaðabók, bl. 113—14 (gamalt blaðatal 63—4), samtíða uppskrift. — Uppskrift héðan er í AM. Apogr. 1692.

Domur Einars Oddzsonar og Þorlaugar Hakonardottur.

Ollum monnum þeim sem [þetta] bref sia edur heyra. sendum [vier] Einar Erikson. Jon Grimsson. Erlīdur Gudmundson. Heinrek Gerkans barsk[eri]. Andries Hofman kongsins þienari. Jon Eigilsson. Hallur Amundason. Þordur . . . . . [S]niolfur Palsson. Jon Biarnason. Sumarlidi Stefansson og Hallur Oddzson [kuediu] gudz og uora. kunnigtt giorāndi. Ad arum epter gudz bvrd 1561 faustudaginn nærstañ epter vppstigningardag um uorit j Reykhollti j Reykholltz Reykiardal ǎ þingstad riettum vorum uier j dom nefnder af Þordi Gudmundssyni. sem þar þa þingadi j umbodi Orms Jonssonar kongs umbodzmannz j Þuerarþingi fyrir svnañ Huitǎ til ad skoda og ransaka og fullnadardom ǎ ad leggia um þa akæru er Þorlaug Hakonardottur[1]) klagadi til Einars Oddssonar. ad hann hefdi jardvarpad sier og viliat koma legordi ǎ sig fyrir vtañ sinn vilia. þess og annars ad hun sagdi ad Einar sialfur hefdi sagtt. ad hann hefdi leigit hia sier suo hun hefdi ecki til vitad. Sagdi hun þo ad þad hefdi ecki skied ad sinu viti. J audru lagi þottunst[1]) hun vera med barns þunga og baudst ad sueria fyrir alla menn adra eñ Einar. þa hun væri þar kona til og þann

---

1) Svo.

eid handlagdi hvn syslumannenum domsmonnvnum ꜳ heyrandi og hia verañdi. enn hvn hafdi þo[1]) aungvar lysingar haftt þo[1]) samdægris fyrir neinum manni hvorcki karlmanni nie konv. Jtem j annari grein var su afsakan af heñdi Einars. ad hann hefdi alldri leigit og ecki helldur viliat liggia Þorlaugu Hakonardottr[1]) ouiliuga. suo og ad hann hefdi alldri sagtt henni þad. ad hann hefdi leigit hana. hafdi þeirra fundi saman borit viku fyrir Palsmesso. Eñ huorki fyrr nie sidar suo ad þau hefdi matt þuilik skipti saman eiga. Eñ saker þess ad bædi þau budu sig eidz og vñdanfærslu edur sannenda profs. eñ vier vissum ogiorla huortt sannara mundi hafa. þui dæmdum uier þetta þeirra mal og allur framburdur skylldi þar til og suo leingi bida. sem augliost yrdi hvortt ad þessi Þorlaug væri med barni edur eigi. Suo þa mætti sannligast vitast. huortt su hennar sængarfor sem ad barnburdinum til heyrer. svaradi nauckud þeim timanum sem fyrr skrifat ste[ndur. eñ] huorki þeirra skylldi vr sveitinni fara ad vista f[erlum . . . .] og þau bædi skylldug þa ad koma ꜳ þad þing sem sa sys[lumadur þeim] skipar sem þar er yfer settr. Suo og dæmdum uier Einar Oddzson alla handeran[1]) meiga hafa riettiliga sem annañ osekañ mann til ad sækia og veria sin mal og þad annad sem hann med þarf fyrir þessum ꜳburd ȷnn til þess anefndz tima

Samþykti þennañ vorn dom et cetera.

---

## 455. 21. maí 1561. í Reykholti.

Dómr um Magnús Teitsson fyrir hestaþjófnað.

AM. 238, 4to., Bessastaðabók, bl. 114—15 (gamalt blaðatal 64—5), samtíða uppskrift. — Uppskrift héðan er í AM. Apogr. 1691.

Domur nm Magnus Teitzson.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendum [vier] Arnor Eyolfsson. Gudmundr Erlindsson. Olafur Eyolfsson. Asmundur Lytingsson. Teitur Arnason. Hallur Amundason. Matthieus Lafransson. Jon Markusson. Gils Gilsson. Þordur Ketilsson. Hallkell Bardarson og Salamon Jonsson kuediu gudz og sina kunnigtt giorandi ad arum

1) Svo.

epter gudz bvrd 1561. a midvikudaginn j .vij. vikna fardavgum um vorit j Reykhollti j Reykholltzsueit ꜳ þingstad riettum vorum uier j dom nefndir af Þordi Gudmundssyni sem þar þingadi þa j umbodi Orms Jonssonar kongs vmbodz[manns] j Þverarþingi fyrir sunnañ Hvitꜳ. til ad skoda og rannsaka og fullnadardom ꜳ ad leggia vm þad mal er adr nefndur Þordur Gudmundsson beiddist þar doms ꜳ huerra svara edur sekta Magnus Teitzson ætti skylldugr ad uera fyrir þa sauk ad hann hefdi haft haund æ hesti olaugliga ꜳ Stalpastaudum j Skoradal. þa hann bio þar. og hvorki lyst nie latid virda. hafdi madurinn adur medkent þetta þiofnadarverk ꜳ Jndridastadaþingi j fyrra vor þꜳ þad var dæmtt ad syslumadurinn mætti riettiligaña vpp bera og aklaga adr sagtt mal kongsvalldzins vegna fyrst þad sannreyndist epter þess almennings rom og rykti sem ꜳ hafdi leikit þessu efni nockur ar. J audru lagi kom þar frañ fyrir oss Einar Oddzson og lysti epter bleikraudum hesti sem hann sagdi ad sott hefdi sunañ af nesium ꜳ sama ari. sem hesturinn fannst hier ꜳ Stalpastaudum. kom þeim adr nefndum Magnusi og Einari saman um alldr og uauxtt og alla hluti adra ꜳ hestinum vtan sa hafdi verit fagrraudur er margnefndur Magnus medkenndist ad hann hefdi med leynd haund ꜳ haftt. þui dæmdum vier hann skyllduğañ ad leida .ij. lauglig uitni og hafa leitt hid seinasta .vij. nottum fyrir alþing nu j svmar. ad sa hestr hefdi verit suo ad lit sem hann sagdi og ad vitnvnum leiddum dæmdum vier Einar vidskila vid þetta mal og aungva heimttv eiga til þessa[1]) vid titt nefndañ Magnus. Eñ titt nefndan Magnus skyllduğañ ad suara kongs sektinni sem adr. eñ ef vitñin fielluust[1]). þa dæmdaum[1]) uier hann sekañ vid opt nefndañ Einar sliku sem laug seigia honum ꜳ heñdur. Þuiat Magnus Teitzson hafdi aungva afbatan j sinu mali adra eñ þa. ad hann sagdist hafa golldit Þorvalldi Styrssyni sem honum bygdi Stalpastadina vetrgamla kuigu og v[et]vrgamlan kapal. og .xl. alner j vtrodrar kaup sitt fyrir þennañ hest. Þui hann sagdi ad sa hestr hefdi dait hia sier. og Þorvalldr hefdi lofad ad vera j allri borg-

1) Svo.

un fyrir þennañ hest vegna Magnusar huer sem vpp æ taladi. Eñ oss virtist þessi hestur ecki betur eñ .vj. aurum fyrir alldurs saker. þui þar vrdu bader samsaga Einar og Magnus ad hann mundi yngstur verit hafa. xiiij. vetra. Nu saker þess ad suo steñdur ȷ vorri landz laga bok. ef madur stelur til eyris leysi hud sina .iij. maurkum vid kong et cetera. Jtem ȷ audrum stad ef madur stelur til merkur edur tveggia marka. eñ hvergi stendr um minni peninga nie meiri. Jtem stendr og suo ȷ þridia stad. Nu er madur stolinn fiesinv. þa ꝍ̃ sa sem stolinn er full giolld fiar sins af fie hinsseka og fyrir kostnad þann er hann þarf ad hafa og riett sinn sem hann sie laugræntur ȷafn miclu et cetera. Jtem ȷ fiorda mata hliodar svo lavgmalit. Jafnmiclu er sa sekur sem tekur vid fie þiofstolnu vitz vitañdi ad giof kaupi edur lani. og leggur laun ꝍ̃ et cetera. Þui fyrir þessar greiner og þær fleiri er ȷ laugmalinu stañda og hier ad hniga dæmdum vier fyrr nefndir menn med fullu doms atkuædi Magnus Teitzson skylldugañ ad leysa hud sina þrim maurkum vid kong og Einare full giolld fiar sins og riett sinn sem fyrr seigir.

Samþyckti þennañ vorn Dom et cetera.

---

456. 24. maí 1561. í Nesi.

Kvittun Torfa Þorsteinssonar fyrir andvirði Stóru-Lauga.

Jbskj. AM. Þing. 16 (nú í þjóðskjalasafni). Staðfest uppskrift að Stóru-Laugum 6. júní 1704 af Jóni Sigurðssyni og Sigurði Bjarnasyni.

Þad giori Eg Thorfe Þorst[ei]nsson godum monnum viturlegt. med þessu mijnu opnu Brefi at Eg vidgeing og medkiennist ad Eg hefi uttekid og vpp Borid firer Storulauga j Reikiadal. Af heidurlegum dandimanne. Sira Sigurde Jonssine fulla og alla peninga. sem Er ȷorden Hafralækur j Adalreikiadal. firer xx^c. og þar til xx mꝍ̃lnitu kugillde. og xx^c ȷ ødrum gödum peningum. þeim mier lijkade vel ad taka. og þvi giori Eg og gief greindañ heidursmann Sira Sigurd Jonsson Aulldungis kuittañ og Akiærulausañ. firer mier og ollum mijnum Riettum Epterkomandi Erfing[i]um̃.

vm̃ þetta Adurskrifad vtgialld. Og Til sannenda hier vm̃. Set Eg mitt jnnsigli. firer þetta kuittunar Bref. skrifad j Nesi ȷ Adalreikiadal. A laugardaginn næstañ firer Huitasunnu. um vorid. Anno Epter gudz Burd ꝏ. vc Lxi.

Þetta brief er med einu hangande ȷnnsigle.

---

**457. 26. maí 1561. á Starmýri.**

Eyjólfur Árnason lýsir því, að hann hafi gefið Suðr-Reyki í Mosfellssveit, eða tilkall sitt til þeirrar jarðar, Helgu, systur sinni, til giftingar við síra Þórarin Þorsteinsson.

AM. Apogr. 5615, m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“ „á kalfskinn“. Sbr. alþingisdóm 1. júlí 1523 (Dipl. Isl. IX. nr. 125).

Þad giore ec Eyiolfur Arnason med jáyrde og samþycke minna sona Biarna. Magnusar. Halldors. godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at eg medkennunzt. ec hefi gefit Helgu Arnadottur minne skilgetinne systur til giptingar motz vid Sira Þorarenn Þorsteinsson ȷórdena Sudur-Reykie. er liggur ȷ Mosfellz kirkiusokn. ȷ Mosfellzsueit. suo miked i greindre ȷaurdu. sem ec má med logum fremst eigande at verda. epter minn faudur. hueria hann fyrir ofrike vti liet sem domur þar vm giordur vtwijsar. hefic þessa ȷaurd opt aklágad. og ecki feingid vtañ þung ord. Og til sannenda hier vm setta ec mitt ȷnnsigle. med þessara minna adurgreindra náunga ȷnciglum fyrir þetta medkenningarbref. Scrifad a Stármyre i Alptafirde. i Þuottarstadar kirkiusokn manudagenn næstan epter huitasunnu. Anno Domini 1561.

---

**458. 3. júní 1561. á Grenjaðarstöðum.**

Kvittun Kristínar Þorsteinsdóttur til síra Sigurðar Jónssonar fyrir andvirði jarða.

AM. Apogr. 81 „Ex originali fra Sira Skula Þorlakssyni“. Árni lýsir innsiglum. — AM. 255, 4to., bls. 477—8, bréfabók síra Skúla Þorlákssonar, skr. 1687—98

Kuittantia Kristȷnar Þorsteinzdotter vtgiefeñ siera Sigurdj

fyrer Betalijnge jardarenar Þuerar j Laxardal. og ytre Tungu a Tiornese 1561 med þremur hangande jnsiglum[1])

Þad giorum vier Olafur prestur Arnason. ꝏagnus Biornsson. Vigfus Þorsteinsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad þa lidit var fra Gudz burd. ꝏ. d. lx. og eitt ar a manudaginn næstan epter huitasunnu[2]) a Greniadarstad i Adalreykiadal vorum vier i hia saum og heÿrdum a ord og handsol heidarligs dandimanns sira Sigurdar Jonssonar og Kristinar Þorsteinsdotter. ad suo firerskildu. ad J firstu medkendist nefnd Kristin. ad hun hefdi fulla og alla peninga vppborid og medtekid af sira Sigurdi fyrir þær ȷarder sem hun hafdi honum adur sellt. sem var ȷordeñ Þueraa i Laxardal. og ȷordiñ ytre Tunga a Tiornese og sira Sigurdur þar fram̄ reiknadi fyrir oss og henne Kristinu þa peninga sem hann[3]) hafdi fyrir greinda ȷord Tungu golldit. og þad medkendi Kristin sig medtekit hafa. Þui gaf fyrrnefnd Kristin adurgreindan sira Sigurd Jonsson med handsolum ollungis kuittan og akiærulausan vm allt adurgreint ȷardaverd. og skullda luckning fyrir sig og sina erfingia og epterkomendur. Og til sanninda hier vm setium vier fyrrskrifader menn vor jnncigli fyrer þetta bref. huort ed giort var a sama stad og are atta dogum sidar eñ fyrr seigier.

---

**459.** **6. júní 1561.** **á Heggstöðum.**

Dómr um mál Bjarna Styrssonar og Guðmundar Þórðarsonar (ágrip).

AM. 238, 4to., Bessastaðabók, bl. 115 (gamalt blaðatal 65), samtíða uppskrift. — Uppskriftir af þessu dómságripi eru á nokkurum stöðum í dómabókum, svo sem Lbs. 63, 4to., bl. 291, og 69, 4to., bl. 171, bæði skrifuð ca. 1640; enn fremr í Lbs. 68, 4to, bl. 119—20, skr. ca. 1690, og í AM. 211c, 4to., bls. 142, skr. ca. 1700 (með ártali 1569).

Domur um mal Biarna Styrssonar og Gudmundar Þordarsonar sem dæmdur var őa Hegstaudum faustudaginn eptir dyra dag Anno 1561.

1) 255. 2) þ. e. 26. mai (annar í hvítasunnu). 3) 256; hun, frbr.

Voru þessir domsmenn.

Einar Eireksson. Gudmundur Erlindsson. Þormodur Asmundsson. Oddur Halldorsson. Gudmundur Hallsson og Jon Jonsson.

J fyrstu klagadi Gudmundur ad Biarni hefdi talad vid sig svo. ad Gudmundur hefdi alldri skorit nie etid adra kalfa eñ kalfa Biarna ȷ aungvo hans leyfi nie frelsi sidañ ad hann kom til Hestz. hafdi eitt vitni suarit bokareid ad Biarni hefdi suo talad. eñ annad hefdi lofad med handsaulum. og ad þeim eid vnnum dæmdu þeir Biarna sekañ .iij. morkum vid Gudmund ȷ fullrietti sitt. eñ vid kong .iij. morkum. Jtem ȷ annari grein klagadi Gudmundr ad Biarni hefdi sagtt ȷ tuær reisur. ad Gudmundr hefdi ættllad ad kæfa konu sina. þar dæmdu þeir Biarna eid og þeim manni med honum sem hia var staddr þeirra tali. þar strags á þinginu. eñ af þui ad Biarni sor ecki þa dæmdu þeir hann sekañ þar um .iij. maurkum vid Gudmund ȷ sitt fullrietti. enn kongi .iiij. morkum. Jtem ȷ þridia stad kærdi Gudmundur ad [Biarni] hefdi sagtt ȷ .iij. reisr[1]). ad Gudmundur hefdi logit þad satt var. þar skylldi Gudmundr vitni til leida og ad þeim eid vnnum dæmdu þeir Biarna sekañ .ij. maurk vid Gudmund. eñ .ij. maurkum vid kong.

Samþykti et cetera.

---

## 460. 15. júní 1561. á Einarsstöðum.

Vitnisburðr nokkurra Þingeyinga um góða framkomu Magnúsar Jónssonar í sýslumannsstétt þar.

AM. Apogr. 1297. „Ex Orig. Ara Þorkelssonar“, m. h. Styrs Þorvaldssonar.

Vier epterskrifader menn Torfe Þorsteinsson. Sygurdur Asmundzson. Starkadur Waltirsson. Oddur Halldorsson. Þorarinn Magnusson og Biarne Biornsson giörum godum monnum kunnigt.

Saker þess ad heidurligur dande mann Magnus Jonsson hefur lated leita eins opinz almennelegs vitnisburdar

1) Svo.

hier hea oss um sina stiett kongligt vmbod og medferde á þessare syslu huort verid hefdi et cetera. Þa vitnum vier greinder menn. ey suo sem fiarlæger helldur sem nágrannar. ey epter meiningu. helldur vijs vitande. ey epter annara sogu sogn. helldur þad vier sealfer hofum sied og heyrt. ad fyrskrifadur dandemann Magnus Jonsson j þesse fimm ár er hann hiellt sysluna hier j Þingeyiar þingi hefur skickad sig sem einn dandemann til ords og ædis vid jnnlendska og utlendska. Hier med hefur hann j alla tijma giort sig lidugañ til ad þinga. lóg og riett ad giðra óllum þeim er beidst hafa og rietta laga kiæru hafa haft. Nidur hefur hann sett þrætur. mas og missætti og i einne summo halldit allañ almugan hier i sveit j godu samþycke og sidferdi suo vier þockum honum þad aller. og villdum honum framleidis giarnan eiga ad hallda. og eingiñ umskipte ónnur æ giora þvi hann hefur oss verid hægur en eıj óiafnadarsamur á mote riettindum.

Og ad svo i sannleika er sem fyrskrifad stendur. setium vier adurnefnder menn vor jnsigli nedañ fyrer þetta opid vitnisburdarbref hvort giefid og skrifad var a Einarstodum i Reykiadal Viti et Mode[sti] dag arunı epter Gudz burd ϻ. d. lxi.

---

## 461. 16. júní 1561. í Djúpavogi.

Kaupbréf fyrir 19 hundr. í jörðunni Steinsvaði eystra.

AM. Apogr. 4317, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Petrs Asmundzsonar“.

Jhesus.

Þat giórum vier Asbiorn Arnason. Þordur Biornson. Steingrimur Gudmundson. og Jon Brýniolfson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi árum epter Guds burd ϻ. d. lx og eitt ár i Diupavoge j A/stfiórdum. kaupstad riettum. þar j Búdenni ϻanudaginn næstan fyrir Batolfsmesso[1]). vorum vier i hia. saum og heyrdum á ord og hañdaband þessara manna. Biarna bonda Erlendsonar og

[1] „ita extat“.

Lopts Hannes[son]ar. at suo fyrir skildu. at adurskrifadur Loptur selldi fyrskrifudum Biarna Bonda Ellendsyni hálft hid .xixc. j jordunne Eystra Steinsvadi i Kirkiubæarþingá med ollum þeim gögnum og giædum sem greindre jördu fylger og fylgt hefur at fornu og nyiu. bædi til sins og landz. Hier i móti gaf optskrifadur Biarne bondi Erlendzson þrattskrifudum Lopte Hannessyne .xxc. j fullvirdis peningum. Og til sanninda hier um festum vier vor jnsigli fyrir þetta jardarkaippsbref hvert er skrifad var [a] Ketilstaudum á Völlum a sama ári sem fyrr seiger.

---

**462. 16. júní 1561. Í Húsavík.**

Hans Nielsen dæmt konungs vegna að eiga forkaupsrétt að brennisteini, hundr. lesta, en þar næst Stefáni Löitz.

Ríkisskjalasafn Dana: „Island, Færöe og Grönland", nr. 37b á skinn. Fyrir bréfinu 4 þvengir auðir og eitt heilt innsigli.

Þeim godum monnum sem þetta brief sia edur heyra [senda[1]) Jon Magnusson Jon Sygurdzson Hallsteirn Eirekzson Jon Þordarson Hraffn Oddzson [Arne Þorsteinsson[1]) Sygurdur Asmundzson [Magnus Þorlakzson[1]) Gottskalk Soluason Oddur Halldorsson Magnus Þorsteinsson og Erlendur Gudmundzson Quediu gudz og sina kunnigt giorande ad arum efftter gudz burd ∞ d L xi á Manudæginn næstañ efftter Viti og Modesti dag ij Husawijk á Tiornnese á þingstad riettum worum wier ij dom neffnder af Pale Jonssyne þeim er þa haffde logligt vmbod brodur sins Magnus Jonssonar Kongz syslumannz J Þing Eyiar þinge til ad skoda rannsaka og efttter logum eitt fullnadar doms atquæde á ad leggia Huorn weg ad skyllde vm þad er ærligur mann Hans Nielsson beiddist fyrstu kaup kongdomsins vegna á brennesteine ad hafa og framlagde eitt konglig Mtt opid Signetad brief hlydande ad hans Nád bydur og byfalar ollum ad aungum vndan teknum sinum þegnum og þienaurum hier fyrir Nordan til fullra Peninga ad selia á malgudum Hannes Nielssyne huors brennestein wier haufum þar ij mot stod

---

1) Frá [ bætt inn ofan við línurnar.

þa nær werandis Lyder Maelstede og birte eitt annad kongligt Maiestatis opid Secretad brief Hlydande ad konglig Hôgmectigheit vt af sierdeilis Nad og gunst hefde leyft og til latid þeim Stephan Lôttzen heiter einum hans vt reidara (þo ad oforbrotnum kongligum veniuligum tolle og audrum Herligheitum) nu þetta. L xj ár eitt skip hingad effter brennesteine ad frackta af jc lestum sem sama brief vijdar vt vysar. Og meinti greindur kaupmann Lÿder Maelstede sig og adra sina medkaupmenn vppá fyrrneffndz Stephan Leyttzens vegna einn frialsan kaupskap og einn veg somuleidis at hafa og settu þar fyrir bader Partarner vtij einn riett og dom fyrir oss fyrskrifudum monnum þo ad badum briefunum og huorstueggia Priuilegium oforbrotnum hvad riett være hier vm nu ad gudz naffne til kaulludu (sækier þess ad konglígt Maiestadt forhelldur sinne Nad oll Herligheit oforbrotin og hins annars ad Login med stauddum Endemorkum liosliga nog á vysar ad kongur. eda sa vmbodzmadur er hann þar setur. skule eiga hin fyrstu kaup á ollum varningie og audrum þarfindum huort sem helldur hafe til saulu Jslendskier eda vtlendskier menn. þo fyrir sligt verd er adrer vilia vid giefa & c.[1]) þa dæmdum vier fyrskrifader domsmenn med fullu doms atquæde ad adur greindum Hanes Nielssyne ber vppa konglig Maiestatis vegna hin fyrstu kavp á brennesteine fyrir sligt verd er adrer vilia vid giefa. og hier ij lañde hefur forn kaupsettningur á voru og mæle til geingit. sem login hier adurskrifud og konglig Maiestatis hôgmectigheits brief vt vijsar. En nær hann er vt selldur ad almugans naudþurft efter þeim kaupum sem adur eru greind. dæmdum vier Stephan Leyttzens kaupmenn ad sakalausu kaupa mega brennestein eftter riettum kaupsettningi þeim sem adur er sagdur. Samþyckti þennan vorn dom adur neffndur vm̃bodzmann Pall Jonsson og setti sitt ȷnnsigle med vorum fyrgreindra domsmanna ȷnnsiglum fyrir þetta domsbrief huort giort og skrifad var ij sama stad. deigie og are sem fyrr seigier.

---

1) Hér ætti sviginn að lokast.

**463. 19. júní 1561. á Einarsstöðum.**

Vitnisburðr um heilskyggni Jóns Jónssonar, sem kenndr er Steinkuson.

AM. Apogr. 619, m. h. Árna Magnússonar. „2 innsiglaþveingir hanga vid brefed, synest sem alldri hafi innsigle vid þa fest vered. Brefed er ritad ä þyckt plumpt pergament. Brefed gaf mier Syslumadurinn Ormur Dadason 1727. hafdi hann þad eignast i Flatey ä Breidafirdi" (AM.).

Suo felldan vitnisburd berum vid Þorarinn Magnusson og Starkadur Valtirsson. ad uid hofum opt sied nu ää þessu äre einn mann sem heiter Jon Jonsson. enn kienndur eda kalladur er Steinkuson. opnum oskauddum augum. og eijgi vitum vid betur eñ hann sie heilskygn sinum bädum augum. og hier eftter uilium vid sueria ef þurfa þikier. Og til sannenda hier um̃ setium vid fyrrskrifader menn ockar innsigle nedan fyrir þennan vitnisburd. huor skrifadur var æ Einarstodum i Reykiadal. ää fimtudæginn næstan fyrir Jons messo Baptista ar & c. M d lxj.

---

**464. 28. júní 1561. í Kaupmannahöfn.**

Konungr veitir Stefáni Löjtz, bræðrum hans og frændum einkarétt til allrar verzlunar með brennistein norðan lands á Íslandi um 12 ár, og birtir Stefán Löjtz sjálfr ágrip af bréfinu með samþykki sínu við skilmálunum.

Ríkisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönland, 38a, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to.). — Síðari kafli bréfsins, þ. e. skuldbinding konungs sjálfs, er og í Isl., Færö og Grönl., Supplem. II, 35.

Jch Steffan Lötz Thue kundt. vnd bekenne vor mich. vnd ahn Stadt meyner gebrüdere. vnd Vettern der Andern Lötzen. Crafft habenden gewaltts offentlich vor Jedermenniglichen. Nach dem der durchleuchtigst. Grossmechtigst. Hochgeborne Furst. vnnd Herr. Herr Friderich der Ander zu Dennemarck. Norwegenn. Der Wenden vnnd Gotten Könnig. Hertzog zu Schleswijg. Holstein. Stormarn. vnnd der Diettmarchen. Graff zu Oldenburg. vnd Delmenhorst. mein

gnedigster Kŏnnig. vnnd Herr. auff mein vnderthenigst ersuchen. vnd anhalten. aus besonderm gnedigstem Willen. vnnd Zuneÿgung. Damit Jhre Kon. Maÿtt. vns allerseitz zugethan. vnd gewogen. gegŏnt. vnd zugelassen habenn. Alszo das wir die nechsten zwŏlff Jhar vber. von den nechst kunfftigen Ostern. des folgendenn zwei. vnnd Sechzigstenn Jhars anzurechnen. Schweuel ausz Jhrer Kon. Maÿtt. Landt Jsslandt Nordtwerts. auff vnderschiedliche Masz. vnnd Puncten ausfhueren. leutteren. vnd nach vnserem bestenn verhandlen mugen. Lauth Jhrer Kon. Maÿtt. daruber gegebnen begnadungs Brieff. Anfangendt.

Vir Friderich der Ander etcetera. Thun kundt. vnd bekennen hiemit vor Jedermenniglichenn. das wir dem Ehrenthafftenn. Vnserem Lieben besondern Steffan Lŏtzen. vnd Seinen gebruedern. Vnnd Vettern aus gnaden. damit wir Jnen zugethan. gegŏnt. vnnd zugelassenn haben. Gŏnnen. vnd laszen zu. krafft ditz vnszers offenen Brieffs di nechstuolgende zwŏlff Jhar vber etcetera. Beschluss: Welchs wir Friderich Kŏnnig etcetera. auch fur vns. vnnd vnsere Nackomen am Reich Dennemarcken. etcetera. alszo steht. vest. jn allen Puncten. wie obgemeltt. Souiel vns derenn betrifft. zuhaltenn. bey guthem glauben versprechen thun. Alles ohne geuherde. zu mehrer vrkundt. vnd Sicherheit haben neben vns vnsere Reychs Rethe. Als etcetera. Jhre Siegel hierunthen gehangen. Geschehen. vnnd geben auff vnserem Schloss Copenhagen den Acht vnd zwaintzigsten Monats tag Junij Nach Christj vnsers Erlŏsers. vnnd Seligmachers geburth jm Funffzehenhundert. vnnd ein vnd Sechzigstenn Jhar.

Als gelobe vnd gerede Jch vor mich. auch krafft habenden gewalts. meine gebruedere. vnd Vettern die Lŏtzen bey meynen wharen Wortten. vnd guthen glauben. Allem dem jennigenn mit getrewem vleyss nachzusetzen. vnd zufolgenn. was vns angezogene Kŏnnigliche begnadung jn allen Jhren Puncten gibt. vnd auszweyszt. Vnd ich will auch hieneben bey vilgemelten meynen Bruedern. vnd Vettern verfuegen. das Jhrer Kon. Maÿtt. Jnwendig dreyen Monaten von dato anzurechnen von denselbigen Sambt. vnd besondern gleycher gestalt genugsamer Reuersz Brieff vntter Jhrenn Handt zei-

chen. vnd Sigeln zu Handen gebracht werden Soll. Wir wollen vns auch jns gemein jn allem der Begnadung gemesz. vnd alszo verhaltenn. das Jhre Kon. Maytt. vnd das Reych Dennemarcken. etcetera. vnsern allerseitz vnderthenigsten getrewenn Willen. wie vns auch anderst nicht gebhuert. wurcklich zn erspurenn. vnd als vffrichtigen. Ehrlich. vnnd Rhumlich nachzusagen. jn aller maszen. als wir hinwider von Jhrer Kon. Maytt. vnd dem Reych bey diser begnadung. vnd sonst aller gebhur gehandthabt. vnd vortretten sein wollen. Ohne geuherde. Des zu mehrer Sicherheit. vnnd vhester Haltung. hab Jch diesenn Reuersz mitt eygener Handt vnderschriebenn. vnd mit meynem Pittschafft wissentlich bekrefftigt. Geschehenn. vnnd geben zu Coppenhagen den Acht vnd zwaintzigstenn Monatstag Junij Nach der geburth Christj jm Funffzehenhundert. vnd ein vnd Sechzigsten Jhar.

Steffenn Loytz

m. p.

---

**465.** **29. júní 1561.** **á Auðkúlu.**

Skipti á Hólseignum í Bolungavík fyrir Stóru-Borg, Stóra-Núp í Núpsdal og enn 30 hundr. í jörðum.

ÍB. 309, 8vo, bl. 149—50, Öxnafellsbók, m. h. Ara Magnússonar í Ögri, skr. ca. 1620. AM. Apogr. 1027 (ágrip m. h. Árna Magnússonar „ex orig. Sæmundar Magnussonar a Hole i Bolungarvik").

Kaup Bref wm Hol og Jardir fleiri j Bolungarwijk og Skælawijk fyrir Borg og Nwp oc xxx^c Jord fyrir nordann land.

Þad giorum vier Hælldan Einarsson oc Gunnl[a]ugur Kodransson godum monnum kunnugtt med þessu ockar opnu Breffi ad arum eptir guds burd anno 1561 ar æ Audkwlu j Swijnadal 29 dag Junij manadar worum wid j hia sæum oc heirdum æ ord og handaband þessara manna aff eirnri ælfu Arne Gijslason. eñ annari Gudrunu Þolleifsdottir ad suo fyrer skildu ad greindur Arni selldi nefndri Gudrunu Þolleifsdottir jordina Storuborg j Westurhopi j Breidabolstada kirkiu sokn fyrir lxxx^c oc jordina Stærra Nwp i Nwpsdal er liggur j Midfirdi fyrir lx^c. oc þar til loffadi greindur Arni Gudrunu Þorleiffsdottir xxx^c j jordu oc skilldi hun

hana fæ annad huertt j Hwnawatsþijngi edur j Skagafirdi jnnañ næstu .xij. mæanada an forfalla. Reiknast þessar jarder ad dyrleika hundrad hundrada oc .Lc. Selldi opt nefndur Arni tijttnefndri Gudrunu fyrrskrifadar jarder med ollum þeim gognum og giædum er greindum jordum fylgia oc fylgtt hefur ad fornu oc nyiu oc ecki er med laugum fræ komid vndan sier oc sijnum Erfingium eñ Gudrunu til eignar oc Erfingium [hennar] til frials forrædis oc fullrar eignar. Hier j mot gaff Gudrun optnefndum Arna Gijslasyni jordina Hol j Bolungarwijk er liggur j Ijsafirdi med ollum þeim smæ jordum er þar med fylgia oc tijttnefndri Gudrunu war skiptt j erfd effter faudur sinn Þolleif Palsson[1]) med ollum þeim gognum og giædum bædi til sios oc lands er greindum jordum fylgia oc fylgtt hæfæ ad fornu oc nÿiu oc eij er med laugum fræ komid. huad ad reiknast ad dyrleika .jcc. oc .lijc. vndan sier od sijnum erfingium eñ vnder greindañ Arna oc hans erfingia til fullrar eignar oc frialls forrædis. Skilldu huerutueggiu jardirnar afhendast ad næstum fardogum. eptir þetta þeirra kaup. skilldi opttnefndur Arni G[isla]-s[on] giallda[2]) Gudrunu Þolleifsdotter suo micla frijda peninga j Hvnawatsþijngi. sem Gudrun lieti Arna fæ a greindri Jordu Holi ad næstum fardogum ad auk þeirra peninga er Hols kirkia ætti. skilldi huertt þeirra Arni og Gudrun hallda þeim jordum til laga er keiptt hefdi eñ suara laga Riptt-[ing]um æ þeim er selldt hefdi. skilldi Arni þad til ef þessar optnefndar jardir er Gudrun hefdi honum selltt geingi af Arna med laugum ad hann skilldi þæ meiga ganga ad sijnum jordum Borg og Nwpi domlaust.

Oc til sanninda hier wm setium wid firnefndir menn ockar jnsigli fyrir þetta jardakaups Bref er skrifad war æ Þijngeyrum j Watsdal a sama ari deigi sijdar eñ fyr seigir.

---

## 466. 30. júní 1561. á Öxarárþingi.

Tylftardómr á alþingi, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, dæmir Þorleifi Einarssyni svo mikið í Krossholti,

1) Grijmsson, 309(!). 2) Tvíritað.

sem honum ber að réttum erfðum, að því áskildu, að hann vinni bókareið að því, að hann hefði ekki gefið jáyrði við því, að þessi jörð skyldi gefin systur hans.

AM. Apogr, 4690 „Ex origin. innnsiglen ero öll burtu. Originalenn feck eg hia Sira Jone Halldorssyne i Hitardal 1707" (AM.).

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Oddur Thumasson. Olafur Thumasson. Olafur Jonsson. Biorn Jonsson. Gudmundur Gislason. Gotskalk Thumasson. Loftur Gudlaugsson. Þorarinn Gislason. Einar Sugurdsson. Arngrimur Jonsson. Arni Oddzson og Eyolfur Arngrimsson. svarner logriettumenn. quedio gudz og sina. kunnugt giorandi. at arum epter gudz burd ꝏ. d. lx. og j. ær: æ almenniligu Auxarærþingie æ manudæginn næstañ epter Peturs messu og Pals vm sumarit. vorum vier j dom nefnder af heidarligum herra. herra Egertt Hannissýni logmanni nordan og vestan a Jslandi. til ad skoda og randsaka[1]) og fullnadardomz atkuædi æ at leggia. um þa ækiæru. er Þorlleifur bondi Einarsson klagadi til herra Ellends Þorvardssonar. at hann hefdi halldit fyrer sier jordunni Krosshollti er liggur j Kolbeinstadahrepp. eñ Þolleifur sagdi at sier hefdi til erfda fallid epter sira Þord heitinn brodur sinn. godrar minningar. J fýrstu kom þar fram fyrir oss saugusaugn. at sira Þordur heitinn hefdi gefit sýstur sinne. Þorunni Einarsdottur. ædrgreinda jord Krosshollt. j sina heimanfýlgiu æ giftingardeigi. med upplagi og jaýrdi fýrrskrifads Þorleifs Einarssonar. huat hann oss ꝍheyrandum nei fyrir sagdi. Jtem kom þar fram j annare grein arfleislubref[1]) med tueggia manna ȷnnciglum. at Sira Þordur hefdi arfleitt dætur sinar tuær. Jorunni og Þorunni. med upplagi og jaýrdi og samþyckie Sira Jons Einarssonar. huers sæl at Gud nædi. skilgetins brodurs[1]) adur skrifads Sira Þordar og Þolleifs Einarssonar. huertt arfleidslubref at dæmt hafdi verit myndugt og logligt. Jtem j þridiu grein kom þar fram fyrir oss herra Ellindr[1]). og vændizt. at hann hefdi kaupbref fyrir þessari jordu Krosshollti et cetera. Jtem stendur suo j uorre landslagabők. at madur skal eigi mega gefa nema tiundargiöf ur

1) Svo.

sinu erfdagoszi vtan erfingiar lofi. Stendur suo og j logbokinne: eñ ef arfur vinst eigi til. þá leggi aller aptur til jafnadar. huer er meira hefr haft eñ laug votta. Jtem j fiordu grein stendur suo j logmalinu: huer hann selur audrum oheimillt. edr þad ed hann æ ecki ad laugum. þa er þad kaup ólaugligt og ad aunguo halldanda. Þvi ad heilax anda nad med [oss] til kalladri og ad suo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier fýrr nefndir domsmenn med fullu doms atkvædi optnefndan Þorlleif Einarsson skylldugañ ad sueria fullann bokareid. og tueir skilviser menn med honum. at hann hefdi ecki jaýrdi til gefit at þessi optnefnd jord Krosshollt hefdi Þorunni sýstur sinne Einarsdottur gefin verit. Skyldi þessi eidur vnninn. jnnan .xiiij. natta særra dagha. þadan af. at hann kiæmi heim j hierad fyrer herra Egertt logmanni edr hans vmbodsmanne. utan Þolleifur vilie fyrri vinna. og at þeim eidi vnnum dæmdum vær þrattnefnda jord Krosshollt eigñ Þolleifs Einarssonar. suo mikit j jordunni sem honum bæri ad riettum erfdum j moths vid adra logliga erfingia Sira Þordar heitins Einarssonar. og eigi hefdi haft adur fullañ hlut af arfe. og tittnefndañ Þolleif Einarson strax mega ad sier taka sagda jord Krosshollt. þar til at logligur umbodsmadur erfingia Þorunnar heitinnar Þordardottur til kiæmi. Eñ Ellindur Thoruardzson snuizt æ sinn sala. epter þui sem hann kann bivising til ad fa. Eñ Þorunn Einarsdotter eignist tiundargiauf ur fýrrsagdri jordu Krosshollti. suo framt at henni fullnist ij loglig vitni þar til. at hun hefdi henni gefin verit forordzlaust.

Samþýgti þennan uorn dom med oss adurskrifadur herra Egertt logmann. og setti sitt jnnscigli med vorum fýrrnefndra domsmanna jnsciglum fyrir þetta domsbref huertt ed skrifat var j sama stad. ære. deigi sijdar eñ fýrr seigir.

---

## 467. 30 júní 1561. á Öxarárþingi.

Dómr um skuldakröfur útlendra kaupmanna á hendr Þorleifi Grímssyni og Grími, syni hans, er þá voru báðir látnir.

AM. 238, 4to., Bessastaðabók, bl. 130—1 (gamalt blaðatal 100—1), með samtíða hendi Vigfúsar sýslumanns Jónssonar á Kalastöðum.

Domur um utlendra manna skulldir Anno 1561 ar.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra. senda[1]) Þorleifur Einarson. Gudmundur Gislason. Olafur Jonsson. Loptur Gudlaugsson. Hrolfr Arngrimsson. og Jon Grimsson. suarner laugriettumenn. godum monnum kunnigtt[1]) med þessu uoru opnu brefi ad þa lidit uar [fra] gudz burd 1561 ar. næsta daginn eptir P[eturs] m[essu] og P[als] a almenniligu Auxararþingi uorum uier j dom nefndir af edlabornum herra Egirtt Hannessyni laugmanni fyrir n[ordan] og v[estan] ꝺ̃ Jslandi ad skoda og ransaka og fullnadardom ꝺ̃ ad leggia um þa skulldaheimting sem Arni Hopp kaupmadur ur Holmi. og fleiri adrir utlenskir menn haufdu til Þorleifs heitins Grimssonar og Grims heitins sonar hans. huerra sal ad gud nadi. vid Jon bonda Marteinson. huer þa uar ordinn logligur umbodzmadur greindra skullda. Jtem j fyrstu grein stendur suo j uorri landzlaga bok. Nu er sa daudr er skulld æ ad luka. eñ hinn lifir er heimtta ꝺ̃. þa kemst hann eigi til skulldar nema med uitnum. Jtem j annari grein stendr so j laugmalinu. ad menn skulu hafa laugliga uotta uid kaup sitt edur jnnsiglad bref. ad minsta kosti cirografum. Jtem j þridiu grein stendr og suo j bokinni. ad allar þær skulldir sem eidar koma til. skal eirn eyris synia. ij. tuegia. eñ .iij. þrigia. eñ þo fie sie meira. þa kemur eigi meiri eidur til eñ lyritareidur. og fyrir þessar greiner og fleiri adrar sem hier ad luta og j laugmalinu standa. ad heilagx anda nad til kalladri ad so profudu og fyrir oss komnu dæmdum uier fyrr nefndir domsmenn med fullu doms atkuædi adr greindan Arna Hopp skylldugañ ad sueria lyritareid. og .ij. skilrikir menn med honum ad þessi skulld væri saunn og obitulud[1]) og hafa þann eid unnit jnnañ .xiiij natta særra daga ad heyrdum dominum. ad Joni Marteinssyni hia uerandi edur hans lauglígum umbodzmanni og ad þessum eidi unnum dæmdum uær opp[t] nefndañ Jon Marteinsson skylldugañ ad suara þessari skulldu eñ uist eigi erligar.

Samþykti þennañ uorn dom[2]).

1) Svo. 2) Utanmáls við þenna dóm er með sömu hendi ritað nafnið „Vigfus Jon son".

468. 30. júní 1561. á Þingvelli.

Vitnisburðr um lýsing lögmála síra Sigurðar Jónssonar á alþingi.

AM. Apogr. 103, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali". Arni lýsir innsiglum.

Þad giorum vid Oddur prestur Jonsson og Ellendur Olafsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. ad árum epter Gudz burd m. d. lxi á Þingvelli vid Oxará á alþingi næsta dag eptir Petursmesso og Páls. vorum vid hia. saum og heyrdum uppá. ad svo latandi bref og lögmala lysing var lesid fyrir Egert lögmanne. sem hier fyrir skrifad stendur og sira Sigurdur Jonsson liet þui þar lysa og hafdi bodit og bedit þess. Og til sanninda hier um setium vid fyrskrifader menn ockar jnsigli fyrir þetta bref er giort var á Þingvelli sama stad. dag og ár sem fyrr seigier.

---

469. 1561. á alþingi.

Alþingisdómr um rétt kvenna og ráðspjöll (ágrip).

JS. 343, 8vo., bl. 34—5, skr. ca. 1650.

Alþijngis domz jnntak vm kuenna legord.

Anno 1561 dæmde öll lögriettan ad Riettur kuenna skyllde dæmast epter þvi sem sa er madur til er misbrotid er vid. eda hann stande mann ǫ́ konu sijnne edur dottur. þa fare epter þvi sem stendur j vorre lögbok mannh. 2. cap.

Enn vm Rádspiöll fare epter þvi sem gamall vane er til. og gange alldri leingra fram. enn stulkunne má gefast j tilgiöf vr suo miclu sem almenneliga legst á mote henaar heijmanmunde j lande voru.

---

470. 1. júlí } 1561. { á Öxarárþingi.
11. júlí } 1561. { á Helgafelli.

Tylftardómr á alþingi, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, bindr enda á deilu þeirra Jóns Marteinssonar og Þórólfs Eyjólfssonar og dæmir Þórólfi Hof á Kjalarnesi, en Jóni Kolbeinsstaði.

AM. Apogr. 1265 „Ex originali Ara Þorkelssonar i Haga". Árni segir til innsigla. — Jbskj. AM. Hnappadalss. 2 (nú í þjóðskjalasafni).

Domur mille Jon Marteinssonar og Þorolfs Eyolfssonar þá hann tok ad sier Kolbeinsstadi[1]).

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Oddur Tumasson. Jon Grimsson. Olafur Tumasson. Tume Þorgrimsson. Magnus Gunnsteinsson. Eyiolfur Arngrimsson. Hrolfur Biarnason. Magnus Jonsson. Þorarinn Gislason. Halldor Þorlaksson. Biarne Einarsson og Gottskalck Tumasson kuediu Gudz og vora. kunnigt gioraudi árum epter Gudz burd M D lx. og eitt ár. a almenneligu Oxarárþingi þridiudaginn næstañ epter Petursmesso og Pals um sumarit vorum vier j dőm nefnder af Edelbornum Herra Eggert Hannessyne logmanni fyrir nordan og vestan á Jslandi. til ad skoda og rannsaka og fullnadar doms atkvædi a ad leggia huersu logliga skylldi til lykta leidazt su agreining sem var j mille Jons Marteinssonar og Þorolfs Eyolfssonar um gardinn Kolbeinstadi og gardinn Hof æ Kialarnese og adra peninga meire sem þeim til agreiningar bar. og þad sattmalsbref utvisar sem j fyrra sumar var giort. Var þad j fyrstu vor domur ad Þorolfr skylldi eignazt og ad sier taka greinda jord Hof ad næstum fardogum med ollu þui sem henne fylger og fylgt hefer ad fornu og nyiu og hun vard fremst eigandi ad. Eñ Jon Marteinsson skylldi aptur ad sier taka sinnar kvinnu vegna og hennar erfingia gardinn Kolbeinsstadi j sagdañ tima med aullu þui sem honum hefer fylgt ad fornu og nyiu og gardrinn vard fremst eigandi ad. Eñ um landskyllder og annañ avoxt sem nu fiell á j vor ed var af Kolbeinsstődum og gardzins eignum og kirkiunnar þar. þá skylldi Þorolfur eignazt meira part og minna. Eñ ad vore komanda skyllde Jon Marteinsson eignazt allar landzskyllder og ávőxt af Kolbeinsstada eignum og hialeigum. ad fráteknum kirkiunnar avexte af fridum peningum er a fellur j haust er kiemur. og svare Þorolfur Jone Marteinssyni suo felldre innstædu kirkiunnar ad vore komanda sem hann med tők. Eñ suo miclar landzskyllder sem gialldazt epter Breida-

1) Þetta stóð utan á frumritinu „manu coæva aut circiter", segir Arni.

bolstad. Gotu og Eymu þa skýlldi Jon Marteinsson svara Þorolfi fyrir sunnañ eda vestañ hvortt helldr Þorolfr villdi. og svo skulu byggingar allar standa őmakslausar til næstu fardaga. eñ hvorer fyrir sig skulu nu byggia j haust jarder og hidleigur sem hvorum gardi tilheyra og eigendur ero ad ordner. Skal greindr Þorolfr hallda sagdre jordu Hofe til laga eñ Jon Marteinsson suara lagariptingum sem gomul jardakaupsbref utvisa. Logsamdi og samþýckti þenna vorn dom adrskrifadur Edelborinn herra logmann Eggert Hannesson og setti jnsigle med vorum fýrrgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta dőmsbref huert ed skrifad var ä Helgafelle j Helgafellzsueit ä Benedictusmessu um sumarid. ä sama are og fýr seiger[1]).

---

471. [eftir alþingi 1561].

Páll hirðstjóri Stigsson flytr fyrir konungi þær greinir, er Íslendingar kæra og óska umbóta á, með athugasemdum við hverja grein, og eru þær athugasemdir án efa frá hinum æðstu stjórnvöldum.

Rikisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönl., Supplem. II, 27.

Thette ere de artikler som Jslenderne haffuer foregiffuet
och beklaget thennom och ere begerendis aff
Kong. Matt. et naaligtt[2]) svar.

Fórst: at mange tit och offte haffuer beklagit sig till migh at noger aff theris iorder och godtz ere komne wnder kirker och kloster somme for regenskaff skyldt och somme for andre sagher. och Kong. Matt. befalingsmendt haffuer icke willedt lade gange dom ther offuer. for thenn skyldt at högborne fórstis med saliig jhukommelsse konningh Christians breff er didt till landit kommet at alle the iorder som ere wnder stigtedt. kloster eller kirker komne. skulle ther wnder bliiffue. och ey lade ther fran komme. fordj at klosterne och kirkerne haffuer tit och offte werit forandlet[1]). at breffuene ere bort komne. som iorderne skulle med forsuaris.

1) „Under [brefid] hafa komid 6 eda 7 [innsigle] sem synelegt er" (AM.). 2) Svo.

Derfor haffuer de skreffuit Kong. Matt. till at Kong. Matt. will nadeliigenn lade same iorder och godtz. komme wnder Jslandtz lough och dom[1]).

Jtem haffuer bode lougmendene och the beste mendt wtj landit. skreffuit Kong. Matt. till och tit och offte siigh beklagit at mange whôrliige och wtilbôrliige gierninger skeer ther wtj landit som er om ketterj at sônnenn beliigger sijnn moder. broderen sijnn sôster. och fader sijnn egenn dather. och thuenne brôdre enn quinde. desliigeste andre wtilbôrliige gierninger. som skeer wtj andet och thredie ledt et cetera. Och Kong. Matt. befalingsmendt haffuer fôert[2]) slige sager wtj rette. och begeret dom ther offuer. och theris landtz loug ther intedt om formelder huadt straff sliige skall offuer gaa. Derfor haffuer lougmendene med the beste mendt begeret aff Kong. Matt. at hanss Kong. Matt. wilde naadeligenn sende rettebôder didt wtj landit huad straff de skulle haffue bode karle och quinder som fore sliige sager haffuer faldit. desliigeste huadt de skulle haffue som for sliige sager kunde falde[3]).

Jtem at giiffue Kong. Matt. til kiende huorledis enn gammell och wndt seduane haffuer werit wtj Jslandt om arffueskiffte. at huilke som rigeste ere och mest formaaersette sig indt paa godtzedt och holler thed med magt for the andre medarffuinge. att Kong. Matt. wilde naadeligen giiffue hanss Kong. Matt. breff. didt wtj landit at nar nogeñ arff kunde til falde. at ther motte omgange Jslandske loug och dom. Och ther som nogle setter sigh ther emodt och ey holle Jslandske lough. at laugmendene da med the beste mendt tilhielper och stôrker Kong. Matt. lensmandt at straffe sliige. paa thedt at ther icke skall komme nogenn oprôr eller thuedracht wtj landit[4]).

1) Utanmáls við þessa grein er athugasemd, sjálfsagt frá kanzellíinu sjálfu: huor kircker haffue heffdt thet bliffuer fast epter logeñ thij breffue ere bortte. 2) Svo. 3) Utanmáls er athugasemd sams konar sem áðr: huor nogeñ vcristelige(?) gierninger skeer skall straffes ved liffuit. 4) Utanmáls athugasemd sams konar sem áðr: huilke bônder som haffue arffue gods at skiffte skall gôre huer andre skiell

Jtem at Kong. Matt. wilde giffue it offuet breff didt til landit for almuens wandkundighedtz skyldt. at alle the breffue som loffligh och hôgborne fôrste med saliigh ihukommelsse koninngh Christian haffuer wdgiffuit skulle wedt magt bliiffue[1]).

Jtem at Kong. Matt. wilde werdis til at wide huorledis at klosterkirkerne wtj Jslandt ere saare forfaldne och ere store paa then landtz wiss aff thræ bygde och icke kunde wed magt holdis at Kong. Matt. wilde giffue et offuet breff didt til landit at de som kirkerne haffuer. lader neder tage same store forfalne kirker och opbygge andre passelige kirker aff same tymer paa thedt at de icke med alle skulle neder falle och ôdeleggis[2]).

Jtem at Kong. Matt. wilde werdis til at wide huorledis at ther er enn wed naffn Odder smidt som for nogle aar siden haffuer forseet sig och falledt wtj thedt at handt haffuer beleyet hanss egen steffdather. och biuder handt nu at wille giffue Kong. Matt. j$^{c}$ daler om Kong. Matt. wilde naadeliigen giffue hannom thenn sagh quit och giffue hannom hanss Kong. Matt. opreyselsse breff[3]).

Jtem at Kong. Matt. wilde giffue her Oluff Hialtessen Superintendent for norden paa Jslandt hanss Kong. Matt. breff paa the tyender aff Øyefiordt och Schagefiordt syssler til skolens opholdt. som hôgborne fôrste med saliig ihukommelsse konning Christian hannom wnt haffuer[1]).

Jtem at Kong. Matt. wilde giffue de ij laugmendt ther paa landit hanss Kong. Matt. breff paa theriss besollingh. fordj at the ware nylige tilsatt fôrendt hôgborne fôrste med saliig ihukommelsse konningh Christian dôde saa at ther bleff intedt om giort hoss Kong. Matt. Dog er thennom wdt-

oc jeffned epter Jslands loug oc ingen bruge vold eller magt emod huer andre.

1) Utanmáls sams konar athugasemd sem áðr: ita. 2) Sömuleiðis: at the store closter haffue skulle tage the store forfaldne kirker ned till gaffns oc vpbygge thennom strax igen mett samme tômmer nogett mijndre. 3) eth vpreyselsse breff.

lagt paa Kong. Matt. gode behagh. och som haffuer werit tilforn laugmendt wdlagt och faait till theriss koep och besoldingh som er: Eggert Hanssen laugmandt for norden och westen paa Jslandt haffuer wtj sit koep Bardestrande syssell. Pouell Wigfussen laugmandt for synndenn och østenn paa Jslandt haffuer wtj sit koep Schog och Marker egner. at Kong. Matt. wilde giffue huer thennom hanss Kong. Matt. breff. paa theris embede och besollingh.

Jtem at Kong. Matt. wilde naadeliigenn werdis till at giiffue miigh hanss Kong. Matt. beskøttellsse breff att huess godtz gudt haffuer wnt mijn moder. miigh och mijne wmelende sysken. at thedt motte bliiffue wden klammer och thrette till gudt och Kong. Matt. wille at ieg kommer wtj landit igienn.

---

472. 2. júlí 1561. í Kaupmannahöfn.

Konungr bannar sonum Þorsteins Finnbogasonar að setja upp verð á brennisteini og býðr þeim selja þessa vöru Stefáni Löjtz eftir gömlu verðlagi.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 6, 448 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Til Thorsten Fønboessøns sønner norden paa Island.
Frederich etc.

Wiider. att efftherthij wij ere komene vdj forfaring. att siiden ethers fader er død oc affgangenn. schal i haffue paalagdt en nye beswering paa hues suoffuel. som graffuis paa ethers grund for norden paa wortt land Island. Tha bede wij ether oc wille. atthij rette ether effther att affschaffe forschreffne nye paaleg oc icke ydermere ther fore annammer end som aff arrildtz tiid bewilget haffuer werett. oc efftherthij wij nu haffue bewilgett oss elskelige Steffen Löidtzer hans brødre oc frender her effter at mue bruge thend swoffuel handel. som falder ther paa laudet for norden. tha bede wij ether oc wille. athij selger thennom for et gammeltt oc schielligtt kiøb. hues swoffuel som i haffue ther att affhendes. vden hues wij til wortt egit behoff fornøden haffue. att wij

thett mue bekomme. hvor effter i ether kunde viide at rette etc. Kiopnehaffn ij Julij anno 61.

---

**473.** **2. júlí 1561. í Kaupmannahöfn.**

Konungr býðr Páli hirðstjóra Stígssyni að styðja að kaupi Stefáns Löjtz og þeirra frænda á brennisteini á Íslandi, en aftra þeim sonum Þorsteins Finnbogasonar að hækka fornt verðlag á þessari vöru.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 6, 459 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Til Pouel Stiissenn.

Frederich etc

Wor gunst tilforn. Wiid. att wij haffue vndtt oc tilladtt oss elskelige Steffen Lôitze hans brôdre oc frender her effter att mue bruge thend suoffuel handel. som ther falder for norden paa wortt land Islandt. dog vnderthaget hues suoffuel wij til wort eget behoff wille lade kiôbe. Thij bede wij thig oc wille. att thu tilsteder forschreffne Steffen Lôitzes hans brôdres oc frenders fuldmegtige att vdfôre ther aff landet. hues suoffuel hand ther for norden kiôbendis oc fangendis worder. Samledis at thu tilsiiger wore vndersotte bônderne ther ther samestedtz. at the for schielligt werd wille were forschreffne theris fuldmegtige behielpelige att nederfôre til stranden. hues swoffuel hand vdj saa maade kand kekomme. oc effterthij wij forfare. at Torsten Fônboessens sônner norden paa landett schulle haffue paalagt en nye beswering paa hues swoffuel som selgis oc vdfôris ther samestedtz aff landett oc graffuis paa theris grund ydermere end brugeligt haffuer werit vdj theris faders tiid. oc wij ther fore haffue ladett thennom tilschriiffue. at the sligt schulle affschaffe. Thij bede wij thig oc wille. at thu tilsiiger forschreffne Torsten Fonboessens sônner. at the rette thennom effter ingen ydermere besvering at paalegge eller aff same swoffuel at vpbere end som aff Arrildtz tiid haftuer werit sedwonligt. paa thet wij icke anderledis ther om schulle forforsagis at tiltencke. Kiôpnehaffn ij julij anno 61.

---

474. 12. júlí 1561. á Hólum.

Vitnisburðr Ólafs byskups Hjaltasonar um það, að við eftirleitan hans hafi móðir Jóns Þorfinnusonar lýst því, að hún mætti eigi sverja hann upp á Jón Einarssson.

AM. Apogr. 1030 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæmunde Magnussyne ä Hole i Bolungarvik" (AM.), frá 1565.

Svo felldañ withnisburd ber eg Olafur Hialltason superintendens Hola biskupsdæmis æd eg var prophastur j Hunauatzþingie. j v. samfelld ær fyrer wtan kuisler. j biskups Jons tijd. (godrar minningar). hafdi ec þa vij. ær wm xx^t. er ec uid þvi prophastsdæmi tok. leitadi eg optsinnis epter wid Þorfinnu Halldorsdottur. huer fader wæri ad hennar barñe Joñe Þorfinnusyne er kalladur væri. Eñ hun gaf mier þad suar ad þad giæti hun j aunguan mäta sagt. þui þeir væri iij j thii. til. Eg spurdi. Mä ecki skie ad Jon bondi Einarsson meigie eiga barnit eñ kiennir odrum af þui þu hrædist hustru Kristinu. hun sagdi. ef ec wissa þad wæri eg mætti sueria hann. helldur uppa hann eñ adra. huad ec fingia þar fyrir. skyllda ec þat giarnan giora. Er ec nu lx. æra og nockru betur. og alldre heyrt nie witad. greindan Jon Þorfinnuson j ætt suarenn uppa greindan Jon bonda. og eij weit ec hann. honum nockurñ tijma medgaungu weitt hafa huad sem huer leyfer sier ad tala. Og til sanninda hier um set ec mitt jncigle fyrir þetta withnisburdarbref. huert giort war a Holum. j Hialltadal xij^a. dag Julij ærum epter Gudz burd þusund fim hundrud lx. og eitt.

---

475. 13. júlí 1561. 1562. í Saurbæ.

Festingarbréf Halldórs Ormssonar og Þórdísar Eyjólfsdóttur.

AM. Apogr. 4694 „Ex originali biskupsens Mag. Jons Widalins. Brefed eignadist Mag. Jon epter modur sina Margretu Þorsteinsdottur" (AM.).

Þad giörum vier Þorhalle Oddzson. Gudmundur Peturs-son. Runolfur Jonsson godum mönnum kunnigt med þessu voru opnu brefe þa lidit var fra gudz burd M. D. lx og eitt

sunnudæginn næstañ fyrer Thorlaksmessu um sumared j Saurbæ a Kialarnese. ad vier vorum þar upp á heyrande og þad siáande med fleirum gódum monnum hiá verande ad Halldor Ormsson feste Þordijse Eyolfsdotter med lögleg-um festingarordum med þeim skilmála ad adurgreindur Halldor gaf fyrr nefndre Þordijse .xxc. j Saurbæ á Kialar-nese og tiu hundrut ȷ aullum þarflegum peningum. þar til talde Þordijs sier xvc ȷ Svefneyum er liggur áa Breidafirde j Flateyar kirkiusokn. ad suo fyrer skildu ad ádurgreind xxc i Saurbæ skyllde optnefnd Þordijs huorke giofum gefa nie solum selia utañ löglegum örfum epterkomendum Hall-dors Ormssonar. og ad þessum peningum samañ reiknud-um. lyste Halldor Ormsson ad fyrrnefnd Þordijs ætti vc og xl j sinn mála. Og til sanninda hier um setium vier fyrr-skrifader menn vor ȷnnsigle fyrer þetta festingarbref. huert ad skrifad var [deige og[1]) áre sidar enn fyrr seiger.

---

## 476. 14. júlí 1561. á Auðkúlu.

Vitnisburðr um faðerni Jóns Þorfinnusonar.

AM. Apogr. 1031 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæ-munde Magnussyne á Hole i Bolungarvïk", frá 1565.

Svo felldañ vithnisburd ber ec Helga Einarsdotter ad ec uar a Skagastraund wistfaust eitt ær og xx. og wıssa ec fyrer full sannindi. ad sijra Þorsteirñ heitinn Jonsson sem þa war minn husbondi tok alldre nockurn eıd af Þorfinnu heit-inne Halldorsdottur. wm̄ faderni ad sijnum syne Jone. og eij bad greind Þorfinna ædurgreindan sijra Þorsteın nockurn eid af sier ad taka ad neinu sinne þa hun þar kom ad mijnu witi. og epter Jon heitinn Einarsson lætinn. kom Þor-finna til Hauskaulldzstada. bad sijra Þorstein og mic ad leggia sier gott til so hon mætti nockut hialprædi fæ fyrir sitt barn oc þess bad ec hann lijka sijra Þorstein. heyrda ec og alldre ad Jon Einarsson hefdi nockurn tijma Joni Þor-finnusyni medgaungu weitt. ad hann væri fader ad honum. hefi ec optast heyrt tuimæli a leika edur þrennt til sagt wm

1) [Svo.

faderni Jons Þorfinnusonar. hafdi sijra Þorsteinn heitin Jonsson ecki prophastzdæmi nema þau ij ær er biskup heitinn Jon war fyrir wtañ. a medan vid worum æ Hauskaulldzstodum. hann og ec. Og þa Þorfinna kom til Hauskaulldzstada epter Jon Einarsson frafallinn. war Wigdijs Þorkelsdotter þar a Hauskaulldzstodum xij wetra gomul stulka eda xiij. og epter þessum mijnum framburdi wil ec sueria fullan bokareid ef þurfa þicker. huer ed skrijfadur [var] a Audkulu j Suinadal xiiij dag Julii arum epter gudz burd ꝏ d lxı.

---

477. 14. júlí 1561. á Auðkúlu.

Vitnisburðr um lýsing síra Ólafs Guðmundssonar, að hann gæti eigi synjað faðernis að Jóni Þorfinnusyni, því að tímana hefði svo saman borið.

AM. Apogr. 1033 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæmunde Magnussyne ä Hole ı Bolungarvïk", frá 1565.

Suo felldan withnisburd ber ec Magnus Þordarson. ad þa ec war uistarmadur j Ási j Watzdal. kom þar til mijn sijra Olafur Gudmundzson og sagdi til sijn wæri kominn dreingurin Jon Þorfinnuson. huern adur skrifadur sijra Olafur Gudmundzson sagdi sier hreinligañ mann lijtast. og hans moder hefdi sier hann ad syne kiendt. huar fyrer hann sagdizt ætla sig ecki þræta mega þui tijmana hefdi svo saman borit. hier epter wil ec sueria ef þurfua þicker. Og til sanninda hier um set ec mitt jncigli fyrir þetta bref huert ed skrifad war æ Audkulu j Suinadal xiiij dag Julij arum epter gudz burd ꝏ. d. lx. i.

---

478. 25./27. júlí 1561. í Húsavík. / í Múla.

Sáttargerð með síra Sigurði Jónssyni, Vigfúsi og Nikulási Þorsteinssonum annars vegar, Jóni Magnússyni og Magnúsi Jónssyni hins vegar.

AM. Apogr. 4699 „Ex originali komnum til min frä Sira Olafi Stefanssyne, eñ hann mun feinged hafa epter Biörn Magnusson. Bref-

ed er vel skrifad á kalfskinn" (AM.). Árni lýsir innsiglum. — Prentað áðr í bréfabók Guðbrands byskups nr. 332 (bls. 335—7).

Jhesus.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Pall Stigsson konglig maiestatis hirdstiore og hofudsmann yfer allt Jsland. Olafur Hialltason superintendens Hola biskupsdæmis. Hans Nichilsson kaupmann æ konglig maiestets skipi. Jllugi Gudmundsson. Teitur Magnusson. prestar. Þorbergvr Bessason. Þorgrimur Þorleifsson. Jon Sigurdsson. Oddur Asmundsson. Gotskalk Magnusson. Hallsteirn Eireiksson og Eireikur[1]) Gudmundsson leikmenn kuediu guds og uora. kunnigt giorande at þa lidit var fra hingatburd vors drottins Jhesv Christi. ꝏ. d. lx og i. ær .xxa. og u. dag Iulii manadar j Husavik æ Tiornese æ almenneligu hieradsþingi worum uier af greindum haufudsmanne tilnefnder og saman kallader æ at lita og fridarsattmala at giora millum heidursamligra manna. Af eirne alfu sira Sigurdar Jonssonar. Vigfusar Þosteinssonar og Nichulasar Þorsteinssonar. Eñ af annare Jons Magnussonar og Magnusar Jonssonar. sonar hans. wm þa storu ægreining og langa ækiæru Er greindur Jon Magnusson þottist hafa til nockra iardarparta er fyr greinder menn sira Sigurdur. Vigfus og Nichulas haufdu at hallda og þeim bar laugum fyrir at suara. sem uar sierdeilis partur j Grytubacka. og annar partur j Nese. liggia þær badar jarder j Haufdahuerfi. laugdu aller þessir fyrgreinder v menn sig vnder þa giord og sattmala med handsolum sem adur greindur haufudsmann og vier fyr sagder menn med gudligre skynseme giora villdu. og þeir þad hallda skylldv. fyrir sig og sina epterkomendur. komu þar fram fyrir oss beg[g]ia bref og skilrike huer vier yferskodudvm og tractierudum. Nu sæker þess at þessi klaugun hafdi j langa tima nidre leigit. Eñ þar j mote komv aunnur bref og vitnisburder og sierdeilis uitnisburdur ii manna sem heyrt haufdu Ceciliu Torfadottur þad fram bera og þvi vænast at sv iord sem hun hefdi ætt og Bergstader heiter hefdi fyrir laungu golldin uerit fyrir þessa æklaugun. hafdi

1) Svo.

og Jon bondi Magnusson þar ecki æ moti. utan honum þotte þad ecki fullt fyrir soddan æklaugun. J annare grein komu þar fram fyrir oss iii eda iiii incigladar vitnesbvrder suo latandi at opt nefndur Jon Magnusson og Þorsteinn heitin Finnbogason. gud hans sal nadi. hofdu giort giorning ȷ millum sin med handsolum at huor þeirra hefdi gefiit annan aullungis kuittan vm allt þad þeirra hefdi æ milli borit. og eckert undan tekit. hier med komu þessir sialfer menn fram. þui fovitin þa til kalladi og spvrdi hvort þeir villdv þad med eidi sanna. Eñ þeir aller þvi iatvdu. Saumuleidis virtist oss fyrir gudlig sanendi Ecki afl[1]) hafa meiga klaugun Jons vm Nespart þui oss leist fullmecktug þau bref sem sira Sigurdur hafdi fyrir þeirre iordu. Og fyrir þessar greiner hefdu vier dæmt þessar allar æklauguner[2]) Jons Magnussonar ȷ allan mata onytar ef vier hefdum þar doms atkuædi æ ætt at leggia. Eñ fyrir þann skulld. at herra fouitin uilldi þetta med frid og kiæ[r]leika allt nidur setia. Þui med hans godligre[3]) bon og vorre var hier soddan sattmali vm giordur sem hier epter stendur skrifat. ȷ fyrstv skylldi sira Sigurdur fa greindvm Jone Magnussyne fullgilldis x^c ȷ godum peningum og þeir bader brædur sin u^c huor þeirra med sama skilmala. skylldi þessir aller peningar golldner at næstum fardaugum. sogdv þessir menn þad herra fovitanvm at þeir legdi þessa peninga ut ȷ kiæ[r]leika uid hann eñ ei fyrir þann skulld at þeim þætti savnn æklaugun Jons. var þad fyrir skilit þa þessir peningar uære golldner skylldi Jon alldreie og ei hans epterkomendur upp a þessar iarder klaga. hier med skylldi opt greindur Jon Magnusson hafa brennestein ȷ þeirra namum suo micin sem hann sialfur villdi oska medan hann lifde æn bitalings. Suo og lika Magnus fyrir sig sialfan medan hann er med vinskap og er ecki ȷ moti fyrsogdum monnum. Eñ ecki fyrir fleire menn. Hier med skylldi allt klart og kuitt med ord og uerk. allt til skilit eñ eckert undan tekit. hvad þessum monnum hefdi æ milli borit til þessa dags vm allar þeirra ægreiningar. ollum þessvm. v adurnefndvm. og allra þeirra klauguner[2]) kuittar og

1) alf, Apogr. 2) Svo. 3) g^dligre, Apogr.

alldri afl[1]) hafa skylldu þeirra j milli nie þeirra epterkomendum. Hier upp a sættust aller þessir menn med hond og munn ollum oss æsiaandi. Woru vid adur greinder menn Pall Stigsson og Olafur Hialltason. forsagnarvottar at aullum adur skrifudum giorninge og satmala og aller þessir menn med ockur samþycker. Eñ huer fyrir sig af þessum .u. monnum sem sattin var æ mille giord ryfe eda riufa villdi greindan sattmala skylldi minne æru verdur epter þann dag. Og til sannenda hier um setium uid Pall Stigson konglig Maiestatis havfudsmann og Olafur Hialltason superintendens Holabiskupsdæmis ockar incigli med fyrskrifadra manna inncíglum fyrir þetta bref skrifat j Mula j Adalreykiadal xx^a og siounda dag æ sama manade sem fyr seiger.

---

## 479. 25. júlí 1561. á Auðkúlu.

Vitnisburðr um faðerni Jóns Þorfinnusonar.

AM. Apogr. 1032 „Ex pagina membraneā authentica fra Sæmunde Magnussyne ă Hole i Bolungarvĭk“, frá 1565.

Suo felldañ vithnisburd ber ec Hallbera Jonsdotter ad ec war wistarkona j Watzdal wm xij ar samfleytt og war ec v. af þeim æ Vndanferli hia sijra Olafi Gudmundzsyni og heyrda eg þeirra samtal sijra Olafs Gudmundzsonar og Þorfinnu heitinnar Halldorzdottur huert ed war wm son Þorfinnu Jon. Sagdi fyrnefnd Þorfinna ad sijra Olafur Gudmundzson wæri fader ad þesso sijnu barni Joni. en hann kuad sig ecki nei seigia mega. En kuad sig j aunguan mŭta wid þessu barni taka. eda nockut gott giora. fyrr eñ hann wæri ad laugum suarenn. Eñ greind Þorfinna sagdizt ecki sueria sama barñ Jon. þo hun dæie wti wnder honum. huorkie j hans ætt nie annara. Er ec nu nær lx. kona. og alldre heyrt nie vitad. tijttnefndan Jon Þorfinnuson j nockurs manz ætt suaren. Svo og weit ec Jon bonda Einarsson honum alldri medgaungu weitt hafa. Heyrda eg oc lijka tijttnefndri Þorfinnu eignadan hinn iij^a mann wm sama efni j þann tijma. Og til meire saninda hier wm. wil ec sueria

1) alf, Apogr.

fullan bokareid epter þessum mijnum framburdi huer ed skrifadur var æ Audkulu j Suinadal xx. og vta julii Anno ꝏ. d lx. i.

480. [ca. 25. júlí 1561].

Vitnisburðr um faðerni Jóns Þorfinnusonar.

AM. Apogr. 1034 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæmunde Magnussyne â Hole i Bolungarvīk“ (AM.), frá 1565.

Suo felldan vithnisburd ber ec Arni Gislason ad ec war heimilismadur wistfastur hia Joni heitnum Einarssyni þa Jon Þorfinnuson war fæddur og wissa ec greindañ Jon Þorfinnuson alldre kiendan Jone heitnum Einarssyne ad honum lifanda. ad hann hans son wæri. Og alldri wissa ec optnefndan Jon Einarsson honum widgaungu weita ad hann hans fader wæri. Og til sanninda hier wm set eg mitt jncigli fyrer þetta witnisburdarbref[1]).

481. [ca. 25. júlí 1561].

Vitnisburðr um faðerni Jóns Þorfinnusonar.

AM. Apogr. 1035 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæmunde Magnussyne â Hole i Bolungarvīk“ (AM.), frá 1565.

Suo felldañ withnisburd ber ec Jon Halldorsson ad ec war j langa tijma wndirgiefinn Joni heitnum Einarssyni. oc honum optsinnis medverandi so nær sem adrer hans dagliger þienarar. Svo oc war ockur optsinnis til talad wm̄ faderni Jons Þorfinnusonar suo drucknum sem odrucknum og sagdi hann mier j riettum sannleik og truskap ad hann wæri j aunguan máta fader ad nefndum Joni Þorfinnusyni. Og alldri willdi hann ad mijnu wite honum medgaungu weita. huorkie j ordum nie werkum. Suo og taladi ec uid Þorfinnu modur optnefndz Jons. æ sama æri er Jon heitinn Einar[sson] fra fiell. Þa spurdi eg hana huort hun hefdi ecki suarid þennan pillt. og huort hun wildi hann ecki sueria. þæ gaf hun mier þad suar ad hun hefdi hann ecki j ætt suar-

1) „Sine dato“ ritar Árni Magnússon aftan við bréfið, en setr ártalið 1561 framan á bréfið.

id. Oc hun sagdizt hann ecki sueria. Suo oc hefi ec heyrt sijdañ ec til wissa og þessi þrattnefndur madur Jon Þorfinnuson war fæddur. ætijd heÿrt leika tuimæli a wm hans faderni. Og til sanninda hier wm set ec mitt jncigli fyrer þetta withnisburdarbref efter hueriu eg wil sueria ef þurfu[1]) þicker[2])

---

482. 28. júlí 2. september 1561. á Grenjaðarstöðum.

Páll hirðstjóri Stígsson staðfestir úrskurði um Ljósavatn og úrskurðar það eign Magnúsar Björnssonar.

AM. Apogr. 109, tvær uppskriftir: a) „Ex originali Sira Olafs Stefanssonar"; b) m. h. Styrs Þorvaldssonar, og synist vera úr stóru transscripto, enda merkir Árni þá uppskrift „E". — Árni lýsir innsiglum frumritsins. — Jbskj. AM. Þing. 17 (nú í þjóðskjalasafni).

Um Liosavatn i Bardardal.

Þeim godum mon[n]um sem þetta bref siá edur heÿra sendum vier Olaf[3]) Hialltason under gudz þolinmæde biskup á Holum og Superintendens allz Hola biskupsdæmis. Sigurdur Jonsson og Jllugi Gudmundzson prestar kuediu gudz og vora kunnigt giörandi ad þá lidit var frá gudz burd ꝏ. d. lx og eitt ár xx^a^. og viij. dag Julij manadar á Greniadarstödum j Reykiadal um morgunenn þar j kirkiunne vorum vier j hiá. sáum og heÿrdum uppa ad fyrir fovitan og höfudzmannen ÿfer allt Jsland Pal Stigsson kom einn vel kendur dandi sueinn sem heiter Magnus Biörnsson. las og birte fyrir fÿr nefndum höfudzmanne Pali lögriettumanna dom med lögmans samþÿckt og þar til med annars logmans vrskurd upp á sama dom ad dæmt og vrskurdat hafdi verit Steinunne Jönsdottur modur nefn[d]s Magnusar jordeñ Liosavatn j Bardardal. epter þui sem sa domur og urskurdur vt uisar og innehelldur. hier med birte og greindur Magnus þad bref med inciglum ad hans moder Steinunn hafdi feingit honum Magnusi og golldit þessa jord fyrir þá peninga sem hun reiknadi j sama brefi ad hann ætti hia sier. Og af hofudz-

1) Svo. 2) „Sine dato" setr Árni við bréfið, en úrfærir það til 1561. 3) Svo *ab.*

mannenum ýferskodudum og forsienum þessum skilrikium þá sagdi hann ad nefndur Magnus mætti frialsliga ad sier taka fyrr greinda jord Liosavatn nær hann villdi sæker sinna brefa þui hann vildi huorki nie[1]) mætti dom og lögmanns vrskurd riufa. og ad Magnus skýlldi þessa jord Liosavatn ad sakalausu hafa og hallda meiga þar til hun være sogt[2]) af honum med logum og þar upp á hofdu þeir hofudzmadurenn Pall og Magnus handsol at. og hier epter vissum vier og vorum nærverande ad nefndur hofudzmann Pall skrifadi til Þorunne Jónsdottur á Grund sem þa hiellt greinda jord Liosavatn suo latandi bref vnder sinu signete sem hier epter skrifad stendur. og þad sama bref saum vier og ýferlásum a sama stad og dag et cetera:

Gud stýrki þig dandi kuinna Þorun Jónsdotter.

Vitid ad fýrer mig kom a Greniadarstodum einn mann sem hiet Magnus Biörnsson og spurdi mig huort hann mætti ecki taka ad sier eina jord sem heiter Liosavatn. sa eg og dom og lögmans urskurd er hann hafdi fyrir nefndri jordu. og fyrir þann skulld ad eg vil med gudz vilia þar riett til siá mins nádiga herra kongsins vegna. þa ma hann med rettu þa jord ad sier taka þar til hun verdur med lögum af honum sockt. bid eg ydur og suo tilskyllda laganna vegna. ad þier þá jord vid hann lausa latid ef þier vilied ei sidar meir þar fyrir skada bida.

hier med sieu þier gudi bifaladar.

Og til sanninda hier um setium vier fyrr skrifader menn vor jnncigli fýrer þetta bref er skrifad var annan dag Septembris á sama stad og ári sem fyrr seigier.

---

## 483. 29. júlí 1561. í Brekku.

VITNISBURÐR um faðerni Jóns Þorfinnusonar.

AM. Apogr. 1037 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæmunde Magnussyne á Hole i Bolungarvík“ (AM.), frá 1565.

Suofelldan witnisburd ber eg Olafur Oddz[son] ad ec bio á Hofi j Watzdal þann tijma er Þorfinna Halldorsdott-

1) *b;* nei, *a.* 2) „ita extat“ (i frbr. — AM.); sokt, *b.*

er fæddi sinn son. sem leingstum hefur werit kiendur Þorfinnuson. wm̄ sijna æfui. læ hun og sijna sængurlegu ꝺ̄ mijnu heimili þæ war. Lysto hennar yfersetukonur þui fyrer mier ad Þorfinna hefdi lyst j sinne sængurfaur sijra Olaf Gudmundzson sem bio æ Wndanferli. faudur ad hennar syni Joni. Suo og wissa ec fyrer full sannindi ad greindur sijra Olafur Gudmundzson hafdi giort optnefndri Þorfinnu hiæbu ꝺ̄ Backa j Watzdal. og ꝺ̄ þui æri er nefnd Þorfinna war j greindu hiꝺ̄bui. ward hun hafandi ad sijnum syni Joni. war þad og flestra manna ordtak þár j sueit og ec til wissi ad tijttnefnd Þorfinna hefdi werid frillukona optnefndz sijra Olafs Gudmundzsonar þæ hun vard hafandi ad sijnum syni Joni Þorfinnusyni. Suo og heyrda eg Jon heitinn Einarsson alldri weita medgaungu ad hann wæri fadir ad Joni Þorfinnusyni. helldur sagdi hann fullkomligt nei wid þæ eg til heyrdi. Og hier epter wil ec sueria ef þurfua þicker. Og til sanninda hier wm̄ set ec mitt jncigli fyrer þetta brief huert skrifad war j Brecku j Watzdal xx og ix dag Julij arum epter Gudz burd ꝏ. d lx og eitt.

---

## 484. 29. júlí 1561. á Auðkúlu.

Vitnisburðr um faðerni Jóns Þorfinnusonar.

AM Apogr. 1038 „Ex pagina membraneâ authentica fra Sæmunde Magnussyne ꝺ̄ Hole i Bolungarvïk (AM.), frá 1565.

Suo felldan withnisburd ber ec Kaar Hauskulldzson. þad ec er wppalin j Hunawatzþingie og war ec æ Mardarnupi j Watzdal wistarmadur j viij ær wm þad leiti. Jon Þorfinnuson (er kiendur er) war fæddur. heyrda ec þa haft epter hans modur. ad j sinne sængurfaur. hefdi hun lyst hann Olafsson og alldri heyrdi eg þar tuimæli æ leika fyrr en̄ epter Jon bonda Einarsson lætinn einu æri eda ijur þa sama barn̄ Jon Þorfinnuson war til Skardz færdur. hefi ec xiij wetur wm̄ xl. og hier alltijd werid og alldri vitad sagdan Jon Þorfinnuson j ætt suaren wid Jon bonda Einarsson. suo oc wissa ec fyrer full sannindi Jon Einarsson honum alldri medgaungu weita medan̄ hann lifdi. heyrda ec og adur skrif-

adri Þorfinnu eignadan hinn iij mann wm̄ sama efni sem j thii wæri thil wm̄ þetta barn̄ Jon Þorfinnuson. huer ed og nefndist Jon Steinsson suo og lijka hygg ec. ad ef Jon Steinsson lifdi nu. þa mundi monnum wirdast Jon Þorfinnuson ecki minna suip af honum hafa. helldur en̄ af hinum er hun skylldi hann kiendt hafa. Og hier epter wil ec sueria ef þurfua þicker. Og til sanninda hier wm set ec mitt jncigli fyrir [þetta] bref er skrifad war a Audkulu j Suinadal Olafsmesso hinu fyrre arum epter gudz burd ꝏ. d lxi.

---

485. 31. júlí 1561. á Munkaþverá.

Skipan Páls hirðstjóra Stígssonar um helgidagahald. (sbr. og bréf 10. sept. og 1. okt. 1561).

JS. 147, 4to., bls. 129—30, m. h. síra Jóns prófasts Arasonar í Vatnsfirði 1655. — Lbs. 65. 4to., I, bls. 55—6, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Lbs. 91, 4to., bl. 41, m. h. síra Hannesar Björnssonar í Saurbæ ca. 1698. — Lbs. 101, 4to., bls. 7—8, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hitardal ca. 1720—30. — AM. 189, 4to., bl. 222—3, skr. ca. 1700. — Lbs. 67, 4to., bls. 6—7, m. h. Páls Pálssonar ca. 1867, eftir hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti (s. d. & a.). Enn fleiri uppskriftir eru til af þessu bréfi. Sbr. Safn til sögu Ísl. II, 703. — Aftan við uppskriftirnar í Lbs. 91, 4to., og 101, 4to., er ritað svo: „NB þetta [sama[1]) Bref [er og so[1]) [af nýu[2]) ǻ sama are ut gefid ǻ Midgǫrdum j Stadarsveit 10. Septembris". Enn var sams konar bréf gert á Bessastöðum 1. okt. 1561.

Brief Pæls Stigssonar um̄ helgeholld [Anno 1561[3]).
[logteked 1592[4]).

Eg Pæll Stijgsson. K[ongligrar] M[aiestatis] Bijfalningsmann yfer altt[5]) Jsland. giore godum monnum kunnugtt med þessu mijnu opnu brefe. ad sokum þess ad Biskuparner hafa optlega spurtt [mig rǻda[6]). huornin þeir[7]) skillde med fara þa hinu[8]) þuerbrotnu og hardsvijrudu. lærda og leika. a mote þeirra briefum og aminnijngum sem briota kongsins ordinantiu. i þui ad þeir vilia hallda sijna gamla pavans helgedaga oc so i mote Biskupanna bode. [profastanna og prest-

1) [101; sl. 91. 2) [91; sl. 101. 3) [b. v. 101. 4) [147; sl. 65, 101. 5) b. v. 65, 101. 6) [b. v. 101. 7) 65, 101, 91; þar 147. 8) 65 91, 101,; hina 147.

anna[1]) aminningu og tilsogn. riufande so vors hæmecktugasta[2]) herra kongsins bod og skipan. og uppæ þad ad so ogudlegtt helgedaga halld. og vanbrukan christelegs frelsis mætte afleggiast er þad mijn skipan. vppæ K[ongligrar] M[aiestatis] Bijfalnijngar[3]) vegna. med godra manna ræde. ad Biskuparner. profastarner og prestarner giore þuilijkum. þriđr[4]) aminnijngar. ad þeir aflæte slijkre vanskickañ[5]) og [Guds orda nijdran. Eñ vilie þeir ecki aflǎta slijkre vanbrukan[6]). og hier bőt ǎ[7]) giora. þa sieu þeir utskufader og rekner fra [sacramente heilagrar kirkiu[8]) og samneyte christninnar. og giallde fyrir sijna ohlydne konginum[9]) fyrer huorn vj aura dag. sem vered hefur. vj aura. Eñ xij aura fyrer xij aura dag.

Jtem þeir sem Tijundum hallda. og fyrer mier er klagad ad[10]) ecki gialldest[11]) i Eijndaga og profastarner hliota offtsinnis Effter ad rijda[12]). og fæ þo[13]) ecki sieu ad slijku seker og[14]) ad fornu vered hefur fyrer sijna þriosku. og profastarner mega halfa þa sok kongenum til handa sækia fyrer syslumanne eñ hælfa sier. somuleidis og[9]) allar adrar tijunder sem ei ero ad logum golldnar i tijma. og ad huer eirn[15]) eignest sok æ sinne tijund sem ad fornu.

Jtem þeir sem hlaupa i adrar sveiter og giora sic ut til vertijdar sudur og vestur. og vilia [øngva forlijkan fyrir sinn frillulifnad og Barneign[16]) giora vid profastana[17]). þa[18]) klagist og hardlega straffest þeir[9]) af valldzmonnum[19]). edur thilskrifest mier huorier þeir eru. þuij ad[20]) soddan ogudlegtt lijferne mǎ i øngvan mæta lijdast hegnijngarlaust.

Jtem þeir sem vanbrukast med liosakveikijngum fyrir lijkneskium. hef eg bodid og Bijfalad og skipad K[ongligrar]

1) [91, 101; prestanna og profastanna 147, 65. 2) hogm- 65, 91; hðym- 101. 3) bifalnings (bef.) 101, 65, 91. 4) 101, 91; 3-, 65, 147. 5) 147, 65; vanryktan 91 og 101, en í 101 leiðrétt í: vanbrukan. 6) 101; vanryktan 65, 91, og 101 fyrst, en leiðrétt í: vanbrukan. 7) [65, 91, 101; heite bőt ǎ ad 147. 8) [65, 91, 101; sacramentenu 147. 9) sl. 91, 101. 10) 65, 101; og 147, 91. 11) 91, 101; gialldast 147, 65. 12) bijda 65. 13) sl. 91, 101. 14) sem 91, 101. 15) b. v. 101. 16) [øngvar forlijkaner fyrer sijnar frillulijfis barneigner 91, 101. 17) prestana 65. 18) þad 91, 101. 19) -mannenum 91, 101. 20) b. v. 65, 91, 101.

M[aiestatis] vegna Biskupunum þau i burt ad taka. og alla skillduga þar til ad stirkia. sierdeilis syslumenn og profasta[1]). þui slȳktt er vandyrkan[2]) effter[3]) Gudz bodordum og allri heilagri skrifft.

er þettn mȳn fullkomleg skipan oc bod effter K[ong-ligrar] M[aiestatis] ordinantiu hliodan og bȳfalnȳngu. utan þeir vilie hans hochmechtugheitum svara [viij marka briefa-brotum[4]) fyrir sȳna þriosko og ohlydne og vondzlegtt lȳf-erne og uppsætur. og skulud þier ydur aller hier effter rietta þangad til K. M. sialfur sender hȳngad sitt ȷnnciglad bref þar um̄ hliodande.

Og til sanninda hier um̄ þricke eg mitt zignet fyrir þetta bref skrifad ad Mukaþueræ þann sȳdasta dag[5]) Julij Anno 1561.

---

## 486. 9. ágúst 1561. í Skriðu.

Jón Magnússon lýsir því, að móðir sín hafi gefið Hvamm í Höfðahverfi þeim sona sinna, er bæri Magnúsar nafn og lengst lifði.

AM. Apogr. 4695 „Ex originali. Jnnsigli Jons Magnussonar hang-er vid brefed" (AM.).

Medur þui ath oll efasemd og tuidrægni ȷ opinberum sannleika afmaijst: þar fyrer þarfsamligtt af ollum actast og suo logtekit er at þess vegna megi menn vitna. brefa og skilrikia niotande vera. Saker þess ath miner syner opt og osialldan vnder min eẏru og anara hafa sig latid heẏra og formerkia at þeir villdu ætelia og aptur klaga ȷordina Vad fẏrer nordan fliot huoria ȷord eg keẏpte at biskup Jone Ara-syne godrar minningar fyrer ȷordina Huamm ȷ Hofdahuerfe er moder min gaf sẏne minum Magnusi þeim er þennan̄ dag lifer. og hafa þar tuo tilefne til fundit sem eru þessi ath moder min hefde giefit ȷordina Huamm þeim minum syne er eg liet fẏrst heita epter minum fodur og ecke þess-

---

1) -ana 91, 101. 2) 65; vanbrukan 147; vanryktan 91. 101. 2) 65; mote (i mote) 147, 91, 101. 4) [Brefabrotum viij morkum 91, 101, 65. 5) b. v. 65, 91, 101.

um Magnuse: þat annat tilefni ath þessi Magnus være eij heitinn epter minum fodur helldur epter sinum brodur med sama nafne et cetera. Þar fyrer mier byriar og vel sæmer slikañ neista aukañligs ellds millum min[n]a barna a medan eg lifi med timanum at slockua. Þvi j nafni heilagrar þrenningar vitna eg og yferlyse Jon Magnusson fyrer ollum heill ath heilsu og okreinktre skynseme ath moder min Kristin Eyolfsdotter gaf jordina Huamm j Hofdahuerfi þeim minum syne er Magnus heti og mins fodurs nafn bære og leingst lifde huorñ eg seige þennan Magnus vera sem þennañ sama dag lifer: Suo og medkienni eg at eg hefi þessa hennar giof sialfur samþyckt og stadfest ath þessi Magnus minn sonur skylldi eignast jordina Huamm. var eg einka erfinge min[n]ar modur og hafdi eingin min born heiman giefit edr nockrum manne giafer ꝺ́nafnad er þetta skiede. Þui hefur þessi jord Vad. sem fyrer Huamm er komiñ medur riettu verit. er og skal vera eign þessa Magnusar og hans erfingia fyrer mier og ollum minum erfingium og epterkomendum til æueñligrar tijdar. Og til sanninda hier vm̃ festi eg mitt jnsigli fyrer þetta bref sem skrifat var j Skridu j Reykiadal þann ix dag Augusti þa lijdit var frꝺ́ Guds burd M d lxj[1]).

---

**487. 10. ágúst 1561. á Stað.**

Síra Þorleifr Björnsson fær Gísla byskupi Jónssyni Hölustaði upp í brot sín við heilaga kirkju, og kvittar byskup hann þar með fyrir öll þau brot.

Lbs. 108, 4to., bls. 547—8, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1730.

Annad kaupbref Herra Gisla Jonssonar fyrir Hôllustôdum. 1561.

Þad giôrum vier Jon Biarnason. Olafur Magnusson. Jon Jonsson prestar. Jon Gijslason og Jon Biôrnsson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu Brefe. ad ꝺ́

1) Árni segir ártalið krullað, en kemst að þeirri niðrstöðu, að það eigi að vera þetta.

Stad a Reykianese laugardaginn fyrer .10.da sunnudag effter Trinitatis Anno 1561. sáum vier og heÿrdum á ord og handaband Herra Gisla Jonssonar og sira Þorleifs Biörnssonar. faldest þad under þeirra handabande ad sira Þorleifur gallt Herra Gisla Jonssyne jordena Hôllustade liggiande i Reÿkhola kirkiusokn til æfenlegrar eignar og friálz forrædis fyrer þær marghâttadar saker. sem hann hafdi i fallid hellst Anno 1559 med Ragnhillde Jonsdottur. fyrst i þrimennings meinum og þar næst i domrofe. i lofan og lausnar afbrÿgde. sem og i barneignum. og jafnvel i nockrum brest upp á sinn kennemannskap og fyrir allt þad sem Sira Þorleifur vard brotlegur. og Herra Gisle mátte yfer taka med lôgum og sÿnu embætte ad fra skildu þvi. sem kongsvalldenu tilheyrdi. Skyllde sira Þorleifur olldungis kvittur og akiærulaus fyrer Herra Gisla og ôllum hans effterkomendum. Skálholltz kirkiu formonnum.

Og til sanninda.

---

488. 19. ágúst 1561. í Glaumbæ.

Byggingarbréf fyrir Krossnesi í Eyrarsveit.

AM. Fasc. XXV, 1, m. h. síra Gottskálks í Glaumbæ, og er ritað aftan á kaupmálabréf Einars Oddssonar og Ásu Egilsdóttur frá 8. október 1480.

Krossnesbref.

Eg G[ottskalk] J[ons]s[on] k[alladur] p[restur] medkener[1]) med minv opnv brefi at eg hefi vnt og bifalat med handsolum mina jord Krossnes j Eyrasueit einvm dugandiz manne Biarna Olafzsyni j sina lifstid og epter hans dag Syne eda skiluisvm magi þeim hann uill sialfr til skicka med þessum skilmala at mier skal gialldazt arliga xviij vætter fiska j landskylld þar med suara tiundvm og odrum logskilum fyrir þessa jord og bua æ at logum. Skal hann þa jord bruka til sioz og landz sem hann sie logligr eigandi. til umbodz og medferdar mier at skadlausu þenna tima. hier med skal hann afgreida þetta skreidargialld minvm sendimanne svo sem eg giore rad til og styrkia hann sem þorf

1) o kener, hdr.

er suo at utuega mier sol til kaups. nær eg vil. vera mier hollr og trur medan gvd lofar uid lifum. Suo og hefr hann lofad at byggia Arnarhol og Spiararpart epterkomanda fyrer þa landskylld sem best hann kann orka og fiskileigr[1]) epter kugilldin. Og til sannenda hier um set ec mitt jncigli fyrir þenna giorning er framfor og skrifadiz at Glaumbæ j Skagafirdi xix dag Augusti manadar godum monnum hia uerondum arum epter gudz burd m. d. lx. j.

---

489. 27. ágúst 1561. á Kálfafellsstað.

Gérð um fjörumörk í milli Einholts og Viðborðs.

AM. Apogr. 2016, m. h. Hans Beckers.

Aullum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Jon Biarnason. Juar Marcusson. Biarne Gudmundsson prestar Skalhollttz byskupsdæmis. Jtem Magnus Petursson. Jndridi Ketilsson og Jon Jndridason leikmenn. kuediu Gudz og sijna. kunnigt giorandi. þa lidit var fra hijngadburdi vors Herra Jesu Christi 1561 j Biarnanesi j Hornafirdi manudaginn næstan eptter 11. sunnudag Trinitatis[2]) vorum vier til bedner af H[erra] Gijsla Jonssyni superintendent Skalholltz sticktis. og Magnuse b[onda] Magnussyni ad skoda og Ransaka huertt abl ad hafa skylldi þau bref sem greindur Magnus bar þar fram vm fiorumork millum Einhollttz stadar og Vidbordz. huer fiara ad leingi hafdi fylgtt Einhollttz stad. Kom þar fyrst fram kaupbref Vigfus heitins laugmanz med hans oskauddudu hanganda jnnsigli so latanda. ad greindur Vijgfus laugmann godrar minningar hafdi selltt þessa saumu jord Vidbord med skogum og rekum. Jtem kom þar fram vitnisburdarbref med tueggia Danumanna jnnsiglum ad þeir hefdi sied og yferlesid þad vitnisburdarbref. sem til greindi skyrlig fiaurumaurk j millum Einhollttz stadar og Vidbordz. a huer fiaurumaurk ad ridit haufdu skiluijser Danumenn Þorsteinn bonde Oddsson og Siera Einar Ellendsson. og bar þar med aullu saman eptter þui sem brefid hielltt. En saukum þess ad Einhollttz stadur hafdi huorki mdldaga nie nein-

1) Svo. 2) þ. e. 18. ágúst.

ar biuijsingar a mőti þessum fyrrsaugdum brefum. Þui j Gudz nafni amen. leist oss ad fyrrgreind [jord] Vidbord skyllde hallda fyrrsaugdum Reka partti eptter þeim takmaurkum. sem fÿrrsagder vitnisburder hlioda. so framtt sem ecki finnazt aunnur bref edur skilrijke þau er þeim hrinde. Samþycktti þetta vortt ălit med oss ădurskrifadur Herra Gisle og Magnus bonde. og settu sijn jnnsigli med vorum fÿrrnefndra manna jnnsiglum vppă þetta ălitz bref. skrifad ă Kalfafellzstad i Hornafirde miduikudaginn næstañ fÿrer Bartholomei dag a sama ăre sem fÿrr seiger.

Þad giorum vier Þordur Gudmundsson. Jon Jonsson laugmenn ÿfer aullu Jslande. Gisle Þordarson suarinn landzins skrifari og Einar Eireiksson[1]) aullum monnum kunnigtt þad þesse fyrr skrifadur Domur. ord fyrer ord. var med jnnsigle Herra Gisla og annara frőmra manna. borinn og vpplesinn i laugrieftu fyrer þeim Eruverduga junckur Johan Bockholltt haufudzmanne ÿfer Jslande aullu. Saumuleidis fÿrer oss asamtt laugriettunne og ad so satt er setium vier vor jnnsigli hier nedan fyrer. Skrifad vid Auxară fÿrsta dag Julij Anno 1597.

Þetta fyrer framan- og ofan- skrifad er riett Copia af transskriftarbrefe. ritudu ă kălfskinn. hvar under fÿrrum hafa vered 4. hăngande jnnsigle. Enn nu eru eige epter nema jnnsigle Þordar lőgmanns Gudmundssonar og Gïsla Þőrdarsonar. Enn hin 2. eru burtu. Til sannendamerkis setium vier underskrifader vor nőfn og Signet hier fÿrer nedan i Skălhollte þann 2. dag Octobris mănadar Anno Christi 1712.

| | |
|---|---|
| Þorleifur Arason. | Þordur Þordarson. |
| (L. S.) | (L. S.) |
| Þorgils Sigurdsson | Păll Hăkonarson |
| (L. S) | (L. S.). |

---

**490.** **2. september 1561. á Grenjaðarstöðum.**
**29. júlí 1597. í Höfða.**

1) Svo.

sem geingur austur effter hraunum þeim. sem liggia fyrer sunnañ Gard. og þadañ i gard þann sem geingur riettsýnis ut i vogsbotninn hið Grenavatnsnauste. þadañ og austur i gard þann. sem skilur land mille Briamsness og Grenavatns. þadañ riettsýnis úr þeim garde og ustur[1]) i Burfellsskórd hin sidre. þadañ og austur i Hafragiá. rædur þá giáin og fram̃ ad Brædraklife. og þadañ og austur under Herdebreid. og allañ Heilagsdal. riett ur Herdebreid til vesturs. og so út i Sudurárbotna. rædur þá Sudurá i Liosbleiksbittu. þar med alla Kieralæke ofañ ad Stórafosse. og allt land ȷtólulaust. fýrer austañ Krákálæke. og útj móts vid fýrgreind landamerke. Eñ fýrer utañ og austañ. ofañ i Krákaa. ad frá skilldu Eingiatake vid Lángholt. og Balldursheime hefur til heirt. og eingiatake sem svare þriggia kúa fodre. frá ȷórdunne˙ Hrakstrónd. i Grenavatns lande. þar med Grenavatn ætte gielldfiárrekstur á Hlijdar óræfe. Jtem og so alla veȷde firer tueȷmur drattum̃ firer Gards lande. þa manudur være til vetrar. enn i sió drattum̃ firer Briamsnes lande þa mánudur være til uetrar. eñ i þessum̃ nȷu dráttum̃ halfa veȷde fra veturnottum til hreȷnsunar hátid[1]). Marie.

Nu hlioda so ordiñ landsins laga. ad óll handsólud mál skule halldast. þaug er bók mæler eȷ i móte ad halldast meige ad lógum̃. Jtem þar sem menn kaupa iarder. edur skiptast uid heilum skiptum edur gripum ódrum. Þo[1]) skal kaupa og skiptast vid med handsólum. og heȷmilldartókum og firer uottum̃ tueimur eda fleȷrum̃. eñ oll onnur kaup skulu halldast ef ad handsølud eru. og so oll þaug ed vottar uita. ef þeȷr menn kaupast vid. er kaupum sȷnum meiga rada. [nema madur selie oheȷmillt. edur sie fáls ij. þa skal þad kaup aptur ganga. eñ hinn hafe anduirde sitt. óll skilord er menn gióra ij kuennagiptingum og so ef men kaupa ȷarder. og firer huórt vj^c kaup edur meȷra þa skal huorijtueggia[1]) gióra brief epter kaup[e] sȷn[u] og skildaga. og nefna votta. þa er vid voru. stund og stad. og hafe firer innsigle lógmans. sislumans. edur nóckra skilrȷkra manna, þeirra er vissu kaup þeȷrra. Annarstadar seȷgia laugiñ og

1) Svo.

so. nu vill madur selia land sitt uid verde. þa skulu þeir kueda ꝺ͛. um̄ merke med sier. um lond og skőga. eyngiar og so reka. afriettu og veydar (ef eru) og allra þeyrra giæda skulu þeyr gieta er þui lande eygu ad filgia. og þo ad sie i önur lönd edur adryr menn eyge þangad ijtök. sydan̄ skulu þeyr takast i hendur og kaupa firer vottum̄ tueymur edur fleyrum. hann skal handsala honum land med þeym ummerkium̄. er þui lande eigu ad filgia. hann skal heymila hönum fie þad altt sem þar kann finnast ij iördu edur a. nema eygande verde til.

nu firer þann skulld ad eynginn kom frꝺ͛m firer oss a sögdu þijnge. ad þennan̄ kaupskap villde reyngia edur riufa. hins og annars ad vier vissum [firgreynda menn Grijm. Magnus og Kolbeyn aungum sökum̄ seka vera edur forföll til hafa og eij alldre nie skinseme so fiærlæga vera. ad lögin̄ nie nöckur madur mætte þeyrra kaup riufa. so og komu þar eyngin̄ skiöl nie skilryke af eydum unnum. vitnum leydd-um. briefum innsigludum. [ad þessum̄ kaupskap. og so amꝺ͛lgad kaup. ꝺ͛. kuedinn skildaga vitnudum̄ giördnyynge[1]) og til greyndum landamerkium̄ i mőte mælte. og ey höfum vid i vora daga med sanendum heyrt gietid. og firer þessar greynir laganna sem hier so liőst og liduglega ad lutu. og med stöddum endemörkum so klꝺ͛rlega vtvysa. med þeym audrum lijkindum̄ er oss lijtast. Ad guds nafne til kölludu og so prőfudu mꝺ͛le og firer oss komnu dæmum vier kaupid löglegt. mindugt og skiallegt j allan̄ mꝺ͛ta og jordena Grænavatn obrygdanlega eygn Magnusar Jonssonar so leijnge og þar til ad sögd jörd og sierhvör landareygn. itölur. skőgar. afriettur. og veydarvötn. og eyngiar. fiöll og firninde edur huoriu nafne nefner [þad gögnum̄ og giædum̄ jardarennar er[1]). og hefur verid eyganda talid og med reijknad ad fornu og nýu. af hönum sækist med riettum lögum̄ og Magnus hafa loglegt lagahalld a þeyrre iordu og ollu þui henne hefur fremst eygnad verid og skryfad stendur i þeyrra kaupbriefe þar med alla firskrifada landareygn dæmum vier med fullu dőms adkuæde hana meyge ad sier taka. [hafa og

1). [Svo.

hallda[1]). [biggia og bæla[1]). [lia og lofa[1]). gagn og allar nitkaner af hafa allt þangad til insiglad brief fram kiæme sem hier liőslega og lőglega i mőte mællte. elldra og sterkara være[2]).

[Og til sannenda ad þetta sie riett copierad epter Grænavats mǻldaga Dőm vottum under skrifader[3]).

Jon Olafsson. m. E. hende.

Eijnar Asmundsson. m. E. hen[de].

Ad þettad Grænavats ȷardar landamerkiabrief nu ad nyu ad Rauduskridu[3]) Anno 1733 þann 1 maj coperad og sie samhlioda ǻdur skrifadre riktugre copie Testerum vid underskrifader stad. ǻr og dag sem fir greıȷnir.

Þőrdur Briniolfsson. Olafur Arnason.

Þettad brief filger adur nefndre iőrdu og tilseıȷgist þvi af mier sem hennar eıȷganda ǻbuanda Halldore Halldorssyne þad vel ad forvara og eij tynast lǻta. Og til meıȷre stadfestu skrıȷfa eg hier vnder mitt nafn.

Þőrdur Briniolfsson Thorlacius.

Ad þetta sie riett uppteıȷknad epter kopiune uitnum̄ vid under skrifader.

Jngialldvr Jonsson. Thomas Olafsson.

---

## 539. 7. maí 1562. í Skriðu.

Sjöttardómr, kvaddr af Magnúsi Jónssyni, dæmir Magnús Björnsson mega að sér taka Ljósavatn afhendingarlaust og kirkjueignir þar.

AM. Apogr. 111 „Ex originali sira Olafs Stefanssonar". Árni segir til innsigla. — Jbskj. AM. Þing. 17 (nú í þjóðskjalasafni).

Vier Oddur Asmundzson. Vigfus Þorsteinsson. Jon Eiriksson. Onundur Asmundsson. Starkadur Valtirsson. Sygurdur Asmundsson. Giorum ollum og sierhverium kunnigt sem þetta bref birtist. lesa. edur heyra lesid. ad arum epter Gudz burd M.· d. lxij. ǻ midvikudag fyrir wppstigningardag wors frelsara Jhesu Christi. siotta dag Maij mǻnadar æ Helgastodum j Reykiadal a almenniligu hieradzþingi vorum

1) [í svigum. 2) Dómrinn endar svona. 3) (Svo.

vier j dom nefnder. af ærligum manne Magnusi Jonssyni kongs vmbodzmanne j Þingeyiarþingi. ad skoda. rannsaka og fullnadardoms atqvædi [a leggia[1]) hvar ærligur dandisveirn Magnus Biornsson skylldi eiga logligan atgang ad þeim peningum. er biskup Jon lofligrar minningar golldit hefde kirkiunne a Liosavatne j sinn reikningskap og vm þær tiunder er fallit hofdu j portio kirkiunnar a medan heidarlig dandi kvinna Þörun Jonsdotter hefdi halldit somu jord Liosavattn. et cetera. Las nefndur Magnus Biornsson þar þa fyrir oss logriettumanna dom ut nefndan og samþycktan af Oddi Gottskalkssyni er þa var logmann nordan og vestan a Jslandi svo hliodandi ad vel burdugri kvinnu Steinunne Jonsdottur modur Magnusar Biornssonar var aptur dæmt hin sama jord Liösavattn vndan kongdominum og krununne. hver jord Steinunne var heiman gefin og golldin af sinum fodur Joni Magnussyni og Ragneidi Petursdottur ad ondverdu. Þar med las tittnefndur Magnus þar fyrir oss vrskurd virduligs mannz Eggertz Hanssonar logmanns nordan og vestan a Jslandi er med radi og samþycki þeirra bestu manna vrskurdadi sama dom logligan. nytan og mýndugan j ollum ordum. greinum og articulis. og jordina Liosavattn eign Steinunnar. Þar næst var upplesinn vittnisburdur æruverdugs herra biskups Olafs og tveggia dandi presta vnder hans og þeirra heilum. oskoddum hangandi jnnsiglum. vottandi þad ærligur vel burdigur mann Paall Stigsson kongligur valldzmann yfer allt Jsland hefdi med sinu signetudu brefi skipad og tilskylldad Þorunne Jonsdottur þrattnefnda jord Liosavattn apttur ad leggia margnefndum Magnusi Biornssyni et cetera. Jtem kom þar og fram fyrir oss vittnisburdur skiælligs manns sira Einars Hallzsonar svo lǻtandi ad hann hefdi vid verid staddur ǻ Liosavattne þǻ greindur herra biskup Jon Arason sagdist giallda kirkiunne þa þar a Liosavattne .x. malnytukugilldi og .xc. j odrum fullgilldispeningum hveria peninga ad Magnus sagdi ad dandimenn vissi ad Þorun Jonsdotter medtekid hefdi a Liosavattne epter biskup Jon fra fallinn et cetera. Avisar Dan-

1) [Svo.

merkur ordinantia svo: ef nockrer hluter eru þeir undan geingner kirkiunne sem er bændagardar. akur. eing. skogar. fiskivottn edur annad þuilikt med ologum. þa skuli presturinn þar epter leita ad þad meigi koma þar til aptur med retti. og svo biodum vier og bifölum vorum liensmonnum ad þeir hafi þar alud vid ad þad aptur näist ef þad er med ologum undan geingit. Þui Gudzspiallit svipti aunguan sinu. helldur hialpi hverium ad hirda hvad honum til heyrer. þess sidur skylldu menn taka fra Gudzspiallinu hvad þess er. Jtem j Rijpar ordinantiu. hvar sem nockrar jarder edur eigner eru undan geingnar kirkiunne eda prestagordunum med ologum. þa skal bifalningsmadur fyrir stigtinu skipta[1]) somu eign þar aptur til. Þvi fyrir þessar greiner og articulis[1]) Ordinantiunnar med þvi logmali andligu og veralldligu sem hier meir ad luta. ad Gudz nafni til kolludu. og svo profudu mali fyrir oss komnu. dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med fullu doms atqvædi Magnus Biornsson obrigdanliga meiga ad sier taka afhendingarlausa jordina Liosavattn nær hann villdi og svo kirkiugozið sier virda lata af þeim peningum sem a Liosavattni væri. epter þeim fridleika sem kirkiugozit var til ad upphafi þa biskup Jon kirkiu reikninginn giordi. og Þorunn skylldi Magnusi svara svo miklum peningum. ef Magnus þa ecki feingi ä Liosavattne. svo framt ad Magnus feinge þar vittne til ad Þorunn hafi vid svo miklum peningum tekid epter sinn fodur. Þar med mætti Magnus ad sier taka og til laga hallda svo mickla peninga sem tiundarhædin er til og j portio kirkiunnar hefur fallit j svo morg ær sem Þorun hefur halldit sagda jord.

Samþyckti þennañ vorn dom adur sagdur valldzmann og sette sitt jnnsigli med vorum fyrskrifadra manna jnsiglum fyrir þetta domsbref hvert skrifad var j Skridu j Reykiadal. nottu sidar eñ fyr seigier.

---

## 540. 11. maí 1562. á Víðivöllum.

Prestadómr um heytolla, ljóstolla, legkaup og líksöngseyri, að gjaldast skuli á sama eindaga sem að fornu.

1) Svo.

AM. 258, 4to., bls. 80—1, m. h. Hákonar Ormssonar 1643, og er þetta bezta uppskriftin. — Dómr þessi er til í fjölda uppskrifta, svo sem: Lbs. 101, 4to, bls. 300, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal (ártal 1560); Ny kgl. Saml. 1847, 4to., A 51—2, C 49—50, m. h. síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði (nafnatal skekkt); AM. 211 C, 4to., bls. 196—7, skr. ca. 1700. — Ártalið er 1562 í beztu hdr. (nema Lbs. 101, 4to.).

Dőmur Vmm Heÿtolla.

Þad giörum vier Biörn Giislason. Gottschalk Jonsson. Þorsteirn Hallsson. Þorkiell Olaffsson. Þorsteirn Gunnason. Jon Jonsson. Biarne Þorbiarnarson. Biarne Helgason. Steirn Olaffsson. Jon Jonsson. Jon Biornsson og Bryniolffur Arnason prestar Holabiskupsdæmis godum mönnum kunnugt med þessu voru opnu breffe ad aarum epter Guds burd mdlx og tuö. manudaginn næstann fyrer huijtasunnu. aa Wijdevöllum i Skagafijrde ǎ almennelegre prestasteffnu worum vier i dom neffnder aff wirduligum herra Biskup Olaffe Hialltasyne wmm þa ǎgreining er war a millum leikra og lærdra ȷ hanns Biskupsdæme sem er wmm tijunder prestanna. heytolla. liostolla. legkaup og lijksaungseyrer. Enn sokum þess ad kongl. Maytts Ordinantia og gömul kirkiunnar Lög þar wppa hlioda ad þesser adursagder tollar skulu gialldast kirkiunne og kiennemönnum. Þui ad Guds naffne tilköll-udu. dæmdum wier med fullu doms atkuæde. ad aller ǎdurgreinder tollar skulu gialldast i þann eindaga sem ad forno er tilsettur. Enn þeir sem fyrer þrǎlynndis saker wilia eige giallda sagda tolla. suare slijkre sektt sem gömul kirkiunnar lög wtvijsa. nema wor nǎdugaste herra kongurinn med besto manna raade wilie þar adra skipan ǎ giöra med sino breffe og ȷnsigle.

Samþycktte þenna worn dőm greindur Biskup Olaffur Hialltason og sette sitt ȷnsigle med worum fyrrskriffadra presta ȷnsiglum fyrer þetta dőmsbreff. huort ed skriffad var j sama stad. deige og ǎre sem fyrr seiger.

---

**541.** **11. maí 1562.** **á Víðivöllum.**

Bréf Ólafs byskups Hjaltasonar um prestsþjónustu að Sjávarborg.

Máldagabók Guðbrands byskups, bl. 46, þetta skrifað 1623. (=*a*). — Jarðabókarskjöl AM., Skagaf. 8, transscriptum 5. júlí 1704 (=*b*). — *Dómabók í eigu erfingja Árna landfógeta Thorsteinsonar, nú í þjóðskjalasafni* (bls. 167), þetta skrifað ca. 1660—70 (=c).

Wm Borgarkirkiu.

Þad medkennist eg Olafur Hialltason superintendens Holabiskupzdæmis. og giore godum monnum kunnugt med þessu mijnu opnu Briefi ad fyrir mic kom heidursamligur mann Jon Grijmsson. a almenneligre prestastefnu a Wijdevôllum ȷ Skag[a]fijrdi ærum epter gudz bvrd M d lx og ij manūdaginn næstan fyrir hvijtasunnu vm vorid. oc bar þar fram̄ at kirkian̄ a Sioarborg ætte ecki peninga edur fievǫxt. [so at hann þættist[1]) þar prestzsetur med skylldū veita mega. vtan hann sagde at greind Borgarkirkia ætti [ȷordina Ashilldarhollt[2]) þar næst liggiandi fyrir ofan vatnid. Huad mier og dandiprestum virdtist lıȷtil innstæda. eda forlagseȳre[r] fyrir prestsin̄s vppheldi edur setu ad somu kirkiu. Þvi ȷ Gudz nafni amen giǫrda ec soddan skickun og stadfestu vid adrnefndan Jon oc hans Erfingia ad prestr skylldi embætte flytia ad opt nefndre kirkiu Sioarborg þridia huorn sunnudag ærliga ærz. og skilldi hafa þriggia natta vist. skilldi þad prestsins not og gialld huad hann forsőmadi ȷ sinne þarvist vetur edur sumar. Suo og tilskildi þratt nefndur Jon. at þangat skilldi skickast ein ærlig og godsidug persőna. oc tijttnefndur Jon þessu ecki med odru moti samþȳckur vard. og epter þessum fȳrr sogdum giorninge vrdu mier samþickerhier vm þessar heidursamligar personur. Sıȷra Biorn Gijslason. Gottskalk Jonsson. Þorsteirn Hallsson Holastadar Radzmadur. Þorsteinn Gunnason[3]). Þorkierll Olafsson. Jon Jonsson. Biarne Helgason og Biarne Þorarin̄zson. oc settu sijn ȷnnsigle med ockrum ȷnnsiglum fyrir þetta Giornings Bref huort skrifat var[4]) ȷ sama stad. deigi og ære sem fȳrr seiger.

[Þad medkiennest eg Gűdbrandur Thorlaksson. at soddan Bref solatandi sem hier fyrir ofan skrifad stendr. skrifad a perment. med herra Olafs heitins eigin̄ ȷnnsigli og nockra

1) tvískrifað. 2) Afhilldarhollt *a*; [ȷ ȷordunni Ashilldarhollti *b*. 3) *a*, *c*; Gunnarsson *b*. 4) *b*, *c*; sl. *a*.

annara. hef eg optsinnis sied og lesid og a halldid. þo eg kunne nu ecki ad finna þad j mijnum Briefa Ruslum. og til sanninda hier vm set eg nafn mitt med eigin̄ hendi hier fyrir nedan[1]).

[Ad saman̄ sie lesed vid sinn original þetta brief og riett coperad votta vnderskrifadir ad Holum j Eyafirdi dag 5. Julij 1704. Originallinn er med 4m jnnziglnm hangandi.

Magnus Benidichtsson Jon Haldanarson
Eh med e. h.

Vtgieffin̄ og fra mier send vnderskrifudum þessi Copia
Magnus Benidichtsson.

Vitan̄legt giori eg vndirskrifadur Magnus Benidichtsson. med efftirskrifudum ordum ad eg hefi ecki sied (so minnist) maldaga Siðarborgarkirkiu. vijdara en̄ so. er medfilgiandi Copia vtvijsar. eij helldur feingid portionis Reikning hennar af Biskupi edur Richtuga Copiu. þő þess őskad hafi. miklu sijdur efttirskilinn a tiedri kirkiu. þä tekinn hefur verid so viti. mier edur henni til efttirriettingar. en̄ eg veijt eij annars en̄ nefnd Borgarkirkia eigi þriär klauchur brukanlegar. messuklædi. kaleijk og patinu þienan̄legt til gudssþionustu-giörðar. Þessu til merkis skrifa eg mitt nafn hier vnder ad Holum dag 5. Julij 1704.

Magnus Benidichtsson
Eh.[2])

---

**542. 11. maí 1562. á Dyrhólmum.**

Dómr um áverkabætr af Þorláki Eyjólfssyni til Þorláks Einarssonar.

Lbs. 67, 4to., bl 129—30, m. h. síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti ca. 1650. — Lbs. 788, 4to., bl. 162, skr. ca. 1640. Dómrinn hefir verið hér góðr og í heilu lagi; nú er hér að eins eftir brot framan af honum. — Lbs. 65. 4to., II, 79, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 290b, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666. Í 65 og 1945 er dómrinn styttr og honum nokkuð vikið við.

1) [*a*; sl. *b*, *c*. 2) [einungis í *b*.

Domur vm ij Þollaka[1]).

Øllum godum[2]) monnum sem þetta Bref sia edur heyra senda Halldor Skulason. Erlendur Einarson. Vigfus Jonsson. Jon Brandsson. suarner lögriettumenn. Jon Jonsson. Bardur[3]) Gudmundsson. [Augmundur Hañzson[4]). hreppstiornarmenn. Hallur Jonsson. Sigurdur Gudbrandsson. Gudmundur Gunnsteinsson. Jon Tumasson[5]) quediu Gudz og sijna kunnugt giörandi. þa lidit var fra fædingu[6]) vors herra Jesu Christi 1562. [manudæginn næstañ[7]) fyrir[8]) huijtasunnu vm vored ä Dyrholmum[9]) ȷ Mydal[10]) ä þingstad riettum vorum vier [til doms[11]) nefnder af heidarlegum[12]) herra[13]) Päle Vigfussyne lögmanne fyrir sunnañ og Austan a Jslandi. og kongs vmbodzmanne ȷ Skaptafellsþinge. til ad skoda og ransaka og fullnadardoms atkuædi ä ad leggia vm þa äkiæru. sem var ä millum Þollaks Einarssonar og Þollaks Eyolfssonar. er Þollakur Einarson klagadi til hans. ad[14]) hann hefdi stunged sig med Gladiele fyrir briosted. huad[15]) Þollakur Eyolfsson gat ecki ȷ mote haft.

Jtem ȷ annare grein klagade Þorlakur Einarson til optneffndz[16]) Þorlaks. ad hann hefdi lagt sig til laga og grida med handsölum þad þeim hefdi ȷ millum bored til Dyrholma[17]) þings ä næsta þinge. er þar være þingad. ädur þessi þeirra fundur vard. Dæmdum vier Þollake Eyolfssyne eid fyrir þad. eñ hann fiell ä þeim eidi.

Jtem heyrdum vier Þollak Eyolfsson so tala vid Þollak Einarson. ad hann hefdi þau ord vid sig talad ȷ Lambärgili[18]) er hann yrdi alldrei bijkendur huad Þollakur Eyolfsson gat þo eigi med sannleik biuijsad.

Nu ad heilax anda näd til kalladri med oss og ad so profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier [fyrrnefnder domsmenn[19]) med fullu doms atkuædi þrattnefndum Þollake Ein-

1) Domur ä mille Þorlaks Einarssonar och Þorlakz Eiolffssonar 788. 2) sl. 788. 3) 788; Brandur 67. 4) [b. v. 788. 5) 65, 1945 sl. 6 síðustu nöfnunum. Einn dómsmann vantar í tylftina. 6) h[ingadburd] 788. 7) [788; fimtudaginn 67, 65, 1945 (=14. maí). 8) 788, 65, 1945; vm(!) 67. 9) Dyrholum 788, 65, 1945. 10) Myrdal 788, 65, 1945. 11) [ȷ dom 788. 12) b. v. 788, 1945. 13) manne 1945. 14) er 788. 15) 788; huar 67, 65, 1945. 16) b. v. 788, 65. 17) Dyrhola 788 (og þrýtr hér), 65, 1945. 18) Lambagile 1945. 19) [b. v. 65.

arssyne iiij[c] fyrir áuerkann j einfalldañ riett enn konge ij merkur. eñ fyrir þad Þollakur Eyolfson hafdi rofed sijn grid sem vitni baru dæmdum vier Þollaki Einarssyne tuefalldar bætur ônnur iiij[c] eñ konge adrar ij merckur. og eitt kugilldi fyrir Barskeralaun. Eñ fyrir þau ord er Þollakur Eyolfsson bar ad Þollake Einarsyne vitnalaust. skylldi hann giallda Þollake Einarsyni fullrietti hanz[1]) vj merckur. [j fullriette einfaldt. sôkum þess hann var neffndarmadur[2]). enn konge iiij merckur. [Eñ sôkum þess ad þetta var á þinge. dæmdum vier Þollake Einarssyne tuefallt fullrietti adrar vj merckur og konge adrar iiij merckur[3]). þui at so stendur. Ef madur kallar mann þiof. [putuson edur[4]) horuson edur ônnur jafnskemmelig ord. þa giorer hann sig sekan iiij morkum vid kong enn hinum fullrietti eptter lagadomi.

Skylldu averckabætur[5]) golldnar j godum peningum. eñ annad j riettum sakeyrer eptter lôgmale greitt og golldit. og fyrstu sôl nu j fardogum. ønnur ad Mikelsmesso ad hausti eñ allt golldit ad næstum fardôgum ôdrum. skylldu þeir fridhelger huor fyrir ôdrum medan þessi sôl stædi yfer. eñ ad ôllum þessum peningum golldnum [skylldu þeir[6]) alsáttum sætter.

Samþycktti þennañ [vorn[6]) dom med oss ádurnefndur lôgmann. og setti sitt jnsigli med vorum hier fyrir nedan. et cetera.

---

## 543. 12. maí 1562. á Helgafelli.

Hirðstjóri leyfir Henrik Gerkens bólfestu a Íslandi ævilangt.

AM. Fasc. LXXVI, E. I, 4, uppskrift á pappír frá því skömmu eftir 1600. Þar með fylgir uppskrift Hans Beckers gerð fyrir Arna Magnússon.

Jegh Poffuel Stigssenn kong. mattz beffallingzmannd offuer Isslannd: giôr alle witterligtt mett tette mitt obne breff: att iegh paa hôgbemeltte kong. mattz wegne haffuer wntt neruerindis Breffuisserre Henric Gierkenns Hanssen

1) b. v. 65. 2) [b. v. 65, 1945. 3) [sl. 65. 4) [b. v. 65. 5) -urnar 65. 6) [b. v. 65.

att býge och boe her ij Jsslannd saa lenge hannd leffuer och wiill och sigh erligen och christeligen att nerre. bierge och hielpe mett sitt embede ellier[1]) huor hannd kand sigh anderstedz mett Loug och rett behielppe: dog mett saa skell och foror[d] att forne Henrick skall werre kong. mattz aff Danmarck och Norge et cetera oc hanz naadis beffallingzmennd. fogeder oc ombitzmennd[1]) huld och troe. hôrrigh oc lýdig. wnderdanigh och fôlgagtigh suarendis och staaendis huer mannd som hannom tilltaler och paaklager Jsslenske loug oc rett och skall hannd oc sameledis nýde Jsslenske Loug oc rett: oc eij ij noger maade att wforrettis: Disligiste skall hannd gielde oc giffue forbemeltte kong̃. matz elier[1]) hans beffalingzmennd. fogitter och ombotzmennd[1]) ij Jslannd all sligh rentte och rettighett som andre Jslenske indbýgerre erre[1]) kong̃. mattz erre[1]) mett rette pligtige. sameledis skall hannd och werre forpligtig effter tenne dag sig boefaste att giôrre och suarre Loug oc rett skiell som andre boefaste isslenske inbýgere giôrre oc sig aldelliss att rette effter ten ed hand meg paa kong̃. mattz wegñe suoritt haffuer. Thij forbiuder ieg paa forbemeltte kong̃. mattz wegne fattig oc rig forne Henrick Giercken Hanssen heremod nogen hinder eller forfang att giôrre. Till windisbýrd trôcher iegh mitt Signett for thette mitt obne breff giffuitt paa Helgeffelssklooster tissdagen nest for pinzedagh aar mdlxij.

---

**544. 16. maí 1562. á Húsatóptum.**

Dómr um legorðsáburð Guðmundar Þórarinssonar á Ragnhildi Þórðardóttur.

Lbs. 67. 4to., bl. 22 m. h. síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti ca. 1640. — ÍBR. 113, 4to. (áðr. ÍBR. B. 201), brot úr bréfabók, skr. ca. 1640.

Domur vm fullrietti prestz[2]).

Øllum godum[3]) monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Magnus Jonsson. Olafur Asbiarnarson. suarner lôgriettumenn. Helgi Markusson. Ofeigur Ormsson. Jon Sig-

1) Svo. 2) prestmanns, 113. 3) v. b. 113.

urdsson og Stulle Jonsson k[uediu] G[udz] og sijna. kunnugt giðrandi ad[1]) þa lidit var fra Gudz burd m. d. lxij ar a[1]) laugardaginn næstan[1]) fyrir huijtasunnu vorum vier j dom nefnder af heidarligum dandismanne Gijsla Sueinssyne. er þa hafdi logligt vmbod til ad þinga ǎ Husatőttum vegna Orms Jonssonar. ad skoda oc[1]) ransaka og fullnadardom ǎ ad leggia vm þa klôgun sem sira Þordur[2]) Jonsson klagadi til Gudmundar Þorarinssonar. ad hann hefdi sagt ad Jon Oddson hefdi leigit med Ragnhilldi dottur hans. huar[3]) greindur Gudmundur sagdi nei vid. Nu af þui ad suo stendur j landzlaga bokinne. ad þetta[4]) skule einginn vid annan mæla. vtan hann eigi sialfur sokn ǎ þui mǎle et cetera. Og þui ad suo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier fyrr greinder domsmenn med fullu doms atkuædi sera Þord þad riettiliga mega vpp bera. eñ greindum Gudmundi til eidz[5]). lyritareidz hins meira. og skylldi syslumadur nefna til ij. eñ Gudmundur skylldi fǎ sier ij fangavotta. þa sem kunnugast[6]) væri til þessa mǎls. og skylldi hafa suared innañ xiiij natta ad særum dôgum. eñ ef þa væri eigi suarenn[7]) forfallalaust. giôrdum vier hann fallinn ad þui mǎle. og sekañ vj môrckum j fullrietti vid sera Þord. eñ iiij merckur vid kong. skylldu þesser peningar luckter ad riettum salastefnum ad lôgum.

Samþycktti[8]) þennan vorn et cetera.

---

545. 21. maí 1562. á Grenjaðarstöðum.

Sáttargerð Nikulásar bónda Þorsteinssonar og síra Einars Sigurðssonar.

AM. Apogr. 3737, m. h. Hans Beckers „Ex tabula pergamena“. Árni segir til um innsigli.

Þad giorum vit Oddur Asmundzson oc Hallsteinn Eireksson godum monnum kunigtt med þessu ockru opnu brefi. ad þǎ lidit var fra gudz burd Mdlxij ǎr. at a Greniadar-

1) v. b. 113, 2) Þorsteinn, 113. 3) huad, 113. 4) þad, 113. 5) sl. 113. 6) kunnugt, 113. 7) suarid, 113. 8) Hér þrýtr 113.

stodum i Reykiadal á fimtudaginn næstan epter huitasunnu[9]. voru vid i hiá. sáum og heyrdum upp á ord oc handaband Nichulasar bonda Þorsteinssonar oc Sira Einars Sigurdssonar at hvor fyrer sig þessara manna Nichulas bondi oc Sira Einar gaf annan olldungis kvittañ og ákiærulausañ um allt hvad þeirra hafdi á milli borit med ord oc verk. og allt þad hvor mátti til annars tala. og hier uppa sættust þeir med hond og munn. ockur og odrum fleirum godum monnum ásiádandi. Og til sanninda hier um setium vid ockar ȷnsigli fyrer þetta vitnisburdarbref hvort skrifat var á sama stad og ár deigi sidar eñ fyrr seiger.

---

## 546. 27. maí 1562. í Mýdal.

Arfaskipti með börnum Jóns Pálssonar.

AM. Fasc. LIII, 23, uppskrift á pappír frá ca. 1580. — AM. Apogr. 4706.

Þat giaurum vier Skieggi Gudmundzson syslumann ȷ Gullbringusyslu. Sira Alexius Palsson. Ormur Jonsson. Arni Jonsson. Halldor Ormson og Þorhalli Odzson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at þáá lidit var fræ Gudz [burd] M d lx oc ij áár ȷ Mydal um uorit i Kios. miduikudaginn ȷ fardagauicku. worum vier tilkalladir af þeim Brædrum. Siera Joni Jonsyne. Asmundi Jonssyne. Joni Jonssyne og Wigfus[e] Jonsyne. huer skipti at áá skylldi giaura um þann arf sem þeim til Erfda fiell med audrum sinum syskinum. sem uar Olafur. Gróa og Jngebiorg. Eptir sinn fodur Jon heitinn Palson. huers sæl at Gud gledie og herbergi et cetera.

Jtem i fyrstu kom fram fyrir oss nockur agreining sem var af Sıȷra Joni oc Asmundi huort þeirra brædur væri laugliga til arfs komnir edur eigi eptir sinn faudur. huat ȷ allañ mata vel lagfærdist. huar allir ædurskrifadir Brædur toku haundum saman med þeim skilmala at þeir sættust oc forlijcktuzt med suoddan skilordi at þad skylldi allt nidur sleigit sem at þeirra hafdi æ milli farit. huort helldur þad

9) þ. e. 21. maí.

uar i miclu edur litlu at aullu til skildu Eñ aungu fra teknu. og at aull þessi syskin skylldi ganga at jaufnum arfi vid fyrskrifada Brædur sira Jon oc Asmund.

Jn primis skiptu vær i fyrstu. Sira Joni ȷordunni Mydal i Kios fyrir xxxc. og ȷaurdunni Þyrli ꝺ́ä Hualfiardarstraund fyrir xxxc. oc þar til xx malnytu kugilldi sem at hann hafdi ædur medtecid.

Jtem Asmundi Jonssyni brodur hans ȷaurdina Kalastadi ꝺ́ä Hualfiardarstraund fyrir lxc oc þar til xx malnytukugilldi. hafdi hann oc þetta ædur vt tecit.

Jtem i þridiu grein skiptist þeim Joni. Olafi. Fusa. Grőu og Jngibiorgu ȷ sinn hlut sem uar i fyrstu ȷaurdin Kirkiuferia er liggur i Auluose fyrir xxxc. Jlifsdalur fyrir xxc. Bær fyrir xvjc. Vtskalahamar halfur fyrir viijc. Muli fyrir xc. liggia þessar ȷardir i Kios. Vatzhorñ fyrir xxc. Moysesstader fyrir xxxc. liggia þessar bædar ȷardir i Skoradal. Og þar med alla þꝺ́ä peninga adra er afgangs uoru. kuika oc dauda. frijda oc ofriȷda. huar hellst sem at þeir kynni upp at friettast.

Jtem hier at auki skiptum vier sira Alexius Palssyne edur hans erfingium xxx kugilldi oc skylldu þau greidast af þessara allra erfingia parti. þegar hann edur þau med þyrfti edur beiddist.

Saumuleidis kom os[s] til samans med samþycki allra þeirra brædra. at sira Jon oc Asmundur skylldu hafa skog i Vatzhorni til þessara þriggia sinna jarda. suo sem at þeim þarfnadist. Eñ aungum at liꝺ́ä. Suo oc i annari grein tilskildi sira Jon. at hann uilldi hafa mőskurd i Eilifsdals ȷord. suo sem at honum sialfum þarfnadist. Edur þeim sem ȷaurdina ætti ef hun geingur eigi vrættis Eñ leigulida ecki. Suo og skylldu þeir huorki spilla tunum nie Eingium og aungu-ar nyiar grafer giaura.

Heyrdum uær ecki annars eñ allir þessir fyrskrifadir brædur lieti sier nu uel lijka. Skulu þessi Eignarskipti standa obrigduliga vm alldur oc æfi hiedan i frꝺ́ä.

Og til sanninda hier um setium uær fyrskrifader menn vor ȷnsigli fyrir þetta arfskiptisbref. huert ed skrifat uar i sama stad ꝺ́ä deigi og ꝺ́äri sem fyr seigir.

547. 5. júní 1562. á Ketilsstöðum.

Dómr um föðurarf Bjarna Björnssonar.

AM. Apogr. 4710, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Stadarhol“.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Jon Skulason. Finbogi Jonsson. Asbiorn Arnason. Steingrimur Gudmundsson logriettumenn. Olafur Þorsteinsson. Þorsteinn Arngrimsson kvediu gudz og sıŋna kunnigt giorandi þa er lidit var fra gudz burd M d. lx. og .ij. ăr ă Eigilstodum a Vollum. ă þingstad riettum manudaginn næstan eptir de trinitate[1]) vorum vier j dőm nefnder af heidarsamligum[2]) dande manni Biarna Bonda Erlendzsyne. hver þă hafdi kongsins sýslu j Auztfiordum at skoda og a ad lijta þa ăklogun sem Biarne Biornson kallade til sinna brædra Þordar og Jons at þeir hielldi sijuum arfi ologliga epter sinn fodur. Nu fyrir þann skulld at vors naadugazta herra kongsins Hofudsmann hier i landit. logmadurin sialfur og slikt hid sama. skipudu og skylldu fulla greindum valldzmanne hier forklăran a at giora greindra brædra skipti. þar fyrir giordi og skrifadur valldsmann sic lidugan og velviliugan under allra dandimanna heyrn og eyru log og rett at giora fyrr greindum Biarna. Kom þar fram̄ bref med þrig[g]ia manna ȷnnsiglum af þeirra hendi brædra Þordar og Jons. hvert svo hliodadi. at Biarne Biornson hefdi gefit Þorune Einarsdottur þeira modur aulldungis kvitta um oll þau peningaskipti sem fram̄ foru a Eyvindară epter Biorn heitin Jonsson. hvers sal ȷlijfur gud năde. og tolf manna domur þar um̄ hliodar. at greindri Þorunni þessir peningar dæmder voru j þann măta. Þvi j nafni lausnarans Jhesu Christi amen dæmdum vier fyrr nefnder domsmęnn med fullu doms atkvædi adurskrifada kvittan logliga og j allan mata mýnduga og fýrskrifadan Biarna Biornsson af allre sokn. um þa peninga sem hann hafdi kvittan ă gefit adur skrifadre Þorunne eptir logum. at þeim fiorum hundrudum golldnum sem hann þar strax medtoc motz vid adra sıŋna brædur eptir

1) þ. e. 1. júní. 2) Svo.

sinn fodur. eñ vitniñ dæmdum vier mýndug og skylldug at sveria epter sıȷnum framburdi.

Samþýckti þennañ vorn dom fýr nefndur valldzmann og setti sitt ȷnsigli med vorum ȷnsiglum fyrir þetta domsbrief. huert er skrifad var á Ketilstodum a Vollum fiorum dogum sıȷdar eñ fyʀ seigiʀ

## 548. 15. júní 1562.

Áʀᴇɪᴅ á landamerki Lýtingsstaða og Villinganess.

Eftir transskripti á skinni frá 1629, komnu til þjóðskjalasafnsins frá Ólafi alþingismanni Briem 9. sept. 1907. Af 4 innsiglum eru nú 2 fyrir transskriptinu. Transskript þetta hefir verið ritað með ekki vel góðu bleki og er nú illt aflestrar. Sbr. bréf 4. júní 1377 (Dipl. Isl. III, nr. 264).

Þad giorum vier Magnus Biornsson. Jon Grimson. Gottskalk Tumasson. Gottskalk Magnusson. Eyulfur Arngrimsson. Magnus Jonsson godum monnum kunnugtt med þesso voru opnu Brefi manudæginn næstañ firer Botolfsmesso vm̄ vorid. Arum eptter Guds Burd m d lx ij vorum vier til nefnder af þessum monnum Gunnare Gijslasyne og Jone Gudmundssyne til ad skoda og ʀansaka a ad ʀıȷda og yfer ad lita huer landamerki logligust munde vera og hellst halldast eiga millum þessara fyrr nefndra manna ȷarda sem ero Lijtingstader og Villinganes er liggia badar ȷ Tungusueit ȷ Skagafijrde logdu þesser adur greinder menn þetta sitt land sattsamliga þar vnder vora giord og yferlit med handsolum. so þad skyllde þeir hallda og hafa og sier þad lıȷka lata sem oss þar saman kiæme. J fyrsto kom þar fram firer oss vnder godra manna ȷnnsiglum skæligtt landamerkia Bref Lytingstada vegna. huert at copia var vt af gomlum landamerkia Brefum og at so hlydde med þessum um̄merkium. gardur rædur merkium sa er geingur vpp ȷ eggiar og ofañ ȷ Suartæ Eñ vr gardstadnum ʀiettsýnes austr ȷ Jokulsa. eñ firer sunnañ steinn sa raudur er stendur a hollteno firer sunnañ Soluanesmanna torf og ʀiettsyne vpp ȷ Mar[k]dæle og þadan ʀiettsýne vpp ȷ vorduna á Hafuahraune. Rædur þa Hafuahraun sudur epter ȷafngegnt Raufarberge

og þa riettsyne austur j Raufarberg. þui fyrer þa grein oss þotti fyrr greind Bref ei þar vm skyra j neijrn mata en þesse adursogd jord Lytingstader skylldi eiga vr adurgreindv tackmarke Raufarberge. Eñ saker þess ad so stendur j[1]) vorre landzlagabok ad med skaptte eda taugu a jordo ad skiptta jnnan gardz enn sionhendingum vtan gardz marksteinana nidur ad setia og grafa er þeir verda a satter og er þat kallad lyritarsteinar þui so seigia Brefen landamerkis aurnefne nu þar frañ fra og so eptir adurgreindu Brefs copium og ad so profudu og firer oss komnu þa giordum vier þvijlijka skipan. og so ordin landamerke obrigdanliga halldast skyllde j millum opttnefndra jarda Lytingstada og Villinganes. J fýrsto rædur Háfahrauns ende enn sydre og austur j Raufarberg. Eñ vr Raufarberge og so ad sionhending austur j einn fornañ jardfastañ stein er stendur nijdur j holltino firer Austan frañ og firer vtan Fremranes sel at kallad er og þesse steiñ er kalladur Grasteirn at fornu. Eñ vr þeim steine og sionhending og so austur j Jokulsa. Skýllde þesse landamerki halldast hiedan af æfinliga vtan so være ad adrer grannar leiddu sig til med gomlum skiæligum landamerkis Briefum huad huor jordin ætte ad lögum eda ef helldur med logriettomanna samþycktt og annara dande manna villde þeir adra logligre areijd. skickun eda skipan a giora. Og til sannenda hier vm̃ setium vier vor jnnsigle firer þetta areidar Brief huertt ed skrifad var a sama are er fýrr seiger.

Þad medkiennustum vær Raffn Jonsson. Gudmundur Kolbeinsson logriettvmenn. Jon Jonsson og Jon Olafsson ad vær hofum sied og jferlesid svo hliodande Brefs ord [ord] firer ord sem hier firer ofan skrifad stendur med fimm hangande jnnsiglum Gloggum og læsiligum og er sama Brief skyrt ad skriptt og vel klarre. Til merkis þrickium vær vor Jnnsigle vnder þetta Transkriptar Brief er skrifad og jnnsiglat var . . . . . dag . . . Anno 1629.

---

1) Tvíritað.

549. 16. júní 1562. í Ögri.

Úrskurðr Eggerts lögmanns Hannessonar um arf eftir Þorleif Örnólfsson.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol., bl. 202—4, skr. ca. 1604 (= *a*). — Lbs. 65, 4to., II, 111—14, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 333—5, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666. — AM. 196, 4to., bl. 82—4, skr. um 1665 (mjög samhljóða 1945). — Lbs. 6, fol. bl. 236—7, skr. ca. 1670. — Prófastsbók Ísafjarðarsýslu, áðr í ÍB. 79, 4to., bls. 257—62, skr. ca. 1690 (skemmd af vatni), nú í þjóðskjalasafni. — Lbs. 122, 4to., bls. 529—38, skr. ca. 1770 (eftir 6, fol.). — AM. Apogr. 4727, ágrip m. h. Árna Magnússonar „ur Domabok fra Vollum[1]) (Reykholum). Apographum erat".

Domur og wrskurdur huernin skyliast skal hin þridia Er[f]d og hin sietta. þar sem talar um dotturdottur skilgetna. eñ moder gietiñ ȷ hordomi. og brædrasyni skilgetna og samfedra. huer þar taki fyrr arf.

Eg Eggert Hannesson. logmann nordañ og westañ æ Jslandi. giauri aullum og sierhuerium kunnigt med þessu mijnu opnu og opinberu auglýsingar laugmalsins vrskurdar brefi. huerier hellst þad sia edur heyra. ad optsinnis hefur fyrir mig komit Snorri Þorkielsson[2]). og aunnur hans syskin. og hafa birt og tied fyrir mier. ad marger godgiarner. riettlater. skyluiser dandismenn. hefdi sagt sier og enn nu segdi. ad þeirra faudurfader Magnus Þorkielsson mu[n]di hafa verid laugligur erfinge Þorleifs[3]) Aurnolfssonar. huers sal ad gud nadi. Og ef so hefdi matt wera. þa kaulludu fyrrnefnd syskin þennañ arf sỵnum faudur til hafa fallid epter sinn faudur Magnus og sỵdan sier. En þennañ fyrrsagdan arf. sem fiell epter greindan Þorleif Aurnolfson. toku hans dotturborñ skilgetiñ. og war moder þeirra gietiñ ȷ hordomi. og kolludu sig standa ȷ þridiu erfd. epter sinn modurfaudur. Eñ adurskrifader menn Magnus og Þorleifur woru brædrasyner skilgetnir. og fedur þeirra samfedra og skilgetner. sem[4]) auỵsar[5]) ȷ siettu erfd sagde greindur Snorri og hans

1) þ. e. Brimilsvöllum, hjá Gísla Jónssyni. 2) 65 ofl.; Þorgylsson *a*. 3) Þorolfs *a*; leiðrétta 65 og hin. 4) 65 ofl.; Eiñ(!) *a*. 5) 65 ofl.; vtuỵsar *a*.

syskiñ. ad þau heyrdu marga skiluijsa dandis menn seigia. ad þeirra faudurfader [Magnus og so sinn fader Þorkiell Magnusson[1]) hefdu optsinnis þennañ arf klagad. og eij rietti a nad. hefdu þeir hann med riettu ätt. hefdi og greindur Snorri og hans syskiñ klagat þetta mäl fyrir Þorlaki Bonda Einarsyni. er þa war kongs vmbodzmann ȷ Jsafiardarsyslu. og war þetta mal þa dæmt fyrir mic. ȷ þann stad og dag sem ec tilsetta vnder þann vrskurd. sem eg þar med godra manna radi og tillagi yfer segda. Nu ei ad sijdur epter sagdan dom. þa kiærdu greind syskiñ sig fyrir mier. beiddu mig og til krofdu vppa gudz uegna og laganna ad eg skyllda hier liosañ lagavrskurd yfer seigia og a leggia bædi sinna wegna og annara. huerier ad verid hefdu laugliger erfingiar optnefndz Þorleifs Aurnolfssonar. Lofudu þessi fyrrgreind syskiñ. og þeirra vmbodzmenn fyrir mier greindum logmanni med ȷayrdi og fullnadar handabandi. ad þau skylldu þad hafa og hallda fyrir sig og sitt afsprijngi til æfinligrar og obrigduligrar stadfestu. og þessa mals lyktingar sem eg med godra manna radi og yfersyn hier vm giorda og yfer segda. huort þau wæri nær edur fiarri. þui þau saugdust ei vita nema þau. fyrir saukum sinna wanefna. kunni ecki til ad koma. ȷ þann stad og dag sem eg hier um til setta. Og nu saker þess ad þetta mal war dæmtt vnder mȷjna laugsaugñ. þess og annars. ad Snorri og hans syskiñ hofdu mig hier riettar vm krafed[3]). þess ens þridia ad þau hofdu nu sitt mal og [sokn vnder mic lagt[4]). sem fyrr meirr hermer. þa kalladj eg fyrir mig til Eyrar ȷ Skutulsfiaurd[5]). a þijngstad riettañ[6]). Jon Jonsson huer ad suari atti ad hallda fyrer nockra peninga af þessum arfi sem domur þar um utuijsar. lofadi þa fyrrnefndur Jon Jonsson ad leggia sȷjna worñ fyrir akiæru Snorra og hans syskina þar þa vppa ny under mijna laugsaugn. og ransak. og þeirra dandis manna. sem eg med mier tilkalladi. oc lofadi medur fullnadar ȷayrde og handabandi vid mig fyrir sig og sitt afspringi þad ad hallda

1) *leiðr.*; Magnus Þorkielsson *a*, 79, 65; sl. 6; [Magnus Þorkielsson 1945. 2) hefdi 1945. 3) 65, 6. 79 ofl.; skrafad (!) *a*. 4) [65, 6, 79, 1945; settu vnder mig(!) *a*. 5) -firde 79. 1945. 6) 65, 6, 79, 1945; riettum *a*.

til æfinligrar tıjdar og obrigduligrar stadfestu. sem ieg med laga vrskurde[1]) þar yfer segda. Birti þrattnefndur Jon Jonsson þar þa ij doma fyrir mier greindum logmanni og audrum godum monnum. sem sogdu mali skylldu til hlyda. huerier domar mier og þeim wirdtust nockut huatskeytliga dæmder hafa werid. epter þui sem þeir sialfer auglystu og ȷnne hielldu[2]) þar fyrir ad [mier[3]) wirdtist þeir[4]) huerki [hafa[5]) werid dæmder nie trakterader epter grunduelli laganna. nie suo [epter þui[5]) sem þessu mali til hlyder vppa arfatoku epter fyrrskrifadan Þolleif Aurnolfsson. Og þar fyrir wirdist[6]) mier og audrum godum monnum sem nær mier voru þeir þar ecki magtt nie afl vppa hafa. nie haft hafa og eıȷ hafa mega. So og spurda eg greindan Jon Jonsson. huertt hann hefdi ecki onnur skiől. þau er honum mætti til bata werda. ȷ greindu mali. Eñ hann nei sagdi. og so ongua adra loguorñ. Eñ af audrum parti. vegna Snorra. og hans syskina. þa kom fram fyrir mig tueggia manna vitnisburdarbref vnder þeirra heilum og oskoddudum hangandi ȷncigl-um so latandi millum annara orda. Ad þeir hefdi heyrt Þorleif heitinn Aurnolfsson lysa þui ȷ sinni testamentisgiaurd ad Magnus Þorkielsson wæri sinn riettur erfingie til allra sinna peninga epter sinn dag. Saumuleidis kom og fyrir mig vitnisburdarbref Jons Tumassonar med hans heilu og oskoddudu hangandi ȷncigli so hliodandi millum annara orda. ad hann hefdi adspurt Þolleif Aurnolfsson. ȷ sinne testamentisgiord. huern hann lyste sinn erfingia. enn hann sagdi Magnus Þorkielsson. Wmskodadi eg greindur laugmann. med audrum dugandis monnum fyrr sogd bref. hueria magt og afl ad þessi lysing Þorleifs med sier hefdi. og bar eg þau saman vit worra landzlaga bok. og so wid adrar ʀitningar og riettarbætur konganna. hueria bok ad saman liet setia wirduligur herra godrar minningar Magnus kongur. þa[7]) er hann epter bon og beidzlu ȷnnbyggiara landsins setti. skickadi og skipadi laugum og landsins rietti. sem sia ma ȷ hans nadar Brefi. og sagda bok oss sıȷdan ȷnn ȷ landit

1) 65, 6, 79, 1945; vrskurd *a*. 2) 79, 1945; hallda a, 65, 6. 3) oss 65, 6, 1945. 4) [þeir hafa 79. 5) [sl. 79. 6) virdtest 65, 6, 79, 1945. 7) 65, 6, 79, 1945; þui *a*.

sendi. med worum foruerara Joni laugmanni. og þar epter war hun suarīn ad halldast skylldi til[1]) obrigdanligrar og æfinligrar stadfestu. vtan þar er so seiger. ad kongur skal um laug bæta med hinna bestu manna radi. wottar so enn ȷ audrum stad. ad kongur skal hugga sijna sidsama þegna med linkindum og riettarbotum med þeim fleirum ordum sem þar ad luta. þo ad ei sie þau hier ȷnn sett. huer bok ad so hliodar med liosum greinum og stoddum endimorkum ȷ almenniligu erfdatali ȷ hinne þridiu erfd. þar er so seiger. ad frilludottur born skilgetīn skulu taka arf epter modurfaudur sinn. Jtem stendur so liosliga skrifad ȷ fiordu erfd. þar er so seiger [ad kongur skal um laug bæta med hinna bestu manna radi[2]). skal æ sa fyrri arf taka er skilgetin faudur æ edur skilgetna modur. huert sem helldur leider hann til þess[3]) arfs fader edur moder. þa hinn þar næst. þo fader hans sie frillu son edur moder frillu dotter. Eñ þeir standa ecki ȷ þessum erfdum. nie so audrum. so þad sie augliost fyrir mier. sem af horgetnum eru komner. þo ad þeir sie og sialfer skıȷlgetner. ad þeir megi edur skuli arfa taka fram ȷ ætter. Jtem ȷ þridiu grein kom og fyrir mig Riettar Bot wirduligs herra Hakonar [kongs Magnussonar[4]). huer ad so hlyder[5]) milum annara orda. ad Pietur Halfdanarson hafdi kiært epter arfi Gunnars Andriessonar faudurbrodurs[6]) sijns skilgetinn bædi til [fadernis og modernis[7]). Eñ til þess sama arfs af odrum parti hafdi og til kallat dottur baurñ skilgetiñ. og moder þeirra war getiñ ȷ hordomi. Og bydur wirduligur herra Hakon kongur laugmonnum sıȷnum ef þuiliȷk mål kunna optliga fyrir þa ad koma. vm þa menn sem af hordomi edur frændsemis spiöllum eru ut af komner. þad þeir setie þennañ sinn vrskurd ȷ logbok til riettarbota. ȷ moti þeim monnum sem so eru til komner. og skuli þadan af fyrir laug dæmast. so opt sem slıȷk mal kunna til ad falla. Þeinki eg greindur laugmann. ad þeim dandimonnum muni meir hafa til gengit nockur wangå. ed-

1) 65, 6, 79 ofl.; sl. *a.* 2) [sl. 79, 1945. 3) 65, 6, 79, 1955; sl. *a.* 4) [65, 6, 1945 ofl.; kongur Magnusson *a.* 5) *a*, hliodar, *hin.* 6) Svo *a.* 7) [65; ýmislega skælt í hinum. Sbr. Helgafellsréttarbót frá 10. júní 1375. Dipl. Isl. III, Nr. 243.

ur vmhuxunarleysi. sem slijka menn hafa med domi viliad ȷnn setia ȷ erfd. helldur eñ þad þeir hafi latid fyrir sig ráda edur fram fyrir sig stijga nockra eina af þeim iiij systrum ad bannadar eru ad[1]) ȷ doma skule[2]) setiast. koma[3]) edur rum hafa. sem bædi rugla og reingia. vmturna og rangsnua samuiskum og logmalinu. Þui sa domur mundi lıȷtt wirdast fyrer godum maunnum eñ allra vest[4]) fyrir gudi. Eñ af þeirra auexti meigi þier kenna þa Matthei ȷ siounda capitula. Og þui nu fyrer allar þessar fyrritadar greiner og bokarinnar auijsañ og so annara ritninga og riettarbota sem saugdu mali til hlýda. og þui mega med riettu til styrcks og stodar werda. Þui ȷ gudz nafni amen. og ad[5]) heilags anda nad til kalladri mig[6]) ȷ domssæti sitiandi[7]). og med þeirra bestu manna radi sem nu eru[8]) mier nær stadder. þa sagda eg greindur laugmann. med þessum mijnum liosum [og laugligum[9]) lagavrskurdi. og orofnu laugmali. sem nu hefur fyrir mig komid. og epter þui witi sem gud hefur mier þar vppa gefit. og so epter þeim eidi sem eg hefi suarit Gudi og mijnum herra kongi. og so aullum almuga. þeim sem minn nadugasti herra og kongur næst Gudi. hefur wnder mig og mijna logsaugn skipad. Magnus Þorkielsson laugligan erfingia werid hafa epter Þorleif Aurnolfsson. sem auijsar ȷ siettu erfd þar so seiger. Ad brædrasyner takast[10]) arf epter skilgetner ef fedur þeirra eru samfedra og skilgetner. og erfingia edur laugligt afspringe fyrrnefndz Magnusar mega frij og frialsliga ad sier taka og eignast alla þa peninga kuika og dauda. lausa og fasta. sem att hefur þrattnefndur Þolleifur Aurnolfsson. og hann hefur adur ecki laugliga burtu feingit ad giof edur gialldi edur saulu. og megu[11]) sækia huera[12]) þeir wilia. þa er hallda edur hina sem bua. Eñ fyrr greind dotturbaurñ [med aullu[13]) fra fyrsaugdum arfi. og þa doma sem þar til og vppa hlyda brotna og rofna. onyta og ad aunguu halldande til [arfskipta þeirra. nefnd-

1) 65, 6, 79; sl. *a*, 1945. 2) 65, 6, 79, 1945; ad *a*. 3) 65, 6, 79, 1945; sl. *a*. 4) 65, 6, 79, 1945; mest *a*. 5) 65, 6, 79, 1945; af *a*. 6) *a*, 79 mier 65; sl. 6, 1945. 7) setiande 79. 8) voru 65, 6, 1945. 9) [sl. 65, 1945. 10) taka 79. 11) a; mega, *hin*. 12) *a*, 6; hvoria 66, 1945; huorn 79. 13) [b. v. 65, 6, 79, 1945.

um[1]) dotturbornum Þorleifs. Skulu þeir er sagda peninga weria slijku[2]) seker sem þeir menn er standa fyrir dæmdum arfi logsaumdum.

laugsamdi og samþyckti þennan minn dom og vrskurd med mier. j fyrstunni Snorri[3]) Jonsson. Þordur Fusason. Jon Þorsteinsson. Grijmur Jonsson. Jon Steinsson[4]). Jndridi Jonsson. og annar almugie þar saman kominn. hueria ad eg hier til kallade til doms. ransaks og vrskurdar. og settu þeir sijn jnncigli med mijnu jncigli fyrer þetta vrskurdarbref. huortt ad giaurt og skrifad war j Augri j Jsafijrdi þann xui dag Junij manadar Anno domini Mdlxij.

---

**550. 17. júní 1562. á Hólum.**

Pálmi Sæmundsson kvittar fyrir andvirði Lundar í Fljótum.

AM. Fasc. LIV, 28 (nú í þjóðskjalasafni), frumrit á skinni, læst með innsiglum saman við LIV, 27. — AM. Apogr. 3458. — AM. Fasc. LIV, 29 $\beta$, skrá á skinni frá ca. 1564. — AM. Apogr. 298.

Þat medkiennunst eg Palmi Sæmundzson med þesso mino opno brefi. at alla þa peninga sem Sigrijdur Sigurdardotter skillde giallda mier. vegna minnar kuinno Margretar Jon[s]dottur. fyrer iordina Lund i Fliotum. hefi eg vpp borit og medtekit i suo felldum peningum sem i kaupino lofat var. og kaupbrefit inne helldur. hefi ec þessa peninga vt tekit og vpp borit. af eigenligo fie Sigrijdar sem mier vel likar og anægier. huar fyrir ec giore oc gief tittnefnda Sigrijdi oc hennar erfingia ollungis kuitta fyrir mier. minne kuinno. og hennar erfingium. fyrer adur greintt iardarverd. Og til meire sannenda hier vm set ec mitt insigli fyrir þetta kuittunarbref. huert skrifat var a Holum i Hialltadal. xvij dag Iunij ærum epter gudz burd. M. D. lx og ij.

---

1) [arffaskipunar þrattnefndum 65, 79; arfaskipta þráttnefndum 1945; arffaskifftunar þrättneffndum 6. 2) 79; skulu *a*; vera 65; sl. 6, 1945. 3) a, 79; Sveinn 65, 6, 1945. 4) Sveinsson 65, 6, 79, 1945.

551. 18. júní 1562. á Hólum.

Jarðaskiptabréf, og er Stafnshóli skipt við Þrasastöðum.

AM. Fasc. LIV, 29 d, skrá á skinni frá ca. 1564. — AM. Apogr. 298.

Þat giorum uier Þorgils Sigurdsson. Jon Sæmundsson og Jon Biornsson. prestar Hola biskupsdæmis. godum monnum kvnnigt med þessu uoru opnu brefi at arum epter guds burd. m d lx og ii xuiii dag Junij manadar. a Holum j Hialltadal uorum vier j hia saum og heyrdum æ ord og handaband þessa[ra] manna af einne alfu uirduligs herra biskups Olafs Hialltasonar. eñ af annare Biarna Stullasonar at suo fyrir skilldu at greindur biskup Olafur. vegna sinar kuinno Sigridar Sigurdardottur. selldi sogdum Biarna iordina halfan Stafnshol j Deilldardal er liggur j Hofstada kirkiu sokn. fyrir. xii$^{c}$. med ollum þeim gognum og giædum. eignum og itokum. hlutum og hlunnindum. sem greindra iordu halfre fylger og fyl[g]t hefur at fornv og nyu og Sigridur uard fremst eigandi at. undan Sigride og hennar erfing[i]um. og vnder Biarna og hans erfing[i]a og epterkomendur. Hier j mot gallt og gaf þrattnefndur Biarne tittnefndum biskup Olafi vegna Sigridar halfa iordina Þrasastadi j Fliotum. er liggur j Knappstada kirkiu sokn. fyrir. x$^{c}$. med ollum þeim gognum og giædum sem greindri halfri iord fylger og fylgt hefur at fornu og nyu og hann var fremst eigandi at ordinn. vndan sier og sinum erfing[i]um. eñ vnder Sigridi og hennar erfing[i]a. og epterkomendur. skilldi huor hallda sinu kaupi til laga er keypti. Og til meire sanninda hier um settu þesser þratt skrifader menn sin jncigli med uorum fyr greindra manna inciglum fyrir þetta iardakaupsbref. huertt er giortt var og skrifat j sama stad deigi og ari sem fyr seiger.

---

552. 22. júní 1562. í Kópavogi.

Atvistarmenn að vígi Guðmundar Sigurðssonar skyldaðir að koma til alþingis undir dóm.

AM. Apogr. 4726 β „Ex originali trosnudum til skemda i upphafinu og allra sidarst. Kom til min fra Gudmundi Magnussyne ǎ Leyrubacka". (AM.).

Au[llum maunnum þeim sem þetta br]ef s[iǎ edur heyra senda . . . . ]son . . . . . . steinson. Fiolsvinnur Helgason. [Gudmundur] Sveinbiarnarson. G[ud]mundr Þ[ordarson . . . . . darson. suarner laugriettumenn. Sueirn Arason. [Hal]lur Gudmundzson. Jon Tumasson. Hakon Gudmundzson. Jon Gudmundzson. Magnus Þork[elsson]. kvediu gudz og sina. kunnigt giorandi. ad ǎrum epter gudz burd. M. D. lx og ij[1]). ǎr. manudaginn næstan̄ fẏrer Sancte Johannes dag ǎ Kőpavogi ǎ þingstad riettum. vorum vier j dőm nefnder af heidrlegum Haufudzmanni Pæl[2]) Stigssẏne thil ath skoda og rannsaka og fullnadar dom æ ath leggia. um þa æklogun. sem Sugurdur Þormodzson beiddistz[1]) dőms æ. um őforvarat mannslag. sem Gudmundr Sugurdsson. hvers sǎl gud nadi. var j hel sleiginn af þeim monnum er i slaginu voru ǎ Þorkautlustaudum i Grin̄dawīk. J fẏrstu beiddist Sugurdr Þormődzson laugligrar viglẏsingar og kom hun eeki fram̄. Suo og kom fram̄ fẏrer oss ath þar haufdu fiőrer. menn verit til athvistar. sem var Halldor Þorlǎkzson er kom til haug[g]s vid ǎdurnefndan̄ Gudmund Sugurdsson og Biorn brőder Halldors rotadi hann med steini. þridie athwistarmadur Arnőr Ǎrnason. Kom fẏrer oss ath Eigill nefndistz[2]) athwistarmadur enn fiőrde. Kom suo og fram̄ fẏrer oss. ath Ketill Ketilsson hefdi komit ut med arngeir ur sinum bæ. og þar med lǎtid kasta vopnum i veiginn fẏrer főlkit þath hid skinnklædda. en̄ af þvi főlki skiedi vigit. nu at ollu suo profudu og fẏrer oss kuomnu. dæmdum vier fẏrnefnder domsmenn med fullu doms atkvædi. Ketil Ketilsson skylldugan̄ ath koma til alþingis og suar giefa fẏrer sig hvad hann hefur eptter sīnum vilia minstz[2]) eda mestz[2]) lǎtid at giora. suo og Arnor Arnason vinnumann han̄s skylldugan til Alþingis at koma. Suo og Halldőr Þorlǎksson skẏlldugan őstefndan at suara logum sogdum Sugurdi Þormodzsyni. og suo alla adra þǎ sem þar kunna ad koma ur sama slagi. til þess er hann hefur sogt sierhvern til tẏlftareids.

1) „helldur en̄ V" (AM.). 2) Svo.

